Snorri Sturluson. Heimskringla

# KONUNGA-SÖGUR

AF

# SNORRA STURLUSYNI.

TOM. III.



Gyllenström & Magnusson, lith.

*Templum Cathedrale Nidrosianum exstruxit EISTEINUS, Norvegiæ ab ann. MCLXI. ad ann. MCLXXXVIII. Archiepiscopus*

HOLMIÆ,
EXCUD. J. HÖRBERG,
MDCCCXXIX.

# KONUNGA-SÖGUR

ÁF

SNORRA STURLUSYNI.

---

Saga af Magnusi Goda.
Saga af Haraldi Hardráda.
Saga af Olafi Kyrra.
Saga af Magnusi Berfætta.
Saga af Sigurdi Jorsalafara, Eysteini oc Olafi.
Saga af Magnusi Blinda oc Haraldi Gilla.
Saga af Sigurdi, Inga oc Eysteini, Haraldssonom.
Saga af Hákoni Herdabreid.
Saga af Magnusi Erlingssyni.

---

HOLMIÆ.
EXCUD. *JOH. HÖRBERG*,
MDCCCXXIX.

# VIII.

# SAGAN AF MAGNUSE GODA.

## CAP. I.

## AUSTAN-FERD MAGNÚSAR OLAFSSONAR.

Magnús Olafsson byriadi ferd sína eptir Jólin, austan af Hólmgardi, ofan til Aldeigio-borgar; taka þeir at búa skip sín, þegar er ísa leysti um várit. Þess getr Arnor Jarla-skálld í Magnúsdrápo:

Nú hyck riódanda ráda
róg örs þvíat veitk görva
þegi seimbriotar segia
seggiom hneitis eggia:
varat ellifo allra
ormsetrs hati vetra
hraustr þá er herskip glæsti
Hörda vinr or Gördom.

Enn um várit hellt Magnús austan til Svíþiódar. Sva segir Arnorr:

Þíng baud út hinn úngi
egg-rioþandi þiódom

ſim bar hird at hömlo
hervædr ara brædis.
Sallt skar húſi hvelltom
hraustr þióđ konungr austan
báro brimlogs ríri
brún vedor at Sigtúnom.

Her segir at Magnús konungr, þá er hann fór austan or Gardaríki, sigldi fyrst med föroneyti síno til Svíþiódar, oc hellt upp til Sigtúna. Þá var konungr í Svíþiód Önundr Olafsson: þar var þá oc Astrídr drottning, er átt hafdi inn helgi Olafr konungr: hon fagnadi forkunnar vel Magnúsi konungi stiúp-syni sínom, oc let þegar stefna fiölmennt þíng af Svíom, þar sem heitir á Haungrom. Enn á þíngino taladi Astridr drottning oc sagdi sva: her er nú kominn med oss sun hins helga Olafs konungs er Magnús heitir; ætlar hann nú at hefia ferd sína til Noregs, at sækia födorleifd sína; er mer skyllda á mikill at styrkia hann til þessar ferdar, þvíat hann er stiúpson minn, sva sem þat er öllom mönnom kunnigt bædi Svíom oc Nordmönnom; skal ec þar öngan lut til spara, þann er ec hefi föng á, at hans styrkr megi sem mestr verda, bædi fe oc fiölmenni þat allt er ec hefi forrád á; sva oc þeir menn allir er til þessar ferdar vilia rádaz med hönom, skulo eiga heimila mína vinátto fullkomna. Ec vil því oc lysa, at ec skal rádaz til ferdarinnar med hönom,

man þat þá öllom audsynt, at ec spari eigi adra luti til lidsemdar vid hann, þat er ec má hönom veita. Taladi hon her um lángt oc sniallt: enn er hon hætti, þá svörudo margir oc sögdo sva: at Svíar höfdo litla tírar-för farit til Noregs, þá er þeir fylgdo Olafi konungi fedr hans, oc er eigi her betra at ván, er þessi madr er barn at alldri, sögdo þeir, erom ver fyrir þá sök ófúsir þessar ferdar. Astrídr svarar: allir þeir menn, er nockorir hreysti-menn vilia vera, muno eigi ædrazt um slíkt. Enn ef menn hafa látit frændor sína med hinom Helga Olafi konungi, edr siálfir fengit sár, þá er þat drengskapr at fara nú til Noregs oc hefna þess. Kom Astrídr sva ordom sínom oc lidveitzlo, at fiöldi manna vard til þess med henni, at fylgia Magnúsi til Noregs. Þess getr Sighvatr skálld:

Hrein getom hála launa
hnoss fiöld lidi osso
Olafs dóttor er átti
iöfr sigr-hvatastr digri.
Þíng beid herr á Haungrom
hund margr Svía grundar
austr er Astríd lysti
Olafs sonar málom.

Máttit hon vid hættna
heil rád Svía deila
meirr þótt Magnús væri
marg-nenninn sonr hennar.

Olli hon því at allri
áttleifd Harallds knátti
mest med máttkom Kristi
Magnús konungr fagna.

Milldr á mennsko at giallda
Magnús enn því fögnom
þat gördi vin virda
víd-lendan Astridi:
Hon hefir sva komit sínom
sönn at fá man önnor
ord görig drós til dyrdar
diúp-rád kona stiúpi.

Sva segir þiódolfr skálld í Magnús-flocki:

Ut redto allvaldr skióta
eykio dúdiz rá sneckio
enn þrítog skip þrauta
þann tíd í haf skrída.
Vægdit vendi sveigdom
vedr ótt of þer drottinn
hlódo hirdmenn prúdir
hún-skript í Sigtúnom.

## CAP. II.

## FERD MAGNÚSAR OR SVÍÞIÓD.

Magnús hóf ferd sína af Sigtúnom, oc hafdi þá lid mikit er Svíar höfdo fengit hönom. Þeir fóro fæti of Svíþiód, oc sva til Helsingia-lands. Sva segir Arnorr Jarla skálld:

Raudar bárot randir sídan
rimmo yggr um Sænskar bygdir
eigi gatzto lids kost lágan
landsfólk sótti þer til handa.
Austan þurdoz úlfa ferdar
ölldom kudr med hvíta skiöllldo
túngo riódr til tyrar þínga
teknir menn oc dör in rekno.

Sídan fór Magnús Olafsson austan um Jamtaland oc Kiöl, oc kom ofan í Þrándheim, oc tók þar þegar allt fólk vel vid hönom. Enn þegar er menn Sveins Alfífosonar konungs spurdo, at Magnús son Olafs konungs var þá í land kominn, þá flydo allir víds vegar, oc fordudo ser: var þar engi mótstada veitt Magnúsi; enn Sveinn konungr var sudr í landi. Sva segir Arnorr Jarla-skálld:

Austan komto med allra hæstom
yggiar más i þrænskar bygdir
fidri-riódr enn fiand-menn ydra
fálma qvádo ægis hialmi.
Breidaz visso blágams fædir
benia kólgo ydrír dólgar
hræddir urdo giörvi at forda
fiandmenn þínir vesölld sína.

## CAP. III.
## MAGNÚS OLAFSSON TIL KONUNGS TEKINN.

Magnús Olafsson fór med lidi síno út til kaupángs, var hönom þar vel fagnat: sídan let hann stefna þar

Eyra-þíng; enn er búanda-fólk kom til þíngs, þá var Magnús til konungs tekinn yfir land allt, sva vídt sem haft hafdi Olafr konungr fadir hans. Sídan tók Magnús konungr ser hird, oc gördi lendamenn, skipadi hann þá allt í herödom maunnom í ármenningar oc í syslor. Magnús konungr baud út leidángri þegar um haustit um allan Þrándheim, oc vard hönom þá gott til lids, hellt hann sídan herinom sudr med landi.

## CAP. IV.

## FLÓTTI SVEINS KONUNGS.

Sveinn konungr Alfífoson var þá staddr á Sunnhörda-landi, er hann spurdi her-sögo þessa; let hann þegar skera upp herör, oc senda fiögurra vegna frá ser; stefndi til sín bænda-fólki, oc let þat fylgia, at úti skylldi vera almenningr at lidi oc skipom, oc veria land med hönom. Enn lid þat allt, er þannog var næst konungi, sótti á fund hans: átti konungr þá þíng, oc tal vid bændor, oc bar upp erendi sín, oc sagdi sva: at hann villdi hallda til móts vid Magnús konung Olafsson, oc hallda vid hann orrosto, ef bændor vilia fylgia hönom; mællti konungr helldr skamt; bændor gördo lítinn róm at máli hans. Sídan töludo Danskir höfdingiar, þeir er med konungi voro, lángar tölor oc sniallar: enn bæn-

dor svörudo oc töludo ímóti; sögdo margir sva, at þeir villdo fylgia Sveini konungi, oc beriaz med hönom, enn sumir neitudo greidliga; sumir þögdo med öllo; sumir qvodoz mundo leita á fund Magnús konungs, þegar er þeir nædi. Þá svarar Sveinn konungr: sva lítz mer, sem her se komit fátt bænda-fólk, þat er ver höfom ord send, enn þessir bændor, er her ero, oc segia siálfom oss, at þeir muni þegar fara á fund Magnús konungs, er þeir mega, þá syniz mer sem allir muni einir til lidsemdar oc hinir, er segia at kyrrir vili sitia; slíkt sama þeir er þegia vid: enn hinir, er segia at oss muni fylgia, þá man sá vera annarrhverr eda fleiri, er oss man ecki tiltak í vera, ef ver leggiom til orrosto vid Magnús konung: er þat mitt rád, at ver leggiom oss eigi á trúnad bænda þessa; förom helldr þannog er oss er fólk allt tryggt oc trútt, höfom ver þar þá nógan styrk, at vinna undir oss land þetta. Enn þegar er konungr hafdi þenna orskurd veitt, þá fylgdo allir hans menn þesso rádi; snero þeir þá stöfnom, oc drógo segl sín; sigldi Sveinn konungr þá austr med landi, oc letti eigi fyrr, enn hann kom til Danmarkar: tók Hörda-Knútr allvel vid Sveini bródr sínom. Enn er hann hitti Hörda-Knút bródr sinn, þá baud hann Sveini konungi, at hafa þar ríki med ser í Danmörko, oc þecktiz Sveinn konungr þat bod.

## CAP. V.

### FERD MAGNÚSAR KONUNGS YFIR NOREG.

Magnús konungr fór um haustit austr allt til landsenda, oc var hann til konungs tekinn of allt land, oc vard landsfólk allt fegit hans tilkomo.

## CAP. VI.

### DAUDI KONUNGANNA KNÚTS OC SVEINS SONAR HANS.

Sveinn konungr Knútsson fór til Danmerkr, oc tók þar vid ríki med Hörda-Knúti bródr sínom. Þat sama haust andadiz Knútr konungr inn Ríki á Englandi, idus Novembris, þá var hann fertugr at alldri; hann var iardadr í Vincestr. Þá hafdi hann konungr verit yfir Danmörk XXVII vetor, enn bædi yfir Danmörk oc Englandi XXIV vetor, enn þar med Noreg VII vetor. Þá var tekinn til konungs í Englandi Haralldr son Knútz konungs. Þann sama vetr andadiz Sveinn konungr Alfífoson í Danmörk. Þiódolfr skálld qvad sva um Magnús konung:

Aur spornadot arnar
ilriódr af Sviþiódo
herr fylgdi þer harri
hraustr í Noreg austan.
Flydi Sveinn enn sídan
sann-rádinn frá ládi

erlendis let undan
Alfífo son drífa

Biarni Gullbrárskálld orti um Kálf Arnason:

Hafa lezto únga iöfra
erfd sem til red hverfa
satt er at sitia knátti
Sveinn at Danmörk einni.
Kendot Kálfr til landa
kapp-fúsom Magnúsi
ollo þer at stillir
iörd oc feck or Gördom.

Magnús konungr var þann vetr yfir Noreg, enn Hörda-Knútr yfir Danmörk.

## CAP. VII.

## FELAG HÖRDA-KNÚTS OC MAGNÚSAR KONUNGA.

Enn eptir um várit baud hvartveggi konunga leidángri út, oc fóro þau ord um, at þeir mundo til orrosto leggia vid Elfi: enn er hverrtveggi herinn sótti miök til móts vid annan, þá gördo lendirmenn niósnir or hvaro-tveggia lidino til frænda sinna oc vina í annan flock, oc fylgdi þat ordsendingom hvarratveggio, at menn skylldo göra frid milli konunga. Enn fyrir því at konungar voro bádir úngir oc bernskir, þá höfdo aull land-rád fyrir þeim ríkis-menn, þeir er til þess voro teknir í hvarratveggia landi: kom þá sva, at sættarstefna var lögd milli konunga.

Sídan fundoz þeir siálfir, oc var þa rædt um sættir: oc kom þat í sáttmálit, at konungar svördoz í bræ-dra-lag, oc setto frid milli sín, medan beggia þeir-ra líf endiz: enn ef annarrhvarr þeirra andadiz son-laus, þá skylldi sá þeirra er lengr lifdi, taka eptir hann land oc þegna. Tólf menn, þeir er ágætaztir voro af hvarra ríki, svördo þar til med konungu-nom, at þessi sætt skylldi halldaz, medan nockurr þeirra lifdi. Eptir þat skildoz konungar, oc fór hvarrtveggi heim í sitt ríki, oc hellz þessi sætt me-dan þeir lifdo bádir.

## CAP. VIII.

## FRÁ ÁSTRÍDI DROTTNINGO.

Astrídr drottning, er átt hafdi Olafr hinn helgi kon-ungr, kom í Noreg med Magnúsi konungi, stiúpsyni sínom, sem fyrr var ritat, oc var med hönom í gó-do yfirlæti, sem verdugt var. Þá kom oc til hir-darinnar Alfhilldr módir Magnús konungs: tók kon-ungrinn hana þegar med enom mesto kærleikom, oc setti hana vegsamliga. Enn Alfhilldi vard, sem mör-gom kann verda, þeim er fá ríkdóminn, at henni afladiz eigi seinna metnadrinn; oc kom sva at hen-ni líkadi illa, þat er Astrídr drottning var nocko-ro meira metin en hon, í sessi eda annari þióno-sto; villdi Alfhilldr sitia nær konunginom: enn A-

strídr kalladi Alfhilldi ambátt sína, sva sem fyrr hafdi verit, þá er Astrídr var drottning yfir Noregi, þá er Olafr konungr redi landi; villdi Astrídr fyrir eingan mun eiga sess vid hana, oc mátto þær eigi í eino herbergi vera.

## CAP. IX.

### FRÁ SIGHVATI SKÁLLDI.

Sighvatr skálld hafdi tekit heim-leyfi af Olafi konungi, þá er Olafr konungr fór austr í Gardaríki; enn annat sumar eptir fór Sighvatr af landi, oc sudr til Roms, þá er orrosta var á Stiklastödom, þá qvad hann víso þessa:

Rúms let ec oc hellt heiman
hermódr á för gódri
giallar vönd þann er gulli
gaf mer konungr vafdan.
Sullt þa er silfri hialltat
sverd dyrt vidir þverdo
lögdom vapn enn vígdom
ver ylgiar staf fylgdom.

Enn of haustit, er Sighvatr var sunnan á leid, spurdi hann fall Olafs konungs, var hönom þat hinu mesti harmr; hann qvad þá:

Stód ec á Mont oc minntumz
mörg hvar sundr brast targa
breid oc brynior sídar
borgom nærr of morgin.

Mundak þann er undi
öndurdan brum löndom
fadir minn var þá þenna
þordendr konung fordom.

Sighvatr geck einn dag um þorp nockot, oc heyrdi at húsbóndi einhverr veinadi miök, þat er hann hafdi mist kono sinnar, bardi á bríóstit, oc reif klædi af ser, gret miök, oc sagdi, at hann villdi giarna deya. Sighvatr qvad:

Fúss lætz madr er missir
meyar fadms at deya,
keypt er ást ef eptir
oflátinn skal gráta.
Enn fullhuginn fellir
flótt styggr sás ann drottni
vart torrek lítz verra
vigtár konungs árom.

Sighvatr kom heim í Noreg oc til bús síns, hann átti bú oc börn í Þrándheimi; fór hann sunnan fyrir land á byrdingi: enn er þeir láo í Hillarsundi, þá sá þeir hvar hramnar margir flugo. Sighvatr qvad:

Hrafna se ec til Hafnar
hræs minnaz þeir sinna
þar er flaut und nid nytom
Nordmanna skip fordom.
Gialla hátt fyrir Hillar
hvern dag frekir ernir
endr þeir Olafr grendi
innan mörgo sinni.

Enn er Sighvatr kom nordr til kaupángs, þá var þar fyrir Sveinn konungr: baud hann Sighvati til sín at fara, þvíat hann hafdi fyrr verit med enom Ríka Knúti konungi fedr hans: Sighvatr sagdi, at hann vill fyrst fara heim til bús síns. Þat var einn dag er Sighvatr geck úti á stræti, oc hann sá hvar konungs menn leko, Sighvatr qvad:

Geng ec um þvert frá þengils
þróaz ecki mer recka
emk sem bast í briósti
bleikr verdúngar leiki.
Minnumz ec hvar manna
minn drottinn lek sinna
opt á Odals-tóptom
ord-sæll oc ver fordom.

Sídan fór Sighvatr til bús síns. Hann heyrdi marga menn ámæla ser, oc segia, at hann hefdi laupiz frá Olafi konungi; hann qvad:

Hafva láti mic heitan
Hvíta kristr at víti
elld ef ec Olaf villdak
em ec skirr um þat firraz.
Vatnærin hefek vitni
vask til Rums í háska
ölld leyni ec þvi alldri
annarra þau manna.

Sighvatr undi illa heima, hann geck úti einn dag, oc qvad:

Há þótto mer hlæa
hall of Noreg allan

fyrr var ec kendr á knörrom
klif medan Olafr lifdi.
Nú þickia mer miklo
mitt stríd er þat hlídir
iöfurs falli kann ec illa
óblídari sídan.

Sighvatr fór öndurdan vetr austr um Kiöl til Jamtalands, oc þá til Helsingialands, oc kom fram í Svíþiód, oc fór þegar á fund Astrídar drottningar, oc var med henni lánga ríd í gódom fagnadi. Hann var oc med Önundi konungi bródor hennar, oc þá af hönom X merkor brendar, sva sem segir í Knúts drápo. Sighvatr spurdi iafnan, er hann fann kaupmenn Hólmgards-fara, hvat þeir kynni segia hönom til Magnúsar Olafssonar. Sighvatr qvad:

Enn lystir mic austan
erot af spörd or Gördom
frá ödlingi úngom
opt byriot lof spyria.
Fretti ec smás, þo at smæstir
smuglir ástar fuglar
þinnig hægiunz för fliúgi
fylkis nids á midli.

## CAP. X.

## FRÁ ÞVÍ ER MAGNÚS KONUNGR KOM FYRST Í SVÍÞIÓD.

Enn er Magnús Olafsson kom fyrst til Svíþiódar or Gardaríki, þá var Sighvatr þar fyrir med Astrídi

drottningo, oc urdo þau öll fegin miök. Þá qvad Sighvatr:

Heim sóttir þú hættinn
hönd enn vel mátt löndom
þinn stoda ec sem mönnom
Magnús konungr fagna.
Fora ec vist því at varom
vardr at þer i Gárda
skipnaz skíri-nafna
skript þióð-konungr niptar.

Sighvatr redz sídan í ferdina med Astrídi drottningo, oc fylgdi Magnúsi til Noregs. Sighvatr qvad:

Minn hug segik mönnom
Magnús at ec fagna
(Guds lán er þat) þíno
þíng-drífo vel lífi.
Ætti drengia drottinn
dyrdar son er yrdi
þióð mætti fá fædaz
fedor líkr konung slíkan.

Enn er Magnús var konungr ordinn yfir Noreg, þá fylgdi Sighvatr hönom, oc var hinn kærasti Magnúsi konungi; hann qvad þetta, þá er þær Astrídr drottning oc Alfhilldr konungs módir höfdo skotiz á ordom nockorom:

Astrídi lát þú ædri
Alfhilldr enn þic siálfa
þer þótt þinn hagr stórom
(þat villdi Gud) batni.

## CAP. XI.

## GÖRT SKRÍN OLAFS KONUNGS.

Magnús konungr let göra skrín, oc búa gulli oc silfri, oc setia steinom: enn skrín þat var sva gört, bædi at mikilleik oc ödrom vexti sem lík-kista, enn svalir undir nidri; enn yfir uppi vætt sem ræfr vaxit, oc þar af upp höfod oc burst: ero á vættino lamar á bak, enn hespor fyrir, oc þar læst med lukli. Sídan let Magnús konungr leggia í skrín þat helgan dóm Olafs konungs, oc urdo þar margar iártegnir þá at helgom dómi Olafs konungs. Þess getr Sighvatr skálld:

Gört er þeim er gott bar hiarta
gull-skrin at veg sínom
hrósa ec helgi ræsis
hann sótti Gud drottinn.
þar gengr margr frá mæro
meidr þess konungs leidi
hreins med heilar siónir
hríngs er blindr kom þíngat.

Þá var þat í lög tekit, at hallda heilagt um allan Noreg hátíd Olafs konungs: var sá dagr þegar þá sva halldinn, sem hinar stærsto há-tídir. Þess getr Sighvatr:

Oss dugir Olafs messo
Jöfor magnar Gud fagna
meina laust í míno
Magnús fedor húsi.

Skylldr

Skylldr em ec skilfings hallda
skollaust þess er bió golli
helgi handar tialgor,
harmdauda mer raudo.

## CAP. XII.
## FRÁ ÞÓRI HUND.

Þórir Hundr fór þegar af landi brott litlo eptir fall Olafs konungs: hann fór allt út til Jórsala, oc er þat margra manna sögn, at hann hafi eigi aptrkomit. Sigurdr het son Þóris Hunds, fadir Rannveigar, er átti Jon son Arna Arnasonar; þeirra börn voro Vidkunnr í Biarkey oc Sigurdr Hundr, Erlingr oc Jardþrúdr.

## CAP. XIII.
## VÍG HÁREKS OR ÞIÓTTO.

Hárekr or Þiótto sat heima at búom sínom, allt þar til er Magnús konungr Olafsson kom í land, oc hann var konungr ordinn. Þá fór Hárekr sudr til Þrándheims á fund Magnúsar konungs. Þá var þar med Magnúsi konungi Asmundr Grankelsson. Enn er Hárekr geck upp af skipi, er hann kom til Nidaróss, enn Asmundr stód í lopt-svölom hiá konungi, sá þeir Hárek oc kendo. Þá mællti Asmundr til konungs: nú vil ec giallda Háreki dráp födor

míns; hann hafdi í hendi breidöxi litla oc þunnslegna. Konungr leit til hans oc mællti: haf helldr öxi mína; sú var veggslegin oc þyck. Enn mællti konungr: ætla sva til, Asmundr, at hörd muni bein í kalli þeim. Asmundr tók öxina, oc geck ofan or gardinom, oc er hann kom ofan á þver-stræti, þá gengo þeir Hárekr, oc hans menn nedan ímót. Asmundr hió í höfod Háreki, sva at þegar stód öxin í heila nidri, var þat bani Háreks. Enn Asmundr geck upp aptr í gardinn til konungs, oc var öll eggin fallin or öxinni. Þá mællti konungr: hvernog mundi nú hafa dugat hin þunna öxin, mer syniz sem þessi se nú ónyt. Sídan gaf Magnús konungr Asmundi len oc syslo á Hálogalandi; oc ero þar margar frásagnir oc miklar um skipti þeirra Asmundar oc sona Háreks.

## CAP. XIV.

### FRÁ ÞÓRGEIR FLECK.

Kálfr Arnason hafdi mest landrád med Magnúsi konungi fyrst nockora stund. Enn þá gördoz menn til áminningar vid konung, hvar Kálfr hafdi verit á Stiklastödom; gördiz Kálfi þá nockoro vandgættra til skaps konungs. Þat bar at eitt sinn þáer fiölmennt var med konungi, oc kærdo menn mál sín, þá kom þar fyrir hann, med sín skylld erendi Þor-

geirr Fleckr af Súlo or Veradal, er nefndr er fyrr í sögo hins Helga Olafs konungs; konungr gaf ecki gaum at ordom hans, oc hlyddi þeim er hönom voro nærri. Þá mællti Þórgeirr til konungs hátt, sva at allir heyrdo þeir er í nánd hanom voro:

Mæl þú vid mic,
Magnús konungr,
þvíat í fylgio vark
med fedor þínom;
þá bar ec höggvinn
haus minn þadan,
er þeir of daudan
dögling stigo.
Þu elskar
þá arma-þiód
drottins svika
er diöfol hlægdo.

Þá gerdo menn at óhlióđ; enn sumir bádo Þórgeir útgánga: konungr kalladi hann til sín, oc lauk sídan erendom hans, sva at Þórgeiri líkadi vel, oc het hanom vinatto sinni.

## CAP. XV.

## FERD KÁLFS ÁRNASONAR OR LANDI.

Þat var litlo sídar at Magnús konungr var á veizlo at Haugi í Veradal: enn er konungr sat at matbordom, þá sat á adra hönd hönom Kálfr Arnason, enn á adra hönd Einar Þambarskelfir. Þá var sva

komit, at konungr gerdi fæd á vid Kálf, enn virdi þá Einar mest. Konungr mællti til Einars: vid skolom rída í dag á Stiklastadi, vil ec siá þar þau merki, er þar hafa ordit. Einar svarar: ecki kann ec þer þar af at segia; lát þú Kálf fara fóstra þinn, hann man þar kunna segia frá tídindom. Enn er bord voro uppi, þá bióz konungr til ferdar; hann mællti til Kálfs: þú skallt fara med mer á Sticklastadi. Þá svaradi Kálfr: eigi ætla ec þat skyllt. Þá stód konungr upp, oc mællti helldr reidugliga: fara skallto Kálfr. Sídan geck konungr út. Kálfr klæddiz skiótt oc mællti til skósveins síns: þú skallt rída inn á Eggio, oc bidia húskarla mína at hafa hvert fat á skipi fyrir sólar-fall. Magnús konungr reid á Stiklastadi, oc Kálfr med hönom, stigo af hestom, oc gengo þar til sem bardaginn hafdi verit. Þá mællti konungr til Kálfs: hvar er sá stadr er konungrinn fell? Kálfr svarar, oc retti fram spiótskaptit: her lá hann fallinn, sagdi hann. Konungr mællti: hvar vartú þá Kálfr? hann svaradi: her sem nú stend ec; konungrinn mællti, oc var þá raudr sem dreyri: taka mundi þá öxi þín til hans. Kálfr svarar: ecki tók öxi mín til hans; geck hann þá í brott, oc til hests síns, hióp á bak oc reid leid sína, oc allir hans menn; enn konungr reid aptr til Haugs. Kálfr letti eigi ferdinni fyrr enn hann kom um qvelldit inn á Eggio; var skip hans búit fyrir landi,

oc ákomit lausa-fe allt, oc skipat húskörlom hans; helldo þeir þegar um nóttina út eptir firdi, fór Kálfr sídan dag oc nótt sva sem byri gaf; sigldi hann þá vestr um haf, oc dvaldiz þar lengi, heriadi um Irland, oc Skotland oc Sudr-eyar. Þessa getr Biarni Gullbrár-skálld í Kálfsflocki:

Þer frá ec Þórbergs hlyri
þess gerdoz er verdir
hellt því unz hann of spillti
Haralldds bródorson gódan.
Vökdo öfundmenn yckar
idula rog á midli
óþörf lítz mer arfa
Olafs í þeim málom

## CAP. XVI.

### UM HEITAN BÆNDA.

Magnús konungr kastadi sinni eign á Viggio, er Hrútr hafdi átt, oc Qviststadi er Þórgeir hafdi átt, svo oc á Eggio, oc allt þat fe er Kálfr hafdi eptir átt, oc margar adrar stóreignir let hann falla í konungsgard, er þeir höfdo átt er fallit höfdo á Stiklastödom í bónda-lidi; hann gerdi oc vid marga þá menn stórar refsingar, er mestan mótgang höfdo veitt Olafi konungi: suma rak hann or landi, enn af sumom tók hann stór-fe, fyri sumom let hann bú höggva. Þá tóko bændor at göra kurr, oc mællto sín í milli: hvat mun konungr þessi fyrirætla, er

hann brytr lög á oss, þau er setti Hákon konungr enn Gódi? man hann eigi þat, at ver höfom iafnan eigi þolat vanrettit? man hann hafa farar födor síns, edr annarra höfdingia þeirra er ver höfom af lífi tekit þá er oss leiddiz ofsi þeirra oc lögleysa. Þessi kurr var vída í landi. Sygnir höfdo lidsafnat, oc var þat ord á, at þeir mundo hallda til bardaga vid Magnús konung, ef hann færi inn í fiördinn. Magnús konungr var þá á Hördalandi, oc hafdi þar dvaliz miök lengi, oc hafdi lid mikit, oc let sem þá oc þá mundi hann fara nordr í Sogn. Þessa urdo varir vinir konungs, oc gengo XII menn á mál-stefno, oc samdiz þat med þeim at luta til einn mann, at segia konungi þenna kurr: enn sva var tilstillt, at Sighvatr skálld hlaut.

## CAP. XVII.

### BERSÖGLIS VÍSOR.

Sighvatr orti þá flock þann er hann kalladi Bersöglis vísor, oc hefir hann fyrst of þat, at þeim þótti konungr velkia ofmiöc rádin, at setia bændor aptr, þá er heitudoz at reisa ófrid móti hönom; hann qvad:

Fregn ec at sudr med Sygnom
Sighvatr hefir gram lattan
fólk orrosto at fresta
ferr ef þó skulom beriaz.

Förom í vapn oc veriom
vel tvist konung lystir
hve lengi skal hríngom
hans grund til þess fundar.

I þvi sama qvædi ero þessar vísar:

Het sá er fell á Fitiom
fiölgegn oc red hegna
heiptar rán enn hánom
Hákon firar unno;
þiód hellt fast á fostra
fiölblíds lögom sídan
enn ero af þvi er minnir
Adalsteins búendor seinir.

Rett hygg ec kiósa knatto
Karlfólk oc sva Jarlar
af því at eignom lofda
Olafar frid gáfo.
Harallds arfi let halldaz
hvar dyggr oc son Tryggva
lög þau er lydir þágo
lauk-iofn at þeim nöfnom.

Skolot rádgiafar reidaz
rydr þat konungr ydrir
drottins ord til dyrdar
Döglingr vid bersögli.
hafa qvedaz lög (nema liúgi
landherr) búendr verri
endr i Ulfasundom
önnor enn þú hetz mönnom.

Hverr eggiar þic harri
heiptar strángr at gánga
opt reynir þú þínom
þúnn stál á bak málom.
Fastordr skyli firda
fengsæll vera þengill;
hæfir heit at riúfa
hialldr mögnudr þer alldri.

Hverr eggiar þic höggva
hialldr-gegnir bú þegna
of rausn er þat iöfri
innanlands at vinna.
Engr hafdi sva úngom
ádr bragningi rádit
rán hygg ec reckom þinom
reidr er herr konungr leidaz.

Giallto varhuga veltar
vidr þeim er nú ferr hedra
þiófs skal hönd í hófi
hölda qvitt of stytta.
Vinn ec varmra benia
varnad enn bydc hlydit
tár mutaris teitir
til hvat búmenn vilia.

Hætt er þat er allir ætlaz
ádr skal vid því ráda
hárir menn er ec heyri
hót skiöldungi at móti.
Greypt er þat höfdom hnepta
helldr oc nidr í fellda;

slegit hefir þögn á þegna
þíng menn nösom stínga.
Eitt er mál þat er mæla
minn drottinn leggr sína
eign á odöl þegna
öfgaz búendr göfgir.
Rán mun seggr er sína
selr út í því telia
flaums at felli dómi
födorleifd konungs reidi.

Oc er þessi sídarst:

Seyni Olafs bid ec snúdar
(síd qveda aptans bída
óframs sök) medal ockar
allt er háligt sva mála.
Erom Magnús ver vegnir
villda ec med þer milldom
Haralds vardar þú hiörvi
heyck æ lifa oc deya.

Þvílík kenningarord voro í kvædi vid konunginn, at hann skylldi hafa lög þau er fadir hans hafdi sett. Eptir þessa áminning skipadiz konungr vel vid; flutto margir adrir oc þessa rædo fyrir konungi. Kom þá sva at konungr átti tal vid hina vítrosto menn, oc sömdo þeir þá lög sín. Sídan let Magnus konungr rita lög-bók þá er enn er í Þrándheimi, oc köllot er Grágás. Magnús konungr gerdiz sídan vinsæll oc ástsæll öllo landsfólki; var hann fyri þá sök kalladr Magnús inn Gódi.

## CAP. XVIII.

### FRÁ ENGLA KONUNGOM.

Haralldr Engla konungr andadiz V vetrom eptir andlát Knúts ins Ríka födur síns; hann var iardadr hiá födur sínom í Vincestor. Eptir andlát hans tóc konungdóm í Englandi Hörda-Knútr bródir hans, annar son gamla Knúts: hann var þá konungr bædi yfir Englandi oc Danavelldi; red hann því ríki II vetr; hann vard sóttdaudr á Englandi, oc andadiz hann barnlaus, oc er iardadr í Vincestr hiá fedr sínom. Eptir andlát hans var til konungs tekinn á Englandi, Játvardr inn Gódi son Adalráds Engla konungs oc Emmo drottningar, dóttur Ríkardar Rúdo-Jarls. Játvardr konungr enn Gódi var bródir sammædra Haralldz oc Hörda-Knútz sona Gamla Knúts. Gunnhilldr het dóttir Gamla Knúts oc Emmo drottningar, hon var gipt Heinreki Keisara í Saxlandi; hann var kalladr Heinrekr hinn milldi. Gunnhilldr var III vetor í Saxlandi ádr hon tóc sótt, oc andadiz V vetrum eptir andlát Gamla Knúts konungs födur síns.

## CAP. XIX.

### FRÁ MAGNÚSI KONUNGI ÓLAFSSYNI.

Magnús konungr Olafsson spurdi andlát Hörda-Knúts; þá sendi hann þegar menn sína sudr til

Danmerkr, oc gördi med þeim ordsendingar til þeirra manna, er vid hann höfdo svardögom bundiz, þá er sætt þeirra oc einkamál voro gör Magnúss oc Hörda-Knútz konungs, oc minnti þá á ord sín, let þat oc fylgia ályctar ord, at hann sialfr mundi koma þegar um sumarit til Danmerkr med lidi síno, oc eignaz allt Danavelldi, sva sem stódo til einkamál oc svardagar, eda falla þar í orrosto med her sínom. Sva segir Arnor Jarla-scáld.

Afkárlig vard Jarla
ord-gnótt sú er hlaut Drottinn
fylgdi efnd því er ylgiar
ángr tælir red mæla.
At framm í gny grimmum
grafnings und kló hrafni
fúss lezt falla ræsir
feigr edr Danmörk eiga.

## CAP. XX.

### FRÁ LIDI MAGNÚSAR KONUNGS.

Sídan safnadi Magnús konungr lidi miclo, stefndi til sín öllom lendom mönnom oc rícom bændom, afladi ser lángscipa. Enn er lid þat com saman, þá var þat it frídazta, oc allvel búit. Hann hafdi LXX stór-scipa, er hann sigldi af Noreg: Sva segir Þiódolfr Skáld.

Diarft neyttir þú Drottinn
dólg-strángr scipa lángra,

af því at ytar höfdo
austr siötigi flausta.
Sudr gnaududo súdír
segl hund vid stög rundo
vik fal vand-laung eyki
Vísundi þröm sveigdom.

Her getr oc þess, at Magnús konungr hafdi þá Vísund enn micla, er Olafr hinn Helgi konungr fadir hans hafdi giöra látit; hann var meir enn þrítogr at rúma tali, var á framstafni vísundar-höfut mikit, enn aptr spordr, var höfudit oc spordrinn oc svírarnir bádir allt gullagt. Þess getr Arnor Jarlascáld:

Lióta dreif á lypting utan
lödri bifdiz gullit rauda
fastligr hneigdi furo glæstri
fyris garmr of skeidar styri.
Stirdum helltu um Stafangr nordan
stálum bifdoz fyrir álar
uppi glódo el-mars typpi
elldi glík í Danavelldi.

Magnús konungr sigldi út af Ögdom oc yfir til Jótlands. Sva segir Arnorr:

Segia man ec hve Sygna
snarfengan bar þengil
hallr oc hrími sóllinn
hlebords Vísundr nordan.
Setti biódr at breido
bryn-þíngs fetil stínga

fús tók ölld vid æsi
Jótlandi gramr branda.

## CAP. XXI.

## UM KVOMO MAGNÚS KONUNGS TIL DANMERKUR.

Enn er Magnús konungr kom til Danmerkr, var hönom þar vel fagnat; átti hann þar brátt þíng oc stefnur vid landsmenn, oc beiddi þá vidrtöko ser, svo sem einkamál þeirra voro til. Enn fyrir því at lands-höfdingiar þeir er ágætastir voro í Danmörko, voro eidbundnir vid Magnús konung, oc villdo hallda ord sín oc eida, þá flutto þeir þetta mál miöc fyrir fólcino: þat bar oc annat til, at þá var oc andadr Knútr inn ríki, oc dautt allt hans afkvæmi: hinn inn þridi hlutr, at þá var alkunnig ordin helgi Olafs konungs födur hans, of öll lönd, oc iartegna-giörd hans.

## CAP. XXII.

## MAGNÚS ÓLAFSSON TIL KONUNGS TEKINN YFIR DANMÖRK.

Sídan let Magnús konungr stefna Vebiargaþíng; þar skylldo Danir ser konung kiósa, bædi at forno oc nyo. Enn á því þíngi tóko Danir Magnús Olafsson til konungs yfir allt Danavelldi. Dvaldiz Mag-

nús konungr í Danmörko lengi um sumarit, oc fagnadi allt fólk hönom vel, hvar sem hann kom, oc veitto hönom hlydni: skipadi hann þá um allt land syslor oc heröd, oc veitti veizlor ríkismönnom. Enn er áleid haustit, hellt hann lidi síno til Noregs, hann dvaldiz í Elfinni nockora ríd.

## CAP. XXIII.

### UPPHAF SVEINS ÚLFSSONAR.

Sveinn er madr nefndr son Ulfs Jarls þórgilssonar Sprakaleggs: módir Sveins var Astrídr dóttir Sveíns konungs Tiúgoskeggs: hon var systir Knúts ens Ríka samfedra, enn hon var sammædra vid Olaf Svíakonung Eiríksson: var módir þeirra Sígrídr drottning en Stórráda, dóttir Sköglar-Tosta. Sveinn Ulfsson hafdi þá dvaliz lánga ríd med Svíakonungom frændom sínom, iafnan sídan er Knútr konungr let drepa Ulf Jarl födur hans, sva sem ritat er í Sögo Knúts konungs Gamla, at hann let drepa Ulf Jarl mág sinn í Roiskelldu; var Sveinn fyri þá sök eigi í Danmörk sídan. Sveinn Ulfsson var allra manna frídastr synom, manna var hann mestr oc sterkastr, oc hinn mesti íþrótta-madr, oc snilldar-madr: þat var allra manna mál þeirra er hann var kunnigr, at hann hefdi alla luti til, þá er pryda gódan höfdingia. Sveinn Ulfsson kom á fund Magnúss kon-

ungs Olafssonar, þá er hann lá í Elfinni, sva sem ádr er ritat; tók konungrinn vel vid hönom, voro þar oc margir flutnings-menn til þess, þvíat Sveinn var hinn vinsælasti madr, tiádi hann oc siálfr sitt mál fyrir konungi fagrt oc sniallt, oc kom sva at Sveinn geck til handa Magnúsi konungi, oc gördiz hans madr. Sídan töludo þeir Magnús konungr oc Sveinn marga luti í einmælom.

## CAP. XXIV.

## SVEINN ÚLFSSON TÓK JARLDÓM.

Einn dag þá er Magnús konungr sat í hásæti, oc var fiölmennt um hann, sat Sveinn Ulfsson á fótskörinni nidri fyrir konunginom; þá tók konungr til máls: kunnigt vil ec göra höfdingiom oc allri alþydo þá ráda-giörd, er ec vil vera láta: her er kominn til mín ágætr madr bædil at ættom oc af siálfom ser, Sveinn Ulfsson; hefir hann nú görz minn madr, oc sellt mer til þess trú sína: enn sva sem þer vitit, at allír Danir í sumar hafa görz mínir menn, þá er nú landit höfdingialaust, er ec em á brott farinn, enn þar er, sem þer vitit, míöc herscátt af Vindom oc Kurom, eda ödrom austrvegs mönnom, eda sva af Söxom; het ec þeim at fá höfdingia, þar til landvarnar oc landstiórnar: se ec þar öngan mann iamvel tilfallinn fyrir allra luta

sakir, sem Sveinn Ulfsson, hefir hann ætt til þess at vera höfdingi: nú mun ec giöra hann Jarl minn, oc fá hönom í hendur Danavelldi til yfirsóknar, medan ec em í Noregi, sva sem Knútr enn Ríki setti Ulf Jarl födur hans höfdingia yfir Danmörk, þá er Knútr var á Englandi. Þá svaradi Einar Þambar-skelfir: ofjarl, ofjarl, fóstri. Konungrinn mælti þá reidugliga: fátt þykir ydr ec kunna fyrir mer: enn mer lítz sva sem ydr þyki sumt of-jarlar, enn sumt ecki at mönnom. Þá stód konungrinn upp, oc tók sverd, oc festi á linda Sveini; sídan tók hann skiölld, oc festi á öxl hönom, setti sídan híálm á höfut hönom, oc gaf hönom Jarlsnafn, oc veitzlor slícar í Danmörk, sem ádr hafdi þar haft Ulfr Jarl fadir hans. Sídan var framm borít skrín med helgom dómom, lagdi Sveinn þar á hendor sínar, oc svardi trúnadar-eida Magnúsi konungi: sídan leiddi konungrinn Jarl til hásætis med ser. Sva segir Þiódolfr:

Siálfr var austr vid Elfi
Ulfs mögr oc het fögro,
þar red Sveinn at sveria
sínar hendor á skríni.
Red Olafs sonr eidom
átt hafa þeirra sáttir
scemra alldr enn scylldi
Skánunga gramr hánom.

Fór

Fór þá Sveinn Jarl til Danmerkr, oc var þar vid hönom vel tekit af allri alþydo: tók hann ser þá hird, oc gerdiz brátt höfdingi mikill: fór hann um vetrinn vída yfir landit, oc vingadiz miöc vid stórmenni, var hann oc vinsæll af öllo landzfólki.

## CAP. XXV.

### HERNADR MAGNÚSAR KONUNGS.

Magnús konungr hellt lidi síno nordr í Noreg, oc dvaldiz þar um vetrinn. Enn er vár kom, þá hafdi Magnús konungr úti lid mikit, oc hellt því sudr til Danmerkr: Enn er hann com þar, spurdi hann þau tídindi af Vindlandi, at Vindor höfdo horfit undan lydni vid hann í Jómsborg; þar höfdo Danakonungar fyr haft Jarls-riki mikit, hófo þeir Jómsborg at upphafi, oc var þat ordit allstyrkt vígi. Enn er Magnús konungr heyrdi slíkt sagt, þá baud hann út af Danmörk skipaher, oc lidi miclo, oc hellt um sumarit til Vindlands med allan herinn, oc hafdi lid allmikit. Þess getr Arnor Jarla-scáld:

Heyra scallt hve herskiölld bárut
hilmis kundr til Vinda grundar
heppinn dróttu af hlunni slettum
helog bord í stefia meli.
Alldri frák en vísi valldit
Vinda sorg at döglingr spendi
flaustom var þá flód of ristit
fleiri scip til Odals þeirra.

Enn er Magnús konungr kom til Vindlands, þá lagdi hann til Jómsborgar, oc vann þegar borgina, oc drap þar mart fólk, enn brendi borg oc landit vída út í frá, oc gördi et mesti hervirki, sva sem segir Arnor Jarla-scáld:

Skiölldungr fórt þú um óþióð elldi
audit var þá flotnom dauda
hæstan kyndot hlenna þrystir
hyriar lióma sudr at Jómi.
Hvergi þordi hallir varda
heidit fólk í virki breido
budlúngr unnot borgar mönnom
biörtom elldi stalldræp hiörto.

Mikit fólk á Vindlandi geck til handa Magnúsi konungi, enn miklo var hitt fleira þó, er undan komz, oc flydi víds vegar. Fór Magnús konungr þá aptr til Danmerkr, oc bió ser þar þá til vetrsetu, enn sendi frá ser herinn bædi þann inn Danska, oc mart lid þat, er hönom hafdi fylgt af Noregi.

## CAP. XXVI.

### GEFIT SVEINI KONUNGS-NAFN.

Enn sama vetr er Sveinn Ulfsson hafdi fengit yfirsókn of allt Danavelldi, oc hann hafdi vingaz vid allmargt stórmenni í Danmörku, oc fengit alþydo lof, þá let hann gefa ser konungs-nafn; oc hurfo at því rádi margir höfdingiar. Enn um várit er hann

spurdi at Magnús konungr fór nordan or Noregi, oc hafdi herr mikinn, þá fór Sveinn til Skáneyar, oc þadan upp á Gautland, oc sva til Svíþiódar, á fund Önundar konungs frænda síns, oc dvaldiz þar um sumarit, oc hafdi niósnir út í Danmörk um ferdir Magnús konungs oc fiölmenni hans. Enn er Sveinn spurdi at Magnús konungr hafdi látit frá ser mikinn luta lids síns, oc sva þat, at hann var þá sudr á Jotlandi, þá reid Sveinn ofan af Svíþiód, oc hafdi lid mikit er Svíakonungr hafdi fengit hönom. Enn er Sveinn kom út í Scáney, þá tóco Scánungar vel vit hönom, oc helldo hann þar fyrir konung, dreif þá lid mikit til hans. Sídan fór hann út í Sæland, oc var þar vel vid hönom tekit, lagdi hann þar allt undir sic. Þá fór hann á Fión, oc lagdi undir sic allar eyar, oc geck fólkit undir hann, oc hafdi Sveinn þá her mikinn oc margt skipa. Magnús konungr gipti Ulfhilldi Olafsdóttur, systur sína, Otto Hertuga í Saxlandi: Magnús het son þeirra: þadan er komin ætt mikit; Hertogar þeir er rádit hafa Brúnsvík telia sva sitt kyn til Olafs hins Helga.

## CAP. XXVII.

### FRÁ HER MAGNÚS KONUNGS.

Magnús konungr spurdi þessi tídindi, oc þat med at Vindor höfdo her úti. Sídan stefndi Magnús konungr lidi til sín, oc dróz hönom brátt herr um allt Jótland. Þá kom oc til hans Otto Hertogi af Saxlandi or Brúnsvík; hann átti þá Ulfhilldi Olafs dóttur konungs ens Helga, systor Magnús konungs; Hertoginn hafdi micla sveit manna. Dana höfdingiar eggiodo Magnús konung at fara móti Vindaherinom, oc láta ecki heidit fólk gánga þar yfir land oc eyda: oc var þat rád tekit, at konungrinn snyr her sínom sudr á leid til Heidabæar. Enn er Magnús konungr lá vid Scotborgar-á á Hlyrscógs heidi, þá kom hönom niósn af her Vinda, oc þat med at þeir höfdo sva mikinn mannfiölda, at eigi feck tölo ákomit, oc Magnús konungr hafdi lítinn lut vid fiölmennis, oc hönom væri sá einn til at flyia undan: enn konungr villdi þó beriaz, ef mönnom þætti nockur föng á því at þeir mætti sigraz: enn flestir lötto at beriaz, oc sögdo allir eitt frá, at þeir visso til sanns, at Vindor höfdo oflyanda her: enn Otta Hertogi fysti helldr at beriaz. Let konongr þá blása saman öllom herinom, oc let alla menn herklædaz, oc lágo þeir um nóttina undir sciölldom sínom, þvíat þeim var sagt, at herr Vin-

da var þá kominn nær þeim, oc var konungr allhugsiúkr; þótti hönom íllt ef hann scylldi flyia verda, at hann hafdi þat alldri reynt, svaf hann lítt um nóttina, oc saung bæner sínar.

## CAP. XXVIII.

## IARTEGN ÓLAFS KONUNGS.

Eptir um daginn var Michialsmesso aptan; enn er komit var at degi, þá sofnadi konungr oc dreymdi, at hann sá hinn helga Olaf konung, födur sinn, oc hann mælti vid hann: ertu nú miöc hugsiúcr oc óttafullr, er Vindor fara móti þer med her mikinn; ecki scalltu rædaz heidingia þótt þeir se margir saman, ec man fylgia þer í orrosto þessi: rádi þer þá til bardaga vid Vindor, er þer heyrit lúdr minn. Enn er konungr vaknadi, þá sagdi hann mönnom draum sinn, tóc þá oc at lysa af degi: þá heyrdi allt fólk í lopt upp luckna-hliód, oc kendo Magnús konungs menn þeir er verit höfdo í Nidaróse, at sva þótti sem Glöd væriríngt; þá klucko hafdi Olafr konungr gefit til Clemenskirkio í kaupángi í Nidarósi.

## CAP. XXIX.

## ORROSTA Á HLYRSCOGS HEIDI.

Þá stód upp Magnús konungr, oc bad at blása scylldi herblástr: fór þá Vinda herinn sunnan yfir ána at

þeim: lióp þá upp allr konungs herinn, oc stefndi móti heidingiom. Magnús konungr steypti af ser hrínga-bryniunni, oc hafdi ytzta rauda silkiskyrto, oc tóc í hönd ser öxina Hel, er átt hafdi Olafr konungr: Magnús konungr rann fyrir öllom sínom mönnom móti herinom, oc hió þegar tveim höndom hvern mann at ödrom. Sva segir Arnorr Jarlascáld:

Od med öxi breida
ódæsinn framm ræsirr,
vard um hilmi Hörda
hiör dynr er varp brynio.
þá er of skapt enn skipti
skapvördr himins iördo
Hel klauf hausa fölva
hendor tvær iöfurr spendi.

Orrosta þessi var ecki all-löng; voro konungsmenn hinir áköfusto. Enn hvar sem þeir komo saman, fello Vindor, sva þyckt sem unn-varp lægi: enn þeir er sídarr stódo sneroz á flótta, oc voro þeir þá höggnir nidr sem búfe: rak konungr siálfr flottann austr yfir heidina, oc fell fólkit um alla heidina. Sva segir þiódolfr:

Hyck í hundrads flocki
Haralds bródur-sun stódo
hrafn vissi ser hvassast
hungr bann framast manna.
Vítt lá Vinda flótti
vard þá er Magnús bardiz

höggvinn valr at hylia
heidi rastar breida.

Þat er alþydo mál, at ecki mannfall hafi ordit iafnmikit á Nordr-löndum í kristnom sid, sem þat er vard á Hlyrskógs heidi af Vindum. Enn af lidi Magnús konungs fell eigi mart, enn fiöldi vard sárt. Sva segir í Brimabók, at Rettibur Vinda-konungr var drepinn af Dönom: hann átti átta sono, þeir vildo hefna födur síns, oc eyddo mikinn lut af Danmörk nordr til Rípa, oc fello þeir allir á Hlyrscógs heidi fyrir Magnúsi Góda, oc XV þúsundir manna med þeim. Eptir orrosto þessa let konungr binda sár sinna manna, enn læknar voro eigi sva margir í herinom sem med þyrfti; þá geck konungrinn til, oc þreifadi um hendur þeirra manna er hönom syndiz: enn er hann tók í lófana oc strauk um, þá nefndi hann til XII menn þá er hönom syndiz sem miúkhendir mundo vera, oc sagdi at þeir scylldo binda sár manna, enn eingi þeirra hafdi fyrr sár bundit; enn allir þessir urdo hinir mesto læknar sídan. Þar voro tveir Islendskir menn, var annar Þórkell son Geira af Lyngum, annar Atli fadir Bardar Svarta or Selárdal, oc komo frá þeim margir læknar sídan oc gódir. Eptir þessa orrosto vard miöc frægt vída um lönd iartegn sú er gert hafdi hinn helgi Olafr konungr; oc var þat alþydo mál, at engi madr mundi beriaz þurfa vid Magnús kon-

ung Olafsson, oc Olafr konungr fadir hans væri hönom sva náqvæmr, at óvinir hans mætto önga mótstödo veita hönom fyri þá sök.

## CAP. XXX.

### ORROSTA Á RE.

Magnús konungr sneri þegar herinom móti Sveini, er hann kalladi Iarl sinn, þótt Danir kölludo hann Konung: red Magnús konungr ser þá til skipa, oc bió herinn: fiölmento þá hvarirtveggio sem mest. Varo þar margir höfdingiar í lidi Sveins konungs, Skánungar, Hallendingar, Siálendingar, Fiónbúar: enn Magnús konungr hafdi mest Nordmenn oc Ióta, hellt hann þá lidi síno til móts vid Svein: Vard fundr þeirra fyrir Vestrlandi á Re, vard þar orrosta mikil, oc lauc sva, at Magnús konungr hafdi sigr, enn Sveinn kom á flótta, oc let lid mikit, oc flydi hann þá aptr á Scáni, þvíat hann átti hæli uppi á Gautland, ef hann þyrfti til at taka. Enn Magnús konungr fór þá aptr til Iótlands, oc sat þar um vetrinn fiölmennr, oc hafdi gæzlo á scipom sínom. Þessa getr Arnor Iarlascáld:

Fús let á Re ræsir
ramm þíng háit glamma
Valsca raud fyrir vído
Vestlandi gramr branda.

## CAP. XXXI.
### ORROSTA Í AROSE.

Sveinn Ulfsson fór þegar á scip sín, er hann spurdi at Magnús konungr var genginn af scipom: dró þá Sveinn þegar lid mikit at ser, allt þat er hann feck, oc fór þá um vetrinn um Siáland oc Fión, oc um eyar; oc er dró at Iólum, hellt hann sudr til Iótlands, oc lagdi til Limafiardar, oc geck þar mart fólk undir hann, enn hann tók giölld af sumom; sumir fóro á fund Magnús konungs. Enn er hann spurdi hvat Sveinn hafdiz at, þá fór hann til skipa sinna, oc hafdi med ser Nordmannalid þat, er þá var í Danmörku, enn sumt Dana-lid, hellt þá sunnan fyrir land. Sveinn var þá í Arósi, oc hafdi micit lid: enn er hann spurdi til Magnús konungs, þá lagdi hann síno lidi or bænom, oc bióz til orrosto. Enn er Magnús konungr hafdi spurt hvar Sveinn var, oc hann vissi at þat mundi vera skamt milli þeirra, þá átti hann hús-þíng oc taldi fyrir lidi síno, oc sagdi svo: Nú höfom ver spurt, at Iarl med lidi síno mun her liggia fyrir oss, er mer sva sagt, at þeir hafi lid mikit: nú vil ec göra ydr kunnigt of ætlan mína; vil ec leggia til fundar vid Iarl oc beriaz vid hann, þó at ver höfom lid nockoro færra: munom ver traust vart eiga enn sem fyrr, þar sem Gud siálfr er, oc hinn helgi Olafr

konungr fadir minn, hefir hann oss oc nockrom sinnom fyrr sigr gefit, þá er ver höfom bariz, oc höfom ver opt haft lid minna enn óvinir varir. Nú vil ec at menn búiz sva vid, at ver sculom leita þeirra, oc þegar er fund varn ber saman, þá sculo menn at róa, oc taka þegar til bardaga, veri þá búnir allir mínir menn at beriaz. Sídan herklædduz þeir, oc bioggo hvarir sic oc sitt rúm, tóko sídan ródr, oc röro fram þar til er þeir sá lid Iarls, greiddo þegar atródrinn. Enn er Sveins menn sá herinn, vapnodoz þeir, oc tengdo saman scip sín, tóks þá þegar orrosta hörd. Sva segir Þiódolfr scáld:

Lögdo glædis glóda
gramr oc Iarl fyrir skammo
þar kvam bitr á börva
brand-leikr saman randir.
Sva at man þínga mundot
merkendr Hedins serkiar
(herr nádi gny görva
geirs) orrosto meiri.

Þeir börduz um stafna, oc mátto þeir einir höggom vid koma er í stafni voro, enn þeir lögdo kesiom er í fyrir-rúmi voro, enn allir þeir er aptar voro, skutu sneri-spiótom eda gaflokom eda víg-örom, enn sumir bördo grióti eda skepti-flettom, enn þeir er fyrir aptan siglo voro, skutu bóga-skotom. Sva segir Þiódolfr:

Scotit frác skepti-flettom
sciótt oc mörgo spióti
brád feck hramn er hádo
hialldr á breida skialldo.
Neytto mest sem mátto
menn at vapna senno
baúgs enn bardir lágo
börvar grióts oc örva.

Bárot böslar fleiri
bogmenn at hör tognum
mundit þann dag þrændi
þreyta fyrr at sceytom.
Sva þyct flugo sídan
snæri dörr of skærur
(ótt var ördrif látit)
illa satto á milli.

Her segir þat, hvat áköf var skot-hrídin. Magnús konungr var öndverda orrosto fyrst í scialld-borg: enn er hönom þótti seint á orkaz, þá lióp hann framm or scialld-borginni, oc framm eptir skipino, kalladi hátt oc eggiadi menn sína, oc geck allt framm í stafninn í högg-orrosto: enn er þat sá hans menn, þá knúdoz þeir vel fram oc eggiadi hver annan: var þá kall mikit of allan herinn. Sva segir þiódolfr:

Miöc bad Magnúss recka
mannr röskliga annan
hörd þrifuz bord þar börduz
böd-sky framarr knya.

Gördiz þá en ákafasta orrosta: í þeirri sókn hrauds

skip Sveins framan um stafninn oc söxin: þá geck Magnús konungr med sína sveit upp á skip Sveins, oc sídan hverr at ödrom hans manna; gördo þeir þá sva harda atgöngo, at Sveins menn hrucko fyrir, oc hraud Magnús konungr þat skip, oc sídan hvert skip at ödro. Flydi þá Sveinn oc mikill luti hans manna; enn fiöldi fell lids hans, mart feck oc grid. Sva segir Þiódolfr:

Vördr geck meirr at mordi
Magnús kialar vagna
þat var frægt í fagran
framstafn varar hramni.
Gördom þar sva at þverdi
þengils enn vox gengi:
skeidr nam herr at hróda
húskarla lid Iarli.

Adr svanfolldar selldi
Sól rírandi inn dyri
Iarls lá ferd á ferli
fiör grid stöfom hiörva.

Þessi orrosta var Drottins-dag hinn næsta fyrir Iól. Sva segir Þiódolfr:

Röm var hilldr sú er hramma
hard jels vidir bardoz
herr geck snart at snerro
sunnudag of unnin.
Flaut þá er feigir leto
fiör gny stafir hiörva
þiód söck nidr af nödom
nárr á hverri báro.

Magnús konungr tók þar VII skip af Sveins mönnom. Sva segir Þiódolfr:

Hraud Olafs mögr ádan
Iöfurr vá sigr ens Digra
fregnat slíkt or Sogni
siau skip konor hnipnar.

Oc enn qvad hann:

Mist hafa Sveins oc sinna
sverd gautar föronauta
hörd er helldr of ordin
heim kvamo för beima
hrærir hausa þeirra
hreggi æst oc leggi
(siár þytr auds of árom)
unnr á sanda grunni.

Sveinn flydi þegar um nóttina til Siálands, med þat lid er undan hafdi komiz, oc hönom villdi fylgia: enn Magnús konungr lagdi at landi skip sín, oc let þegar um nóttina lid sitt fara á land; enn snemma of morgininn eptir komo þeir ofan med strand-hög stór. Þess getr Þiódolfr:

Gær sá ec grióti stóro
gein haus fyrir steini
fór á fylking þeirra
fast hardliga kastat.
Ofan keyrdo ver ordom
iard muna Sveinn of varda
stadar hefir stafn í midio
strandhögg numit landi.

## CAP. XXXII.

### FLÓTTI SVEINS KONUNGS.

Magnús konungr hellt þegar sunnan síno lidi til Siálands eptir Sveini: enn þegar er Magnús konungs lid kom at, þá flydi Sveinn þegar á land upp, oc allt lid hans; enn Magnús konungr setti eptir þeim, oc rak flóttan; drápo þeir slíkt er þeir nádo. Sva segir Þiódolfr:

Spurdi eino ordi
ölld blódrodna skiöllldo
satt er at sva mörg átti
Sælunz mær hver bæri.
Aur trádo ver ádan
yfir of skóginn gnógar
títt bar tymargr flótti
til Hríngstada iliar.

Saur-stockinn ber svíra
snarr Skánunga harri
undr nema allvalldr Lundar
alldr prúdr fyrir halldi.
Gær flugo molld oc myrar
merki Iarls ens sterka
slód dreif fram at flædi
flaugar dörr of hauga.

Sveinn flydi þá yfir á Fión; enn Magnús konungr fór þá herscilldi yfir Sióland, oc brendi vída fyrir þeim mönnom, er um haustit höfdo slegiz í flock med Sveini. Sva segir Þiódolfr:

Nádi Iarl at eyda
iöfra-setr á vetri
lezt eigi þú litla
landvörn af þer standa.
Máttir Magnús hitta
milldr oc flock und scilldi
nefa Knúts var þá nytum
nærr sem rádinn væri.

Rönn lezt ræsirr þrænda
reidr þordir bæ meida
hús namtu hver í eiso
hyrfelld gefa elldi.
Gör villdir þú giallda
gædinga vinr skædar
ört rendo þeir undan
Iarls fylgörom dylgior.

## CAP. XXXIII.

### BREND FIÓN.

Þegar er Magnús konungr spurdi at Sveinn hellt lidi síno til Fións, hellt hann eptir hönom. Enn þegar er Sveinn spurdi þat, geck hann á scip oc sigldi, oc kom framm í Scáni, fór þadan á Gautland, oc sídan á fund Svía konungs. Enn Magnús konungr geck upp á Fióni, let þar ræna, enn brenna fyrir mörgom: allir Sveins menn þeir er þar voro, flydo brott víds vegar. Sva segir Þiódolfr:

Rindr á roka-landi
regg af eiki veggium

sudr leikr elldr of unninn
ódr í lopt upp glódom.
Bær logar hálfo hærra
hiónom nærr á Fiónc
ræfr þola naud oc næfrar
Nordmenn sali brenna.

Menn eigo þess minnaz
manna Sveins at kanna
víga Freys síst voro
vefgefn þrennar stefnur.
Van er fagrs á Fióne
flióds dugir vapn at rióda
verom med fylkto fólki
framm í vapna glammi.

Eptir þetta geck enn allt fólk undir Magnús konung í Danmörko: var þar þá gődr fridr enn efra lut vetrar, setti þá Magnús konungr sína menn til stiórnar um land allt þar í Danmörk: enn er áleid várit fór hann vid lidi síno nordr í Noreg, oc dvaldiz þar lengi um sumarit.

## CAP. XXXIV.

### ORROSTA VID HELGANES.

Enn er Sveinn spurdi at Magnús konungr var farinn til Noregs, þá reid hann þegar út á Scáni, oc hafdi lid mikit or Svíavelldi: tóko Scánungar vel

vid

vid hönom; efldiz hann þá enn at lidi; fór sídan út í Sióland, oc lagdi þar undir sic, sva Fión oc allas eyar. Enn er þat spurdi Magnús konungr, þá efldiz hann at lidi oc scipom, oc hellt sídan sudr til Danmerkur: hann spurdi hvar Sveinn lá med her sinn, hellt Magnús konungr þá til móts vid hann; vard fundr þeirra þar sem heitir Helganes, oc var þat at qvelldi dags er orrosta tókz; hafdi Magnús konungr lid minna enn scip stærri, oc betr sciput. Sva segir Arnor Iarlascald:

Títt hefic heyrt at heti
Helganes þar er elgi
vags enn vída frægi
varg-teitir hraud marga.
Röckr öndort bad randir
Reggbus saman leggia
róg-skya hellt Rygiar
regni haust-nótt gegnum.

Orrosta var hin ákafasta: enn er áleid nóttina gördiz mikit mannfall. Magnús konungr skaut hand-scoti alla nóttina. Þess getr Þiódolfr:

Hitzig laut er heitir
Helganes fyrir kesiom
sucku sárir reckar
Sveins ferd bana verdir.
Mætr hellt mörgo spióti
Mæra gramr í snæro

odd raud aski studdan
örr land-reki dörrom.

Enn þat er skiótast at segia af orrosto þessi, at Magnús konungr hafdi sigr, enn Sveinn flydi; var skip hans rodit medal stafna, oc mörg önnur skip Sveins voro hrodin. Sva segir Þiódolfr:

Flydi Iarl af audo
ótynn scipi síno
mord þar er Magnús gordi
meinfært þadan Sveini.
Red her-konungr hrióda
hneitis egg í sveita
sprændi blód á bryndan
brand vá gramr til landa.

Enn segir Arnorr:

Skeidr tók Biarnar bródur
ballr Skánungom allar
þiód reri þeirrar tídar
þíngat gramr med hríngom.

Þar fell mikit lid af Sveins mönnom: feck Magnús konungr oc hans menn allmikit lutskipti. Sva segir Þiódolfr:

Skiölld bar ec heim frá hialldri
hlautz mer til þess Gautzkan
ramr vard sudr á sumri
sverd-dynr oc þó brynio.
Vapn gat ec fríd enn fliódi
fyrr sagdac þat kyrro

þar feck ec hiálm er hilmir
hardfengr Dani bardi.

Sveinn flydi þá upp á Scán, oc allt lid þat er med hönom undan komz: enn Magnús konungr oc hans menn ráko flóttan lángt á land upp, oc vard þá lítil vidrtaka af Sveins mönnom eda bændom. Sva segir Þiódolfr:

Baud Olafs sonr ádan
upp á land at standa
geck vid mann-dýrd micla
Magnús reidr af skeidom.
Snärr bad hilmir heria
hark vóx í Danmörko
fleygir hart of hauga
hestr or Skáni vestan.

Sídan let Magnús konongr fara herskilldi allt um bygdina. Sva segir Þiódolfr:

Nú taka Nordmenn knya
nær gaungum ver staungom
berkak Magnús merki
Minn skialld á hlid sialldan.
Skytr skeifom fæti
Skáni yfir sláni
fár vegr er mer fegri
fundinn südr til Lundar.

Sídan tóko þeir at brenna bygdina: flydi þá allt fólk víds vegar undan. Svá segir Þiódolfr:

Bárom iárn at ærno
ískölld á hlid vísa

skiótt rída nú skeyttar
Skánunga lok vanir.
Raudr leikr of by breidom
brádr at varo rádi
elldr enn ernir vallda
atblásendor því vási.

Oc enn qvad hann:

Svídr of seggia búdir
siklingr í her miklum
eydir bygd sem brádaz
biartr elldr Danavelldi.
Módr berr halr of heidi
hialldrs Danmarkar skialldo
ver lutom sigr enn sárir
Sveins menn fyrir renna.

Fiörd let fylkir verda
forn traddan mó spornat
leynumz lítt á Fióni
lids Skiöllldunga midli.
Muna fyr' Magnús synia
menn Sveins þeir er nú renna
upp fara mörg í morgin
merki stórra verka.

Sveinn flydi þá austr fyrir Scáni, enn Magnús konungr hvarf aptr til skipa sinna, oc hellt sídan austr fyrir Scáneyar sído, oc vard miöc búiz af scyndingo. Þá qvad Þiódolfr þetta:

Ecke hef ec at drecka
annat enn sió þenna

syg ec or sölltom ægi
sylg er ec iöfri fylgi.
Liggr fyrir oss enn uggum
allítt Sviá kallom
driúgt höfom vas fyrir vísa
vid Skáneyar sída.

Sveinn flydi þá upp á Gautland, oc sótti sídan á fund Svía konungs, oc dvaldiz þar um vetrinn eptir í gódo yfirlæti.

## CAP. XXXV.

### HERNADR MAGNÚS KONUNGS.

Magnús konungr sneri aptr ferdinni þá er hann hafdi undir sic lagt allt Skáni: hellt þá fyrst í Falstr, veitti þar uppgöngo, heriadi þar, oc drap mikit fólk, þat er ádr hafdi gengit undir Sveinn. Þess getr Arnorr:

Svík red eigi eklo
allvalldr Dönom giallda
let fullhugadr falla
Falstr-byggva lid tiggi.
Hlód enn hala tiádo
hird-menn ara grenni
audar þorn fyrir örno
úngr valkösto þúnga.

Sídan hellt Magnús konungr lidi síno til Fións, geck þar upp oc heriadi, oc vann þar þá mikit hervirki. Sva segir Arnorr Jarlascáld:

Enn þar fram á Fióni
folld sótti gramr dróttar
ráns gallt herr fyrir hanom
hríng serks litudr merki.
Minniz ölld hverr annan
iamn þarfr blám hramni
(ört gat hilmi hiarta)
her-skilldi tog fylldi.

## CAP. XXXVI.

## FRÁ ORROSTOM MAGNÚSAR KONUNGS.

Magnús konungr sat þann vetr í Danmörko, oc var þá gódr fridr: hann hafdi átt í Danmörko orrostor margar, oc haft í öllom sigr. Sva segir Oddr Kikina-scáld:

Vas fyrir Michials-messo
málm-grimm háin rimma,
fello Vindor enn vöndoz
vapn-hliódi miöc þiódir.
Enn fyrir Iól var önnur
óhlitulig litlo
upphófz grimm med gumnom
gunnr fyrir Arós sunnan.

Enn segir Arnor:

Hefnir fengut yrkis efni
Oláfs geri ec slíkt at málom
hlackar lætr þú hræ-lög drecka
hauca nú man kvædit aukaz.
Fiórar hefir þú randa rírir

Reyra setrs á einom vetri
allvalldr ertu ofvægr kalladr
örva hrídir frækn of görvar.

þriár orrostor átti Magnús konungr vid Svein Ulfsson. Sva segir þióđolfr:

Hádiz heilli gódo
hilldr sem Magnús villdi
selr of sigr at þylia
sókn-stærir mer færi.
Brand raud budlungr þrænda
ber idula sídan
hann ept her-vígi þrennin
hærra sciölld at giölldom.

## CAP. XXXVII.

## FRÁ MAGNÚSI KONUNGI OC ÞÓRFINNI OC RÖGNVALLDI ORKNEYA IÖRLOM.

Magnús konungr enn Gódi, son ens helga Olafs konungs, red fyrir Noregi sem fyrr var sagt: þá var med hönom Rögnvalldr Iarl Brúsason. þá red fyrir Orkneyiom þórfinnr Iarl Sigurdarson, födurbródir Rögnvallds. þá sendi Magnús konungr Rögnvalld vestr til Orkneyia, oc baud sva at þórfinnr scylldi láta hann taka vid födr-leifd sinni. þórfinnr let Rögnvalld hafa þridiung landa vid sik, þvíat sva hafdi haft Brúsi fadir hans á deyanda degi. þórfinnr Iarl átti þá Ingibiörgu Iarla-módur,

dóttur Finnz Arnasonar. Rögnvalldr Iarl þóttiz eiga tva luti landa, sva sem Olafr enn Helgi hafdi heitit Brúsa födur hans, oc Brúsi hafdi um hans daga. þessi urdo upphöf til deilo þeirra frænda, oc er frá því laung Saga: átto þeir mikla orrosto í Petlandsfirdi. þá var Kálfr Arnason med þórfinni Iarli. Sva sagdi Biarni Gull-brár-scáld:

Frágum Finnz hve mági
fylgdut Kálfr um dylgior
oc lez á siá sneckior
snarla lagt at Iarli.
Arædi vantu eyda
odd-fús sonar Brúsa
hlædi hugr enn tedut
heipt-minningr þórfinni.

## CAP. XXXVIII.

## FRÁ BREFOM MAGNÚSAR KONUNGS.

Magnús konungr redi þá bædi fyrir Danmörk oc Noregi. Enn eptir þat er hann hafdi eignaz Danavelldi, þá gerdi hann sendimenn vestr til Englands, fóro þeir á fund Iátvardar konungs, oc flutto hönom bref oc insigli Magnús konungs: enn þat stód á brefom, med kvedio sending Magnús konungs: þer munut spurt hafa einkamál þau, er ver Hörda-Knútr gördom med oss, at hvarr ockarr er lifdi eptir annan, þá scylldi sá taka öll lönd oc þegna,

þá er hann hafdi átt. Nú er þat sva ordit, sem ec veit at þer hafit spurt, at ec hefi tekit Danavelldi í arf eptir Hörda-Knút: enn hann átti ádr hann andadiz öngom mun sídr England enn Danmörk: köllumz ec nú eiga England eptir rettom mál-dögom: vil ec nú at þú gefir upp rikit fyrir mer; enn at ödrom kosti man ec sækia til med styrk hers, bædi af Danavelldi oc or Noregi: man sá ráda löndom er sigurs verdr audit.

## CAP. XXXIX.

### SVÖR IÁTVARDAR KONUNGS.

Enn er Iátvardr konungr hafdi lesit bref þessi, þá svaradi hann sva: þat er öllom mönnom kunnigt her í landi, at Adalrádr konungr, fadir minn, var ódalborinn til ríkis þessa bædi at forno oc nyo: voro ver IV synir hans: enn er hann var fallinn frá löndom, þá tók ríki þetta oc konungdóm Iátmundr bródir minn, þvíat hann var ellstr vor brædra; unda ec þá vel vid medan hann lifdi. Enn eptir hann tóc ríkit Knútr konungr stiúp-fadir minn: var þá ecki dællt til at kalla medan hann lifdi. Enn eptir hann vard konungr Haralldr bródir minn medan hönom var lífs audit. Enn er hann andadiz, þá red Hörda-Knútr bródir minn fyrir Danavelldi oc Englandi: oc þótti þat þá eina rett brædra-

skipti med ockor, at hann væri konungr bædi yfir Englandi oc Danmörk; enn ec hefda ecki ríki til forráda. Nú andadiz hann; var þat þá rád her allra landsmanna at taka mic til konungs her í Englandi. Enn medan ec bar ecki tignar-nafn, þiónada ec mínom höfdingiom, eigi stórligar enn þeir er einga átto ætt til ríkis her í landi. Nú hefir ec tekit her konungs nafn oc vígslo, oc sva fulliga bunad oc konungdóm, sem fadir minn hafdi fyrir mer: nú man ec þetta nafn eigi upp gefa at mer lifanda. Enn ef Magnús konungr kemr híngat til lands med her sinn, þá man ec eigi lidi samna móti hönom, oc mun hann kost eiga at eignaz England, oc taka mic ádr af lífdögom. Segit hönom sva mín ord. Fóro þá sendimenn aptr á fund Magnús konungs, oc sögdo hönom allt sitt eyrendi. Konongrinn svaradi tómliga, mællti þó sva: ec ætla hitt muno vera sannast oc best fallit, at láta Iátvard konung hafa ríki sitt í ró fyrir mer, oc hallda ec þesso ríki er Gud hefir mic eignaz látit.

---

IX.

# SAGAN AF HARALDE HARDRÁDA

## CAP. I.

### HARALDR KEMZ OR STICLASTADA BARDAGA.

Haraldr son Sigurdar Syr, bródir Olafs hins Helga sammædri, var á Sticlastödom í orrosto, oc þá XV vetra, er Olafr konungr enn Helgi fell, sem fyr er ritat; vard Haraldr sárr, oc komz á brott med ödrom flóttamönnom. Á þat qvedr Þiódolfr scáld, í drápu þeirri er hann orti um Harald konung, er köllut er Sexstefia:

Hvast frá ec Haugi et næsta
hlíf-elld á gram drífa
enn Bolgara brennir
brædr sínom vel tædi.
Skildiz hann oc huldi
hiálm setr gamall vetra
tiggi tólf oc þriggia
traudr vid Olaf daudan.

Rögnvaldr Brúsason flutti Harald or orrostonni, oc kom hönom um nóttina eptir bardagann til bónda nockurs, er bió í skógi lángt frá ödrom mönnom; tóc sá búandi vid Haralldi, oc hafdi hann á laun,

óc var Haralldr þar læknadr til þess er hann var heill. Sídan fylgdi son bónda hönom austr um Kiöl, oc fóro þeir allt markleidi, þar er sva mátti, enn ecki alþydo veg. Vissi bónda son ecki til hveriom hann fylgdi; oc er þeir rido á milli eydiscóga nockurra, þá qvad Haralldr þetta:

Reid ec enn beniar blæda
búþegna sá ec megna
lidi feck lindar vodi
lífs grand í böd standa.
Nú læt ec skóg af skógi
skreidaz lítils heidar
hver veit nema ec verda
vída frægr um sídir.

Hann fór austr um Kiöl, oc um Jamtaland oc Helsingialand, oc kom fram í Svíþiód, fann hann þar Raugnvalld Brúsason, oc miöc marga adra þá er flúit höfdo af Stiklastödom or orrostonni, Olafs konungs menn, dvölduz þeir þar um vetrinn.

## CAP. II.

## FERD HARALLDS TIL MIKLAGARDS.

Enn eptir um várit fengu þeir Haralldr oc Rögnvalldr ser scipan, oc fóro um sumarit austr í Gardaríki, á fund Iarizleifs konungs, oc voro þar um vetrinn. Sva segir Bölverkr skáld í drápo þeirri er hann orti um Haralld konung:

Milldingr strauktu um mækis
munn er letz af gunni
holldz vant hrafn of sylldan
hrás þaut vargr í ási.
Enn gramr ne ec frá fremra
fólkherdi þer verda
austr vartu árin næstu
aurdig lyndr í Gördom.

Iarizleifr konungr tók vel vid þeim Haralldi oc Rögnvalldi, oc gerdiz Haralldr þá höfdingi yfir landvarnar-mönnom konungs, oc annar Eilífr son Raugnvalldz Iarls. Sva segir Þiódolfr:

Eit höfdoz at
Eilífr þar er sat
höfdingiar tveir
hamallt fylkdo þeir.
Austr-Vindom oc
í öngom krók
vara Læsiom lettr
lids-manna rettr.

Þess getr Arnorr Iarla-scáld, at Rögnvalldr Brúsason var lengi landvarnar madr í Gardaríki, oc átti þar orrostor margar:

Deilldiz af sva at alldin
el grafnínga þelar
Göndlar niördr í Gördom
gunn-brádr tíu hádi.

Haralldr dvalldiz í Gardaríki nockorá vetor, oc fór vída um austr-veg. Sídan byriadi hann ferd sína

úti Grikland, oc hafdi mikla sveit manna; þá hellt hann til Miklagardz. Sva segir Baulverkr:

Hart knydi svöl svartan
sneckio brand frá landi
skúr, en skrautla báro
skeidor bryniadar reidi.
Mætr hilmir sá málma
Miklagardz fyrir bardi
mörg skrido beitt at borgar
barmfögr ham armi.

## CAP. III.

## FRÁ HARALLDI SIGURDARSYNI.

Þá red firi Gricklandi Zoe drottning en Ríka, oc med henni Mickael Katalactus. Enn er Haraldr kom til Miklagardz, oc á fund drottningar, þá geck hann þar á mála, oc fór þegar um haustit á galeidr med hermönnom þeim er foro úti Gricklandz haf. Hellt Haralldr sveit af sínom mönnom. Þá var höfdingi yfir öllom hermönnom sá madr er nefndr er Gyrgir, hann var frændi drottningar; enn Haralldr hafdi litla hríd verit ádr í lidino, en Væringiar þydduz miöc til hans, oc fóro þeir allir samt þegar er bardagar voro, kom þá sva at Haralldr giördiz höfdingi yfir öllom Væringiom. Fóro þeir Gyrgir vída um Gricklands Eyar, oc unno þar herskap mikinn á Kussarom.

## CAP. IV.

### LUTAN HARALDS OC GYRGIS.

Þat var eitthvert sinn er þeir höfdo farit of land, oc scylldo taka ser nátt-ból vid skóga nockora, oc komo Væringiar fyrstir til náttstadar, oc völdo ser tialldstadi þá er þeir sá bezta oc hæst lágo, þvíat þar er sva háttat, at landit er blautt, oc þegar er regn koma, þá er þar sva íllt at búa er lágt liggr. Þá kom til Gyrgir höfdingi hersins, oc er hann sá hvarr Væringiar höfdo tialldat, bad hann þá brott fara oc tiallda í ödrom stad, segir at hann vill þar tiallda. Haralldr svaradi sva: Ef þer komit fyrri til nátt-bóls, þá taki þer ydr tialld-stadi, munom ver þá tiallda í ödrom stad, þar sem oss líkar; giöri þer nú oc sva, tialldit þar sem þer vilit í ödrom stad: hugda ec, at þat væri rettr Væringia her í Grickia konungs velldi, at þeir skylldo vera friálsir oc siálfráda um alla luti firi öllom mönnom, enn vera konungi einom oc drottningo þiónosto bundnir. Þreyttu þeir þetta med kappmælum sín á milli, þar til er hvarirtveggio vapnudoz, oc var þá vid siálft, at þeir mundi beriaz. Komo þá til hinir vitrosto menn, oc skildo þá; sögdo þeir sva, at betr var fallit, at þeir sættiz um þetta mál, oc gördi skipan á med ser glöggliga, sva at ecki þyrfti optarr slíka deilo. Var þá stefnolagi ákomit med

þeim, oc skylldo þar um dæma hinir bestu menn, oc hinir vitrasto. Enn á þeirri stefno redo þeir þat, sva ásamt kom med öllom, at hluti skylldi í skaut bera, oc luta med Grickiom oc Væringiom, hvarir fyrri skylldo rída eda róa, eda til hafnar leggia, oc kiósa um tialldstadi; skylldo því þá hvarirtveggio una, sem lutir segdi. Sídan voro lutir görvir oc markadir. Þá mælti Haralldr vid Gyrgi: Ek vil siá hvernog þú markar þinn lut, at ecki markom vid einnog bádir; hann gerdi sva. Sídan markadi Haralldr sinn lut oc kastadi í skaut, oc sva bádir þeir. Enn sá madr er lutinn skylldi upptaka, þá tók hann upp annan oc hellt milli fíngra ser, oc brá upp hendinni, oc mællti: þessir skulo fyrir rída oc róa, oc til hafnar leggia, oc kiósa ser tialld-stadi. Haralldr greip til handarinnar, tóc lutinn oc kastadi á sæ. Sídan sagdi hann: þessi var varr lutr. Gyrgir sagdi: hví letz þú eigi fleiri menn siá? Se her nu, sagdi Haralldr, þann er eptir er, mantu þar kenna þitt mark. Sídan var athugat um þann lutinn er eptir var, oc kendo allir þar mark Gyrgis. Var þat dæmt sídan, at Væringiar skylldo hafa kiörna kost of allt þat er þeir þrætto um. Fleiri lutir urdo þeir, er þeir urdo ei ásáttir, oc lauk iafnan sva, at Haralldr hafdi sitt mál.

CAP. V.

## CAP. V.

## HERNADR HARALLDS KONUNGS Í SERKLAND.

Þeir fóro allir samt um sumarit oc heriodo. Þá er allr var saman herinn, let Haralldr sína menn vera fyrir utan bardaga, eda elligar þar er hönom þótti minst manhætta vera, oc letz varaz vilia, at hann tyndi herlidi síno. Enn er hann var einn saman med síno lidi, lagdi hann sva fast til at beriaz, at annattveggia skylldi hann fá sigr edr bana. Sva bar til optliga, þá er hann var höfdingi yfir lidino, at hann vann sigr þá er Gyrgir vann eigi. Þetta fundo hermenn, oc köllodo betr fara mundo sitt mál, ef Haralldr einn væri höfdingi yfir öllom herinom, oc ámællto hertoganom, at eigi yrdi af hönom eda hans lidi. Gyrgir sagdi, at Væringiar vildo eigi lid veita hönom, bad hann þá fara í annan stad Haralld med sínom mönnom, enn hann færi med ödrom herinom, oc vinna þvílíkt sem þeir mætti. Fór þá Haralldr frá herinom, oc Væringiar vid hönom oc Látino menn, enn Gyrgir fór med Grickia her. Syndiz þá hvat hvarir mátto: feck Haralldr iafnan sigr oc fe, enn Grickir fóro heim til Miklagardz med lidi síno, nema úngir drengir þeir er fá villdo ser fiár, söfnudoz til Haralldz, oc höfdo hann fyri hertoga. Hann lagdiz þá med her

sinn vestr í Africa, er Væringiar kalla Serkland, efldiz hann þá miöc at lidi. I Serklandi vann hann LXXX borga, voro sumar gefnar hönom upp, enn sumar tók hann med valldi. Sídan fór hann til Sikileyar. Sva segir Þiódolfr:

Togo má tekna segia
tand-rauds á Serklandi
úngr hætti ser átta
ormtorgs hatudr borga.
Adr herskordudr hardan
hilldar leik und skilldi
Serkiom hættr í slettri
Sikileyo geck heya.

Sva segir Illugi Bryndæla-skálld:

Brautz und Mikial mæztan
mágom heim sem frágom
sonr Budla baud sínom
Sunnlönd Haralldr raundo.

Her segir þat, at þá var Mikial Grickia konungr í þenna tíma. Haralldr dvalldiz marga vetor í Africa, oc feck hann þar of lausa-fiár, gull oc gersemar, oc allzkonar dyr-gripi. Enn allt fe þat er hann feck, er hann þyrfti eigi at hafa til kostnadar ser, sendi hann med trúnadar mönnom sínom nordr í Hólmgard, í valld oc gæzlo Iarisleifs konungs; dróz þar saman ógrynni fiár, sem glíkligt er at vera mundi, er hann heriadi þann luta heims, er audgaztr er at gulli oc dyr-gripom, oc sva mikit sem

hann gördi at, er med sönno var ádr sagt, at hann mundi eignaz hafa LXXX borga med sínom manndómligom atburdom.

## CAP. VI.

### ORROSTA Í SIKILEY.

Enn er Haralldr kom til Sikileyar, þá heriadi hann þar, oc lagdi med lidi síno til einnar borgar mikillar oc fiölmennrar; settiz hann um borgina, þvíat þar voro sva sterkir veggir, at hönom þótti ósynt at brióta mundi mega. Borgar-menn höfdo vist nóga oc önnor faung þau er þyrfto til varnar. Þá leitadi Haralldr ráds þess, at fuglarar hans tóko smá-fugla þá er hreidroduz í borginni, oc flugo á skóg um daga at taka ser mat. Haralldr let binda á bak fuglonom lokar-spánu af tyr-vidi, oc steypa vaxi oc brenno-steini, oc let slá í elldi; flugo fuglarnir þegar er lausir urdo allir í senn í borgina, at vitia únga sinna oc híbyla er þeir átto í hús-þekiom, þar er þakt var reyr eda hálmi; laust þá elldinom af fuglonom í hús-þekiornar; enn þó at einnhverr bæri litla byrdi elldz, þá vard þat skiótt mikill elldr, er margir fuglar báro til, oc vída í hús-þekior, oc því næst brann hvert hús at ödro, þar til er borgin logadi, geck þá fólk allt út or borginni, oc bad ser miskunnar, þeir hinir sömo er ádr höfdo marga daga drembiliga látit oc háduliga, til Grickia hers

oc höfdingia þeirra. Haralldr gaf öllom mönnom grid þeim er þess beiddo; feck hann sídan valld yfir þeirri borg.

## CAP. VII.

## ORROSTA UM ADRA BORG.

Aunnor borg var sú er Haralldr lagdi til lidi síno, sú var bædi fiölmenn oc sva sterk, at engi ván var at þeir fengi brotit borgina. Vellir slettir oc hardir voro umhverfis borgina. Þá let Haralldr taka til at grafa gröft, þar frá sem fell einn beckr, oc var þat diúpt gil, sva at eigi mátti þannog siá or borginni: þeir flutto molld alla út á vatnit, oc leto straum braut bera; voro þeir at þesso verki bædi dag oc nótt, var skipt til sveitom, enn herinn geck alla daga utan at borginni, en borgarmenn gengo í vígskörd, oc skuto hvarir á adra, enn um nætur sváfo þeir hvarirtveggio. Enn er Haralldr skildi þat at iardhús þat var gört sva lángt, at þat mundi komit inn um borgar-vegginn, þá let hann vapnaz lid sitt. Þat var móti degi er þeir gengu í iardhúsit. Enn er þeir komo til enda, grofo þeir upp yfir höfut ser þar til er steinar lím-settir urdo fyrir, þat var gólf í steinhöll einni. Sídan bruto þeir upp gólfit, oc gengo upp í höllina; þar sáto fyrir menn margir af borgar-mönnom, snæddo oc drucko, oc var þeim þetta hinn mesti úvísa-vargr, þvíat Vær-

ingiar gengo þegar vid brugdnom sverdom, oc drápo þar suma, enn sumir flydo, þeir er því komo vid. Væringiar sótto eptir þeim, enn sumir tóko borgarhlidin oc luco upp, geck þar þá inn allr fiölldi hersins. Enn er þeir komo í borgina, þá flydi borgar-lydrinn, enn margir bádo lidit grida, oc fengo þat allir þeir er gáfuz upp: eignadiz Haralldr borgina med þessom hætti, oc þar med ógrynni fiár.

## CAP. VIII.

## ORROSTA VID ENA ÞRIDIO BORG.

Ena þridio borg hitto þeir þá er mest var af hinom öllom oc sterkost, oc ríkost at fe oc fiölmenni, voro um þá borg stór díki, sva at þeir sá at eigi mátti þar vinna med þvílíkom brögdom, sem hinar fyrri borgir, lágo þeir þar miöc lengi, sva at þeir fengo ecki atgört. Enn er borgar-menn sá þat, þá dirfdoz þeir vid: þeir setto fylkingar sínar upp á borgar-veggiom, sídan luko þeir upp borgar-hlidinn, oc æpdo á Væringia oc eggiodo þá, bádo þá at gánga inn í borgina oc frydo þeim hugar, sögdo at þeir væri eigi betr til orrosto enn hænsn. Haralldr bad menn sína láta sva sem eigi vissi hvat þeir skylldo vid giöra, edr skildi eigi hvat þeir sögdo: ver gerom eigi at, sagdi hann, þótt ver rennim til borgarinnar, þeir bera vapn sín á oss undir fætor

ser nidr; enn þótt ver komim í borgina med nockorar sveitir, þá hafa þeir valld á at byrgia inni þá er þeir vilia, en suma úti, þvíat þeir hafa öll borgar-hlidin at gæta. Ver skolom gera þeim eigi minna spott, oc láta þá siá at ver óttumz þá eigi: skolo varir menn gánga fram á völlona sem næst borginni, oc gæta þó þess at gánga eigi í skotmál þeirra; skolo varir menn allir fara vapnlausir oc giöra ser leik, oc láta þat siá borgarmenn, at ver hirdom eigi um fylkingar þeirra. Sídan var sva nockora daga at ecki vannz at.

## CAP. IX.

### FRÁ ÚLFI OC HALLDORI.

Tveir menn Islendskir voro nefndir, þeir voro þar med Haralldi, Halldor son Snorra Góda, hann hafdi þessa frásögn hingat til lands; annar Ulfr son Ospaks, sunar Osvifurs ens Spaka. Þeir voro bádir enir sterkusto menn, oc allvapn-diarfir, oc voro hinir kærsto Haralldi; þeir voro bádir í leik þessom. Enn er þessa leid hafdi framfarit nockora daga, þá vildo borgar-menn syna enn meira kapp, gengo þeir eigi med vapnom uppá borgar-veggina, enn leto þó opin standa borgar-hlidin. Enn er þat sá Væringiar, þá gengo þeir einn dag sva til leiksins, at þeir höfdo sverd undir mötlom, enn hiálma undir höttom. Enn

er þeir höfdo leikit um ríd, þá sá þeir at borgarmenn vöruduz eigi, þá tóko þeir sciótt vapnin, runnu sídan at borgar-hlidino. Enn er borgarmenn sá þat, gengo þeir í móti vel, oc höfdo allvæpni, tókz þar bardagi í borgar-hlidino. Væringiar höfdo eingar hlífar, nema þat er þeir sveifdo mötlunom um vinstri hönd ser, urdo þeir sárir, enn sumir fello, enn allir voro nauduliga staddir. Haralldr oc þat lid med hönom er í her-búdunom var, sótti til at veita sínom mönnom. Enn borgar-menn voro þá komnir upp á borgar veggina, skuto oc grytto á þá, vard þá hörd orrosta: þótti þeim er í borgar-hlidino voro, vera seinna gengit at hiálpa ser, enn þeir villdo. Enn er Haralldr kom at borgar-hlidino, þá fell merkis-madr hans, þá mællti hann Haralldr vid Halldor: tak þú upp merkit. Halldor svarar, oc tóc upp merki-stöngina, oc mælti óvitrliga: hverr man merki bera fyrir þer, ef þú fylgir sva blaudliga sem nú er um ríd? var þat meir reidi-mál enn sann-yrdi, þvíat Haralldr var hinn vapn-diarfasti madr. Sótto þeir þá inn í borgina, var þá bardagi hardr, oc lauk sva at Haralldr hafdi sigr oc vann borgina. Halldor vard sárr miöc í andliti, oc vard þat sár liótt alla æfi hans.

## CAP. X.

### ORROSTA VID FIÓRDO BORG.

Sú var hinn fiórda borg er Haralldr kom til med her sinn, er mest var af öllom þessom er ádr var frásagt, hon var oc sva sterk, at þeir sá at eingi var ván at þeir fengi hana brotit: settuz þeir um borgina, sva at eigi mátti faung flytia til borgarinnar. Enn er þeir höfdo litla hríd dvaliz, þá feck Haralldr siúkleik sva at hann lagdiz í reckio; let hann setia sitt land-tialld brott frá ödrom herbúdonom, þvíat honom þótti ser þat ró, at heyra eigi gny oc glaum her-lidsins. Menn hans gengo iafnan med flocka til hans til oc frá, oc spyria hann rádagiördar; þat sá borgar-menn, at nockor nylynda var med Væringiom: gerdo þeir til niósnar-menn, at forvitnaz hverio slíkt mundi gegna. Enn er niósnar-menn komo aptr til borgar, þá kunno þeir at segia siúkleik höfdingia Væringia-hersins, oc fyrir þá sök var eingi atsókn til borgarinnar. Enn er sva hafdi framfarit um ríd, þá mínkadi mátt Haralldz: giördoz þá hans menn miöc hug-siúkir oc daprir; slíkt allt spurdo borgar-menn. Þar kom at sva þröngdi sótt Haralldz, at andlát hans var sagt um allan herinn. Sídan foro Væringiar til tals vid borgar-menn, oc sögdo þeim líflát höfdingia síns, bádo kennimenn veita hönom gröft í borginni. Enn

er borgar-menn spurdo þessi tídindi, þá voro þeir margir er þar redo fyri klöstrom eda ödrom stórstödom í borginni, er hver villdi giarna hafa þat lík til sinnar kirkio, þvíat þeir visso at þar mundi fylgia ofr mikit fe. Skryddiz þá mikill fiölldi kennimanna, oc geck út or borginni med krossa oc skrín, oc helgadóma, oc giördo fagra processio. Væringiar giördo oc mikla lík-ferd: var þar lík-kista borin hátt oc tialldat yfir pellom, oc borin þar fyrir merki mörg. Enn er líkit var borit inn um borgarhlidit, þá skuto þeir nidr kistonni of þvert hlidit borgarinnar, oc hleypto slagbröndom fyrir hurdirnar; bleso þá Væringiar í alla lúdra her-blástr, oc brugdo sverdonom, þusti þá allr herinn Væringia or her-búdonom med alvæpni, liöpo þá til borgarinnar med ópi oc kalli. Enn múnkar oc adrir kennimenn, þeir er í mót höfdo gengit líkino, keppptiz hverr vid annan at fyrstr oc fremstr villdi útgánga, oc at taka vid offrino, þá var þeim nú hálfo meira kapp á því at vera sem first Væringiom, þvíat þeir drápo hvern þann er þeim var næstr, hvart er hann var klerkr eda úvígdr. Væringiar gengo sva um alla borg þessa, at þeir drápo mannfólkit, enn rænto alla stadi í borginni, oc tóko þar ógrynni fiár.

## CAP. XI.

### FRÁ HARALLDI KONUNGI.

Haralldr var marga vetor í hernadi þessom, er nú var frásagt bædi á Serklandi oc Sikileyo. Sídan fór hann aptr til Miklagardz med her þenna, oc dvaldiz þar litla hríd ádr hann byriadi ferd sína út í Iorsala-heim. Þá let hann eptir mála-gull Grickia konungs, oc allir Væringiar þeir er til ferdar redoz med hönom. Sva er sagt at í öllom þessom ferdom hafi Haralldr átt XVIII fólk-orrostur. Sva segir Þiódolfr:

Þiód veit at hefir hádar
hvar grimligar rimmor
rofiz hafa opt firi iöfri
átian Haralldr sáttir.
Haus arnar rauttu hvassar
hródigr konungr blódi
imr gat kars hvar komut
klær ádr híngat færir.

## CAP. XII.

### IORSALA-FERD HARALLDS KONUNGS.

Haralldr fór med lidi síno út til Iorsala-lands, fór þá sídan upp til Iorsala-borgar, enn hvar sem hann fór um Iorsala-land, þá voro allar borgir oc kastalar gefnar í hans valld. Sva segir Stúfr skálld, er heyrt hafdi konung siálfan fra þessom tídindom segia;

Fór ofr-hugi en æfri
egg-diarfr und sic leggia
folld var víga valldi
virk Iorsali ok Grickiom.
Oc med eino ríki
óbrunnin kom gunnar
heimil iörd und herdi
hafi ríks þars vel líkat.

Her segir frá því, at þetta land kom óbrunnit oc óheriat í valld Haralldss. Fór hann þá út til Iordanar, oc laugadi sic þar, sem háttr er annara pálmara. Haralldr vardi stór-fe til grafar Drottins oc krossins helga, oc annara heilagra dóma á Iorsalalandi. Þá fridadi hann veginn allt út til Iordanar, oc drap raufara oc annat hernadar-fólk. Sva segir Stúfr skálld:

Stódoz rád oc reidi
rann þat svíkom manna
Egda grams á ymsom
ord Iordanar bordom.
En fyrir afgord sanna
illa gat frá stilli
þiód feck vísan vada
víst of alldr med Kristi.

Þá fór hann aptr til Miklagardz.

## CAP. XIII.

### HARALLDR KONUNGR SETTR Í DYBLISSO.

Þá er Haralldr var kominn til Miklagardz utan af

Iorsala-landi, fystiz hann at fara í Nordr-lönd til ódala sinna: hafdi hann þá spurt, at Magnús Olafsson, brodrson hans, var ordinn konungr í Noregi oc sva í Danmörko, sagdi hann þá upp þiónosto vid Grickia konung. Enn er Zoe drottning vard þessa vör, vard hon reid miöc, oc hóf upp sakargiftir vid Haralld, taldi þat, at hann mundi hafa misfarit med Grickia konungs fe, því er fengiz hafdi í hernadi, þá er Haralldr hafdi verit höfdingi yfir herinom. Maria het ein mær úng oc fríd, hon var bródur-dóttir Zoe drottningar, þeirrar meyiar hafdi Haralldr bedit, enn drottning syniadi. Sva hafa sagt Væringiar nordr híngat, þeir er verit hafa í Miklagardi á mála, at sú sögn væri þar höfd af fródom mönnom, at Zoe drottning villdi siálf hafa Haralld ser til manns, oc sú sök væri reyndar mest vid Haralld, er hann villdi brott fara or Miklagardi, þó at annat efni væri uppborit fyrir alþydo. Þá var Grickia konungr sá er het Constantinus Monomacus, hann red ríkino med Zoe drottningo. Af þessom sökom let Grickia konungr taka höndom Haralld, oc færa hann til dyflizo.

## CAP. XIV.

### IARTEGNIR OLAFS KONUNGS; BLINDADR GRICKIA KEISARI.

Enn er Haralldr kom miöc sva til dyflizonnar, þá syndiz hönom hinn helgi Olafr konungr, oc sagdi at hann mundi hiálpa hönom. Þar á strætino var sídan giör capilla, oc helgod Olafi konungi, oc hefir sú capilla þar stadit sídan. Dyfliza sú var þannig giör, at þat er turn hárr oc opinn ofan, enn dyrr af strætino í at gánga; var Haralldr þar innlátinn, oc þeir Halldor med hönom oc Ulfr. Næsto nótt eptir kom ein rík kona ofan á dyflizona, oc hafdi gengit upp med stigom, oc þiónosto-menn hennar II med henni; þau leto síga ofan streng í dyflizona, oc drógo þá upp. Þessi kono hafdi hinn helgi Olafr konungr unnit bót fyrr, oc hafdi þá vitraz henni, oc bad hon skylldi leysa bródr hans or prisund. Þá fór Haralldr þegar til Væringia, oc stódo þeir upp allir þegar í móti, oc fögnudo hönom vel. Sídan vapnadiz allt lidit, oc gengo þar til er konungrinn svaf; þeir tóko konunginn höndom, oc stínga út bædi augun. Sva segir Þórarinn Skeggiason skáld í sinni drápo:

Nádi görr enn glódom
Gricklandz iöfr handa
stól-þengill geck ströngo
stein-blindr adal-meini.

Sva segir oc þiódolfr skálld:

Stól-þengils let stínga
styriölld var þá byriod
eydir augo bædi
út heidingia sútar.
Lagdi alvalldr Egda
austr á bragning hraustan
grálikt mark en Girkia
göto ílla fór stillir.

I þessom tveim drápom Haralldz, oc mörgom ödrom kvædom hans er getit þessa, at Haralldr siálfr blindadi Griekia konung; nefna mætti þeir til þess hertoga edr greifa, eda annarskonar tigna menn, ef þeir vissi þat sannara vera, þvíat siálfr Haralldr konungr flutti þessa sögn oc þeir menn adrir er þá voro þar med hönom.

## CAP. XV.

### FERD HARALLDZ KONUNGS OR MIKLAGARDI.

Þá nótt hina sömo gengo þeir Haralldr at þeim herbergiom er Maria svaf í, oc tóko hana í brott med valldi. Sídan gengo þeir þar til er galeidur Væringia varo, oc tóko II galeidurnar oc skipudo, röro sídan inn í Sævidar-sund. Enn er þeir komo þar er iárn-rekendornar lágo um þvert sundit, þá mællti Haralldr at menn skylldo skipaz til ára á hvarritveggio galeidinni, enn þeir menn er eigi röro, skylldo

allir laupa aptr í galeidurnar, oc hafa hverr húdfat sit í fadmi ser; rendo sva galeidornar uppá iárnrekendornar. Enn þegar er festi í, oc skridinn tók af, þá bad Haralldr alla mennina laupa framm í. Þá steypdi galeidi þeirri er Haralldr var á, oc stöck sú af iárnonom vid ridin, enn önnor sprack er reid á iárnonom, oc tyndiz þar mart, enn sumt var tekit af sundi. Med þesso komz Haralldr út af Miklagardi, fór sva inn í Svarta-haf, oc ádr hann sigldi frá landi, setti hann uppá land iúngfrúna, oc feck henni gott föroneyti aptr til Miklagardz, bad hana segia Zoe drottníngo, frændkono sinni, hverso mikit valld hon hafdi á Haralldi, eda hvart nockot hefdi drottníngar ríki fyrirstadit, at hann mátti fá iúngfrúna. Þá sigldi Haralldr nordr í Ellipallta, oc fór þadan allt um Austrríki. I þessom ferdom orti Haralldr gaman-vísor, oc ero saman XVI, oc er eitt nidrlag á öllom. Þessi er ein:

Sneid fyri Sikiley vída
súd vorom þá prúdir
brynt skreid vel til vánar
vengis hiörtr und drengiom.
Vætti ec minnr at motti
mani enn þinnig nenna
þó lætr Gerdr í Gördom
gollhríngs vid mer skolla.

Þvi veik hann til Ellisifiar, dóttur Iarizleifs konungs í Hólmgardi.

## CAP. XVI.

### FRÁ HARALLDI KONUNGI.

Enn er Haralldr kom til Hólmgardz, fagnadi Iarizleifr konungr hönom forkunnar vel, dvaldiz hann þar eptir um vetrinn; tóc þá í sína vardveizlo gull þat allt, er hann hafdi ádr sent þannog utan af Miklagardi, oc margskonar dyr-gripi, var þat sva mikit fe, at eingi madr í Nordr-löndom hafdi set slíct iafnmikit í eins mans eigo. Haralldr hafdi III sinnom komit í polota-svarf, medan hann var í Miklagardi. Þat ero þar lög, at hvert sinn er Grickia konungr deyr, þá skulo Væringiar hafa polotasvarf: þeir skolo þá gánga óf allar polotur konungs, þar sem fehirdzlor hans ero, oc scal hverr þar eignaz at friálso þat ser, hvert er höndom kemr á.

## CAP. XVII.

### KONFANG HARALLDS KONUNGS.

Þann vetr gipti Iarizleifr konungr dóttor sína Haralldi, sú er het Elisabeth; þá kalla Nordmenn Ellisif. Þetta tiáir Stúfr blindi:

Mægd gat allvalldr Egda
ógnar milldr þá er villdi
gulls tóc gumna spialli
gnótt oc bragnings dóttr.

Enn

Enn at vari byriadi hann ferd sína or Hólmgardi, oc fór um varit til Aldeigio-borgar, feck ser þar skip oc sigldi austan um sumarit. Snéri fyrst til Svíþiódar, oc lagdi til Sigtúna. Sva segir Valgardr á Velli:

Skauzt þú und farm enn frídzta
frami veitiz þer beiti
færdir þú gull or Gaurdom
grunnlaust Haralldr austan.
Styrdir hvatt í haurdo
hvardyggr iöfr glyggvi
sáttu þá er sæ-drif letti
Sigtún en skip hnigdo.

## CAP. XVIII.

## FELAG HARALLDS KONUNGS OC SVEINS ULFSSONAR.

Haralldr fann þar fyri Svein Ulfsson, þat haust er hann hafdi flyit fyri Magnúsi konungi vid Helganes. Enn er þeir fundoz, fagnadi hvarr ödrom vel. Olafr enn Sænski, Svía-konungr, var módurfadir Ellisifiar, kono Haralldz. Enn Astrídr módir Sveins, var systir Olafs konungs. Giördo þeir Haralldr oc Sveinn felagscap sinn, oc bundo þat einkamálom. Allir Svíar váro vinir Sveins, þvíat hann átti þar hina stærsto ætt í landi. Giördoz þá oc

allir Svíar vinir Haralldz oc lidsinnis-menn: var þar margt stórmenni bundit í mægdom vid hann. Sva segir Þiódolfr:

Reist eiki-kiölr austan
aurdikt vatn or Gördom
Svíar tiódo þer sídan
sniallr landreki allir.
Geck med gulli miklo
glygg fell of tiggia
höll á hle-bord sollin
Haralldz skeid und vef breidom.

## CAP. XIX.

### HERNADR HARALLDS KONUNGS.

Sídan redo þeir ser til skipa Haralldr oc Sveinn, oc dróz þeim brátt herr mikill; oc er lid þat var búit, þá sigldo þeir austan til Danmarkar. Sva segir Valgardr:

Eik slaung und þer Yngvi
ógnblídr vedr sídan
rett var ydr of ætlat
ódal frá Svíþiódo.
Hynd bar rif þars rendi
rett á stig fyri sletta
skeidor enn skelkto brúdir
Skáney Dönom nánar.

Þeir lögdo fyrst herinom til Siólandz, oc heriodo

þar oc brendo vída. Sídan helldo þeir til Fións, gengo þar upp oc heriodo. Sva segir Valgardr:

Haralldr görva leztu heriat
hniggr þú andscotom tiggi
brátt rann vargr at vitia
valfallz Selund alla.
Geck á Fión en feckat
fiölmedr konungr hiálmom
brast ríkula ristin
rít erfidi lítit.

Brann í bæ fyri sunnan
biartr elldr Hróizkelldo
rönn let ræsir nenninn
reyk vell ofan fella.
Lágo landzmenn gnógir
ló hels sumom frelsi
drósk harm vesælt hyski
hliótt til skógs á flótta.

Dvaldi dapurt skillda
drifô þeir er eptir lifdo
ferd en fengin urdo
fögr sprund Danir undan.
Las hellt liki drósar
leid fyri ydr til skeida
bito fikula fiötrar
fliód mart haurund biarta.

## CAP. XX.

## LEIDÁNGR MAGNÚSAR KONUNGS.

Magnús konungr Olafsson hellt um haustit nordr í Noreg, eptir Helganes bardaga; þá spyrr hann þau tídindi, at Haralldr Sigurdarson, frændi hans, var kominn til Svíþiódar, oc þat med, at Svein Ulfsson oc Haralldr höfdo gert felagskap sinn, oc höfdo her mikinn úti: ætludo enn at leggia undir sic Danavelldi, enn sídan Noreg. Magnús konungr bydr út leidangr af Noregi, oc dregz hönom brátt herr mikill; hann spyr þá at þeir Haralldr oc Sveinn voro komnir til Danmarkar, brendo þar allt oc brælldo, enn landz-fólkit geck vída undir þá; þat var oc sagt med, at Haralldr væri meiri oc sterkari enn adrir menn, oc sva vitr, at hönom var ecki ófært, oc hann hafdi iafnan sigr er hann bardiz; hann var oc sva audigr af gulli, at eingi madr vissi dæmi til. Sva segir Þiódolfr:

Nú er val meidom vídis
veitt drott mikinn ótta
skeidor hefir herr fyri haudri
hætt góds fridar vætta.
Milldr vill Magnús hallda
mordz hlunn gótom nordan
ítr enn önnor skreytir
unnvigg Haralldr sunnan.

## CAP. XXI.

### SÆTTALEITAN MAGNÚSAR KONUNGS VID HARALLD.

Menn Magnús konungs þeir er voro í rádagiörd med hönom, tala þat at þeim þickir í óvænt efni komit, ef þeir Haralldr frændor skulo beriaz oc beraz bana-spiót eptir: bióđaz nú margir menn til þess, at leita um sættir med þeim, oc af þeim fyrirtölom samþyckiz konungr því. Varo þá menn giörvir á leypi-skúto, oc fóro þeir sem skyndiligazt sudr til Danmerkr; fengo þar til Danska menn, þá er fullkomnir voro vinir Magnús konungs, at bera þeirra erendi Haralldi. Þetta mál fór miöc af hliódi. Enn er Haralldr heyrdi þetta sagt, at Magnús konungr frændi hans mundi bióda hönom sætt oc felagskap, oc Haralldr mundi hafa skulo hálfan Noreg vid Magnús konung, enn hvarr þeirra vid annan hálft lausa-fe beggia þeirra; fóro þessi einkamál þá aptr til Magnús konungs.

## CAP. XXII.

### BRUGDIT SÆTT HARALLDS OC SVEINS KONUNGS.

Litlo sídar var þat, at þeir Haralldr oc Sveinn töludo eitt kvelld vid dryckio: spurdi Sveinn hveria gripi Haralldr hefdi, þá er hönom var mest virkd

á? hann svarar, at þat var merki hans Landeyda. Þá spurdi Sveinn, hvat merkino fylgdi þess, er þat var sva mikil giörsemi? Haralldr sagdi, þat var mælt, oc sva hefdi ordit sídan hann feck þat, at sá mundi hafa sigr er merkit var fyri borit. Sveinn svarar: Þá mundi ec trúa, at sú náttúra fylgdi merkino, ef þú átt III orrostor vid Magnús konung frænda þinn, oc hefir þú sigr í öllom. Þá svaradi Haralldr styggliga: Veit ec frændsemi ockra Magnús konungs, þóttu minnir mic eigi á þat, oc er eigi fyri því sva, at vid farimz í móti med herskilldi, at eigi mundi ockrir fundir verda skapligri adrir. Sveinn brá þá lit, oc mælti: Geta þess sumir, Haralldr, at þú hafir giört sva fyrr, at hallda þat eitt af einka-málunom, er þer þickir sem þitt mál dragi hellst framm. Haralldr svarar: minni stadi mantu á vita, at ec hafa eigi halldit einka-málin, enn ec veit at Magnús konungr muni kalla at þú hafir eigi halldit vid hann; geck þá sína leid hvarr þeirra. Um kvelldit, þá er Haralldr geck til svefns í lypting á skipi síno, mællti hann vid skó-sveinn sinn: Nú man ec eigi liggia í reckionni í nótt, þvíat mer er grunr á, at eigi muni allt vera svikalaust. Ec fann í kvelld, at Sveinn mágr minn vard reidr miök vid bermæli mín: scaltu hallda vörd á, ef her verdr nockot í nótt til tídinda. Geck þá Haralldr í annan stad at sofa, en lagdi þar í rúm sitt tre-stobba

einn. Enn um mid-nætti var róit á báti at lyptingonni, oc geck madr upp þar, oc spretti lyptingar-tialldino, geck sídan upp hiá, oc hió í rúm Haralldz med mikilli öxi, sva at föst stód í treno. Sá madr lióp þegar úti bátinn, enn nida-myrkr var á, oc reri hann þegar í brott, enn öxin var eptir föst í treno til iartegna. Sídan vacdi Haralldr upp menn sína, oc let þá vita vid hver svik þeir voro komnir: megom ver þat siá, sagdi hann, at ver höfom her eigi lids vid Svein, þegar er hann vill sláz á svik-rædi vid oss; man sá varr enn bezti kostr at leita brott hedan medan má: leysom ver nú skip vár, oc róm brott hliódliga. Þeir giördo sva, róa um nóttina nordr med landi fyri dag nockro; fara sídan dag oc nótt þar til er þeir fundo Magnús konung, þar sem hann lá med herr sinn. Geck þá Haralldr á fund Magnús konungs frænda síns, oc vard þar fagna-fundr, sva sem Þiódolfr segir:

Vatn letz vísir slitna
víd kudr af skör þudri
dyr klufo flód þars fórot
flaust or Danmörk austan.
Baud hálf vid sic sídan
sonr Olafs þer hála
frændor hyck at þat fyndiz
fegnir lönd oc þegna.

Sídan tala þeir frændor milli sín, oc fór þat allt sáttgiarnliga.

## CAP. XXIII.

### MAGNÚS KONUNGR GAF HARALLDI HÁLFAN NOREG.

Magnús konungr lá vid land, oc hafdi landtialld á landi uppi; hann baud þá Haralldi frænda sínom til bordz síns, oc geck Haralldr til veitzlonnar vid LX manna, var þar allfögr veizla. Enn er áleid daginn, geck Magnús konungr inn í tialldit þar er Haralldr sat, menn gengo med hönom oc báro byrdar, þat voro vapn oc klædi. Þá geck konungrinn at inom yzta manni, oc gaf þeim sverd gott, oc ödrom skiölld, þá kyrtil, þá klædi, eda vapn, eda gull, öllom gaf hann nockorn grip, þeim stærri er tignari voro. Sídan kom hann fyrir Haralld frænda sinn, oc hafdi í hendi ser reyr-teina tva, oc mælti sva: hvarn villtu her þiggia teininn frændi? Þá svarar Haralldr: þann er nærri mer er. Þá mællti Magnús konungr: Med þessom reyr-sprota gef ec ydor hálft Noregs velldi med öllom skylldom oc sköttom, oc allri eign er þar liggr til, med þeim formála, at þú skalt íamn-rettr Konungr í öllom stödom í Noregi sem ec; enn þá er ver erom allir saman, skal ec vera fyrirmadr í allri heilsan oc þiónan, oc at sæti. Ef þrír ero tignirmenn, skal ec í midio sitia; ec scal hafa konungs-lægi oc konungs-bryggio. Þer skulut oc styrkia oc flytia vart ríki í þann stad, at

ver giörom ydr at þeim manni í Noregi, er ver hugdom at engi skylldi verda medan varr hauss væri uppi fyrir ofan molld. Þá stód upp Haralldr konungr, oc þackadi hönom vel tign oc vegsemd. Setiaz þá nidr bádir, oc voro allkátir. Þann dag at aptni geck Haralldr oc hans menn til skip síns.

## CAP. XXIV.

### HARALLDR KONUNGR VEITTI MAGNÚSI KONUNGI HÁLFT GULL VID SIC.

Enn eptir um morguninn let Magnús konungr blása til þíngs öllo lidino. Enn er þíng var sett, þá lysti Magnús konungr fyrir öllom herinom giöf þeirri, er hann hafdi gefit Haralldi frænda sínom. Þórirr á Steig gaf Haralldi konungs-nafn þar á þíngino. Þann dag baud Haralldr konungr Magnúsi konungi til bordz síns, oc geck hann um daginn vid LX manna til land-tiallda Haralldz konungs, þar sem hann hafdi veizlo búit; voro þar þá bádir kon-ongarnir í hásæti oc samsæti, oc var þar veizla fögr, oc veitt it kappsamligsta, voro konungar kátir oc gladir. Enn er áleid daginn, þá let Haralldr konungr bera tauskor í tialldit miöc margar; þar báro menn oc klædi oc vapn, oc annarskonar gripi, þat fe midladi Haralldr oc scipti med mönnom Magnús konungs, þeim er voro í veizlonni. Sídan let hann

leysa tauskornar, oc mælti til Magnús konungs: þer veittut oss fyrra dag ríki mikit, er þer höfdut ádr unnit af óvinom ydrom oc varom, enn tókut oss til samlags vid ydor, var þat vel giört, þvíat þer hafit mikit til unnit. Nú er her í annan stad, er ver höfom verit útlendis, oc þó verit í nockrom mannhættom ádr enn ec hefi saman komit þesso gulli, er þer munut nú siá mega; vil ec þetta leggia til felags vid ydr, Magnús konungr; skulo vid eiga lausa-fe allt bádir, oc hafa iöfnom höndom, sva sem vid eigom ríki hálft hvarr ockar í Noregi. Ec veit at skaplyndi ockar er ólíkt, er þú madr aurvari myklo enn ec: munu vid scipta fe þesso med ockor at iafnadi, ferr þá hvarr med sinn lut sem vill at friálso. Sídan let Haralldr breida nidr nautzhúd mikla, oc staupa þar á gullino or töskunom; því næst voro teknar skálir oc met, oc reitt í sundr gullit oc skipt öllo at iöfno med vagom, oc þótti öllom mönnom er sá mikil furda er í Nordr-löndin skyldi vera sva mikit gull samankomit í einn stad. Þetta var þó reyndar Grickia konungs eign oc audr, sva sem allir menn segia, at þar se rautt gull húsom fullom. Konungarnir voro þá allkátir. Þá kom upp staup eitt, þat var sva mikit sem mans-höfut; tók Haralldr konungr upp staupit oc mælti: hvar er nú þat gull, Magnús frændi, er þú reidir í móti þessom knapp-höfda? Þá sagdi Magnús konungr: Sva hefir

hefir gefiz ófridrinn oc stórir leidángrar, at náliga allt gull oc silfr er uppgengit þat er í minni vardveizlu er. Nú er eigi meira gull en hríngr þessi í minni eign: tók hann þá hrínginn af hendi ser oc seldi Haralldi. Haralldr leit á oc mælti: þetta er lítit gull, frændi, þeim konungi er tveggia konungaríki á, enn þó muno sumir efa um hvart þú átt at retto þenna hríng. Þá svaradi Magnús konungr áhyggiosamliga: Ef ec á eigi þenna hríng at retto, þá veit ec eigi hvat ec hefi rett fengit; þvíat Olafr konungr hinn Helgi, fadir minn, gaf mer þenna ríng at hinom efsta skilnadi. Þá sagdi Haralldr konungr læiandi: satt segir þú, Magnús konungr, at fadir þinn gaf þer þenna ríng; þann ríng óc hann af födr mínom fyrir ecki mikla sök: er þat oc satt, at þá var eigi gott smá-konungom í Noregi er fadir þinn var sem ríkastr. Haralldr konungr gaf Steigar-Þóri at veizlonni mösor-bolla, hann var girdr med silfri, oc silfr-hallda yfir, oc gyllt hvartveggia, oc fullr upp af skírom silfr-peningom; þar fylgdo oc II gull-hríngar, oc stódo mörk bádir saman; hann gaf hönom oc skickio sína, þat var brúnn púrpuri, oc hvít skinn undir, oc het hönom miclom metnadi oc vinátto sinni. Þórgils Snorrason vitr madr segir sva, at hann sá altaris-klædi þat er giört var or mötlinom: enn Gudridr dóttir Guthorms Steigar-Þórissonar sagdi, at hann qvad, Guthorm

födr sinn eiga bollann sva at hon sá. Sva segir Baulverkr:

Heimil vard er ec heyrda
hodda strídir þer sídan
græn enn gull bautt hanom
grund er Magnús fundot.
Endiz yckar frænda
allfrilliga á milli
sátt en sídan vætti
Sveinn rómölldo einnar.

## CAP. XXV.

## FRÁ MAGNÚSI KONUNGI.

Magnús konungr oc Haralldr konungr redo bádir Noregi enn næsta vetr eptir sætt þeirra, oc hafdi sína hird hvarr þeirra. Þeir fóro um vetrinn um Upplönd at veizlom, oc voro stundum bádir samt, enn stundum ser hvarr þeirra; þeir fóro allt nordr til Þrándheims, oc til Nidaróss. Magnús konungr hafdi vardveitt helgan dóm Olafs konungs sídan er hann kom í land, klippti hár hans oc negl á hveriom XII mánadom, oc hafdi siálfr lykil þann er skrínit mátti upplúka med. Urdo þá margskonar iarteinir at helgom dómom Olafs konungs. Brátt giördoz greinir í of samþycki konunga, oc voro margir sva illgiarnir, at þeirra gengo sva illa í milli.

## CAP. XXVI.

### FRÁ SVEINI KONUNGI ULFSSYNI.

Svein Ulfsson lá eptir í höfninni, þá er Haralldr hafdi brott farit. Sídan leiddi Sveinn at spurningom um farar hans. Enn er hann spurdi, at Magnús oc Haralldr höfdo sættz, oc þeir höfdo þá einn her bádir, þá hellt hann lidi síno austr fyrir Skáneyiar sído, oc dvaldiz þar til þess er hann spurdi um vetrinn, at Magnús konungr oc Haralldr konungr höfdo nordr halldit lidi síno til Noregs. Sídan hellt Sveinn lidi síno sudr til Danmerkr, oc tók hann þar þá allar konungs-tekior þann vetr.

## CAP. XXVII.

### UM KONUNGS-LAGI.

Enn er vára tók búdo þeir út leidángri af Noregi Magnús konungr oc Haralldr konungr frændi hans. Þat barsk at eitt sinn, at frá er sagt at Magnús konungr oc Haralldr konungr lágo um nótt í einni höfn, enn um daginn eptir var Haralldr konungr fyrri búinn, oc sigldi hann þegar; enn at kvelldi lagdi hann til hafnar þeirrar er þeir Magnús höfdo ætlat at vera þá nótt. Haralldr lagdi skipi síno í konungs-lægi oc tiölldodo þar. Magnús konungr sigldi sídar um daginn, oc kom þar sva til hafnar,

at þeir Haralldr konungr höfdo tialldat ádr. Siá þeir at Haralldr hafdi lagt í konungs-lægit, oc hann ætlar þar at liggia. Enn er þeir Magnús konungr höfdo hladit seglom sínom, þá mælti Magnús konungr: greidi menn nú atródrinn, oc setiz med endilöngom bordom, enn sumir brióti upp vapn sín oc vapniz; enn med því at þeir vili eigi brott leggia, þá skulom ver beriaz. Enn er Haralldr konungr serr, at Magnús konungr ætlar at leggia til bardaga vid þá, mælti hann vid sína menn: höggvi þer festarnar, oc látit slá skiponom or lægi, reidr er Magnús frændi nú. Sva giördo þeir, at þeir lögdo skipin or lægino, enn Magnús konungr leggr skipom sínom í lagit. Þá er hvarrirtveggio höfdo umbúiz, geck Haralldr konungr med nockora menn á skip Magnúsar konungs: konungr fagnadi hönom vel oc bad hann vel kominn. Þá svaradi Haralldr konungr: þat hugda ec, at ver værim med vinom komnir, enn nockot grunadi mic um ríd, hvart þer munit sva vilia vera láta; enn þat er satt sem mælt er, at bernska er brádged: vil ec eigi virda á adra leid, enn þetta væri æsku-bragd. Þá sagdi Magnús konungr: þetta var ættar-bragd enn eigi æsku, þótt ec mættag muna hvat ec gaf, eda hvat ec varnada: enn ef þessi litli lutr væri tekinn nú fyri vart rád, þá mundi vera brátt annar; enn alla sætt viliom ver hallda þá er giör er, oc þat sama viliom ver

af ydr hafa er ver eigom skilt. Þá svarar Haralldr konungr: Þat er oc forn sidr at enn vitrari vægi; geck sídan aptr á skip sitt. I þvílíkom vidsciptom konunganna fannz þat, at vant var til at gæta: töldo Magnús konungs menn at hann hefdi rett at mæla, enn þeir er úvitrari voro, töldo þat, at Haralldr konungr væri nockot svívirdr. Enn Haralldz konungs menn sögdo, at eigi væri adra lund skillt med þeim, enn Magnús konungr skyldi lægit hafa, ef þeir kæmi iafn-snimma, enn Haralldr væri eigi skyldr at leggia or lægino, ef hann kæmi fyri: töldo þeir Haralld hafa or vel oc vitrliga rádit. Enn þeir er verr villdo umræda, töldo at Magnús konungr villdi riúfa sætt, oc sögdo at hann hafdi giört rángt oc ósæmd Haralldi konungi. Vid slíkar greinir giördoz brátt umræda óvitra manna til þess at konungom vard sundrþycki at; mart fannz þa annat til þess, þat er konungom þótti sinn veg hvarom, þó at her se fátt ritat.

## CAP. XXVIII.

### ANDLÁT MAGNÚSAR KONUNGS GÓDA.

Magnús konungr oc Haralldr konungr helldo her sínom sudr til Danmarkar. Enn er Sveinn spurdi þat, þá flydi hann undan austr á Skáni. Þeir Magnús konungr oc Haralldr konungr dvölldoz lengi

um sumarit í Danmörko, lögdo þá land allt undir sic. Þeir voro á Iotlandi um haustit. Þat var eina nótt, þá er Magnús konungr lá í hvílo sinni, at hann dreymdi at hann þóttiz staddr þar sem var fadir hans, hinn helgi Olafr konungr, oc þótti hann mæla vid sic: hvarn kost villdo sonr minn? at fara nú med mer, eda verda allra konunga ríkastr oc lifa lengi, oc giöra glæp þann, at þú fáir annathvart trautt bætt eda eigi. Enn hann þóttiz svara: ec vil at þú kiósir fyri mína hönd fadir; þá þótti hönom konungrinn svara: þá skalltu med mer fara. Magnús konungr sagdi þá draum sinn mönnom sínom. Enn litlo sídar feck hann sótt, oc lá þar er heitir Suda-þorp. Enn er hann var nærr kominn bana, þá sendi hann Þóri bródr sinn med iartegnom til Sveins Ulfssonar þess erendis, at hann skylldi veita hiálp Þóri þá sem hann þyrfti: þat fylgdi ord-sendingonni, at Magnús konungr gaf Sveini Dana-velldi eptir sinn dag, sagdi at þat var makligt, at Haralldr redi fyri Noreg, en Sveinn fyri Danmörk. Sídan andadiz Magnús konungr Gódi, oc var hann allmiök harm-daudi allri alþydo. Sva segir Oddr Kikina-skálld:

Felldo menn þá er milldan
mörg tár í gröf báro
þúng byrdr var sú þengil
þeim er hann gat seima.

Deilldiz

Deilldiz hugr sva at helldo
húskarlar grams varla
siklings þióđ en sídan
sat opt hnipin vatni.

## CAP. XXIX.

## LÍK-FERD MAGNÚSAR KONUNGS.

Eptir þessi tídindi hafdi Haralldr konungr þíng vid lidit, sagdi mönnom ætlan sína, at hann vill fara med herinom til Vebiarga-þíngs, oc láta sic taka til konungs yfir allt Dana-velldi, vinna sídan landit, telr þat iamnvel sína erfd sem Noregs-velldi, eptir Magnús konung frænda sinn, bidr þá lidit at efla sic, lætr þá munu Noregs-menn vera allan alldr yfirmenn Dana. Þá svarar Einar Þambar-skelfir, let ser vera skylldra at flytia lík Magnús konungs fóstra síns til graftar, oc færa hann fedr sínom Olafi konungi nordr í Nidarós, enn beriaz útlendis, eda ágirnaz annars konungs velldi oc eign. Lykr sva málino, at betra þótti hönom at fylgia Magnúsi konungi daudom, enn hveriom annarra konunga lifanda: let sídan taka líkit oc búa um vegliga, sva at siá mátti umbúnadinn á konungs skipit. Þá biog-goz allir Þrændir oc allir Nordmenn til heimferdar med líki Magnús konungs, oc raufz þá leidángrinn. Ser þá Haralldr konungr þann sinn kost beztan, at

fara aptr til Noregs, oc eignaz þat velldi fyrst, oc eflaz þadan at lidi: ferr nú Haralldr konungr aptr med öllo lidino til Noregs. Enn þegar er hann kom í Noreg, átti hann þíng vid lands-menn, oc let taka sik til konungs yfir land allt: fór hann sva allt austan um Víkina, at hann var til konungs tekinn á hverio fylki í Noregi. Einar þambar-skelfir fór med líki Magnús konungs, oc med hönom allr þrænda-herr, oc fluttu líkit til Nidaróss, oc var hann iardadr at Clemens-kirkio: þar var þá skrín hins heilaga Olafs konungs. Magnús konungr hafdi verit medalmadr á vöxt, rettleitr oc liósleitr, oc lióss á hár, sniall-mæltr, skiót-ordr, skörung-lyndr oc hinn milldasti af fe; hann var hermadr mikill oc hinn vapn-diarfasti, allra konunga var hann vinsælastr, sva bædi lofodo hann vinir oc óvinir.

## CAP. XXX.

## FRÁ SVEINI KONUNGI ULFSSYNI.

Svein Ulfsson var þat haust staddr á Skáni, oc byriadi ferd sína austr í Svía-velldi, oc ætladi at gefa upp konungs-nafn þat er hann hafdi tekit í Danmörko. Enn er hann var kominn til hestz síns, þá rido þar til hans menn nockorir, oc sögdo hönom tídindi þau hinn fyrsto, at Magnús konungr Olafsson var andadr, oc þat med at allr Nordmanna-

her var brott-farinn or Danmörko. Sveinn svarar því sciótt oc mælti: því skyt ec til Guds, at alldri sídan scal ec flyia Dana-velldi medan ec lifi. Steig hann þá á hest sinn oc reid sudr á Skáni: dreif þá þegar lid mikit til hans. Þann vetr lagdi hann undir sic allt Dana-velldi, tóko þá allir Danir hann til konungs. Þórir, bródir Magnús konungs, kom til Sveins þegar um haustit med ordsending Magnús konungs, sva sem fyrr var ritat: tók Sveinn vid hönom vel, oc var Þórir lengi med hönom sídan í gódo yfirlæti.

## CAP. XXXI.

### AF HARALLDI KONUNGI SIGURDARSYNI.

Haralldr konungr Sigurdarson tók konungdóm yfir öllom Noregi eptir andlát Magnús konungs Olafssonar. Enn er hann hafdi rádit Noregi einn vetr, oc at vári kom, þá baud hann leidángri út af öllo landi, hálfom almenningi at lidi oc skipom, oc hellt sudr til Iótlands; hann heriadi um sumarit vída oc brendi, oc lagdi inn í Gódnar-fiörd. Þá orti Haralldr konungr þetta:

Látom ver medan Iirlar
líneik veri sínom
Gerdor í Gódnar-firdi
galldrs ackeri hallda.

þá mælti hann til þiódolfs skállds, bad hann þar vid yrkia; hann qvad:

Sumar annat skal sunnar
segi ec eina spáfleini
ver aukom kaf kroki
kalldnefr furo hallda.

Til þessa vísar Bölverkr í sinni drápo, at Haralldr fór et næsta sumar eptir andlát Magnús konungs til Danmerkr. Sva segir Bölverkr:

Leidángr bióttu af ládi
laugr geck um skip fögro
giálfr stódom reistu grædi
glæstom ár it næsta.
Skockr lá dyrr á dockri
Danir váro þá báro
skeidor sá herr fyri haudri
hladnar illa stadnir.

## CAP. XXXII.

## FRÁ GEYSO-DÆTROM.

þá brendo þeir bæ þórkels Geysu, hann var höfdingi mikill, voro þá leiddar dætor hans bundnar til skipa. þær höfdo giört spott mikit ádr um vetrinn um þat, at Haralldr konungr mundi fara til Danmerkr med her-skipom, þær skáro or osti ackeri, oc sögdo at slíc mundo vel hallda skipom Noregs konungs. þá var þetta kvedit:

Skáro iast or osti
eybaugs Dana meyar
þau of öngrudo þengil
þíng ackeris hrínga.
Nú ser mörg í morgon
mær hlær at því færi
ærnan krók or iarni
allvalldz skipom hallda.

Sva segia menn, at niósnar-madr mælti vid dætor Þórkels Geyso, sá er set hafdi flota Haralldz konongs: þer saugdo þat Geyso-dætor, at Haralldr konungr mundi eigi koma til Danmerkr. Dotta Þórkels-dóttir svaradi: sva var í gærna. Þórkell leysti út dætor sínar med ógrynni fiár. Sva segir Grani:

Let alldregi úti
úsvífr Kraka drífo
hlauck í harda þiockom
Hornskógi brá þorna.
Fila drottinn rak flótta
fianda grams til strandar
aud vard út at reida
allskiótt fadir Dotto.

Haralldr konungr heriadi allt þetta sumar í Danmörk, oc feck ógrynni fiár, enn eigi vard hann ílendr á því sumri í Danmörko. Fór hann aptr til Noregs um haustit, oc var þar um vetrinn.

## CAP. XXXIII.

## FRÁ QVON-FANGI OC BÖRNOM HARALLDS KONUNGS INS HARDRÁDA.

Haralldr konungr feck Þóro, dóttur Þórbergs Arnasonar, enn næsta vetr eptir er Magnús konungr andadiz. Þau átto II sono, het hinn elldri Magnús, en annarr Olafr. Haralldr konungr oc Ellisif drottning átto dætur II, het önnor Maria, en önnor Ingigerdr. Enn it næsta vár eptir þessa herferd er nú var ádr frásagt, baud Haralldr konungr lidi ut, oc fór um sumarit til Danmerkr oc heriadi, oc sídan hvert sumar eptir annat. Sva segir Stúfr skálld:

Autt vard Falstr at frettom
feck drótt mikinn ótta.
Gæddr var hrafn enn hræddir
hvert ár Danir váro.

## CAP. XXXIV.

## UM HERS-TILBÚNAD SVEINS KONUNGS ULFSSONAR OC HARALLDS KONUNGS.

Sveinn konungr red fyri öllo Dana-velldi sídan er Magnús konungr andadiz; hann sat um kyrt á vetrom, enn lá úti med almenning á sumrom, oc heitadiz at fara nordr í Noreg med Dana-her, oc giöra þar eigi minna íllt, enn Haralldr konungr giördi í

Danmörk. Sveinn konungr baud Haralldi konungi um vetrinn, at þeir skylldi finnaz um sumarit eptir í Elfinni, oc beriaz þar til þrautar, eda sættaz elligar. Þá bioggo hvarirtveggio allan vetrinn skip sín, oc hafa úti hálfan almenning bádir eptir of sumarit. Þetta sumar kom utan af Islandi Þórleikr fagri, oc orti flock um Svein konung Ulfsson; hann spurdi, þá er hann kom í Noreg, at Haralldr konungr var farinn sudr til Elfinnar móti Sveini konungi. Þá qvad Þórleikr þetta:

Ván er at vísa kænan
vigs á rakna stigom
ört í odda snerto
Inn-þrænda lid finni.
Þó má enn hvarr annan
aundo nemr eda löndom
lítt hyggr Sveinn á sáttir
sialldfestar Gud vallda.

Oc enn qvad hann þetta:

Færir reidr sá er rauda
raund hefir opt fyri löndom
breid á Budla slódir
bord raukn Haralldr nordan.
Enn lauks um sæ sækia
Sveins fagr drifin steini
glæsi dyr þess er geira
gullmunnut rydr sunnan.

Haralldr konungr kom til áqvedinnar stefno med her sinn; þá spurdi hann at Sveinn konungr lá

sudr vid Siáland med sínom flota. Þá skipti Haralldr konungr lidi síno, let aptr fara flestan bónda-herinn, hann fór vid hird sinni oc lendom mönnom oc villdarlidino, oc allt þat af bónda-lidino er næst var Dönom. Þeir fóro sudr til Iotlandz fyri sunnan Vendilskaga, sva sudr um Þiódo, fóro þar allt her-skilldi. Sva segir Stúfr skálld:

Flydo þeir á þiódo
þengils fund af stundo
stórt red hugprútt hiarta
Haralldś aund ofarr löndom.

Þeir fóro allt sudr til Heida-bæar, tóko kaupstadinn oc brendo. Þá orto menn Haralldś konungś þetta:

Brendr var upp med endom
allr enn þat má kalla
hraustligt bragd er ec hugda
Heida-bærr af reidi.
Ván er at vinnim Sveini
varc í nótt fyrir ótto
gaus hárr logi or húsom
harm á borgar armi.

Þessa getr oc Þórleikr í sínom flokki, þá er hann hafdi spurt at eigi hafdi ordit orrosta vid Elfi:

Hví hefir til Hauka-bæar
heipt-giarn konungr árnat
fólk-raugnir getr fregna
fylkis sveit hinn er veitat.

þá er til þengils bæiar
þarflaust Haralldr austan
ar þat án of væri
endr byr-skídom rendi.

## CAP. XXXV.

## UNDANFERD HARALLDS KONUNGS Á IOTLANDS HAFI.

Þá fór Haralldr konungr nordr oc hafdi LX skipa, oc voro flest stór oc hladin miöc af herfángi, er þeir höfdo tekit um sumarit. Enn er þeir sigldo nordr fyri Þiódo, þá kom Sveinn konungr af landi ofan med her mikinn, hann baud þá Haralldi konungi at beriaz, oc gánga á land. Haralldr konungr hafdi lid meirr en hálfo minna, hann baud Sveini konungi at beriaz á skipom vid sic. Sva segir Þórleikr fagri:

Baud sá er beztrar tídar
borinn vard und Midgardi
ríkri þióđ at rióda
randir Sveinn á landi,
þó letz helldr ef helldi
hvat-rádr konungr ládi
á byriar val beriaz
bil-styggr Haralldr vilia.

Eptir þetta sigldi Haralldr konungr nordr fyri Vendilskaga, bægdi þeim þá vedr, oc lögdo undir Hlesey, oc lágo þar um nótt. Þá giördi miörkva

sæ-lægian; enn er mornadi, oc sól rann upp, þá sá þeir annan veg á hafit sem elldar nockorir brynni. Þá var þat sagt Haralldi konungi, þá sá hann til oc mælti þegar: láti tiölld af skipom, oc taki menn ródr; Dana-herr mun kominn at oss, mun rodit myrkvanom þar sem þeir ero, man sól skína á dreka-höfut þeirra, þau gullögd ero. Sva var sem hann sagdi, þar var þá kominn Sveinn Dana-konungr med óvígian her. Röro þeir þá hvarirtveggio sem mest mátto. Danir höfdo skip ár-fliótari, enn Nordmanna skip voro bædi sollin oc sett miöc; dró þá saman miöc med þeim. Þá sá Haralldr konungr, at eigi mundi lyda sva búit: dreki Harallds konungs fór sídast allra skipa hans. Þá mællti Haralldr konungr, at kasta skylldi fyri bord vidom, oc láta koma á klædi oc gripi góda; logn var sva mikit, at þetta hóf fyri straumi. Enn er Danir sá fe sitt reka á hafino, þá viko þeir þar til er fyrstir voro; þótti þat dælla at taka er flaut laust, enn sækia inn um bord at Nordmönnom; dvaldiz þá eptirródrinn. Enn er Sveinn konungr kom eptir þeim med scip sín, eggiadi hann oc qvad skömm vera mikla, sva mikinn her sem þeir höfdo, ef þeir skylldi eigi fá tekit þá, er þeir höfdo lid lítit, oc eiga valld þeirra. Þá tóko Danir at herda ródrinn í annat sinn. Enn er Haralldr konungr sá at meira gengo skip Dana, þá bad hann sína menn letta

skipin, oc bera fyri bord mallt oc hveiti oc flesk, oc höggva nidr dryck sinn; stód þá vid um ríd. Þá let Haralldr konungr taka víg-gyrdla oc verpla, oc tunnor er tómar voro, oc kasta fyri bord, oc þar med herteknom mönnom. Enn er þat rak allt saman á siónom, þá bad Sveinn konungr hiálpa mönnom, oc var sva giört, enn í þeirri dvöl dró í sundr med þeim. Snero þá Danir aptr, enn Nordmenn fóro leid sína. Sva segir Þórleikr fagri:

Allt of frá ec hve ellti
Austmenn á veg flausta
Sveinn en siklingr annar
snar-lundadr hellt undan.
Fengr vard þrænda þengils
þeir letto skip fleiri
allr á eli sollno
Iotlandz hafi flióta.

Sveinn konungr veik aptr flotanom sudr undir Hlesey, hitti þar VII skip af Nordmönnom, þat var leid-ángrs-lid oc bændor einir. Enn er Sveinn konungr kom at þeim, þá bado þeir ser grida, oc budo fe fyri sic. Sva segir Þórleikr fagri:

Sætt budo seggia drottni
siklings vinir mikla
svæfdo hialldr þeir er höfdo
hug-stinnir lid minna.
Oc snarrádir sídan
sókn er ordom tókoz

aund var yta kindom
ófaul búendur dvöldo.

## CAP. XXXVI.

## FRÁ HARALLDI KONUNGI.

Haralldr konungr var madr ríkr oc stiórnsamr innanlandz, spekingr mikill at viti, sva at þat er alþydo mál, at engi höfdingi hafi sá verit á nordrlöndom er iamn-diúp-vitr hafi verit sem Haralldr, eda rád-sniallr. Hann var orrostomadr mikill oc enn vapn-diarfasti; hann var sterkr oc vapn-færr hveriom manni betr, sva sem fyrr er ritat, enn þó er miklo fleira óritat hans frægdarverka; kemr til þess ófrædi var, oc þat annat, at ver viliom eigi setia á bækor vitnis-lausar sögur, þótt ver hafim heyrt rædor, eda getit fleira luta, þá þickir oss hedan í frá betra at vid se aukit, enn þetta sama þurfi or at taka. Er saga hans mikil sett í Kvædi þau er Islendzkir menn færdo hönom siálfom eda sonom hans, var hann fyri þá sök vinr þeirra mikill; hann var oc hinn mesti vin híngat til allra landzmanna; oc þá er var mikit hallæri á Islandi, þá leyfdi Haralldr konungr IV skipom miölleyfi til Islands, oc qvad á, at ecki skippund skylldi vera dyrra, en fyri hundrat vadmála; hann leyfdi utanferd öllom fátækom mönnom þeim er ser fengo vistir um haf, oc þadan af nærdiz land þetta aptr

til ár-ferdar oc batnadar. Haralldr konungr sendi út híngat klucko, til kyrkio þeirrar er hinn helgi Olafr konungr sendi vidinn til, er sett var á Þíngvelli; þvílík minni hafa menn híngat til landz Haralldz konungs, oc mörg önnor í stórgiöfom, er hann veitti mönnom þeim er hann sótto heim.

## CAP. XXXVII.

## FRÁ HALLDORI SNORRASYNI.

Halldor Snorrason oc Ulfr Ospaksson, þeir er fyrr var getit, komo í Noreg med Haralldi konungi. Þeim var ólíkt farit at í mörgo. Halldor var manna mestr oc sterkastr, oc enn frídasti siónom. Þat vitni bar Haralldr konungr hönom, at hann hefdi verit þeirra manna med hönom, er sízt brygdi vid vaveifliga luti, hvart er þat var mann-háski eda fagnadar-tídindi, eda hvat sem at hendi kom, þá vard hann eigi gladari oc eigi ógladari; eigi svaf hann meira ne minna, eda drack eda neytti matar, enn sva sem vandi hans var til. Halldor var madr fá-mælltr oc stird-ordr, ber-mælltr oc stríd-lundadr oc ómiúkr, enn þat kom þá illa vid konunginn, er hann hafdi med ser marga adra göfga menn oc þiónosto-fulla; dvaldiz Halldor litla hríd med konunginom, fór hann til Islandz, oc geyrdi þar bú í Hiardarhollti, bió þar til elli, oc vard gamall.

## CAP. XXXVIII.

### FRÁ ULFI OSPAKSSYNI.

Ulfr Ospaksson var med Haralldi konungi í miklom kærleikom, hann var enn vitrasti madr, sniallr í máli, skörungr mikill, tryggr oc einfalldr. Haralldr konungr giördi Ulf stallara sinn, oc gipti hanom Iórunni þórbergs-dóttur, systur þóro er Haralldr konungr átti. Börn Ulfs oc Iórunnar voro þau Ióann sterki á Rasvelli, oc Brigida módir Sauda-Ulfs, faudr Petrs Byrdar-Sveins, födr Sveins oc þeirra Ulfs Flys. Son Ions sterka var Erlendr Himalldi, fadir Eysteins Erki-biskups oc brædra hans. Haralldr konungr gaf Ulfi stallara lendzmans rett, oc XII marka veizlur, oc umfram hálft fylki í þrándheimi. Sva segir Steinn Herdísarson í Ulfs-flocki.

## CAP. XXXIX.

### KIRKNA OC HÚSA BYGGING.

Magnús konungr Olafsson let giöra Olafs-kirkio í kaupángi; í þeim stad hafdi nátt-sett verit lík Olafs konungs, þat var þá fyrir ofan bæinn. Hann let þar oc reisa konungs-gardinn. Kirkian vard eigi algör ádr konungrinn andadiz; let Haralldr konungr fylla þat er áskorti. þar í gardinom let hann oc efna at göra ser steinn-höll, oc vard hon eigi full-

komin ádr hann letz. Haralldr konungr let reisa af grund-velli Mario-kirkio uppi á Melinom, nær því er heilagr dómr konungsins lá í iördo, inn fyrsta vetr eptir fall hans; þat var mikit musteri, oc gert sterkliga at límino, sva at varla feck brotit, þá er Eysteinn Erki-biscop let ofan taka. Heilagr dómr Olafs konungs var vardveittr í Olafskirkio medan Mario-kirkia var í giörd. Haralldr konungr let húsa konongs gardinn ofan frá Mariokirkio vid ána, þar sem nú er; enn þar sem hann hafdi látit höllina giöra, þá let hann þat hús vígia til Gregorius kirkio.

## CAP. XL.

## UPPHAF HÁKONAR HVÍTA IVARSSONAR.

Ivarr Hvíti er madr nefndr, hann var lendrmadr göfugr, hann átti bú á Upplöndom, hann var dótturson Hákonar Iarls hins Ríka. Ivarr var allra manna frídastr synom. Son Ivars het Hákon, frá hönom er sva sagt, at hann var umfram alla menn, þá er í þann tíma voro í Noregi, at frídleik oc afli oc atgiörfi; hann var þegar á únga alldri í herferdom, oc afladi ser sva mikillar fremdar, oc giördiz Hákon enn ágætasti madr.

## CAP. XLI.

## FRÁ EINARI ÞAMBAR-SKELFI.

Einarr Þambar-skelfir var ríkastr lendramanna í Þrándheimi. Helldr var fátt um med þeim Haralldi konungi; hafdi Einar þó veizlor sínar þær er hann hafdi haft medan Magnús konungr lifdi. Einar var miöc stór-eignadr, hann átti Bergljóto dóttr Hákonar Iarls, sva sem fyrr er ritat. Eindridi son þeirra var þá alroskinn, hann átti þá Sigrídi dóttur Ketils Kalfssonar oc Gunnhilldar, systur-dóttur Haralldsʼ konungr. Eindridi hafdi frídleik oc fegurd af módr-frændom sínom, Hákoni Iarli edr sonom hans, enn vöxt oc afl hafdi hann af födr sínom Einari, oc alla þá atgiörfi er Einar hafdi umfram adra menn; hann var oc hinn vinsælasti madr, oc þeir bádir frændor, sva sem vattar vída í sögom.

## CAP. XLII.

## FRÁ ORMI IARLI.

Ormr var þá Iarl á Upplöndom; módir hans var Ragnhilldr, dóttir Hákonar Iarls ins Ríka. Ormr var oc inn mesti ágætis madr. Þá var á Iadri austr á Sóla Aslakr Erlingsson, hann átti Sigrídi, dóttur Sveins Iarls Hákonarsonar. Gunnhilldi, adra dóttur Sveins Iarls, átti Sveinn Ulfsson Dana-konungr. Slíkt

var

var afkvæmi Hákonar Iarls þá í Noregi, oc mart annat gaufugra manna, oc var ætt sú öll miclo frídari synom enn annat mannfólk, oc flest atgervimenn miklir, enn allt göfugmenni.

## CAP. XLIII.

## HARDÝDGI HARALLDS KONUNGS.

Haralldr konungr var rík-lundadr, oc óx þat sva sem hann festiz í landino, oc kom sva at flestom mönnom dugdi illa at mæla í móti hönom, eda draga fram annat mál en hann vildi vera láta. Sva segir þiódolfr skálld:

> þegn skyli herr sem húgnar
> hialldr vitiadar sitia
> dólg stæranda dyrom
> drottinn vandr oc standa.
> Lytr fólk-stara fæiti
> fátt er til nema iátta
> þat sem þá vill gotnom
> þiód öll konungr bióda.

## CAP. XLIV.

## MIS-SÆTT HARALLDS KONUNGS OC EINARS ÞAMBAR-SKELFIS.

Einar þambar-skelfir var mestr forstióri fyri bændonom allt út um þrándheim, hellt hann upp svörom

fyri þá á þíngom, þótt konungs menn sóttó. Einar kúnni vel til laga; skorti hann oc eigi dirfd til at flytia þat fram á þíngom, þó at siálfr konungr væri vit; lidsinnto hönom allir bændor. Konungr reiddiz því miöc, oc kom sva at lycdom, at þeir þreytto kappmæli med ser. Sagdi Einar, at bændor villdi eigi þola hönom ólaug, ef hann brautt landz-rett á þeim; oc fór sva nockorom sinnom á millom þeirra. Þá tók Einar at hafa fiölmenni um sic heima, en þó miklo meira, þá er hann fór til bæiar, sva at konungr var þar fyri. Þat var eitt sinn at Einar fór inn til bæiar, oc hafdi lid mikit, láng-skip mikil VIII eda IX, oc nær fimm hundrut manna. Enn er hann kom til bæiar, geck hann upp med lid þat. Haralldr konungr var í gardi sínom, oc stód útí loptsvölom, oc sá er lid Einars geck af skipom; oc segia menn at Haralldr qvad þá:

Her sec upp en aurva
Einar þann er kann skeina
þiálma þambar-skelmi
þángs fiölmennan gánga.
Full-afli bídr fyllar
finn ec opt drífr minna
hilmis stóls á hæla
húskarla lid Iarli.

Ríódandi mun ráda
randabliks or landi

oss nema Einar kyssi
öxar munn inn þunna.

Einarr dvaldiz í bænom nockora daga.

## CAP. XLV.

### FALL EINARS OC ENDRIDA.

Einn dag var átt mót í bænom, oc var konungr siálfr á mótino; hafdi verit tekinn í bænom þiófr einn, oc var færdr á mótit. Madrinn hafdi verit fyrr med Einari, oc hafdi hönom vel getz at manninom. Þetta var Einari sagt, oc þóttiz hann vita, at konungr mundi eigi manninn láta undangánga fyri því at helldr, þótt Einari þætti þat máli skipta: lætr þá Einar vapnaz lid sitt, oc gánga sídan á mótit; tekr Einarr manninn af mótino med valldi. Eptir þetta gengo at beggia vinir, oc báro sáttmál milli þeirra; kom þá sva, at stefnolagi var ákomit, oc skylldo þeir hittaz siálfir. Mál-stofa var í konungs gardi vid ána Nid; geck konungr í stofona vid fá menn, enn annat lid hans var úti í gardinom. Konungr let snúa fiöl fyrir lióramn, oc var lítit opit á. Þá kom Einarr í gardinn vid sitt lid; hann mællti vid Eindrida son sinn: vertó med lidino úti, vid eingo man mer þá hætt. Eindridi stód úti vid stofo-dyrin. Enn er Einarr kom inn í mál-stofona, þá mællti hann: myrkt er nú í mál-stofo konungsins. Iam-skiótt liópo menn at hönom, lögdo

sumir, en sumir hioggo. Enn er Eindridi heyrdi þat, þá brá hann sverdino oc hlióp inn í stofona; var hann þegar felldr oc bádir þeir. Þá liópo konungs menn oc fyri dyrnar, enn bændom felloz hendor, þvíat þeir höfdo þá eingan forgaungo-mann; eggiadi hver annan, sögdo at skömm var í, at þeir skylldo eigi hefna höfdingia síns: enn þó vard eigi af atgaungonni. Konungrinn geck út til lids síns, skaut á fylking oc setti upp merki sitt: enn eigi vard atgánga bóndanna. Þá geck konungr út á skip sitt oc allt lid hans, röri sídan út eptir ánni, oc sva út á fiörd leid sína. Bergliot kona Einars spurdi fall hans, var hon þá í herbergi því er þau Einarr höfdo ádr haft úti bænom; geck hon þegar upp í konungs gardinn, þar sem bónda-lidit var: hon eggiadi þá miöc til orrosto; enn í því bili reri konungr út eptir ánni. Þá mællti Bergliót: missom ver her nú Hákonar Ivarssonar frænda míns; eigi mundo bana-menn Einars róa her út eptir ánni, ef Hákon stædi her á ár-backanom. Sídan let Bergliót búa um lík þeirra Einars oc Eindrida; voro þeir iardadir at Olafs-kirkio hiá leidi Magnús konungs Olafssonar. Eptir fall Einars var Haralldr konungr sva miöc óþockadr af verki þesso, at þat eina skorti á at lendirmenn oc bændor veitto eigi konungi atferd oc helldo bardagi vid hann, at eingi var forgaungo-madr til at reisa merki fyri bónda-herinom.

## CAP. XLVI.

## FRÁ HARALLDI KONUNGI OC FINNI ARNASYNI.

Finnr Arnason bió þá á Yriom á Austrátt, hann var þá lendrmadr Haralldş konungs. Finnr átti Berglióto dóttur Hálfdanar Sigurdarsonar Syr. Hálfdan var bródir Olafs hins helga oc Haralldz konungs. Þóra, kona Haralldş konungs, var bródordóttir Finnz Arnasonar; var Finnr hinn kærasti konungi, oc allir þeir brædor. Finnr Arnason hafdi verit nockor sumor í vestr-víking, oc höfdo þeir þá verit allir saman í hernadi Finnr oc Gutthormr Gunnhilldarson oc Hákon Ivarsson. Haralldr konungr fór út eptir Þrándheimi, oc út á Austrátt; var hönom þar vel fagnat. Sídan talaz þeir vid konungrinn oc Finnr, oc ræddo sín á milli of þessi tídindi, er þá höfdo gerz fyrir skemsto í aftöko Einars oc þeirra fedga, oc sva kurr þann oc þys, er Þrændir gerdo at konungi. Finnr sagdi skiót-ordliga: Þer er vest farit at hvívetna; þú gerir hvervetna íllt, enn sídan ertu sva hræddr, at þú veitz eigi hvar þú hefir þic. Konungrinn svarar hlæiandi: Ek vil nú senda þic mágr inn til bæiar, vil ec at þú sættir bændor vid mic; enn ef þat fæz eigi, þá vil ec at þú farir til Upplanda, oc komir því vid Hákon Ivarsson, at hann se eigi mótgaungo-madr

minn. Finnr svarar: hvat skalltu tilleggia vid mic, ef ec fer forsendo þessa, þvíat bædi Þrændir oc Upplendingar ero fiandor þínir sva miklir, at eingom sendi-manni þínom er þángat fært, nema sín nióti vid. Konungr svarar: far þú mágr sendi-förina, þvíat ec veit at þú kemr áleidiz, ef nockr kemr, at giöra oss sátta, oc kiós at oss bæn sídan. Finnr sagdi: halltu þá Konungr ord þín; enn ec mun kiósa bænina; ec kys grid oc landzvist Kálfi bródr mínom, oc eignir hans allar, oc þat med, at hann hafi nafn-bætur sínar oc allt ríki sitt, slíkt sem hann hafdi ádr hann fór or landi. Konungr iátar öllo þesso er Finnr mællti; höfdo þeir at þesso vitni oc hand-festar. Sídan mællti Finnr: hvat skal ec Hákoni frambióda til þess, at hann iáti þer gridom, hann rædr nú mest fyri þeim frændom. Konungrinn svarar: hitt skalltu nú fyrst heyra, hvat Hákon mælir til sætta fyri sína hönd. Sídan kom þú míno máli sem þú mátt framast, enn at lycdom þá neita þú konungdóminom einom. Sídan fór Haralldr konungr sudr á Mæri, oc dró at ser lid oc giördiz fiölmennr.

## CAP. XLVII.

### FERD FINNS ARNASONAR.

Finnr Arnason fór inn til bæiar, oc hafdi med ser húskarla sína, nær LXXX manna. Enn er hann

kom til bæiarins, þá átti hann þíng vid bæiar-menn. Finnr taladi á þíngino lángt oc sniallt, oc bad bæiarmenn oc bændor taká allt annat rád, enn hataz vid konung sinn, eda reka hann á brott; minnti þá á, hverso mart íllt hafdi yfir þá gengit, sídan er þeir höfdo þat giört vid enn helga Olaf konung; sagdi þat oc, at konungr vill bæta víg þessi, sva sem hinir bezto menn oc vitrosto gerdo. Lauk Finnr sva sinni rædo, at bændor heto því at láta þetta mál standa kyrt þar til er aptr komi sendimenn þeir, er Bergliót hafdi gert til Upplanda á fund Hákonar frænda síns Ivarssonar. Sídan fór Finnr út til Orkadals med þá menn er hönom höfdo fylgt til bæiar, þadan fór hann upp til Dofrafiallz, oc austr um fiall. Fór Finnr fyrst á fund Orms Iarls mágs síns. Iarlinn átti Sigrídi, dóttor Finns; hann sagdi Iarli til örenda sína.

## CAP. XLVIII.

## FRÁ FINNI OC HÁKONI IVARSSYNI.

Sídan lögdo þeir stefnolag vid Hákon Ivarsson, enn er þeir finnaz, þá ber Finnr upp örendi sín fyrir Hákoni, þau er Haralldr konungr baud hönom, fannz þat brátt í rædo Hákonar, at hönom þótti ser skyllda mikil á vera, at hefna Eindrida frænda síns; sagdi sva, at hönom varo þau ord komin or Þrándheimi,

at hönom myndi þar nógr styrkr fáz til uppreistar móti konungi. Sídan tiádi Finnr fyri Hákoni, hve mikill munr hönom var, at betra var, at taka sva mikil met-ord af konungi, sem hann kynni siálfr at beida, helldr enn hætta til þess, at reisa orrosto móti konungi þeim er hann var ádr þiónosto-bundinn vid, sagdi at hann muni fara ósigr, oc hefir þú þá fyrigiört fe oc fridi. Enn ef þú sigraz á Haralldi konungi, þá mantu heita drottins sviki. Iarlinn studdi oc þessa rædo med Finni. Enn er Hákon hugsadi þetta fyri ser, þá lauk hann þat upp er hönom var í skapi, oc mællti sva: Ec mun sættaz vid Haralld konung, ef hann vill gipta mer Ragnhilldi, dóttur Magnús konungs Olafssonar, frændkono sína, med þvílíkri heiman-fylgio sem henni samir oc henni líkar. Finnr sagdi at hann vill þesso iáta af konungs hendi. Stadfesta þeir þetta mál milli sín. Sídan fór Finnr aptr nordr til þrándheims, settiz þá nidr þessi ófridr oc agi, sva at konungr hellt þá enn ríki síno í fridi innan-lands, þviat þá var nidrdrepit sambandi því öllo er frændor Eindrida höfdo haft til mótstödo vid Haralld konung.

## CAP. XLIX.

## BÓN-ORD HÁKONAR IVARSSONAR.

Enn er sú stefna kom, er Hákon skylldi vitia þessa einka-mála, þá fór hann á fund Harallds konungs. Enn er þeir tóko tal sitt, þá segir konungr at hann vill hallda allt þat af sinni hendi, sem í sætt hafdi komit med þeim Finni. Skalltu Hákon, sagdi konungr, tala mál þetta vid Ragnhilldi, hvart hon vill samþyckia þetta rád, enn eigi er þer oc eingom ödrom þat rádanda at fá Ragnhilldar, sva at eigi se hennar samþycki til. Sídan geck Hákon á fund Ragnhilldar, oc bar upp fyrir hana bón-ord þetta. Hon sagdi sva: opt finn ec þat, at mer er al-daudr Magnús konungr fadir minn, ef ec scal giptaz bónda einom, þó at þú ser frídr madr eda vel búinn at íþróttom. Enn ef Magnús konungr lifdi, þá mundi hann eigi gipta mic minna manni enn konungi. Nú er þess eigi ván, at ec vilia giptaz ótignom manni. Sídan geck Hákon á fund Harallds konungs, oc sagdi hönom vidtal þeirra Ragnhilldar, innir þá upp einkamál þeirra Finnz, var þá oc Finnr hiá, oc fleiri menn þeir er vid höfdo verit rædo þeirra Finnz: segir Hákon sva til allra þeirra vitnis at sva var skillt, at konungr skylldi sva Ragnhilldi heimangiöra sem henni líkadi; nú vill hon eigi eiga útiginn mann, þá mego þer gefa mer tignar-nafn, he-

fir ec til þess ætt oc burdi at ec má heita Iarl, oc sva nockora luti adra, at því er menn kalla. Konungrinn svarar: Olafr konungr bródir minn oc Magnús konungr son hans, þá er þeir redo ríki, leto þeir einn Iarl vera senn í landi, hefir ec oc sva gört, sídan er ec vard konungr kalladr, vil ec eigi taka tign af Ormi Iarli, þá er ec hefi ádr gefit hönom. Sá þá Hákon sitt mál, at þat mundi eigi vidgángaz, líkadi hönom þá stór-illa. Finnr var oc allreidr. Sögdo þeir at konungr helldi eigi ord sín, oc skilduz at því.

## CAP. L.

## HÁKON FÓR TIL DANMERKR.

Hákon fer þá þegar or landi, oc hafdi láng-skip vel skipat; hann kom fram sudr í Danmörko, fór þegar á fund Sveins konungs mágs síns, tók konungr vegsamliga vid hönom, oc feck hönom þar veizlor miklar; gerdiz Hákon þar landvarnar-madr Sveins konungs fyri víkingom, er miöc heriodo í Dana-velldi, Vindor oc Kúrir, oc adrir austrvegs-menn oc víkingar; hann lá úti á her-skipom vetr sem sumar.

## CAP. LI.

## DRÁP ASMUNDAR.

Asmundr er madr nefndr, er sagt er at væri systor-

son Sveins konungs, oc fóstr-son hans. Asmundr var allra manna görviligastr, unni konungrinn hönom mikit. Enn er Asmundr dróz á legg, vard hann brátt ofstopa-madr mikill, oc hann gerdiz víga-madr. Konungi líkadi þat illa, oc let hann fara frá ser, oc feck hönom len gott, þat er hann mátti vel hallda sic oc sveit med ser. Enn þegar er Asmundr tóc vid konungs fe, dro hann lid mikit at ser, enn hönom endiz eigi þat fe til kostnadar síns, er konungr hafdi veitt hönom, þá tók hann annat miklo meira, þat er konungr átti. Enn er konungr spurdi þat, þá stefndi hann Asmundi á sinn fund. Enn er þeir hittuz, þá sagdi konungr at Asmundr skylldi vera í hird hans, oc hallda einga sveit; oc vard sva at vera sem konungr vildi. Enn er Asmundr hafdi verit litla hríd med konungi, þá undi hann eigi þar, oc hliópz á brott um nótt, oc kom aptr til sveitar sinnar, oc gördi þá enn fleira íllt enn fyrr. Enn er konungr reid yfir land, oc kom þar nærr sem Asmundr var, þá sendi hann lid til at taka Asmund med valldi. Sídan let konungr setia hann í iárn, oc hallda hann sva um ríd, oc hugdi at hann mundi spekiaz. Enn er Asmundr kom or iárnino, þá lióp hann þegar brott oc feck ser lid oc her-skip, tók hann þá at heria bædi utan-landz oc innan-landz, oc gerdi it mesta her-virki, drap mart manna oc rænti vída. Enn þeir menn, er

fyrir þessom úfridi urdo, komo til konungs, oc kærdo skada sinn fyrir honom; hann svarar: hvat segi þer mer til þess? hví fari þer eigi til Hákonar Ivarssonar, hann er landvarnar-madr minn, oc til þess settr at frida fyrir ydr bændom, enn hegna víkinga; var mer sva sagt, at Hákon væri diarfr madr oc frækn, enn nú lítz mer sem hann vili hvergi þar tilleggia, er hönom þickir mann-hætta í vera. Þessi ord konungs voro flutt til Hákonar, oc mörgom vid aukit. Sídan fór Hákon med lidi síno at leita Asmundar, vard fundr þeirra á skipom, lagdi Hákon þegar til orrosto, vard þar hörd orrosta oc mikit mannfall. Hákon geck uppá skip Asmundar, oc raud skipit: kom sva at þeir Hákon oc Asmundr skiptuz siálfir vapnom vid oc höggom; þar fell Asmundr; Hákon hió höfut af hönom. Sídan fór Hákon scyndiliga á fund Sveins konungs, oc kom til hans sva at konungrinn sat of mat-bordi. Hákon geck fyri bordit, oc lagdi höfut Asmundar á bordit fyri konunginn, oc spurdi ef hann kendi? Konungrinn svaradi eingo, oc vard dreyr-raudr á at siá. Sídan geck Hákon á brott. Litlo sídarr sendi konungr bod til hans, oc bad hann fara á brott or sinni þiónosto, seg at ec vil eigi mein giöra hönom, enn eigi má ec gæta allra frænda varra.

## CAP. LII.

### KVON-FÁNG HÁKONAR IVARSSONAR.

Sídan fór Hákon brott or Danmörk, oc nordr í Noreg til eigna sinna. Þá var andadr Ormr Iarl frændi hans. Menn urdo Hákoni fegnir miöc, frændor oc vinir, urdo þá til þess margir göfgir menn at gánga um sættir milli Haralldz konungs oc Hákonar, kom sva at þeir sættuz med því móti, at Hákon feck Ragnhilldar konungs-dóttur, enn Haralldr konungr gaf Hákoni Iarl-dóm, oc velldi slíkt sem haft hafdi Ormr Iarl. Hákon svardi Haralldi konungi trúnadar-eida til þiónosto þeirrar sem hann var skylldr til.

## CAP. LIII.

### SÆTT HARALLDS KONUNGS OC KÁLFS.

Kálfr Arnason hafdi verit í vestr-viking sídan er hann fór or Noregi, enn opt á vetrom var hann í Orkneyiom med Þórfinni Iarli mági sínom. Finnr Arnason giördi ord Kálfi bródr sínom, oc let segia hönom einka-mál þeirra Haralld konungs, at Kálfr skylldi hafa landz-vist í Noregi oc eignir sínar, oc slíkar veizlor sem hann hafdi haft af Magnúsi konungi. Enn er Kálfi kom sá ord-sending, þá bióz hann þegar til ferdar, fór austr í Noreg fyrst á fund Finns bródr síns, sídan tók Finnr Kalfi grid

af konungi, oc funnuz þeir siálfir konungr oc Kálfr, gerdo þá sætt sína, eptir því sem konungr oc Finnr höfdo fyrr bundit einka-málom med ser. Geck Kálfr þá til festo vid konung, oc allz skildaga slíks sem hann hafdi bundit fyrr vid Magnús konung, at Kálfr væri skylldr at göra þau verk öll sem Haralldr konungr villdi, oc hönom þætti sitt ríki bæta. Tók Kálfr þá upp eignir sínar allar oc veizlor, sem hann hafdi fyrr haft.

## CAP. LIV.

### FALL KÁLFS ARNASONAR.

Enn et næsta sumar eptir hafdi Haralldr konungr leidángr úti, oc fór sudr til Danmerkr, oc heriadi þar of sumarit; enn er hann kom sudr til Fións, þá var þar lid-safnadr mikill fyri þeim. Þá let konungr lid sitt gánga af skipom, oc bióz til uppgaungo; hann skipadi lidi síno, let vera fyrir sveit Kálf Arnason, oc bad þá gánga fyrsta upp, oc sagdi þeim hvert þeir skylldo stefna, enn hann qvez mundo gánga upp sídarr, oc koma þeim at lidi. Þeir Kálfr gengo upp, oc kom brátt lid móti þeim, red Kálfr þegar til orrosto, oc vard sá bardagi eigi lángr, þvíat Kálfr var brátt ofrlidi borinn, oc kom hann á flótta oc lid hans, enn Danir fylgdo þeim vel, oc fell mart af Nordmönnom: þar fell Kálfr Arnason. Haralldr konungr geck upp á land med fylking

sína, vard þat brátt á leid þeirra, at þeir sá valinn fyri ser, oc fundo brátt lík Kálfs, var þat borit ofan til skipa; enn konungr geck á land upp oc heriadi, oc drap þar mart manna. Sva segir Arnor:

Raud en ryrt vard sídan
rann elldr of siot manna
frána egg á Fióni
Fión-byggva lid tiggi.

## CAP. LV.

## FERD FINNZ ARNASONAR OR LANDI.

Eptir þetta let Finnr Arnason ser fiandscap í þickia vid konung um fall Kálfs bródr síns, kalladi hann at konungr væri rád-bani Kálfs, enn þat veri blecking ein vid Finn, er hann hafdi teigdan Kálf bródr sinn vestan um haf á valld oc trúnat Harallds konungs. Enn er þessi ræda kom á lopt, þá mællto þat margir menn, at þat þætti grun-sælikt, er Finnr hafdi trúat því, at Kálfr mundi fá trúnat Haralldz konungs; þótti þeim sem konungr væri heipt-rækr um smærri hluti, enn þá er Kálfr hafdi til saka gört vid konung. Konungr let her ræda um slíkt hvern er villdi, sannadi þat eigi, oc eigi syniadi hann; fannz þat eitt á, at konungi þótti þat vel ordit. Haralldr konungr qvad víso þessa:

Nú emk ellifo allra
eggiomz vígs oc tveggia

þau ero enn sva ec man manna
mord rád-bani vordinn.
Ginnir enn gráleik inna
golls er ferd med skolli
lytendr kveda lítit
lauki gæft til auka.

Finnr Arnason let ser sva mikit um finnaz mál þetta, at hann ferr af landi brott, oc kom fram sudr í Danmörko, fór hann á fund Sveins konungs, oc feck þar allgódar vidtekior, oc tölodo þeir laungom einmæli, oc kom þat upp at lyktom, at Finnr geck til handa Sveini konungi, oc gerdiz hans madr. Enn Sveinn konungr gaf Finni Iarldóm oc Halland til yfirsóknar, oc var hann þar lengi Iarl, til landvarnar fyri Nordmönnom.

## CAP. LVI.

## FRÁ GUTHORMI GUNNHILLDARSYNI.

Guthormr het sonr Ketils Kálfs oc Gunnhilldar á Ríngo-nesi, systr-son Olafs konungs oc Haralldz konungs. Guthormr var madr görviligr oc snemma roskinn-mannligr; var hann optliga med Haralldi konungi, oc þar í miklom kærleikum oc rádagiördom med konungi, þviat Guthormr var vitr madr, hann var oc hinn vinsælasti madr. Guthormr var optliga í hernadi, oc heriadi miök í vestrlönd;

hann

hann hafdi lid mikit. Frid-land hafdi hann oc vetr-seto í Dyflinni á Irlandi, oc var þar í kærleikom miklom med Margadi konungi.

## CAP. LVII.

## VIDSKIPTI GUTHORMS OC MARGADS IRAKONUNGS.

Um sumarit eptir fór Margadr konungr oc Guthormr vid hönom, oc heriodo á Brettland, oc fengo þar ógrynni fiár. Sídan lögdo þeir í Aungulseyar-sund, þar skylldo þeir skipta her-fángi síno. Enn er framm var borit þat mikla silfr, oc konungr sá þat, þá vildi hann einn saman hafa feit allt, oc virdi þá lítils vingan sína vid Guthorm. Guthormi líkadi þat illa, ef hann skylldi vera lut-ræningr oc hans menn. Konungr sagdi, at hann skylldi eiga II kosti fyri höndom, sá annar at una því sem ver viliom vera láta, hinn er annarr at hallda vid mic bardaga, oc hafi þá sá fe, er sigr hefir, oc þat med, at þú skallt gánga af skipom þínom, skal ec þau hafa. Guthormi syndiz vandi mikill á bádar hendur, þóttiz eigi mega láta sæmiliga skip sín oc fiármuni, fyrir önga tilgörninga; þat var oc allháskasamligt at beriaz vid konung oc þat mikla lid er hönom fylgdi, enn lids þeirra var sva mikill munr,

at konungr hafdi XVI láng-skip enn Guthormr V. Þá bad Guthormr konung liá ser III nátta frest um þetta mál, til umráda vid menn sína, hugdiz þá mundo mykia konung mega nockot á þeirri stundo, oc koma sva síno máli í betri vingan vid konung, med fortölom sinna manna, enn þat feckz eigi af konungi, sem hann mællti til. Þá var Olafs vauko aptan. Nú kaus Guthormr helldr þann kost, at deyia med drengskap eda vega sigr, helldr enn hitt at þola skaum oc svívirdo oc klækis-ord af sva mikilli misso. Þá kalladi hann á Gud oc hinn helga Olaf konung frænda sinn, bad þá fulltíngis oc hiálpar, oc het til þess helga mans húss at gefa tíund af öllo því her-fángi er þeir lyti, ef þeir fengi sigr. Sídan skipadi hann lidi síno, oc fylkdi í móti þeim mykla her, oc red til orrosto, oc bardiz vid þá. Enn med fulltíngi Guds oc hins helga Olafs konungs, feck Guthormr sigr. Þar fell Margadr konungr, oc hverr madr er hönom fylgdi, úngr oc gamall; oc eptir þann háleita sigr vendir Guthormr heim gladr med öllom þeim fiárlut, er þeir höfdo fengit í orrostonni. Þá var aftekit silfrino því er þeir höfdo fengit, hinn tíundi hver peningr, sva sem heitit hafdi verit hinom helga Olafi konungi, oc var þat sva mikit fe, at af því silfri let Guthormr ródo göra eptir vexti sínom, eda stafn-búa síns, oc er þat líkneski VII fóta hátt. Guthormr

gaf ródo þá svá búna til stadarins hins helga Olafs konungs, hefir hon þar verit sídan til sigr-minningar Guthorms, oc iartegna hins helga Olafs konungs.

## CAP. LVIII.

### IARTEGNIR OLAFS KONUNGS Í DANMÖRK.

Greifi einn var í Danmörk illr oc öfund-fullr, hann átti ambátt eina Norræna æzkada or Þrænda-laugom, hon dyrkadi hinn helga Olaf konung, oc trúdi fastliga hans heilagleik. Enn sá Greifi, er ádan gat ec, tortrygdi allt þat er honom var frásagt þess helga mans iartegnom, qvad eigi vera nema qvitt oc pata einn, giördi ser at gabbi oc gamni lof oc dyrd þá er lands-fólk allt veitti þeim góda konungi. Enn nú kom at þeim hátídar-degi er sa milldi konungr let líf sitt á, oc allir Nordmenn helldo, þá villdi sá hinn úvitri Greifi eigi heilagt hallda, oc baud hann ambátt sinni at hon skylldi baka oc ellda ofn á þeim degi. Vita þóttiz hon ædi þessa Greifa, at hann mundi henni sárliga hefna, ef hon leti eigi at því sem hann baud; gengr hon til naudig oc bakadi ofninn, oc kveinadi miöc, medan hon starfadi, oc heitadiz vid Olaf konung, oc qvadz alldregi mundi á hann trúa, nema hann hefndi med nockorri bendingo þessi ódæmi. Nú mego þer her heyra makligar refsingar oc sannligar iartegnir. Allt

var þat iafn-skiótt oc á einni stundo, at Greifi sá vard blindr bádom augom, oç braud þat vard at grióti er hon hafdi í ofninn skotit. Komit er af því grióti til stadar hins helga Olafs konungs, oc vída annarstadar. Sídan hefir Olafs-messa halldin verit ávallt í Danmörk.

## CAP. LIX.

### IARTEGNIR OLÁFS KONUNGS VID KRYPLING.

Vestr á Vallandi var einn madr vanheill, sva at hann var kryplingr, geck á kniám oc á knúm; hann var staddr um dag úti á veg, oc var þar sofnadr; þar dreymdi hann at madr kom til hans göfugligr, oc spurdi hvert hann gerdiz? enn hann nefndi til einhvern bæ, enn hinn göfgi madr mællti vid hann: Far þú til Olafs-kyrkio þeirrar er í Lundunom stendr, oc muntu þá heill verda. Sídan vaknadi hann oc fór þegar á leit Olafs-kyrkio, enn um sídir kom hann til Lunduna bryggio, oc spurdi þar borgar-menn, ef þeir kynni segia hönom hvar Olafs-kyrkia væri? enn þeir svörudo, oc kvado miklo fleiri kyrkior vera þar, helldr enn þeir vissi hveriom manni hver þeirra væri helgad. Enn litlo sídar geck þar madr at hönom, oc spurdi hvert hann gerdiz? hann svarar hönom oc sagdi, at hann vill fara til Olafs-kyrkio, enn sá mællti sídan: vit sku-

lom fara bádir saman til Olafs-kyrkio, oc kann ec leid þángat. Sídan fóro þeir yfir bryggiona, oc fóro þat stræti er til Olafs-kyrkio lá: enn er þeir komo til kyrkiogards-hlidsins, þá ste sá yfir þreskolld þann er í hlidino var, enn kryplingrinn velltiz þar inn yfir, oc reis þegar heill upp. Enn þá er hann sáz um, þá var horfinn förunautr hans.

## CAP. LX.

## HERNADR HARALLDS KONUNGS Í DANMÖRK.

Haralldr konungr let reisa kaupstad austr í Oslo, oc sat hann þar opt, þvíat þar var gott til atflutningar, landzmegin mikit umhverfis; sat hann þar vel til landz-gæzlo fyri Dönom, sva oc til áhlaupa í Danmörk, hann var opt því vanr þó at hann hefdi eigi mikinn her uti. Þat var á eino sumri, at Haralldr konungr fór med nockorom letti-skipom, oc hafdi eigi mikit lid; hann hellt sudr í Víkina, enn er byr gaf sigldi hann yfir undir Iotland oc heriadi, enn landz-menn söfnudoz saman, oc vördo land sitt. Þá hellt Haralldr konungr til Lima-fiardar, oc lagdi inn í fiördinn. Sva er hàttat Lima-firdi, at þat er inn at fara sva sem allmiór ár-ós, enn er inn kemr eptir firdinom, þá er þar sem mikit haf. Haralldr konungr heriar þá á bædi lönd, enn Danir höfdo safnad hvervetna fyrir. Þá lagdi

Haralldr konungr skip sín at ey nockorri, þat var lítit land oc óbygt. Þeir höfdo dryck-fátt á skiponom, þeir gengo uppá eyna at leita vatns, enn er þeir leitudo þá fundo þeir eigi vatn, oc sögdo til konungi; hann let leita ef lyngormr nockorr fyndiz í eyonni. Enn er hann fanz, þá færa þeir hann konungi; hann let færa orminn til elldz, oc baka hann oc mæda, at hann skylldi þyrsta sem mest. Sídan var þrádr bundinn um spordinn, oc ormrinn laus látinn, hrökdiz hann þá í brott, enn þrádrinn rakdiz af tvinna-hnodano, gengo menn eptir orminom þar til er hann steypdiz nidr í iördina. Konungr bad þar grafa til vatns, oc sva var gört, fundo þeir þar vatn sva at eigi skorti. Haralldr konungr spurdi þau tídindi af niósnarmönnom sínom, at Sveinn konungr var kominn med skipa-her mikinn fyrir fiardar-munnit; vard hönom seint inn at fara, er eitt mátti senn fara skipit. Haralldr konungr hellt þá sínom skipom inn í fiördinn, oc þar er hann var breidastr, er heitir Lúsbreid; enn þar or víkinni innanverdri er eid miótt vestr til hafsins, þannog röro þeir Haralldr konungr um kvelldit, enn um nóttina er myrkt var ordit, ruddo þeir skipin oc drógo um eidit, oc höfdo þat syslat allt fyri dag, oc búit skipin annat sinni. Þeir helldo þá nordr fyrir Iotlandz sído, þá mællto þeir:

Skrapp or höndom Haralldr Dönom.

þá sagdi konungr; at hann skal sva koma næsta sinn til Danmerkr, at hann skal meira lid hafa oc stærri skip. Fór Haralldr konungr þá nordr í þrándheim.

## CAP. LXI.

### SKIP-GERD HARALLDS KONUNGS.

Haralldr konungr sat eptir um vetrinn í Nidarósi, hann let reisa skip um vetrinn út á Eyrom, þat var Bússu-skip. Skip þat var gert eptir vexti Orms hins Lánga, oc vandat at öllo sem mest; var dreka-höfot á frammi, enn aptr krókr, oc voro svírar allir gulli búnir. þat var hálf-fertogt at rúma-tali, oc mikit at því, oc var hit frídasta: let konungr vanda allan búnat til skipsins, bædi segl oc reipa-reida, ackeri oc strengi.

## CAP. LXII.

### UTBOD HARALLDS KONUNGS.

Haralldr konungr gördi bod um vetrinn sudr til Danmarkar Sveini konungi, at hann skylldi eptir um várit koma sunnan til Elfar til mótz vid sic oc beriaz, sva at þeir skipti þá löndonom, oc hefdi annarrhvarr bædi konungs-ríkin. þann vetr baud Haralldr konungr út leidángr almenning af Noregi; enn er váradi dróz herr mikill saman. þá let Har-

alldr konungr setia út skip þat it mikla á ána Nid; sídan let hann uppsetia dreka-höfudin. Þá qvad Þiódolfr skálld:

Skeid sá ec fram at flódi
fagrt sprund í á hrundit
kendo hvar liggr fyri landi
löng súd drekans prúda.
Orms glóa faux und farmi
frán sízt ytt var hánom
báro búnir svírar
brunnit gull af hlunni.

Sídan let Haralldr konungr búa skip þat oc ferd sína. Enn er hann var búinn hellt hann út or ánni drekanom, þá var vandadr ródr miöc. Sva segir Þiódolfr:

Slyngr laugardag laungo
lid-balldr af ser tialldi
út þar er eckior líta
Orms súd or bæ prúdar.
Vestr red or Nid næsta
nyri skeid at styra
úngr er árar drengia
allvalldr í siá falla.

Rett hann rödi slíta
ræsis herr or verri
eckian stendr oc undraz
ára-burd sem furdo.
Ort man snot ádr snerto
sæfáng í tvo gángi

þaull leggr vid frid fullan
fer-kleyf á þat leyfi.

Sorgar veit ádr slitia
sæföng or mar ströngom
þar herr helldr til varra
hár siötigom ára.
Nordmedr róa nadri
negldom straum inn helgda
út er sem innan liti
arnar væng af iarni.

Haralldr konungr hellt herinom sudr med landi, oc hafdi úti almenning at skipom oc lidi. Enn er þeir sækia austr í Víkina, fengo þeir andvidri stor, oc lá herrinn vída í höfnom, bædi vid úteyar oc inn í fiördom. Sva segir þiódolfr:

Eigut skiól und skógi
skafnir sneckio stafnar
læsir leidángrs vísi
lönd her-skipa bröndom.
Almenningr liggr innan
eid, láta ser skeidar
hábryniadar hlyia
hveria vík í skeriom.

Enn í stór-vedrom þeim er álögdoz, þá þyrfti it mikla skipit gódra grunn-föra. Sva segir þiódolfr:

Hless-eyar lemr háfan
hlym-gard konungr bardi
neytir þá til þrautar
þengill sneckio strengia.

Eigi er iárni biúgo
indæll skadi lindiss
gnegr af gaddi digrom
griót oc vedr in lióto.

Enn er byr gaf, hellt Haralldr konungr herinom austr til Elfar, oc kom þar at kvelldi dags. Sva segir Þiódolfr:

Haralldr þeysti nú hraustla
helfing sinn at elfi
náttar Noregs drottinn
nær at landa-mæri.
Gramr á þíng vid þumla
þar er eindagadr Sveini
hrafni skylldr nema halldi.
hans fundr Danir undan.

## CAP. LXIII.

### FRÁ HER HARALLDS KONUNGS.

Enn er Danir spyria, at Nordmanna herr var kominn í Elfina, þá flyia allir þeir, er því komo vid. Nordmenn spyria, at Dana-konungr hefir oc her úti, oc liggr hann sudr vid Fión oc of Siáland. Enn er Haralldr konungr spurdi, at Sveinn konungr villdi eigi hallda stefno-lag vid hann eda orrosto sem mællt var, þá tók hann þat rád enn sem fyrr, let aptr fara bónda-lidit, enn skipadi hálft annat hundrat skipa, hellt hann sídan lidi

því sudr fyrir Halland, oc heriadi vída; hann lagdi herinom inn í Lófo-fiörd, oc heriadi þar á land upp. Litlo sídar kom þar at þeim Sveinn konungr med Dana-her, hann hafdi CCC skipa. Enn er Nordmenn sá herinn, þá let Haralldr konungr blása saman öllom herinom, mællto þat margir at þeir skylldo flyia, oc sögdo at ófært væri at beriaz. Konungrinn svarar sva: fyrr skal hverr varr falla um þveran annan, enn flyia. Sva segir Steinn Herdísarson:

Sagdi hitt er hugdi
hauklyndr vera myndo
þar qvad þengill eirar
þrotna ván fyrir hánom.
Helldr qvad hvern varn skylldo
hilmir frægr enn vægia
menn bröto upp of annan
aull vapn þverau falla.

Sídan lagdi Haralldr konungr skipa-her sínom til framlögo, lagdi hann fram dreka sinn inn mikla í midio lidi. Sva segir Þiódolfr:

Let vingiafa veitir
varg-hollr dreka skolla
lystr fyri leidángurs briósti
lids oddr var þat midio.

Þat skip var allvel skipat oc fiölment á. Sva segir Þiódolfr:

Fast bad fylking hrausta
ferd-vandr iöfr standa
hamallt syndiz mer hömlor
hilldings vinir skillda.
Ramsyndan lauk raundom
rádandi mann-dáda
nytr fyr Nizi utan
nadr sva at hver tók adra.

Úlfr stallari lagdi sitt skip á annat bord konungs-skipino; hann mællti vid sína menn, at þeir skylldo vel framleggia skipit. Steinn Herdísarson var þá á skipi Ulfs; hann qvad:

Het á oss þá er úti
Úlfr hákesiur skulfo
ródr var greiddr á grædi
grams stallari alla.
Vel bad skip med skylia
skel eggiadr fram leggia
sitt en seggir iátto
sniallz landreka spialli.

Hákon Ivarsson lá ytztr í arminn annan, oc fylgdo hönom mörg skip, oc var þat lid allvel búit; enn ytzt í annan arminn lágo þrænda-höfdingiar, var þat oc mikill herr oc frídr.

## CAP. LXIV.

### FRÁ HER SVEINS KONUNGS.

Sveinn Dana-konungr skipadi oc sínom her, lagdi hann sitt skip fram í móti skipi Haralldz konungs,

í midio lidi, enn næst hönom lagdi fram Finnr Iarl Arnason sitt skip, skipudo Danir þar næst öllo því lidi, er fræknast var oc bezt búit. Sídan tengdo hvarirtveggio sín skip saman allt um midian flotann. Enn fyri því at sva var mikill herinn, þá var þat allr fiölldi skipanna, er laus fór, oc lagdi þá hverr sá fram sitt skip sem skap bar til, enn þat var allmisiafnt. Enn þó at lidsmunr væri allmikill, þá höfdo hvarirtveggia óvígian her. Sveinn konungr hafdi í lidi med ser VI Iarla. Sva segir Steinn Herdísarson:

Hætti hersa drottinn
bugstrángr skipa lángra
hinn er vid hálft beid annat
hundrat Dana fundar.
Næst var þat er red rista
ræidr at sæti Hleidrar
þángs lád mörom þíngat
þrimr hundrödom sunda.

## CAP. LXV.

## UPPHAF NIZÁR ORROSTO.

Haralldr konungr let blása her-blástr þegar er hann hafdi búin skip sín, oc let þá greida atródrinn sína menn. Sva segir Steinn Herdísarson:

Vann fyri módo mynni
meinfært Haralldr Sveini

vard þvíat vísi gerdit
vidrnám fridar bidia.
Herdo hiörvi gyrdir
Halland iöfurs spiallar
heit bles und fyr utan
atródr á laug blódi.

Sídan tókz orrosta, oc vard hin snarpasta, eggiadi hvartveggi konunga lid sitt. Sva segir Steinn Herdísarson.

Nytr bad Skiölldungr skióta
skamt var lids á midli
hlífar styggr oc höggva
hvarttveggi lid seggia.
Bædi fló þá er blódi
brandr hraud af ser raudo
þat brá feigra flotna
fiörvi griót oc aurvar.

Þat var sídarla dags er orrosta seig saman, oc hellz sva alla nóttina. Haralldr konungr skaut af boga lánga ríd. Sva segir Þiódolfr:

Álm dró Upplendzkr hilmir
alla nótt hinn snialli
hremsor let á hvítar
hlífar landreki drífa.
Búand mönnom smo brynior
blódogr oddr þars stódo
flugr óx fafnis vigra
Finna giölld í skiölldom.

Hákon Iarl oc þat lid er hönom fylgdi, tengdi eigi

sín skip, oc röri at Dana skipom þeim er laus foro, enn hvert skip er hann tengdiz vid, þá hraud hann. Enn er þat fundo Danir, þá dró hverr þeirra frá sitt skip, þar er Iarl fór, sótti hann eptir Danom, sva sem þeir hömlodo undan, oc var þeim þá atkomit flótta. Þá röri skúta at skipi Iarls, oc var kallat á hann oc sagt, at fyri leti annar fylkingar armrinn Harallds konungs, oc þar var fallit mart lid þeirra. Sídan röri Iarl þángat til, oc veitti þar harda atlögo, sva at Danir leto þá enn undan síga; fór Iarl sva alla nóttina, lagdi þar fram er mest þörf var á, enn hvar sem hann kom til þá hellz eigi vid hönom. Hákon röri it ytra um bardagann. Hinn efra lut nætr braz megin flóttinn á Dönom, þvíat þá hafdi Haralldr konungr upp gengit med sína sveit á skip Sveins konungs, var þat sva vendiliga hrodit, at allir menn fello á skipino, nema þeir er á kaf hliópo. Sva segir Arnorr Iarlaskálld:

Geckat Sveinn af sneckio
sak-laust hinn forrausti
málmr kom hardr vid hiálma
hugi minn er þat sinni.
Fars-kostr laut at flióta
fliót mætz vinar Ióta
ádr en ödlingr flydi
audr verdung daudri.

Enn er merki Sveins konungs var fallit, oc hrodit

skip hans, þá flydo allir hans menn, enn sumir fello. Enn skip þau er tengd voro saman, mátti eigi leysa, oc liópo men á kaf af þeim, enn sumir komoz á aunnur skip þau er laus voro; enn allir menn Sveins konungs röro þá undan þeir er því komo vid; þar vard allmikit mannfall. Enn þar er konungarnir siálfir höfdo bariz, oc tengd voro flest skipin, þar lágo eptir aud skip Sveins konungs meirr enn VII tigir. Sva segir Þiódolfr:

Sogns qvado gram gegnan
glæst siötigir et fæsta
senn á svipstund einni
Sveins þiódar skipp hrióda.

Haralldr konungr röri eptir Daunom oc rak þá, enn þat var eigi hægt, þvíat skipa flotinn var sva þröngr fyri, at varla mátti framkoma. Finnr Iarl villdi eigi flyia, oc vard hann hand-tekinn; hann var oc lítt syndr. Sva segir Þiódolfr:

Sveinn át sigr at launa
sex þeim er hvöt vexa
innan eina gunni
aurleiks Dana Iörlom.
Vard sá er vildit forda
víg-biartr snöro hiarta
í fylkingo fánginn
Finr Arnason midri.

CAP.

## CAP. LXVI.

### FLÓTTI SVEINS KONUNGS.

Hákon Iarl lá eptir med skip sín, er konungr oc annat lidit rak flóttann, þvíat Iarls skipit mátti eigi þar fram koma fyri skipom þeim er fyri lágo. Þá röri einn madr á báti at skipi Iarls, oc lagdi at lyptingonni, sá var mikill madr, oc hafdi vídan hött. Sá kalladi upp á skipit: hvar er Iarl? sagdi hann; hann var í fyrir-rúmino, oc stödvadi blód manni einom. Iarl sá til hattar-mannzins, oc spyr hann at nafni; hann svaradi: Vandrádr er her, mæl þú vid mik, Iarl. Iarlinn laut út yfir bordit til hans; þá mællti bát-madrinn til hans: þiggia man ec líf at þer Iarl, ef þú vill veita. Iarl rettiz upp, oc nefndi til II menn sína, þá er hönom voro bádir kærir, sagdi sva: stigit á bátinn, oc flytit Vandrád til landz, fylgit hönom til Karls bónda, vinar míns, oc segit hönom þat til iartegna, at hann fái Vandrádi hest, þann er ec gaf Karli inn fyrra dag, oc södol sinn, oc son sinn til fylgdar. Sídan stigo þeir á bátinn, oc taka til ára, enn Vandrádr styrdi. Þetta var í öndverda lysingina; var þá oc mestr skipa-gángrinn, röro sumir til landzins, sumir út til hafsins, bædi smám skipom oc stórom. Vandrádr styrdi þar er hönom þótti rymst milli

skipanna. Enn þar sem Nordmanna skip röro nærr þeim, þá sögdo Iarls menn til sín, oc leto allir þá fara hvert er þeir villdo. Vandrádr styrdi fram med ströndinni, oc lagdi eigi at landi fyrr enn þeir komo umfram þar sem skipa fiölldinn var. Sídan gengo þeir upp til bæiar Karls, oc tók þá at lysa; þeir gengo inn í stofo, var Karl þar, oc ny-klæddr. Iarls menn sögdo hönom sitt erindi; Karl mællti at þeir skulo snæda fyrst, oc let setia þeim bord, oc feck þeim laugar. Þá kom húsfreyia í stofo, oc mællti þegar: Undr mikit er þetta, er vid fám alldregi svefn eda ró í nótt fyrir ópi oc glammi. Karl sagdi: Veitz þú eigi þat, at konungar hafa bariz í nótt? Hon spurdi: hvarir hafa betr haft? Karl sagdi: Nordmenn hafa sigraz; hon mællti: flyit man enn hafa konungr várr, segir hon. Karl sagdi: Eigi vita menn þat, hvert hann er fallinn, eda flyinn. Hon mællti: Vesöl eru ver konungs, hann er bædi halltr oc ragr. Þá mællti Vandrádr: Eigi man konungr ragr, en eigi er hann sigrsæll. Vandrádr tók sídan laugarnar, enn er hann tók dúkinn, þá strauk hann ser kurteisliga á midiom. Húsfreya tók dúkinn, oc kipti frá hönom, mællti: fátt gott kantu þer, þat er þorparaligt at væta allan dúkinn senn. Vandrádr svarar: þar kem ec þá enn, at ec þerri mer meir á midri þerro. Sídan tók Karl upp bord fyri þá, oc settiz

Vandrádr í midio. Snæddo þeir um ríd, enn sídan gengo þeir út, var þá hestr búinn, oc sonr Karls at fylgia hönom, oc hafdi hann annan hest; rída þeir brott til skógar, enn Iarls menn gengo til bátz síns, oc róa út til skips Iarls, oc segia sína ferd.

## CAP. LXVII.

## FRÁ HARALLDI KONUNGI.

Haralldr konungr oc hans lid ráko skamt flóttann, röri sídan aptr, til þar sem skipin lágo þau hin audo, var þá rannsakadr valrinn, fannz á konungs skipino fiölldi daudra manna, enn eigi fannz lík Sveins konungs, enn menn þóttuz þó vita at hann var fallinn. Let þá Haralldr konungr veita umbúnat líkom manna sína, enn binda sár hinna er þess þyrfto. Sídan let hann flytia til landz lík Sveins manna, oc sendi bod bændom, at þeir skylldo iarda líkin. Sídan let hann skipta herfángi, hann dvalldiz þar nockora ríd. Þá spurdi hann þau tídindi, at Sveinn konungr var kominn til Siálandz, oc var þá kominn til hans her sá allr er flyit hafdi or orrosto, oc mikit annat, oc hafdi hann þá óvígian her fengit.

## CAP. LXVIII.

## GEFIN GRID FINNI ARNASYNI.

Finnr Iarl Arnason vard handtekinn í orrosto, sva

sem fyrr var ritat; hann var leiddr til konungs. Haralldr konungr var þá allkátr, oc mællti: her fundomz vid nú, Finnr, enn næst í Noregi, hefir hirdin sú en Danska eigi stadit allfast fyrir þer, oc hafa Nordmenn illt at-verki, er draga þic eptir ser blindan oc gamlan, oc vinna þat til lífs þer. Þá svarar Iárlinn: mart verda Nordmenn nú íllt at vinna, oc þat þó verst allt, er þú bydr. Þá mællti Haralldr konungr: villtu nú grid, þótt þú sert ómakligr? Iarlinn svarar: eigi af hundinom þínom. Konungr mællti: villtu þá at Magnús frændi þinn gefi þer grid? Magnús son Haralldz konungs styrdi þá skipi. Þá svarar Iarlinn: hvat mun hvelpr sá ráda gridom? Þá hló konungrinn, oc þótti gaman at erta hann, oc mællti: Villdo taka grid af Þóro frænd-kono þinni? Þá sagdi Iarlinn: er hon her? Her er hon, sagdi konungrinn. Þá mællti Finnr Iarl ordskræmi þat, er sídan er uppi haft hverso reidr hann var, er hann feck eigi stillt ordom sínom: Eigi er kynligt, at þú hafir nú vel bitiz, er merrin hefir fylgt þer. Finni Iarli voro fengin grid, oc hafdi Haralldr konungr hann med sèr um ríd; var Finnr helldr ókátr oc ómiúkr í ordom. Þá mællti Haralldr konungr: Se ec þat Finnr, at þú villt nú eigi þydaz vid mic eda frændor þína, vil ec nú gefa þer orlof at fara til Sveins konungs mágs þíns. Iarl sagdi: þat vil ec þiggia, oc því

þacksamligarr er ec kem fyrr í brott hedan. Sídan let konungr flytia Finn Iarl þar á land upp, tóko Hallandzfarar vel vid hönom. Haralldr konungr hellt þá lidi síno nordr í Noreg, fór fyrst inn til Oslo, oc gaf þá heimleyfi öllo lidi síno, því er fara villdi.

## CAP. LXIX.

## FRÁ SVEINI KONUNGI.

Sva segia menn, at Sveinn konungr sat í Danmörk þann vetr, oc hellt enn ríki síno sem ádr. Hann sendi menn of vetrinn nordr á Halland eptir Karli bónda oc þeim hiónom. Enn er hann kom til konungs, þá kallar hann Karl fyri sic; sídan spyrr konungr, ef Karl kendi hann, eda þættiz sed hafa fyrr? Karl svarar: kenni ec ydr konungr, oc kenda þic fyrr þegar ec sá, oc er þat Gudi at þacka, er þer kom til gagns sá enn litli forbeini er ec veitta þer. Konungrinn svarar: alla þá daga sídan er ec lifi, á ec þer þat at launa. Nú skal þat it fyrsta, at ec gef þer bú þat á Siálandi, er þú kyss þer, oc þat med at ec skal göra þic mikinn mann, ef þú kant þat med höndom hafa. Karl þackadi konungi vel ord sín, oc sagdi at enn var eptir bæn sú er hann villdi bidia. Konungr spyrr hver sú væri? Karl sagdi, at hann vill þess bidia, at konungr láti hann hafa vid ser kono sína. Konungr svarar: þat mun

ec þer eigi veita, þvíat ec scal fá þer miklo betri kono oc vitrari; enn kona þín fari med búkot þat er þit hafit ádr haft, þat mun henni framflutning. Konungr gaf Karli mikit bú oc göfugligt, oc feck hönom gott kvan-fáng, oc vard hann þá mikill madr firi ser. Þetta vard frægt oc spurdiz vída; þat kom nordr híngat í Noreg.

## CAP. LXX.

### FRÁ RÆDO HIRDMANNA.

Haralldr konungr sat þann vetr eptir Nizar-orrosto í Oslo. Um haustit er lidit kom sunnan, þá var mikil umræda oc frásögn um orrosto þá, er verit hafdi um haustit firi Nizse, þóttiz hver sá er þar hafdi verit, nockot kunna frásegia. Þat var eitt sinn, at menn nockorir sáto í undir-skemmo nockorri, oc drucko, oc voro allkátir oc allmálgir; þeir ræddo um Nizar-orrosto, oc þat med hverir þadan hefdi borit bestan ordstír eda mestan; þeir urdo allir á eitt sáttir, at engi madr hefdi þar slíkr verit sem Hákon Iarl: hann var vapn-diarfaztr, oc hann var kænstr, oc hann var gæfo-mestr, oc þat vard allt at mesto lidi, er hann giördi, oc hann vá sigrinn. Haralldr konungr var þar úti í gardinom, oc taladi vid menn nockora. Sídan geck hann fyri skemmo-dyrnar oc mællti: Hákon mundi her nú hver heita vilia, oc geck sídan leid sína.

## CAP. LXXI.

### ATFERD AT HÁKONI IARLI.

Hákon Iarl fór um haustit til Upplanda, oc var þar um vetrinn í ríki síno; hann var allvinsæll vid Upplendinga. Þat var um várit er áleid, eitt sinn er menn sáto vid dryckio, at rætt var enn um Nizar-orrosto, oc lofodo menn miöc Hákon Iarl, enn sumir tóko eigi midr adra til. Enn er þeir höfdo þetta rætt um ríd, þá svarar einhver madr: vera kann, at fleiri menn hafa diarfliga bardiz fyri Nizi en Hákon Iarl; enn þó mun sá eingi þar verit hafa, at ec hygg slíct happ muni hafa sótt, sem hann. Þeir sögdo þat mundi mest happ hans, er hann hafdi rekit á flótta sva marga af Danom. Sá hinn sami svarar: meira happ var hitt þat, er hann gaf líf Sveini konungi. Einnhverr svarar hönom: þetta mantu eigi vita, er þú segir; hann svarar: þetta veit ec allgiörla, þvíat sá sagdi mer siálfr, er konunginn flutti til landz. Enn þá var sem opt er mællt, at mörg ero konungs eyro; var konungi þetta sagt, oc iamn-skiótt let konungr taka marga hesta, oc reid þegar um nóttina med CC manna, reid hann alla þá nótt, oc eptir um daginn. Þá rido móti þeim menn þeir er fóro til bæiar med miöd oc mallt. Madr het Gamall, er í för var med konungi, hann reid at bóndanom einom, sá

var kunningi hans; þeir tölodo einmæli. Gamall sagdi: Ec vil kaupa at þer, at þú rídir sem ákafligast laun-stigi þá er þú veitz skemsta, oc kom til Hákonar Iarls oc seg hönom, att konungr vill drepa hann, þvíat konungr veit nú at Hákon hefir skotit Sveini konungi á land firi Nizi. Þeir kaupa þesso saman; reid sá bóndi, oc kom til Iarls, sat hann þá oc drack, oc var eigi sofa genginn. Enn er bóndinn hafdi sagt sit erindi, stód Iarl þá þegar upp oc allir hans menn: let Iarl flytia á brott lausafe sitt allt af bænom til skógar, fóro oc brott af bænom menn allir um nóttina. Þá er konungr kom, dvalldiz hann þar um nóttina, enn Hákon Iarl reid leid sína, oc kom fram austr í Svía-velldi til Steinkels konungs, oc dvaldiz med hönom um sumarit. Haralldr konungr sneri sídan aptr út til byiar, fór konungr nordr til Þrándheims, oc dvaldiz þar um sumarit, en fór aptr um haustit austr í Vík.

## CAP. LXXII.

## FRÁ HÁKONI IARLI.

Hákon Iarl fór þegar um sumarit aptr til Upplanda, þegar er hann spurdi at konungr var nordr farinn, dvaldiz þar til þess er konungr kom nordan. Sídan fór Iarl austr í Vermaland, oc dvaldiz þar leingi um vetrinn, veitti Steinkell konungr Iarli

þar yfirsókn; hann fór um vetrinn er áleid vestr á Raumaríki, oc hafdi hann lid mikit, er Gautar oc Vermir höfdo fengit hönom; þá tók hann landskylldir sínar oc skatta af Upplendingom, þá er hann átti. Sídan fór hann austr aptr til Gautlandz, oc dvaldiz þar um vorit. Haralldr konungr sat um vetrinn í Oslo, oc gerdi menn sína til Upplanda, at heimta þar skatta af oc landskylldir konungs oc sakeyri. Enn Upplendingar sögdo sva at þeir mundi greida allar skylldir þær er þeir átto at greida, oc fá í hendur Hákoni Iarli medan hann var á lífi, oc hann hafdi eigi fyrirgört ser edr ríki síno; oc feck konungr þadan eingar landskylldir á þeim vetri.

## CAP. LXXIII.

## SÆTT HARALLDS KONUNGS OC SVEINS KONUNGS.

Þann vetr fóro bod oc sendi-menn milli Noregs oc Danmerkor, oc var þat í bundit, at hvarirtveggio Nordmenn oc Danir villdo göra frid milli sín oc sætt, oc bádo konunga til þess. Oc fóro þær ordsendingar helldr líkliga til sætta, oc kom sva at lycdom, at sættar-fundr var stefndr í Elfi milli Harallds konungs oc Sveins konungs. Enn er várar, safnar hvartveggi konunganna lidi miklo oc skipom til þessar ferdar, oc segir skálldit í einom

flocki frá ferd þeirra konunganna, oc hefr hann þar upp:

Nordr lykr gramr sá er gerdir
grund frá Eyrar-sundi
hrafn gælir sparn hæli
höfn láng-skipa stöfnom.
Rista gulli glæstir
giálfr en súdir skiálfa
hvast und her fyri vestan
Hallandi fram brandar.

Gerdir opt firi iördo
eid-fastr Haralldr skeidom
Sveinn sker oc til annars
ey sund konungs fundar.
Ut hefira lid lítit
lof-sniallr Dana allra
hinn er hvern vag sunnan
hrafn grænnir lykr stafnom.

Her segir þat, at konungar þessir hallda stefno-lag þat er gert var milli þeirra, oc koma þeir bádir til landa-mæris. Sva segir Halli Strídi:

Systot sudr þar er æsto
sniallr gramr Danir allir
enn serr eigi minni
efni mælltrar stefno.
Sveinn tekr nordr at nenna
nær til landa-mæris
Vard fyri vídri iördo
vindsamt Haralld finna.

Enn er konungar funduz, þá tóko menn at ræda um sættir konunganna. Enn þegar er þat var í munni haft, þá kærdo margir skada sinn, er fengit höfdo af hernadi, rán oc manna-lát, oc var þat lánga ríd er ólíkligt þótti um sættir. Sva sem her segir:

**Telia hátt er hittaz**
**hvarstveggia miöc seggir**
**ord þau er ángra firda**
**all mörg búendor sniallir.**
**Láta þeir er þræta**
**þegnar allt í gegnom**
**svellr ofr-hugi iöfrom**
**eigi brátt vid sáttom.**

**Of-reidi vard iöfra**
**allhætt ef skal sættaz**
**menn þeir er midla kunno**
**mál aull vega í skálom.**
**Dugir siklingom segia**
**slíkt allt er her líkar**
**velldr ef verr skulo haulldar**
**vili girndar því skiliaz.**

Sídan átto hlut i enir besto menn, oc þeir er vitrastir voro, geck þá saman sætt konunga med þeim hætti, at Haralldr skylldi hafa Noreg, enn Sveinn Danmörk, til þess landa-mæris sem at forno hafdi verit millum Danmerkr oc Noregs; skylldo hvarigir ödrom bæta; skylldi þar hernadr leg-

giaz, sem hafiz hafdi, enn sá hafa happ er hlótit hafdi. Sá fridr skylldi standa, medan þeir væri konungar. Sú sætt var eidom bundin. Sídan skilduz konungar, oc selduz gisla, sva sem her segir:

Hitt hefi ec heyrt at setti
Haralldr oc Sveinn vid meinom
Gud syslir þat gisla
gladr hvartveggi adrom.
þeir halldi sva særom
sátt laukz þar med váttom
oc öll í frid fullom
ferd at hvargi skerdi.

Haralldr konungr hellt lidi síno nordr í Noreg, enn Sveinn konungr fór sudr í Danmörk.

## CAP. LXXIV.

### ORROSTA HARALLDZ OC HÁKONAR IARLS.

Haralldr var í Víkinni um sumarit, enn er hann gerdi menn sína til Upplanda, eptir skulldom oc skauttom er hann átti þar, þá gördo bændor þar eingan greida á, oc qvádoz mundo láta bída allt þar Hákonar Iarls, ef hann kæmi til þeirra. Hákon Iarl var þá uppi á Gautlandi, oc hafdi lid mikit. Enn er áleid sumarit, hellt Haralldr konungr sudr til Kongahello. Sídan tók hann lettiskip öll, þau er hann feck, oc hellt upp eptir Elfinni; let hann draga of alla forsa, oc flutti skipin upp í

vatnit Væni. Sídan röri hann austr yfir vatnit, þar sem hann spurdi til Hákonar Iarls. Enn er Iarl feck niósn af för konungs, þá sótti hann ofan af landi, oc villdi eigi at konungr heriadi á þá. Hákon Iarl hafdi lid mikit, er Gautar höfdo fengit hönom. Haralldr konungr lagdi skipom sínom upp í módo nockora, sídan red hann til land-gaungo, enn let eptir sumt lidit, at gæta skipa. Konungr siálfr reid oc sumt lidit, enn miklo fleira geck. Þeir átto at fara yfir skóg nockorn, oc voro þar fyri þeim kiarr-myrar nockrar, oc þá en hollt; enn er þeir komo upp á holltit, sá þeir lid Iarls: var þá fyri þeim myr ein milli þeirra. Fylkdo þá hvarirtveggio. Þá mællti Haralldr konungr, at lid hans skylldi sitia uppi á backanom, freistom fyrst ef þeir vilia áráda: Hákon Iarl er óbil-giarn, sagdi hann. Frost var vedrs, oc sniódrif nockot, sáto þeir Haralldr undir skiölldom sínom, enn Gautar höfdo lítt klædi, oc gördi þeim svallt. Iarl bad þá bída þess er konungr gengi at, oc þeir stædi allir iafn-hátt. Hákon Iarl hafdi merki þat, er Magnús konungr Olafsson hafdi haft oc átt. Laug-madr Gauta het Þórvidr, hann sat á hesti, oc var bundinn taumrinn vid hæl einn, er stód í myrin-ni; hann taladi oc mællti: Þat veit Gud, at ver höfom her lid mikitt oc frítt, oc hellsti frækna menn, látom þat spyria Steinkel konong, at ver

veittom vel lid þessom góda Iarli. Veit ec þat, þótt Nordmenn leiti á oss, at ver tökom örugt móti þeim. Enn ef ungmennit skialar, oc vill eigi bída, þá rennom eigi lengra en her til becksins; enn ef meirr skialar úngmennit, sem ec veit at eigi man vera, þá rennom eigi lengra en her til högsins. I því bili lióp upp her Nordmanna, oc æpdi heróp, oc bardi á skiölldo sína; tók þá oc Gautaherr at æpa. Enn hestr Lögmans hnyckdi sva fast, er hann fældiz vid herópit, at hællinn geck upp, oc hröckdi hönom upp um höfut Lögmanninom; hann mællti: skióttu allra Nordmanna armastr, hleypdi lögmadr þá í brott. Haralldr konungr hafdi ádr sagt lidi síno sva: þótt ver görim brak oc óp um oss, þá göngom ver eigi fyri backann, fyrr en þeir koma her at oss, oc gördo þeir sva; enn þegar er herópit kom upp, þá let Iarl bera fram sitt merki, enn er þeir komo undir backann, þá steypdiz konungs-lidit ofan á þá, fell þá þegar sumt lid Iarls, enn sumt flydi. Nordmenn ráko flóttann eigi lángt, þvíat kvelld var dags. Þeir tóko þar merki Hákonar Iarls, oc slíct af vapnom oc klædom sem þeir fengo. Haralldr konungr let bera fyri ser bædi merkin, er hann fór ofan. Þeir ræddo med ser hvart Iarl mundi fallinn; enn er þeir rido ofan um skóginn, þá mátti einn rida iafn-fram. Madr hleypti um þvera gautuna, oc lagdi kesio í gögnom þann

er bar merki Iarls, hann þreif merki-stöngina, oc leypti annan veg í skóginn med merkit. Enn er þetta var sagt konungi, þá mællti hann: lifir Iarl; fáit mer brynio mína: reid þá konungr til skipa sinna um nóttina; mællto margir at Iarl hefdi hefnt sín. Þá kvad Þiódolfr:

Aulld var sús Iarli skylldi
ógn teitom lid veita
sterkr olli því stillir
Steinkels gefin helio.
Enn því at illa reyndiz
afls ván þadan hánom
fyrir let Hákon hörva
hvat segir hinn er þat fegrir.

## CAP. LXXV.

## VÍG HALLS CODRANSBANA.

Haralldr konungr var þá nótt á skipom sínom þat sem eptir var; enn um morguninn er lióst var, þá var ís lagdr allt um skipin sva þiockt, at gánga mátti umhverfis. Þá bad konungr sína menn, at þeir skylldo höggva ísinn frá skiponom oc úti vatnit, gengo menn þá til, oc redo á ís-höggit. Magnús son Haralldz konungs styrdi því skipi er nedarst lá í módonni, oc næst lá úti vatnino. Enn er menn höfdo miöc höggvit út ísinn, þá lióp madr út eptir ísinom, þar til er höggva skylldi, oc let

sídan sem væri ódr oc galinn at íshauggino. Þá mællti madr: Nú er enn sem optar, at engi madr er iafn lid-gódr, hvar sem hann gengr til, sem hann Hallr Kodransbani; se nú hverso hann höggr ísinn. Einn madr sá var á skipi Magnús konungssonar, er Þórmódr het Eindridason; enn er hann heyrdi nefndan Kodransbana, þá hlióp hann at Halli, oc hió hann bana-högg. Kodran var Gudmundarson Eyiolfssonar; enn Valgerdr var systir Gudmundar, módir Iorunnar, módr Þórmódar. Þórmódr var vetr gamall, þá er Kodran var veginn, oc hafdi hann alldregi sed Hall Otryggsson fyrr en þá. Þá var oc ísinn út höggvinn í vatnit, oc lagdi Magnús sitt skip út í vatnit, oc tók þegar til segls, oc sigldi vestr yfir vatnit; enn konungs skipit lá innast í vökinni, oc komz þat seinst út. Hallr hafdi verit í sveit konungs, oc hönom allkærr, oc var konungr inn reidasti. Konungr kom síd til hafnar, hafdi Magnús þá skotit vegandanom í skóg, oc baud bod fyri hann; oc var vid siálft, at konungrinn mundi gánga at þeim Magnúsi, ádr vinir þeirra komo til oc sætto þá.

## CAP. LXXVI.

### FRÁ HARALLDI KONUNGI.

Vetr þenna fór Haralldr konungr upp á Raumaríki, oc hafdi lid mikit, bar hann sakir à hendor bæn-

bændom þar, at þeir höfdo halldit fyrir hönom sköttom oc skylldom, enn eflt fiand-menn hans til ófridar vid hann; let hann taka bændor, hamla suma, suma drepa, enn marga ræna all-eigonni; þeir flydo er því komo vid; allvída let hann brenna herödin, oc giördi aleydo. Sva segir þiódolfr:

Tók holm-búa hneykir
hardan taum vid Rauma
þar hyck fast ins frækna
fylking Haralldz gengo.
Elldr var görr at gialldi
gramr enn þa red tedi
hár í hof at færa
hrot garmr búendor arma.

Sídan fór Haralldr konungr upp á Heidmörk, oc brendi þar, oc gördi þar her-virki eigi minna enn á Raumaríki. þadan fór hann út á Hadaland oc út á Ríngaríki, brendi þar oc fór allt her-skilldi. Sva segir þiódolfr:

Gagn brann greipra þegna
glöd vard faust í tródi
laust hertoga hristir
Heina illom steini.
Lífs bádo ser lydir
logi þíngadi Hríngom
naudgan dóm ádr næmiz
nidr fall Halfs galla.

Eptir þat lögdo bændor allt sitt mál á konungs valld. Eptir þat er Magnús konungr var andadr, lido XV vetor ádr Nizar-orrosta var, enn sídan II ádr Haralldr oc Sveinn sættiz. Sva segir Þiódolfr:

Ferdi fylkir Haurda
fridr namz ár it þridia
rendr bito stál fyri ströndo
starf til króks at Hvarfi.

Eptir sætt þeirra vardi deila konungs vid Upplendinga III misseri. Sva segir Þiódolfr:

Nú er of verk þau er vísi
vandmællt sva at af standezc
audan plóg at eiga
Upplendingom kendi.
Ser hefir sva lángs tírar
svinnz at æ man vinnaz
þriú misserin þessi
þengils höfut fengit.

## CAP. LXXVII.

### FRÁ ENGLANDZ KONUNGOM.

Iátvardr Adalrádsson var konungr í Englandi eptir Hörda-Knút, bródr sinn; hann var kalladr Iátvardr inn Gódi, hann var sva. Módir Iátvardar konungs var Emma drottning, dóttir Ríkardar Rudo-Iarls; bródir hennar var Rodbert Iarl, fadir Vilhiálms Bastardar, er þá var hertogi í Rudo í Nordmandi.

Iátvardr konungr átti Gydo drottningo, dóttor Gudena Iarls Ulfnadssonar. Brædor Gydo varo þessir: Tosti Iarl, hann var ellstr, annar Mauro-Kári Iarl, III Valþiófr Iarl, fiórdi Sveinn Iarl, fimti Haralldr, hann var yngstr; hann fæddiz upp í hird Iátvardar konungs, oc var hans fóstr-son, oc unni konungr hönom geysi mikit, oc hafdi hann fyrir son ser; þvíat konungrinn átti eigi barn.

## CAP. LXXVIII.

### FRÁ HARALLDI GUDINASYNI.

Þat var á eino sumri, at Haralldr Gudinason átti ferd til Brettlandz, oc fór á skipi, enn er þeir komo í hafit, þá tók þá andvidri, oc rak út í haf. Þeir tóko land vestr í Nordmandi, oc höfdo fengit storm mann-hættan. Þeir lögdo til borgarinnar Rudo, oc fundo þar Vilhiálm Iarl, tók hann vid Haralldi feginsamliga oc hans föroneyti, dvalldiz Haralldr þar lengi um haustit í gódom fagnadi, þvíat stormar lágo á, oc var eigi í haf fært; enn er at leid vetrnóttom, þá ræddo þeir þat Iarl oc Haralldr, at hann mundi þar dveliaz um vetrinn, sat Haralldr í hásæti à adra hönd Iarli, enn til annarar handar kona Iarls, hon var hverri kono frídari, er menn höfdo sed. Þau taulodo öll saman ser gaman iafnan vid dryckio. Iarl geck optazt snemma at sofa, enn Haralldr sat lengi á kvölldom, oc taladi vid kono

Iarls; fór sva fram lengi um vetrinn. Eitt sinn, er þau töludo, segir hon Haralldi: nú hefir Iarl rætt um vid mik, oc spurdi hvat vid taladim sva þrátt, oc er hann nú reidr. Haralldr svarar: vid skolom hann nú láta vita sem skiótast allar rædor okrar. Eptir um daginn kalladi Haralldr Iarl til tals vid sik, oc gengo þeir í mál-stofo, þar var þá oc kona Iarls, oc rádone yti þeirra. Þá tók Haralldr til máls: þat er at segia ydr, Iarl, at fleira byrr í híngat-komo minni, enn þat er ec hefir enn upp borit fyrir ydr. Ec vil bidia dóttr þinnar til eigin-kono mer, hefir ec þetta mál rætt fyri módor hennar optliga, oc hefir hon mer þvi heitit, at lidsinna þetta mál vid ydr. Enn þegar er Haralldr hafdi þetta mál uppborit, þá tóko allir því vel þeir er vid voro, oc flutto þat fyrir Iarli, kom þesso sva at lykdom, at mærin var föstnod Haralldi. Enn fyri þvi at hon var úng enn þá, þá var mællt nockorra vetra frest á til brullaups-stefno.

## CAP. LXXIX.

### DAUDI IÁTVARDAR KONUNGS.

Enn er vár kom, þá bió Haralldr skip sitt, oc ferr í brott, skilduz þeir Iarl med kærleikom miklom, fór pá Haralldr út til Englands, á fund Iátvardar konungs, oc kom eigi sídan til Vallandz, at vitia þessa ráds. Iátvardr var konungr yfir Englandi

XXIII vetor, oc vard sótt-daudr í Lundunom none Januarii, hann var iardadr at Páls-kirkio, oc kalla Enskir menn hann helgan.

## CAP. LXXX.

## HARALLDR GUDINASON TIL KONUNGS TEKINN Á ENGLANDI.

Synir Gudina Iarls voro þá ríkastir menn á Englandi; var Tosti settr höfdingi yfir her Engla konungs, oc var hann landvarnar-madr, þá er konungr tók at elldaz; hann var settr yfir alla Iarla adra. Haralldr bródir hans var iafnan innan hirdar, oc var konungi enn næsti madr um alla þiónosto, oc hafdi allar fe-hirdzlor konungs at giæta. Þat er sögn manna, at þá er framleid at andláti konungs, þá var Haralldr nærr oc fátt manna annat; þá laut Haralldr yfir konung oc mællti: því skírskota ec undir alla ydor, at konungrinn gaf mer nú konungdóminn, oc allt ríki í Englandi; þvi næst var konungr hafdr daudr or hvílonni. Þann sama dag var þar höfdingia-stefna, var þá rætt um konungstekio, let þá Haralldr bera fram vitni sín þau, er Iátvardr konungr gaf hönom ríkit á deyianda degi; lauk sva þeirri stefno, at Haralldr var til konungs tekinn, oc vígdr konungs-vígslo inn XIII dag í Páls-kirkio. Gengo þá allir höfdingiar til handa hönom,

oc allt fólk. Enn er Tosti Iarl spurdi þat, bródir hans, líkadi hönom illa, þóttiz hann eigi verr tilkominn at vera konungr: vil ec, sagdi hann, at landz-höfdingiar kiósi þann til konungs, er þeim þickir best vera tilfallinn; oc fóro þau ord milli þeirra brædranna. Haralldr konungr svarar sva, at hann vill eigi upp gefa konung-dóminn, fyrir því at hann var stól-settr í þeim stad sem konung átti at taka, enn verit sídan smurdr oc vígdr konungsvígslo; hvarf oc til hans allr styrkr fiölmennis, hafdi hann oc fe-hirdzlor konungs allar.

## CAP. LXXXI.

## FERD TOSTA TIL DANMERKR.

Enn er Haralldr konungr vard þess varr, at Tosti Iarl bródir hans villdi hafa hann af konung-dóminom, þá trúdi hann hönom illa, þvíat Tosti var madr forvitri, oc hermadr mikill, oc átti vel vingat vid landz-höfdingia. Tók þá Haralldr konungr af Tosta herstiórnina, oc allt þat valld er hann hafdi ádr haft, framar enn adrir Iarlar þar í landi. Tosti Iarl vildi þat fyrir eingan mun þola, at vera þiónosto-madr bródr síns samborins: fór hann þá oc brott med lidi síno sudr um siá í Flandr, oc dvalldiz þar litla ríd, fór þá til Príslandz, oc þadan til Danmerkr á fund Sveins konungs frænda síns. Þau voro systkyn Ulfr Iarl fadir Sveins konungs,

oc Gyda modir Tosta Iarls; bidr Iarl Svein konung fulltíngs oc lid-veizlo. Sveinn konungr baud hönom til sín, oc sagdi hann skuli hafa þar Iarlsríki í Danmörk þat, er hann megi vera þar sæmiligr höfdingi. Iarl svarar: þess girnir mic, at fara til Englands aptr til ódala minna. Enn ef ec fæ öngan styrk til þess af ydr, konungr, þá vil ec þat helldr tilleggia vid ydr, at veita ydr allan styrk þann, er ec á kosti í Englandi, ef þer vilit fara med Dana-her til Englandz, at vinna landit, sva sem Knútr modur-bródir þinn. Konungr svarar: sva miklo em ec minni madr enn Knútr konungr frænda minn, at varla fæ ec halldit Dana-ríki fyri Nordmönnom; enn Gamli Knútr konungr eignadiz at erfd Dana-ríki, en med hernadi oc orrosto England, oc var þó um ríd þat eigi óvænna, at hann mundi þar eptir leggia lifit. Noreg feck hann orrosto-laust. Nú kann ec at ætla mer hóf meirr eptir míno lítilrædi, en eptir framkvæmd Knútz konungs frænda míns. Þá mællti Tosti Iarl: minna verdr mitt erendi híngat, en ec hugda at þú mundir vera láta, sva göfigr madr, í naudsyniom frænda þíns. Kann nú vera, at ec leita þannog vináttonnar, er myklo er ómakligra; enn þá má vera, at ec finna þann höfdingia, er midr vaxi fyrir augom at ráda miöc stórt enn þer konungr. Sídan skildoz þeir konungr oc Iarl, oc varliga sáttir.

## CAP. LXXXII.

## FERD TOSTA TIL NOREGS.

Tosti Iarl sneri þá ferdinni, oc kom fram í Noreg, oc főr á fund Haralldz konungs, var hann þá í Víkinni. Enn er þeir finnaz, ber Iarl upp fyri konung erindi sín, segir hönom allt um ferdir sínar sídan er hann fór af Englandi, bidr konung fá ser styrk, at sækia ríki sitt í Englandi. Konungr svarar sva, at Nordmenn muno þess eigi fúsir, at fara til Englands at heria, oc hafa þar Enskan höfdingia yfir ser; mæla menn þat, segir hann, at þer hinir Ensko se eigi alltrúir. Iarl svarar: hvart er þat med sannendom sagt, er ec hefi menn heyrt segia í Englandi, at Magnús konungr frændi þinn sendi menn til Iátvardar konungs, oc var þat í ordsending, at Magnús konungr átti England slíkt sem Danmörk, oc hafdi í arf tekit eptir Hörda-Knút, sem svardagar þeirra höfdo tilstadit? Konungr svaradi: hví hafdi hann þat eigi, ef hann átti þat? Iarl svarar: hví hefir þú eigi Danmörk, sva sem Magnús konungr hafdi fyri þer? Konungr svarar: eigi þurfa Danir at hælaz vid oss Nordmenn; margan díla höfom ver brent þeim frændom þínom. Þá mællti Iarl: villtu eigi mer segia, þá mun ec þer segia. Því eignadiz Magnús konungr Danmörk, at þar landz-höfdingiar veitto hönom; enn því feckt

þú eigi, at allt landz-fólk stód i móti þer. Þvi bardiz Magnús konungr eigi til Englandz, at allr landz-lydr villdi hafa Iátvard at konungi. Villt þú eignaz England, þá má ec sva gera, at meiri luti höfdingia í Englandi muno vera vinir þinir, oc lidsinnis-menn; eigi skortir mic meira vid Haralld bródir minn enn konungs-nafn eitt. Þat vito allir menn, at engi her-madr hefir slíkr fæz á Nordrlöndom sem þú, oc þat þicki mer undarligt, er þú bardiz XV vetor til Danmerkr, enn þú vill eigi hafa England, er nú liggr laust fyri þer. Haralldr konungr hugsadi vandliga hvat Iarl mællti, oc skilldi, at hann sagdi mart satt, oc í annan stad giördiz hann fúss til at fá ríkit. Sídan tölodo þeir konungr oc Iarl löngom oc opt, setto þeir þá ráda-giörd þessa, at þeir skylldo fara um sumarit til Englandz, oc vinna landit. Sendi Haralldr konungr ord um allan Noreg, oc baud út leidángri, hálfom almenningi; vard þetta nú allfrægt, voro margar getur á, hvernog förin mundi verda, mællto sumir oc tölldo upp stór-virki Haralldz konungs, at hánom mundi eigi ófært vera: enn sumir sögdo, at England mundi verda torsótt, mann-fólk ofa-mikit á, oc þat lid er kallat er Þínga-manna-lid, þeir voro menn sva fræknir, at betra var lid eins þeirra en II Haralldz manna hinna besto. Þá sagdi Ulfr stallari:

Era stallorom stillis
stafn-rúm Haralldz iafnan
ónaudgr fær ec audar
innan þaurf at hverfa.
Ef haur breckan hrockva
hrein skulom tveir fyri einom
úngr kendak mer undan
annat þínga-manni.

Ulfr stallari andadiz þat vár. Haralldr konungr stód yfir grepti hans, oc mællti er hann geck frá: Þar liggr nú sá er dryggvastr var oc drottin hollastr. Tosti Iarl sigldi um várit vestr til Flæmingialandz, á móti lidi því er hönom hafdi fylgt utan af Englandi, oc því ödro er safnadiz til hans bædi af Englandi oc þar í Flæmingia-landi.

## CAP. LXXXIII.

## DRAUMR GYRDAR.

Herr Haralldz konungs safnadiz saman í Solundom. Enn er Haralldr konungr var búinn at leggia út or Nidarósi, þá geck hann ádr til Skrínis Olafs konungs, oc lauk upp, oc klipti hár hans oc negl, oc læsti sídan Skrínino, enn kastadi lyklinom út á Nid; enn sumir segia, at hann kastadi utanbordz fyrir Agdanesi; oc hefir eigi sídan verit upplokit Skríni ins helga Olafs konungs. Þá var lídit frá falli hans XXXV vetor, hann lifdi oc hálfan fiórda

tög vetra her í heimi. Haralldr konungr hellt því lidi, er hönom fylgdi, sudr til mótz vid lid sitt. Þar kom saman lid mikit, sva at þat er sögn manna, at Haralldr konungr hefdi nær CC skipa, oc umfram vista-byrdingar oc smá-skútor. Þa er þeir lágo í Solundom, dreymdi mann þann er var á konungs skipino, er Gyrdr er nefndr: hann þóttiz þar vera staddr á konungs skipino, oc sá uppá eyna, hvar tröll-kona stód mikil, oc hafdi skálm í hendi, oc í annari hendi trog; hann þóttiz oc siá yfir öll skip þeirra, oc þótti hönom fugl sitia á hveriom skip-stafni, þat voro allt ernir oc rafnar. Tröll-konan qvad víso:

Víst er at allvalldr austan
eggiaz vestr at leggia
mót vid marga knútu
minn snúdr er þat prúda.
Kná val-þidurr velia
veit hann erna ser beito
steik af stódi Giúka
stafns fylgi ec því iafnan
oc stafns fylgi ec því iafnan.

## CAP. LXXXIV.

## DRAUMR ÞÓRDAR.

Þórdr er annar madr nefndr, er var á skipi því, er skamt lá frá skipi konungs. Hann dreymdi um nótt, at hann þóttiz siá flota Haralldz konungs fara

at landi, oc þóttiz vita at þat var England; hann sá á landino fylking mikla, oc þótti sem hvarirtveggio biöggiz til bardaga, oc höfdo merki á lopti. Enn fyri lidi landz-manna reid tröll-kona mikil, oc sat á vargi, oc hafdi vargrinn mans hræ í munni, oc fell blód um kiaptana; enn er hann hafdi þann etit, þá kastadi hon ödrom í munn varginom, oc sídan hveriom at ödrom, enn hann gleypti hvern. Hon qvad:

Skód lætr skína raudan
skiölld er dregr at hialldri
brúdr ser aurnis ióda
óför konungs giörfa.
Sviptir í svardar kiapta
svanni holldi manna
úlfs munn litar innan
ódlát kona blódi
ódlát kona blódi.

## CAP. LXXXV.

### DRAUMR HARALLDZ KONUNGS.

Haralldr konung dreymdi um nótt, at hann væri í Nidarósi, oc hitti Olaf konung bródr sinn, oc qvad Olafr víso fyrir hönom:

Gramr vá frægr til fremdar
flestan sigr en Digri
hlaut ec því at heima sátom
heilagt fall til vallar.

Uggir ec enn at tiggi
ydr mani feigd of byriod
traullz gefit sákom fyllar
síks velldrat Gud slíko.

Margir adrir draumar oc fyriburdir voro þá sagdir, oc flestir dapurligir. Haralldr konungr, ádr hann fór af þrándheimi, hafdi þar látit taka til konungs Magnus son sinn, oc setti hann til ríkis í Noregi, er konungr fór í braut. þóra þórbergs dóttir var oc eptir, enn Ellisif drottning fór med hönom, oc dætor hennar Maria oc Ingigerdr. Olafr, son Haralldz konungs, fór oc med hönom or landi.

## CAP. LXXXVI.

## ORROSTA VID SKARDABORG.

Enn er Haralldr konungr var búinn, oc byr gaf, sigldi hann út á haf, oc kom af hafi vid Hialtland, enn sumt lid hans kom vid Orkneyar, lá Haralldr konungr skamma hríd vid Hialtland, ádr hann sigldi til Orkneyia, oc hafdi þadan med ser lid mikit, oc Iarlana Pál och Erling, syni þórfinnz Iarls; enn let þar eptir Ellisif drottning oc dætor þeirra Mariam oc Ingigerdi. þadan sigldi hann vestr fyri Skotland, oc sva fyrir England, oc kom þar vid land, er heita Kliflönd, þar geck hann á land, oc heriadi þegar, oc lagdi landit undir sic, oc feck einga vidstödo. Sídan lagdi hann til Skardaborgar,

oc bardiz þar vid borgar-menn; hann geck uppá bergit þat, sem þar verdr, oc let þar göra bál mikit, oc leggia í elld. Enn er bálit logadi, tóko þeir forka stóra, oc skuto bálino ofan í bæinn, oc tók þá at brenna hvert hús af ödro, gafz þá upp allr stadrinn; drápo Nordmenn þar mart manna, enn tóko fe allt þat er þeir fengo; vard þá Enskom mönnóm engi kostr annar fyrir höndom, ef þeir skylldo hallda lífino, nema gánga til handa Haralldi konungi. Lagdi hann þá undir sic landit allt, þar er hann fór. Sídan lagdi Haralldr konungr med allan herinn sudr med landi, oc lagdi at vid Hellornes, kom þar safnadr í móti hönom, oc átti Haralldr konungr þar orrosto, oc feck sigr.

## CAP. LXXXVII.

## FRÁ FYLKING IARLANNA.

Sídan lagdi Haralldr konungr til Humbro, oc upp eptir ánni, oc lagdi þar vid land. Þá voro Iarlar upp í Iorvík Mauro-Kári Iarl, oc Valþiófr Iarl af Hunda-túnom, bródir hans, oc höfdo óvígan her. Þá lá Haralldr konungr í Uso, er herr Iarla sótti ofan. Þá geck Haralldr konungr á land, oc tók at fylkia lidi síno: stód fylkingar-armrinn annar fram á ár-backann, enn annar vissi á landit upp at díki nockoro; þat var fen diúpt oc breitt, oc fullt af vatni. Iarlar leto síga fylking sína ofan med ánni,

vid öllom múginom. Konungs merkit var nærr ánni, var þar allþykt fylkt, enn þunnast vid díkit, oc lidit þat ótraustast. Þá sótto Iarlar ofan med díkino: veik þá fyrir armr fylkingar Nordmanna, sá er vissi at díkino, enn Enskir menn sótto þar fram eptir þeim, oc hugdo at Nordmenn mundo flya vilia. Fór þar fram merki Mauro-Kára Iarls.

## CAP. LXXXVIII.

### ORROSTA VID HUMBRO.

Enn er Haralldr konungr sá at fylking Enskra manna var kominn ofan med díkino gegnt þeim, þá let hann blása her-blástr, oc eggiadi herinn ákafliga, let þá frambera merkit Landeydona, snaradi þá atgaungo sva harda, at allt hrauck fyri: gördiz þá mannfall mikit í lidi Iarla. Sneriz pá lidit brátt á flótta, flydi sumt upp med ánni eda ofan, enn flest fólk lióp út á díkit, lá þar sva þyckt valrinn, at Nordmenn mátto gánga þurfætis yfir fenit. Þar tyndiz Mauro-Kári Iarl. Sva segir Steinn Herdísarson:

Þiód fórsk mörg í módo
menn drucknodo socknir
drengr lá ar of ungan
ófár Mauro-Kára.
Fíla drottinn rak flótta
framr tók her á ramri
rás fyri rauskom vísa
rík-lundadr vítt undan.

þessa drápo orti Steinn Herdísarson um Olaf, son Haralldz konungs, oc getr hann þess, at Olafr var í orrosto med Haralldi konungi fedr sínom. þessa getr oc í Haralldz Sticka:

Lágo fallnir
í fen ofan
Valþiófs lidar
vapnom höggnir.
Sva at gunn hvatir
gánga mátto
Nordmenn yfir
at nám einom.

Valþiófr Iarl, oc þat lid er undan komz, flydi upp til borgarinnar í Iorvík, vard þar it mesta mannfall. Orrosta var midvikodag inn næsta fyrir Matthias messo.

## CAP. LXXXIX.

## FRÁ TOSTA IARLI.

Tosti Iarl hafdi komit vestan af Flæmingia-landi til Haralldz konungs, þegar er hann kom til Englandz, oc var Iarl í öllom orrostom þessom. Fór þá sva sem hann hafdi sagt Haralldi konungi fyrr er þeir fundoz, at fiölldi manna dreif til þeirra í Englandi; þat voro frændor oc vinir Tosta Iarls, oc vard konungi þat mikill styrkr lids. Eptir þessa orrosto, er ádr var frásagt, geck undir Haralld

kon-

konung lid allt um en næsto herod, enn sumt flydi. Þá byriadi Haralldr konungr ferd sína, at vinna borgina, oc lögdo herinom vid Stafnfurdo-bryggior. Enn fyrir þá sauk, at konungr hafdi unnit sva mikinn sigr vid stóra höfdingia oc ofrefli lids, var allt fólk rætt oc örvæntiz mótstaudo. Þá gördo borgar-menn rád fyri ser, at senda bod Haralldi konungi, oc bióðaz í valld hans, oc sva borgina. Var þetta allt sysslat, sva at Sunnodaginn fór Haralldr konungr vid öllom herinom til borgarinnar, oc setto þíng utan borgar konungr oc menn hans, enn borgar-menn sótto til þíngsins; á því þíngi iátadiz allt fólk undir lydni vid Haralld konung, oc fengo hönom gisla tíginna manna sono, sva sem Tosti Iarl kunni skyn allra manna í þeirri borg, oc fór konungr um kvelldit ofan til skipanna med siálf-görom sigri, oc var allkátr. Var ákvedit þingit snemma mánadaginn í borginni; skylldi þa Haralldr konungr skipa stadinn med ríkis-mönnom, oc gefa retto oc len. Þat sama kvelld, eptir sólarfall, kom sunnan at borginni Haralldr konungr Gudenason med óvígan her, reid hann í borgina at villd oc þocka allra borgar-manna, voro þá tekin öll borgar-lid, oc allir veggir, at eigi skylldi niósn koma Nordmönnom; var þessi herr um nóttina í stadnom.

## CAP. XC.

## UPPGÁNGA HARALLDZ KONUNGS.

Mána-daginn, er Haralldr konungr Sigurdarson hafdi mataz at dagverdar máli, þá let hann blása til land-gaungo; byrr sic þá herinn, oc skiptir lidino, hverir fara skulo, eda hverir eptir skulo vera; hann let uppgánga í hvarri sveit II menn, þar er einn var eptir. Tosti Iarl bió sic til uppgöngo med Haralldi konungi vid sína sveit; enn eptir varo til skipa-gæzlo Olafr konungsson, oc Páll oc Erlendr, Orkneyinga Iarlar, oc Eysteinn Orri, son Þórbergs Arnasonar, er þá var ágætastr oc kærstr konungi alla lendra manna: þá hafdi Haralldr konungr heitit hönom Mario dóttor sinni. Þá var vedr forkunnliga gott, oc heitt skin. Menn leto eptir brynior sínar, enn gengo upp med skölldom oc hiálmom, oc kesiom, oc sverdom gyrdir, margir höfdo oc skot oc boga, oc váro allkátir. Enn er þeir sótto í nánd borginni, fór í móti þeim lid mikit, sá þeir ió-reykinn, oc undir fagra skiölldo oc hvítar brynior. Þá staudvadi konungr lid sitt, let kalla til sín Tosta Iarl, oc spyrr hvat þetta lid man vera? Iarl svarar, letz þickia meiri van, at úfridr mundi vera, let oc hitt vera mega, at þetta mundi vera nockorir frændor hans, oc leita til vægdar oc vinátto, enn fá i mót af konungi traust och trúnat.

þá mællti konungr, at þeir mundo fyrst hallda kyrro fyrir, oc forvitnaz um herinn; þeir gördo sva, oc var lidit því meira, er náligarr fór, oc allt at siá, sem á eina ís-möl sæi, er vapnin glóado.

## CAP. XCI.

### RÁD TOSTA IARLS.

þá mællti Haralldr konungr: tökom nú gott rád nockot oc vitrligt, þvíat eigi er at dyliaz í, at ófridr er, oc mun kominn konungr siálfr. þá svaradi Iarl: þat er it fyrsta, at snúa aptr sem skiótast til skipa, eptir lidi voro oc vápnom, veitom þá vidrtöko eptir efnom; enn at ödrom kostom látom skipin gæta var, oc eigo þá riddarar eigi valld yfir oss. þá sagdi Haralldr konungr: annat rád vil ec hafa, at setia hina skiótusto hesta undir þriá vaska drengi, oc rídi þeir sem hvatligast, oc segi lidi voro, man þá skiótt koma oss lidveizla, fyri því at Englizmenn skulo eiga enn snarpa hríd, ádr enn ver berim inn lægra lut. þá sagdi Iarl, bad konung ráda þesso sem ödro, letz oc vera eigi giarn at flya. þá let Haralldr konungr setia upp merki sitt Land-eydo; Frirekr het sá er merkit bar.

## CAP. XCII.

### FRÁ FYLKING HARALLDZ KONUNGS.

Sídan fylkdi Haralldr konungr lidi síno, let fylking lánga enn eigi þiöcka: þá beygdi hann armana aptir á bak, sva at saman tóko, var þat þá vidr ríngr, oc iafn-þyckr öllom megin utan: skiölldr vid skiölld, oc sva yfir ofan, enn konungr siálfr oc konungs sveitin var fyrir innan hrínginn, oc þar merkit; þat var oc valit lid; oc í ödrom stad var Tosti Iarl med sína sveit, hafdi hann annat merki: var fyrir því sva fylkt, at konungr vissi, at riddarar voro vanir at rída á ridlom, oc þegar aptr. Nú segir konungr, at hans sveit oc Iarls sveit skal þar fram gánga, er mest er þörf; enn bog-menn varir skulo þar oc vera med oss, enn þeir er fremstir standa, skulo setia spiótz-hala sína í iörd nidr, enn setia oddana fyri brióst riddorom, ef þeir rída at, enn þeir er næstir standa, seti sína spiótz-odda fyri brióst hestom þeirra.

## CAP. XCIII.

### FRÁ HARALLDI GUDINASYNI.

Haralldr konungr Gudinason var þá kominn med her óvígan, bædi riddara oc fót-gángandi menn. Haralldr konungr Sigurdarson reid þá um fylking sína, oc skyniadi hvernog fylkt var; hann sat á

svörtom hesti blesottom, hestrinn fell undir hönom, oc konungr af fram; stód hann upp skiótt, oc mællti: fall er farar-heill. Þá mællti Haralldr Engla konungr til Nordmanna þeirra, er med hönom voro: kendo þer þann inn mikla mann, er þar fell af hestinom, vid hinn blá kyrtil, oc hinn fagra hiálm? Þat er konungr siálfr, sögdo þeir. Engla konungr sagdi: Mikill madr oc ítrmannligr; oc er þat vænna, at farinn se nú at hamingio.

## CAP. XCIV.

### FRÁ TALI HÖFDINGIA.

Riddarar XX rído fram af Þínga-manna lidi fyri fylking Nordmanna, oc voro albryniadir, oc sva hestar þeirra; þá mællti einn riddari: hvart er Tósti Iarl í lidino? hann svarar: eigi er því at leyna, her muno þer hann finna. Þá mællti einn riddarinn: Haralldr konungr, bródir þinn, sendir þer kvedio, oc þau ord med, at þú skallt hafa grid oc Nordumbraland allt, oc helldr en eigi vilir þú til hans neigiaz, þá vill hann gefa þer þridiong ríkis síns alls med ser. Þá sagdi Iarl: þá er nockot bodit annat enn úfridr oc svívirding, sem í vetr, oc hefdi þá verit þetta bodit, þá væri margr sá madr á lífi, er nú er daudr, oc betr myndi þá standa til ríki í Englandi: nú tek ec þenna kost,

edr hvat vill hann þá bióda Haralldi konungi Sigurdarsyni fyri sitt starf? Þá mællti riddarinn: sagt hefir hann þar nockot frá, hvers hann mun hönom unna af Englandi, VII fóta rúm, eda því lengra sem hann er hærri enn adrir menn. Þá sagdi Iarl: farit þer nú oc segit Haralldi konungi, at hann skylldi búaz til orrosto; annat skal satt vera at segia med Nordmönnom, enn at Tosti Iarl fór frá Haralldi konungi Sigurdarsyni, oc í fianda-flock hans, þá er hann skylldi beriaz í Englandi vestr: helldr skulo ver allir taka eitt rád, deyia med semd, eda fá England med sigri. Þá rido aptr riddarar. Þá mællti Haralldr konungr Sigurdarson vid Iarl: hverr var þessi inn mál-snialli madr? Þá sagdi Iarl: þat var Haralldr konungr Gudenason. Þá mællti Haralldr konungr Sigurdarson: of-lengi voro ver þesso leyndir; þeir varo sva komnir fyri lid vart, at eigi myndi þessi Haralldr kunna at segia bana-ord varra manna. Þá sagdi Iarl: satt er þat, herra, óvarligá fór slíkr höfdingi, oc vera mætti sva sem þer segit; oc sá ec þat, at hann villdi mer grid bióda oc ríki mikit, enn ec vera bana-madr hans, ef ec segda til hans; vil ec helldr at hann se minn bana-madr, en ec hanns, ef annathvert skal vera. Þá mællti Haralldr konungr Sigurdarson til sinna manna: lítill madr var þessi, oc stód steigrliga í stig-reiponom.

Sva segia menn, at Haralldr konungr Sigurdarson qvad víso þessa:

Fram göngo ver
í fylkingo
brynio lausir
und blár eggiar.
Hiálmar skína
hefkat ec mína
nú liggr skrúd vart
at skipom nidri.

Emma het brynia hans, hon var síd, sva at hon tók á mit bein hánom, oc sva sterk, at alldri hafdi vapn á fest. Þá mællti Haralldr konungr Sigurdarson: þetta er illa ort, oc mun verda at göra adra betri; þá qvad hann:

Kriúpom ver vid vapna
valteigs brákan eigi
sva baud hilldr at hialldri
halld-ord í bug skialldar.
Hátt bad mic þar er mættuz
menskord bera fordom
hlackar ís oc hausar
hiálm stall í gny málma.

Þá kvad oc Þiódolfr:

Skalka ec frá þótt fylkir
falli siálfr til vallar
gengr sem Gud vil úngom
grams erfingiom hverfa.

Skína sól á syni
snarráds en þá báda
Haralldz ero haukar görfir
hefnendr konungs efni.

## CAP. XCV.

## UPPHAF ORROSTONOAR.

Nú hefr upp orrosto, oc veita Enskir menn áreid Nordmönnom, verdr vidtakan hörd, vard óhægt Enskom mönnom at rída at Nordmönnom, fyri kesionom, oc rido þeir í hríng um þá, var þar þá fyrst laus orrosta, medan Nordmenn helldo vel fylkingonni, enn Enskir menn rido at hart, oc þegar frá, er þeir fengo eigi at syst. Enn er Nordmenn sá, at þeim þótti, blaudliga atridit, þá sótto þeir eptir þeim, oc villdo reka flottann; enn er þeir höfdo brugdit skialld-borginni, þá rido Enskir menn at þeim öllom megin, oc báro á þá skot oc spiót. Enn er Haralldr konungr Sigurdarson sá þat, geck hann fram í orrosto þar er mestr var vapna-burdrinn, vard þar þá hinn hardasta orrosta, oc fell mikit lid af hvaromtveggiom. Þá vard Haralldr konungr Sigurdarson sva ódr, at hann lióp allt fram or fylkingonni, oc hió bádom höndom, hellt þá hvarki vid hönom hiálmr ne brynia; þá stucko frá hönom allir þeir er næstir voro: var þá vid siálft, at Enskir menn mundi flyia. Sva segir Arnorr Iarla-skálld:

Hafdi brióst ne bifdiz
böd-snart konungs hiarta
í hiálm þrimo hilmir
hlit styggr fyri ser lítit.
þars til þengils herfa
þat sá her at skatna
blódögr hiörr hins barra
beit döglinga hneitis.

## CAP. XCVI.

## FALL HARALLDZ KONUNGS SIGURDARSONAR.

Haralldr konungr Sigurdarson var lostinn auro í ostinn, þat var hans bana-sár, fell hann þá oc aull sú sveitin, er framgeck med hönom, nema þeir er aptr opodo, oc helldo þeir merkino; vard þá enn inn hardasti bardagi, geck þá Tosti Iarl undir konungs merkit: tóko þá hvarirtveggio at fylkia annat sinni, oc vard þá á dvöl miöc löng orrostonni. Þá qvad Þiódolfr:

Aulld hefir afrád golldit
íllt nú qved ec her stilltan
baud þessa ferd þiódom
þarflaust Haralldr austan.
Sva lauk siklings æfi
snialls at ver rom allir
lofdungr beid inn leyfdi
lífs grand í stad vandom.

Enn ádr en saman sigi en sídari orrostan, þá baud Haralldr Gudenason grid Tosta Iarli bródr sínom, oc þeim mönnom ödrom, er þá lifdo eptir af lidi Nordmanna, enn Nordmenn æpdo upp allir senn, oc sögdo sva, at hverr skylldi falla of þveran annan, fyrr en þeir gengi til grida vid Enska menn. Æpdo þá hverirtveggio her-óp, tókz þá orrosta í annat sinn. Sva segir Arnorr Iarla-skálld:

Eigi vard ens ægia
audligr konungs daudi
hlífdot hlenna sofi
hoddom ródnir oddar.
Helldr kuro meirr ins mæra
milldings en grid villdo
of fólk snaran fylki
falla lids-menn allir.

## CAP. XCVII.

### ORRA-HRÍD.

Eysteinn Orri kom í því bili frá skiponom med þvi lidi, er hánom fylgdi, voro þeir albryniadir, feck þá Eysteinn merki Haralldz konungs Landeydona: verdr nú orrosta í þridia sinn, oc var sú hinn snarpasta, fello þá miöc Enskir menn, oc var vid siálft at þeir mundi flyia. Sú orrosta er köllod Orra-hríd. Þeir Eysteinn höfdo farit sva ákafliga frá skiponom, at þeir voro fyrr sva módir, at náliga

voro þeir ófærir, fyrr enn þeir komo til orrosto, enn sídan voro þeir sva ódir, at þeir hlífdo ser eigi medan þeir mátto uppistanda; at lycdom steypdoz þeir or hrínga-brynionom, vár þá Enskum mönnom hægt at finna högg-stadi á þeim, enn sumir sprúngo med öllo, oc dó ósárir, fell náliga allt stórmenni Nordmanna. Þetta var inn efra lut dags; vard þat sem ván var, at þar voro enn eigi allir iafnir, flydo margir, oc þeir er sva komoz undan, at ymissa audno báro til; gördi oc myrkt um kvelldit, ádr en lokit væri öllom mann-dráponom.

## CAP. XCVIII.

## FRÁ STYRKÁRI STALLARA.

Styrkárr Stallari Haralldz konungs Sigurdarsonar, komz á brot, ágætr madr; hann feck hest, oc reid sva brott um kvelldit, gördiz á vindr nockr helldr svalr, enn Syrkárr hafdi eigi klædi fleiri en skyrto eina, oc hiálm á höfdi, oc nöckvid sverd í hendi ser. Hönom svaladi, er hann hratt af ser mædinni; þá kom í móti hönom vagn-karl einn, oc var í kausungi fódrodom, þá mællti Styrkárr: villto selia mer kausunginn, bóndi? eigi þerna, svarar hann, þú mant vera Nordmadr, kenni ec mál þitt. Þá sagdi Styrkárr: ef ec em Nordmadr, hvat villtu þá? bóndi svarar: ek vilda drepa þic, enn nú er sva

illa, at ec hefir eigi vapn til, þat er nytt se. Þá mællti Styrkárr: ef þú bóndi mátt eigi mic drepa, þá skal ec freista at ec mega þic drepa: reidir upp sverdit, oc setr á háls hönom, sva at geck af höfudit; tók hann sídan skinnhiúpinn, oc lióp á hestinn, oc fór til strandar ofan. Olafr Haralldzson var eigi á landi med, oc er hann spurdi fall födur síns, bióz hann til brottlögo med þat lid er eptir var.

## CAP. XCIX.

## FRÁ VILHIÁLMI BASTARDI.

Vilhiálmr Bastardr Rudo-Iarl spurdi andlát Iátvardar konungs frænda síns, oc þat med, at þá var til konungs tekinn á Englandi Haralldr Gudinason, oc hafdi tekit konungs vígslo; enn Vilhiálmr þóttiz betr tilkominn ríkis í Englandi, en Haralldr, fyrir frændsemis sakir þeirra Iátvardar konungs; þat var oc med, at hann þóttiz eiga at giallda Haralldi svívirding, er hann hafdi slitit festamálom vid dóttur hans, oc af öllo þesso saman dró Vilhiálmr her saman í Nordmandí, oc hafdi allmikit flölmenni, oc nógan skipa-kost. Þann dag, er hann reid or borginni til skipa sinna, oc hann var kominn á hest sinn, þá geck kona hans til hans, oc vildi tala vid hann. Enn er hann sá þat, þá laust hann til hennar med hælinom, oc setti sporann fyri bríóst henni,

svo at á kaf stód, fell hon vid oc feck bana, enn Iarl reid til skips, fór hann med her sínn út til Englandz. Þar var med hanom Otta Erki-biskop bródir hans. Enn er Iarl kom til Englandz, tók hann at heria, oc lagdi undir sic landit, hvar sem hann fór. Vilhiálmr Iarl var hveriom manni meiri oc sterkari, oc riddari hinn mesti, her-madr mikill, oc helldr grimmr, oc enn vitrasti madr, oc kalladr eigi alltryggr.

## CAP. C.

### FALL HARALLDZ KONUNGS GUDINASONAR.

Haralldr konungr Gudinason lofadi brautferd Olafi syni Haralldz konungs Sigurdarsonar, oc því lidi er hönom hafdi fylgt, oc eigi hafdi fallit í orrostonni; enn Haralldr konungr sneriz þá med her sinn sudr á England, þvíat hann hafdi þá spurt, at Vilhiálmr Iarl Bastardr fór sunnan á England med lid mikit, oc lagdi landit under sic. Þar voro þá med Haralldi konungi brædor hans Sveinn oc Gyrdr oc Valþiófr Iarl. Fundr þeirra Haralldz konungs oc Vilhiálms Iarls vard sudr á Englandi vid Helsingiaport, vard þar orrosta mikil: þar fell Haralldr konungr oc Gyrdr Iarl bródir hans, oc mikill luti lids hans. Þat var XIX nóttom eptir fall Haralldz konungs Sigurdarsonar. Valþiófr Iarl bródir Haralldz

kom á flótta undan, oc síd um kvelldit mætti Iarl sveit nockorri af Vilhiálms mönnom. Enn er þeir sá lid Valþiófs Iarls, þá flydo þeir undan á eydiskóg nockorn; þat var C manna. Valþiófr Iarl let elld leggia í skóginn, oc brenna upp allan saman. Sva segir Þorkell Skallason í Valþiófs-flocki:

Hundrat let í heitom
hirdmenn iöfurs brenna
sóknar yggr en seggiom
svido kvelld var þat elldi.
Frett er at firdar knátto
flagd viggs und kló liggia
imleitom feckz áta
öls black vid hræ fracka.

## CAP. CI.

## DRÁP VALÞIÓFS IARLS.

Vilhiálmr let sic til konungs taka í Englandi, hann sendi bod Valþiófi Iarli, at þeir skylldo sættaz, oc selldi hanom grid til fundar. Iarl fór vid fá menn; enn er hann kom á heidina fyrir nordan Kastalabryggio, þá komo á móti hönom ár-menn II Vilhiálms konungs med sveit manna, oc tóko hann höndom, oc setto í fiötr, oc sídan var hann höggvinn, oc kalla Enskir menn hann helgann. Sva segir Þórkell:

Víst hefir Valþióf braustan
Vilhiálmr sá er raud málma
hinn er haf skar sunnan
hællt í trygd of vælltan.
Satt er at síd muno letta
snarr enn minn var harri
deyrr eigi milldingr mærri
mann-dráp á Englandi.

Vilhiálmr var sídan konungr á Englandi XXI vetor, oc hans afkvæmi iafnan sídan. Vilhiálmr var sótt-daudr í Nordmandi; eptir hann var Vilhiálmr Raudi son hans konungr í XIV ár. Þá tók ríki oc konungdóm Henrikr bródir hans, sonr Vilhiálms konungs hins fyrra.

## CAP. CII.

### ÆTTAR-TÖLUR.

Vilhiálmr var sonr Rodbertz Lángaspiótz, sonar Rikardz Rikardzsonar, Vilhiálmssonar, Göngo-Hrolfssonar, sem fyrst vann Nordmandi, oc voro þeir allir Rudo-Iarlar, þat ero Greifar í Rothmagi í Nordmandi, hvarr eptir annan. Göngo-Hrolfr var sonr Rögnvalldz Mæra-Iarls, bródir Þóris Iarls ens Þegianda oc Torf-Einars í Orkneyom, sem drap Halfdán Hálegg, fyrir þat hann hafdi drepit födr hans Rögnvalld Mæra-Iarl, sem segir i Sögo Haralldz Hárfagra. Adalrádr konungr í Englandi átti Emmu drottningo,

systor Vilhiálms Greifa Bastards af Nordmandi; átti hann vid henni tvo sono Iátvard oc Edmund, sem eptir hann vard konungr í Englandi, enn sídan rekinn or landi af Knúti konungi enom Ríka í Danmörk, oc Iátvardr edr Edvardr hinn helgi, sem sídan vard konungr í Englandi, eptir dauda Hörda-Knútz konungs. Knútr hinn Ríki eignadiz Emmu drottningo, eptir dauda Adalráds, oc gat vid henni Haralld oc Hörda-Knút. Edvardr konungr átti Gydo Godvins (Gudina) dóttr, dóttr-dóttr Þórgils Sprakaleggs; hon var födr-systr-dóttir Sveins Ulfssonar Dana-konungs, oc átto þau Edvardr konungr eigi barn saman, þar fyrir tók hennar bródir Haralldr ríki eptir Edvard konung, oc kom sva England undan ættar-stofni Adalráds konungs ens Góda. Haralldr Gudinason hafdi þá verit konungr hálfantíunda-mánad í Englandi, er hann fell, oc var þá enginn madr eptir af Godvins Iarls afkomendom, utan synir Tosta Iarls, Ketill oc Skuli, oc Gyda Harallds-dóttir; hennar feck Valdimar konungr af Holmgardi, sonr Iarizleifs konungs oc Ingigerdar drottningar, sem var dóttir Olafs konungs Svenska: vid henni átti hann Haralld konung, sem átti Kristino dóttur Inga konungs Steinkelssonar í Svía-ríki; dætor þeirra voro Málfrídr oc Ingibiörg. Sigurdr Iorsalafari feck Málfrídar, enn sídar átti hana Eiríkr

kon-

konungr Eymuni í Danmörk. Enn Knútr Hertogi Lávardr feck Ingibiargar Harallds-dóttur; þeirra börn voro Valdimar Dana-konungr, Kristin, Katrin oc Margret. Valdimar konungr feck Sophiu dóttr Valaders konungs af Polen, oc Rikeze drottningar; börn þeirra Sophiu voro Knútr konungr oc Valdimar konungr, oc Kristin, sem átti Karl konung Sörkvisson; þeirra börn voro Sörkvir konungr oc Valdimar konungr, oc Rikiza drottning. Margret dóttir Knúts konungs Lávards átti Stíg Hvítaledr; þeirra börn voro Nicolás oc Kristin, sem átti Karl konung Sverkison; þeirra son var Sverki konungr, fadir Iohans konungs. Módir Karls konungs var Ulfhilldr drottning, dóttir Hákonar Finnzsonar, Hárekssonar af Þiótto. Ulfhilldr átti fyrst Nicolás Dana-konung, oc sídan Inga konung Hallsteinsson í Svíaríki. Sídan feck hennar Sverki Karlsson oc Ríkitzu drottningar, sem sídan átti konung Eirík Knutsson í Svía-ríki.

## CAP. CIII.

## FERD ÓLAFS HARALLDZSONAR Í NOREG.

Olafr, son Haralldz konungs Sigurdarsonar, hellt lidi síno brott af Englandi, oc sigldi út af Hrafnseyri, oc kom um haustit til Orkneyia, oc var þat

þar tídenda, at Maria, dóttir Haralldz konungs Sigurdarsonar, hafdi ordit brád-daud þann sama dag, oc á þeirri sömo stundo, er Haralldr konungr hafdi fallit, fadir hennar. Olafr dvalldiz þar um vetrinn, enn eptir um sumarit fór hann austr til Noregs: var hann þá þar tekinn til konungs med Magnúsi bródor sínom. Ellisif drottning fór vestan of haf med Olafi stiúpsyni sínom, oc Ingigerdi dóttor hennar. Þá kom oc vestan um haf med Olafi Skúli son Tosta Iarls, er sídan var kalladr konungs-fóstri, oc Ketill Krókr brodir hans. Þeir voro bádir göfgir menn oc kyn-stórir af Englandi, oc bádir forvitra: voro þeir brædor hinir kærsto Olafi konungi. Fór Ketill Krókr nordr á Hálogaland, feck Olafr konungr hönom þar kvanfáng gott, oc er frá hönom komit mart stór-menni. Skúli konungs-fóstri var skaurungr mikill, oc manna frídastr siónom; hann gördiz forstióri í hird Olafs konungs, oc taladi á þingom, oc red öllom land-rádom med konungi. Olafr konungr baud at gefa Skúla fylki eitt í Noregi, þat er hönom þótti bezt, med öllom tökom oc skylldom þeim er konungr átti. Skúli þackadi hönum vel bod sitt, oc letz helldr vilia beidaz af hönom annarra luta, fyri því ef konunga-skipti verda, sagdi hann, kann vera at riúfiz giöfin. Ec vil helldr, segir hann, þiggia nockorar eignir þær er liggia nærr kaupstödom þeim, er þer herra erud

vanir at sitia, oc taka Ióla-veizlor. Konungr iátadi hönom þesso, oc skeytti hönom iardir austr vid Konunga-hello, oc vid Oslu, vid Tunsberg, vid Borg, vid Biörgyn, oc nordr vid Nidarós: þær voro náliga hinar bezto eignir í hveriom þessom stad, oc hafa þær eignir legit sídan undir þá ætt-menn, er af Skúla ero komnir. Olafr konungr gipti Skula frænd-kono sína Gudrúno Nefsteins-dóttur. Módir hennar var Ingiridr, dóttir Sigurdar konungs Syrs oc Asto, módur Olafs konungs helga: Ingiridr var systir Olafs konungs hins helga oc Haralldz konungs. Sonr Skúla oc Gudrúnar var Asolfr á Reini; hann átti Þóro, dóttur Skopta Augmundarsonar, oc var sá Skopti sonarson Þórbergs Arnasonar; enn dóttir Skúla oc Gudrúnar var Ragnhilldr, sem átti Orm kyrping: hans dóttir var Asa, módir Biörns búks. Sonr þeirra Asolfs var Gutthormr á Reini, fadir Bárdar, födur Inga konungs oc Skúla hertoga. Dóttir þeirra Asolfs oc Þóru var Sigrídr, sem átti Hallkel Húk; þeirra son var Ion, fadir Hallkels, Rögnvallds oc Gregorii. Guttormr á Reini feck Elrídar, systur Hallkels Húks; þeirra dætor voro Rangrid, Ingrid oc Gudrud. Rangrid átti Biörn Byrdarsvein, þeirra dætor voro Elrid oc Ingibiörg. Elrid átti Magnus konung, þeirra dóttir var Kristin, sem átti Reidar Sendimann. Þórir Skinnfelldr hafdi ádr átt Elrídi, oc vid henni tvo sono Kiniad oc Þórgrím

Klofa; enn eptir dáuda Magnusar konungs Haralldzsonar giftiz hon lögmanninom í Gautlandi, þeirra son var Haralldr. Synir Ingibiargar voro Þórsteinn Skáldmolld. Rangrid giftiz sídan Fridriki Kiæna, þeirra dóttir var Astrídr. Ingirídr dóttir Guttorms á Reini átti Guttorm Austmansson af Iamtalandi. Guttormr á Reini átti sídan Berglióto, þeirra son var Asúlfr, hans dóttir var Þórbiörg, sem átti Eirik Griffil, þeirra son var Asúlfr. Sídan eignadiz Þórbiörg Reidar frænda konongs. Guttormr á Reini feck sídan Sigrídar, dóttor Þórkels oc Hallkötlu. Hallkatla var dóttir Sveins Bryniúlfssonar oc Ingirídar, systur Knútz Ríka; en Sveinn var bródir Sverkis í Sogn. Börn Guttorms oc Sigrídar voro Bárdr Guttormsson, sem fyrst átti Ulfhilldi, dóttor Páls biskups, oc sídan Ceciliu, dóttor Sigurdar konungs Haralldzsonar; þeirra synir voro þeir Ingi konungr, Skúli hertugi, oc Guttormr, oc dóttir Sigrídr.

## CAP. CIV.

### FRÁ HARALLDI KONONGI SIGURDARSYNI.

Einom vetri eptir fall Haralldz konongs, var flutt vestan af Englandi lík hans, oc nordr til Nidaróss, oc var iardat í Mario kirkio, þeirri er hann let gera. Var þat allra manna mál, at Haralldr konongr hafi verit umfram adra menn at speki oc allri rádsnilld,

hvart er hann skylldi skiótt tiltaka, eda göra laung rád fyrir ser eda ödrom; hann var oc allra manna vapn-diarfastr oc hinn mesti fullhugi í bardaga, oc sigrsæll allt til dauda-dags, sva sem nú var ritat um hríd, því hugrinn rædr hálfom sigri. Sva segir þiódolfr:

Arædis naut eydir
alldyggr Sælundz byggia
hugr rædr hálfom sigri
Haralldr sannar þat manna.

Haralldr konongr var frídr madr synom oc tíguligr, bleikhárr oc bleikt skegg, hann hafdi skamt skegg oc lánga kampa, nockoro ofarr önnor brúnin en önnor; miklar hendur oc fætur, oc vel vaxit hvartveggia; fim álna er hátt mál hans; hann var grimmr óvinom oc refsingasamr of allar mótgördir. Sva segir þiódolfr:

Refsir reyndan ofsa
rádgegn konongr þegnom
hyck at hilmis reckar
halldi upp því er vallda.
Sverdz hafa slikar byrdar
sans nytr hver vid annan
Haralldr skiptir sva heiptom
hliótendor er ser brióta.

Haralldr konongr var hinn ágiarnasti til ríkis oc allra farsælligra luta; hann var stórgiöfull vid vini sína, þá er honom líkadi vel vit. Sva qvad þiódolfr:

Maurk let veitt fyrir verka
vekiandi mer sneckio
hann lætr hylli sinnar
hialldrs tilgerdir vallda.

Haralldr konongr var þá fimtögr at alldri, er hann fell. Öngvar frásagnir merkiligar höfo ver frá uppruna hans, fyrr en hann var XV vetra, þá er hann var á Stiklastödom í orrosto med Olafi konongi bródr sínom, en sídan lifdi hann hálfan fiórda tög vetra; en alla þá stund var hönom alldregi milli aga oc ófridar. Haralldr konongr flydi alldregi or orrosto, en opt leitadi hann ser farborda fyrir ofrefli lids, ef hann átti vid at eiga. Allir menn sögdo þat, er fylgdo Haralldi konongi í orrosto eda í hernadi, at þá er hann vard staddr í miklom vanda, oc bar skiótt at höndom, at þat rád mundi hann upptaka, sem allir sá eptir, at vænst hafdi verit at hlyda myndi.

## CAP. CV.

## SAMIÖFNUDR HARALLDZ KONONGS OC ÓLAFS KONONGS.

Halldorr son Bryniolfs Gamla Úlfallda var vitr madr oc höfdingi mikill, hann mællti þá er hann heyrdi rædur manna, at menn misiöfnodo miöc skaplyndi þeirra brædra, Olafs hins Helga oc Har-

allds konongs, oc sagdi sva: Eg var med þeim bádom brædrom í kærleikom miklom, oc var mer hvarstveggia skaplyndi kunnigt; fann ec alldregi tva menn skaplíkari; þeir voro bádir enir vitrosto oc hinir vapn-diörfosto menn, ágiarnir til fiár oc ríkis, ríklyndir oc eigi alþydligir, stiórnsamir oc refsingasamir. Olafr konongr braut landz-fólk til Kristni oc rettra sida, en refsadi grimmliga þeim er daufheyrdoz vid; þoldo landz-höfdingiar hönom eigi iafndæmi oc rettdæmi, oc reisto her móti hönom, oc felldo hann á eign sinni siálfs, oc vard hann fyrir því heilagr. En Haralldr konongr heriadi til frægdar ser oc ríkis, oc braut allt fólk undir sic, þat er hann mátti, oc fell hann á annara kononga eign. Bádir þeir brædor voro menn hversdagliga sidlátir oc veglátir; þeir voro oc vídförlir oc eliumenn miklir, oc urdo af slíko vídfrægir oc ágætir.

## CAP. CVI.

### DAUDI MAGNUSAR KONONGS.

Magnus konungr Haralldzson red fyrir Noregi inn fyrsta vetr eptir fall Haralldz konongs, enn sídan red hann landi II vetor med Olafi konongi bródr sínom. Voro þeir II konongar þá fyrir Noregi, hafdi Magnus konongr enn nyrdra lut landz, enn Olafr inn eystra. Magnus konongr átti son er Hákon

het, hann fóstradi Steigar-þorir í Gudbrandzdal, sem var sammæddr bródir Magnusar konongs Olafssonar; var Hákon inn vænsti madr. Eptir fall Haralldz konongs Sigurdarsonar talldi Sveinn Danakonongr, at slitit væri fridi milli Nordmanna oc Dana; talldi eigi verit hafa lengr frid settan, en þeir lifdo bádir, Haralldr oc Sveinn. Voro þá útbod í hvarotveggia ríkino. Höfdo synir Haralldz úti almenning fyri Noregi at lidi oc skipom, enn Sveinn konongr fór sunnan med Dana-her. Fóro þá sendimenn milli þeirra, oc báro sættar-bod; sögdo Nordmenn, at þeir villdo annathvart hallda hina sömo sætt, sem fyrr var gör med þeim Haralldi konongi oc Sveini, eda beriaz at ödrom kosti vid Dani þar strax í sama stad. því var þetta kvedit:

Vardi ógnar ordom
Olafr oc frídmálom
iörd sva at engi þordi
allvallda tilkalla.

Sva segir Steinn Herdisarson í Olafs-drápo:

Sín ódol mun Sveini
sokn-stràngr í kaupàngi
þar er heilagr gramr hvílir
hann er ríkr iöfurr banna.
Ætt sinni mun unna
Olafr konongr hála
Ulfs þarfat því arfi
allz Noregs til kalla.

Oc fyrir medalgöngo gódra manna var komit á stefnolagi milli kononganna, skylldi sá sættarfundr vera vid Kononga-hello. I þessom stefno leidángri var sætt gör milli kononga, enn fridr milli landa. Oc gerdiz sáttinn med því stödug, at Olafr konongr skylldi fá dóttur Sveins konongs Ingirídi, oc þessi fridr hellz lengi sídan, oc sat Olafr med kyrd, meir enn fyrrum var venia í Noregi. Magnus konongr feck vanheilindi, reforma-sótt, oc lá í þeirri sótt nockora ríd: hann andadiz í Nidarósi, oc er þar iardadr; var hann vinsæll konongr, oc harmadr af allri alþydo.

---

X.

# SAGAN AF OLAFE KYRRA.

## CAP. I.

### FRÁ VEXTI OC YFIRLITOM OLAFS KONONGS.

Olafr var þá einn konongr yfir Noregi eptir andlát Magnusar konongs bródr síns. Olafr var madr mikill á allan vöxt, oc vel vaxinn: þat er allra manna sögn, at eigi hefdi sed fegra mann, eda tígugligra syndom; hann hafdi gult hár sem silki, oc fór afarvel; hann var hörundsbiartr, oc hafdi biartan

líkam, eygdr manna best oc limadr vel, fámáligr optazt, oc eigi taladr á þíngom, gladr vid öl oc at dryckiom, dryckiomadr mikill oc málrætinn í kyrd; blídmælltr oc fridsamr medan hans ríki stód; hóglæti of hófsemd elskadi hann í öllom greinom. Þess getr Steinn Herdísarson:

Lönd vil þengill þrænda
þat líkar vel skötnom
öll vid ærna snilli
eggdiarfr í frid leggia.
Hugnar þiód er þegna
þrá-lyndr til fridmála
kúgar Engla ægir
Olafr borinn fólo.

## CAP. II.

## FRÁ SIDOM ÓLAFS KONONGS.

Þat var forn sidr í Noregi, at konongs hásæti var á midiom lángpalli, var öl um elld borit, en Olafr konongr let fyrst göra sit hásæti á hápalli um þvera stofo, hann let oc fyrst göra ofn-stofor, oc strá golf um vetr sem um sumar. Um daga Olafs konongs hófoz miöc kaupstadir í Noregi, enn sumir settuz at upphafi. Olafr konongr setti kaupstad í Biörgvin, giördiz þar brátt mikit setr audigra manna, oc tilsiglingar kaupmanna af ödrom löndom; hann let þar reisa af grundvelli Kristz-kirkio ena miklo

stein-kirkiona, oc vard at henni lítit gört. Enn let hann algöra tre-kirkiona forno Kristz-kirkio. Olafr konongr let setia mikla gilldi í Nidarósi, oc mörg önnur í kaupstaudom, en ádr voro þar hvirfings-dryckior; enn þá mátti engi drecka nema í þeim verndar-stofom oc laufs-húsom í Noregi; þá var bæiar-bót in mikla hvirfings-klucka í Nidarósi; hríngdo þeir henni til gilldis. Hvirfings-brædor leto þar göra Margretar-kirkio stein-kirkio í Nidarósi. A dögom Olafs konongs hófoz skytningar oc leidzlo-dryckior i kaupstödom, oc þá tóko menn upp sundrgördir, útlenda sído oc klæda-snid; höfdo dramb-hosor lerkadar at beini. Sumir spento gullhríngom at fótleggiom ser, oc þá höfdo menn drag-kyrtla laz at sído, ermar fim álna lángar, oc sva þröng-var, at draga skylldi vid hand-tygill, oc lerka allt at öxlom upp, hávir skúar oc allir silki saumadir, en sumir gull-lagdir. Mörg aunnor sundrgörd var þá.

## CAP. III.

## FRÁ HIRD-SIDOM ÓLAFS KONONGS.

Olafr konongr hafdi þá hird-sido eptir sid útlendra kononga, at hann let standa fyri bordi síno skutil-sveina, oc skenkia med bord-kerom, oc sva öllom tignom mönnom, þeim er at hans bordi sáto; hann hafdi oc kerti-sveina, þá er kertom helldo fyri bordi,

oc iam-mörgom, sem tignir-menn sáto upp. Þar var oc stallara-stóll utarr frá trapizo, er stallarar sáto á, oc adrir gædingar, oc horfdo þeir innar í móti hásætino. Haralldr konongr, oc adrir konongar fyrir hann, voro vanir at drecka af dyra-hornom, oc bera öl ur aundugi um elld, oc drecka minni á þann er honom syndiz. Sva segir Stúfr skálld:

Vissac hilldar hvessi
hann var nytztr at kanna
af gódom byr grídar
gagnsælan mer fagna.
Þá er blód-stara brædir
baugom grimmr at haugi
giarn med gylldo horni
geck siálfr á mic drecka.

## CAP. IV.

## HIRDSKIPAN ÓLAFS KONONGS.

Olafr konongr hafdi CXX hirdmanna oc LX gesta, oc LX húskarla þeirra er flytia skylldo til konongs-gardsins þat er þyrfti, eda starfa adra luti, þá er konongr villdi. En bændor spurdo konong þess, fyri hví hann hefdi meira lid en lög stódo til, eda fyrri konongar höfdo haft, þá er hann fór á veizlor þær sem bændor giördo fyrir hönom. Konongr svarar sva: Eigi fæ ek betr styrt ríkino, oc eigi stendr meiri ógn af mer en af födr mínom,

þó at ec hafa hálfo meira lid enn hann hafdi; en engi pynding gengr mer til þessa vid ydor, eda þat at ec vilia þröngva kostom ydrom.

## CAP. V.

### DAUDI SVEINS KONONGS ÚLFSSONAR.

Sveinn konongr Ulfsson vard sótt-daudr X vetrom eptir fall Haralldanna. Þar næst var konongr í Danmörk Haralldr Hein, son hans, III vetor; þá Knútr hinn Helgi, annar son Sveins, VII vetor; þá Olafr, þridi son Sveins konongs, enn VIII vetor. Olafr Noregs konongr feck Ingiridar, dóttur Sveins Dana-konongs; en Olafr son Sveins Dana-konongs feck Ingigerdar, dóttur Haralldz konongs, systor Olafs Noregs konongs. Olafr konongr Haralldzson, er sumir menn köllodo Olaf enn Kyrra, en margir Olaf Bónda, því at hann sat í kyrd, oc hafdi engi stríd utanlandz ne innan, oc eigi gaf hann helldr ödrom yrkis-efni at heria á hans ríki; hann gat son vid Þóro Ióans-dóttr, sá var nefndr Magnús; var sá sveinn inn frídasti synom oc all-mannvænn, óx hann upp í hird konongs.

## CAP. VI.

### IARTEGNIR ÓLAFS KONONGS.

Olafr konongr let göra stein-munsteri í Nidarósi, oc let setia þar sem fyrst hafdi verit iardat lík Olafs

konongs, oc var þar yfir sett alltarit sem gröftr konongs hafdi verit, þar var vígd Kristz-kirkia, var þá oc þannug flutt skrín Olafs konongs, oc sett þar yfir alltari: urdo þar þá margar iartegnir. En annat sumar eptir at iamlengd þess er kirkian hafdi vígd verit, þá var all-fiölment; þat var Olafs-vöko aptan, at blindr madr feck þar syn sína. En siálfan messo-daginn, þá er skrinit oc heilagir dómar voro úthafdir oc bornir, enn skrínit var sett nidr í kirkio-gardinn, sva sem sidvenia var til, þá feck einn madr mál sitt, er lengi ádr hafdi mállaus verit, oc söng þá lof Gudi oc hinom heilaga Olafi konongi med miúko túngo-bragdi. Kona var enn inn þridi madr, er þannug hafdi sótt af Svíþiódo austan, oc hafdi í þeirri för þolat mikla naud fyrir siónleysis sakir; en þó treysti hon miskun Guds, oc kom þar farandi at þeirri hátíd. Hon var leidd siónlaus í musterit at messo um daginn, en fyrr enn tídom var lokit, sá hon bádom augom, oc var þá skygn oc biarteygd, en ádr hafdi hon verit blind fiortan vetor. Fór hon þadan med háleitom fagnadi, lofandi Gud oc hinn helga Olaf konong.

## CAP. VII.

## FRÁ SKRÍNI ÓLAFS KONONGS.

Sá atburdr giördiz í Nidarósi, at skríni Olafs konongs var borit um stræti, at haufogt vard skrínit,

sva at ei fengo menn borit fram or stad; en sídan var skrínit nidrsett, en brotit upp strætit, oc leitat hvat þar var undir, oc fanz þar barns-lík, er myrt hafdi verit, oc fólgit þar; var þat þá á brott borit, en búit aptr strætit, sva sem ádr hafdi verit, en borit skrínit at vanda.

## CAP. VIII.

## FUNDR KONONGANNA ÓLAFS KYRRA OC KNÚTZ HELGA, OC HERBÚNADR TIL ENGLANDZ.

Olafr konongr inn kyrri var vinr mikill Knútz Dana-konongs mágs síns. Þeir lögdo stefno med ser, oc hittuz í Elfinni vid Kononga-hello, þar sem konongar voro vanir at finnaz. Rædir þá Knútr konongr, at hann villdi at þeir gördi her vestr til Englandz, slíks sem þeir átto at hefna þar, Olafr konongr at upphafi, oc sídan Dana-konongar. Gör nú annat-hvart, sagdi Knútr konongr, at ec mun fá þer LX skipa, oc giörsc þú höfdingi fyrir, eda ellar man ec görasc höfdingi fyrir, oc fá þú mer LX skipa. Þá mællti Olafr konongr: Þetta mál er þer talit, Knútr konungr, sagdi hann, er mer skapfellt; en þat er miöc ólíkt oc óiafnt: þer frændor hafit borit til meiri gipto at vinna England med miklom sóma, sem var Knútr konongr inn Ríki; nú

er líkligt at þat muni ættgengt med yckor. En þá er Haralldr konongr, fadir minn, fór vestr til Englandz, feck hann bana; var þá í landino allt it besta lidit; eyddiz þá Noregor sva at mannvali, at sídan hefir eigi slíks kostr verit, oc fyrst at upphafi foringi slíkr sem var Haralldr konongr, bædi at viti oc hardfengi; var sú ferd at öllom lutom ágætliga vel búin, oc gafz sem þer vitit. En nú kann ec ætla mitt rád, hverso myklo ec em vanfærri til at göraz höfdingi fyrir, oc vil ec ydr tilkiósa, at þer farit med minni eflingo. Oc feck Olafr konongr Knúti LX stór-skipa, med ágætom búnadi oc trausto lidi, oc setti þar fyrir höfdingia lendamenn sína; oc var þat mællt, at stórmannliga væri herinn tilfenginn. Er þat oc sagt í Knútz Sögo, at Nordmenn einir rufo eigi leidángrinn, þá er saman var kominn herinn; voro þeir Knúti lydugir. Enn Danir bido eigi konongs, fóro Nordmenn þá aptr til Noregs med villd oc samþycki Dana-konongs. Þat virdi Knútr konongr vid Nordmenn, er þeir fóro heimleidis, oc gaf þeim leyfi at fara í kaupferdir í gegnom hans land oc strauma, hvart er þeir villdi; oc sendi hann Noregs konongi dyrligar giafir fyrir sitt lidsinni, en hann lagdi á Dani reidi oc fegialld mikit her fyrir, þá er hann kom heim í Danmörk; fóro þeirra skipti svo, at þeir

siálfir

siálfir Danir drápo Knút konong, oc þoldo hönom eigi rettdæmi.

## CAP. IX.

### FRÁ ÓLAFI KONONGI KYRRA OC BÓNDA NOCKROM ER SKILLDI FUGLS RÖDD.

Þat barsk at eitt sinn of sumar, þá er menn Olafs konongs höfdo farit um land, oc dregit saman tekior oc landz-skylldir hans, at konongr fretti er þeir komo heim, hvar þeim var bezt fagnat í för þeirri? Þeir sögdo þat vera hiá bónda nockrom í eino fylki í Lista-leni; þar er búandi-karl einn gamall, sá er veit fyrir marga luti, oc höfo ver spurt hann margs, oc hefir hann orleyst, oc einkis höfom ver hann þess spurt, at hann gerdi eigi grein á; oc þat hyggiom ver, at hann kunni fugls-röddo at skilia. Kongr mællti: hvat fari þer med hegóma slíkan? qvad hann mikla heimsko at trúa slíko. Þat bar at litlo sídar, er konongr sigldi fyri land fram, oc mællti er þeir sigldo of sund nockor: hvat bygdom er her á land upp? Þeir svörudo: frá þesso fylki sögdom ver ydr, herra, at oss væri her best fagnat. Þá mællti konongr: hvat húsi stendr þar uppi frá sundino? Þeir svara: þat hús á sá hinn fródi karl, er ver sögdom ydr frá. Þeir sá eitt ross hiá húsino.

þá mællti konongr: farit nú þá, oc takit rossit oc drepit. þeir svörudo: eigi viliom ver giöra hönom skada. Konongr mællti: ec vil ráda, heyggvit höfut af rossino, oc variz at blódit komi nidr, berit út á skip mitt rossit, farit sídan eptir karli, oc segit hönom eigi til, en líf ydart man vidliggia. Sídan göra þeir sva sem fyrir var mællt; finna karl, oc bera hönom konongs örindi, oc er hann hittir konong, þá mællti konongr til hans: hver á gard þann, er þú byrr á? hann svarar: þer eigut, herra, oc takit leigur af. Konongr mællti sva: seg oss leid fram fyrir nesit, því þer mun her vera kunnigt. Karl geck í bátinn, oc reri fyri konongs-skipino; oc er hann hafdi skamma stund róit, flygr kráka ein fram um skipit oc lætr illiliga. Bóndi lítr til hennar. Konongr mællti: þicki þer nockors umvert, búandi? Svo er víst, segir hann, herra. þá flygr önnur kráka oc yfir skipit, oc skrækti vid oc let illa. þá vard bónda sva íllt vid, at hann gádi eigi at róa, oc verdr árin laus í höndom hönom. þá mællti konongr: miöc íhugar þú bóndi krákona, eda þat er hon segir. Bóndi mællti: herra, nú er mer grunr á, hvat hon segir. Oc it þridia sin fló kráka, oc let sú verst, oc legz nær nidr at skipino, en bóndi kastadi þá áronom, oc gáir eigi ródrar, oc stendr upp í móti konongi. þá mællti konongr: mikils þicki þer nú umvert, bóndi, eda hvat segir

hon nú? Bondi mællti: þat er líkligt, at hon viti eigi, eda ec. Konongr mællti: seg nú. Þá kvad bóndi víso:

Segir vetr gömul
veit sú ógörla
segir tvæ-vetr
trúic eigi at helldr.
Þre-vetr segir
þikira mer líkt
kvedr mic róa
merar-höfdi
en þic konongr
þióf míns fiár.

Sú þre-vetra segir, at þer bidit mic at róa her á skipi fyrir ydr, en hafit þó látit taka frá mer fe mitt. Konongr mællti: hvat er nú, bóndi, villtu kalla mic þióf? eigi mæliz þer þá vel til vor. Svo er herra, segir bóndi, eigi er þat vel mællt, oc eigi þyfi ec ydr, enn haft munut þer hafa vid mic nockurn prett, því krákan segir þer hafit ross (naut) mit her í skipino. Oc eptir nockrar samrædor þeirra konongs oc bónda, veitti konongr hönom gódar giafar, oc gaf hanom upp landskylldir iardar þeirrar er hann bió á, oc þar med gardin til æfinligrar eignar, oc umfram þat miklar giafir adrar. Olafr konongr var óhnöggr at fegiöfum vid

menn, oc gaf hann allskyns gersimar. Sva segir Stúfr scálld:

Gefr áttstudill iöfra
aurr oc steinda knaurro
hann vill hnöggvi sinnar
há-bryniot skip synia.
þiód nytr Olafs audar
annar konongr mannom
se þú hverr slíkt fe reidir
sik beztan gram miklo.

Her þengill gledr hríngum
hodd-örr sá er rydr odda
beck-sagnir lætr bragna
bragningr geofum fagna.
Nordmönnom gefr nenninn
Noregs konongr stórum
örr er Engla þverrir
Olafr borinn sólo.

Hilmir gefr oc hiálma
hird sva at eingis virdir
konongs pryda þau klædi
kynstórr firum brynior.
Dyggr lætr þúngar þiggia
þengill af ser drengi
vas launar sva vísi
verdungu hálfs gerdar.

Olafr gefr sva iöfra
galli engi má sniallra

höggvit gull til hylli
hilldinga konr milldi.
Grámr er und heidum himni
hann er fremstr konung-manna
spurdo hve glict má görva
giöflundr borinn undir.

## CAP. X.

## DAUDI ÓLAFS KONONGS.

Olafr konongr Kyrri sat optliga í heradi at stórbúom sínom; en er hann var austr í Ranríki á Haukabæ at búi síno, þá tók hann sótt þá, er hann leiddi til bana; þá hafdi hann konongr verit at Noregi XXVI vetor, en hann var til konongs tekinn einom vetri eptir fall Haralldz konongs. Lík Olafs konongs var flutt nordr til Nidaróss, oc iardat at Kristz-kirkio þeirri, er hann let siálfr göra. Hann var hinn vinsælasti konongr, oc hafdi Noregr mikit audgaz oc prydz undir hans ríki.

XI.

# SAGA MAGNUSAR KONONGS INS BERFÆTTA.

## CAP. I.

### UPPHAF MAGNUSAR KONONGS BERFÆTTA OC HÁKONAR BRÆDRUNGS HANS.

Magnus son Olafs konongs var þegar til konongs tekinn í Víkinni, eptir andlát Olafs konongs, yfir allan Noreg. En er Upplendingar spurdo andlát Olafs konongs, þá tóko þeir til konongs Hákon Þóris-fóstra, brædrung Magnusar konongs. Sídan fóro þeir Hákon oc Þórir nordr til Þrándheims, en er þeir komo til Nidaróss, þá stefndo þeir Eyra-þíng, oc á því þíngi beiddi Hákon bændor at gefa ser konongs nafn, oc var hanom þat veitt, at Þrændor tóko hann til konongs yfir hálfan Noreg, sva sem haft hafdi Magnus konongr fadir hans. Hákon tók af vid Þrændi allt land-aura-gialld, oc gaf þeim margar adrar rettarbætur; hann tók þá oc af vid þá íóla-giafir. Sneroz þá oc allir Þrændir til vináttο vid Hákon konong. Þá tók Hákon konongr ser hird, oc fór sídan aptr til Upplanda; hann veitti Upplendingom rettarbætur allar slíkar sem Þrænd-

om, gerdoz þeir oc fullkomnir vinir hans. Þá var þetta qvedit í Þrándheimi:

Ungr kom Hákon híngat
hann er beztr alinn manna
frægdar milldr á folldo
fór med Steigar-Þóri.
Syni Olafs baud sídan
siálfr upp Noreg hálfan
milldr en Magnus villdi
málsniallr hafa allan.

## CAP. II.

## DAUDI HÁKONAR KONONGS.

Magnus konongr fór um haustit nordr til kaupángs, en er hann kom þar, þá fór hann þegar í konongs-gard, oc var þar at herbergino, oc dvalldiz þar aundverdan vetr; hann hellt VII lángskip í vök þydri fyri konongs-gardi í Nid. En er Hákon konongr spurdi, at Magnus konongr var kominn í Þrándheim, þá fór hann austan of Dofrafiall, oc sva til Þrándheims oc til kaupángs, oc tók hann ser herbergi í Skúla-gardi, ofan frá Clemens-kirkio, þar var hinn forni konongs-gardr. Magnusi kongi líkadi illa stór-giafir þær er Hákon konongr hafdi gefit bændom til vinsælldar ser, oc þótti Magnusi konongi sin eign gefin öngom mun sídr: oc yfdiz hugr hans miöc vid þat, oc þóttiz mishalldinn

af vit frænda sinn, er hann skylldi sva miklo minni tekior hafa, en fadir háns hafdi haft eda forellri; oc kendi hann þessi rád Þori. Hákon konongr oc Þórirr urdo þessa varir, oc var uggr á, hver tiltæki Magnus mundi hafa, þótti þeim þat helldr grunsamligt, er Magnus hafdi lángskip á floti tiölldut oc búin. Um várit eptir Kyndilmesso þá lagdi Magnus konongr brott or bænom á náttar-þeli med tiölldudom skipunom, oc höfdo liós undir tiölldom; þeir helldo út til Hefringar, oc bió þar um nóttina; þeir gördo þar ellda stóra á landi uppi. Þá hugdi Hákon konongr oc lid þat, er í bænom var, at þat væri gört til svika, oc let hann blása lidino út á Eyrar, oc sótti allr kaupángs lydr til hans, oc voro í lidsafnadi alla nótt. En um morguninn er lysti, oc Magnús konongr sá allzheriar lyd á Eyronom, þá hellt hann út or firdinom, oc sva sudr í Gulaþíngs-laug. En Hákon konongr þackar mönnom lidsinni sitt, er þeir höfdo nú synt vid hann; oc bió þá ferd sína í Vik austr, oc átti ádr mót í bænom, taladi þá oc bad menn vinátto, oc het sinni vinátto öllom, hann qvad ser nockurn skugga á vera of vilia Magnuss konongs frænda síns; Hákon konongr sat á hesti, oc var farbúinn: allir menn heto hönom fullkominni sinni vinátto med gódòm vilia oc fylgd, ef hann þyrfti til at taka, oc fylgdi honom undir Steinbiörg út allr lydr. Hákon kon-

ongr fór þá upp til Dofra fiallz. En er hann fór yfir fiallit, reid hann um daginn eptir riúpo nockorri, er fló undan hanom; oc í þeirri ferd feck hann sótt þá er hann leiddi til bana, oc andadiz þar á fiallino; oc var lík hans nordr flutt, oc kom hálfom mánadi sídarr til kaupángs enn hann hafdi brott farit. Móti líkama hans geck allr bæar-lydr klöckvandi, oc flestir grátandi, þvíat allir menn unno hönom húg-ástum. Lík Hákonar konongs var nidrsett í Kristz-kirkio; oc höfdo þeir Magnus konongr þá rádit landino II vetor. Hákon konongr var madr vel hálf-þrítogr at alldri, hann hefir höfdingi verit einn ástsælastr í Noregi af allri alþydo. Hann hafdi farit nordr til Biarmalandz, oc átti þar orrostor, oc feck sigr.

## CAP. III.

## HERNADR Í HALLANDI.

Magnus konongr hellt um haustit austr í Vík; enn er váradi, hellt hann sudr til Hallandz, oc heriadi þar vída. Þá brendi hann þar Vikars-dal, oc enn fleiri heröd; feck hann þar fe mikit, oc fór sídan aptr í ríki sitt. Sva segir Biörn hinn Krepphendi í Magnuss-drápo:

Vítt let Vorsa drottinn
vard skiótt rekinn flótti

hús sveid Hörda ræsir
Halland farit brandi.
Brendi budlúngr þrænda
bles kastar hel fasta
vakti Víkdölsk eckia
vids mörg heröd sídan.

Her getr þess, at Magnus konongr gördi it mesta hervirki á Hallandi.

## CAP. IV.

## FRÁ STEIGAR-ÞÓRI.

Sveinn er madr nefndr son Haralldz Flettis, Danskr madr at kyni, hann var hinn mesti víkingr oc bardaga-madr, oc hinn hraustasti, ættstórr madr í síno landi; hann hafdi verit med Hákoni konongi Magnussyni um hríd, oc verit í kærleikom miklom vid hann. Enn eptir fráfall Hákonar konongs þá trúdi Steigar-Þórirr illa því, at hann mundi komaz i sætt eda vinátto vid Magnus konong, ef ríki Magnus konongs gengi yfir land allt, fyrir sakir tilverka oc mótgöngo þeirrar er Þórir hafdi ádr haft vid Magnus konong. Sídan hófo þeir Þórir oc Sveinn rád þat, er sídan vard framgengt, at þeir reistu flock med styrk oc fiölmenni Þóris í mót hönom. Enn fyrir því, at Þórir var þá gamall madr oc þúngfærr, þá tók Sveinn vid stiórn oc höfdingia-nafni fyrir flockinom. At þesso rádi hurfo fleiri höfdin-

giar: þeirra var æztr Egill son Aslaks af Örlandi. Egill var lendr-madr, hann átti Ingibiörgo, dóttur Augmundar þórbergssonar, systur Skopta í Gizka. Skiálgr het madr ríkr oc audugr, Erlingsson af Iadri, er enn kom til flocksins. þess getr þorkell Hamars-skálld í Magnus-drápo:

Vítt dró sínar sveitir
saman stór-hugadr þórir
helldr vorot þau haulldom
haglig rád med Agli.
Snörp frá ec á því er urpo
endr Skialgs vinir lendir
menn vid mord hauks brynni
mein of afl ser steini.

þeir þórir hófo flockinn á Upplöndom, oc komo ofan í Raumsdal á Sunnmæri, oc öfludo ser þar skipa, helldo sídan nordr til þrándheims.

## CAP. V.

## FRÁ ATGERDOM ÞÓRIS.

Sigurdr Ullstrengr het lendrmadr, sun Lodins Viggiarskalla, hann samnadi lidi med aurvar-bodi, þá er hann spurdi til flocks þeirra þóriss, oc stefndi öllo lidi því, er hann feck, til Viggio. Enn Sveinn oc þórir helldo oc þángat lidi síno, oc bördoz vid þá Sigurd, oc fengo sigr, oc veitto mikit

mann-spell, en Sigurdr flydi, oc fór á fund Magnus konongs. Þeir Þórir foro til kaupángs, oc dvölldoz þar um hríd í firdinom, oc kom þar mart lid til þeirra. Magnus konongr spurdi þessi tídindi, oc stefndi þegar lidi saman, oc hellt sídan nordr til Þrándheims. Enn er hann kom inn í fiördinn, oc þeir Þórir spurdo þat, þá þeir lágo út vid Hefring, oc voro búnir at hallda út or firdinom, þá röro þeir á Vagnvík á strönd, oc gengo þeir af skipom, oc komo nidr í Þexdal í Selio-hverfi, oc var Þórir borinn í börom of fiallit. Sídan redo þeir þar til skipa, oc fóro nordr á Hálogaland. Enn Magnus konongr hellt eptir þeim, þá er hann var búinn, or Þrándheimi. Þeir Þórirr fóro nordr allt í Biarkey, oc flydi Ión undan oc Vidkunnr son hans. Þeir Þórir rænto þar lausa-fe öllo, en brendo bæinn oc langskip gott, er Vidkunnr átti. Þá mællti Þórir, er sneckian brann oc skipit halladiz: Meir á stiórnborda, Vidkunnr! Þá var þetta ort:

Bredr í Biarkey midri
ból þat er ec veit golazt
tæra þarft af Þóri
þytr vandar böl standa.
Jóan mun eigi frya
ellz ne ráns er kvelldar
svidr biartr logi breidan
by leggr reyk til skyia.

## CAP. VI.

### DAUDI ÞÓRIS OC EGILS.

Þeir Ión oc Vidkunnr fóro dag oc nótt, til þess er þeir fundo Magnus konong. Þeir Sveinn oc Þórirr helldo oc nordr lidi síno, oc rænto vída um Hálogaland. Enn er þeir lágo á firdi þeim er Harmr heitir, þá sá þeir Þórir sigling Magnus konongs, oc þóttuz þeir eigi hafa lid til at beriaz, oc röro undan oc flydo. Sneri Þórirr oc Egill til Hesiotúna, en Sveinn reri út til hafs, en sumt lidit þeirra reri inn í fiördinn. Magnus konongr hellt eptir þeim Þóri. Enn er skipin rendoz at í lendingonni, þá var Þórir í fyrir-rúmino á skipi síno. Þá kalladi Sigurdr Ullstrengr á hann: ertu heill Þórirr? Þorirr svaradi: heil at höndom en hrumr at fótom. Þá var þetta qvedit:

Spurdi Ullstrengr ordi
at rendo scip huatla
suerd bito snarpra fyrda
sætt hue Þórirr mætti.
Lundr quazt heill at höndom
hiörs frágom þat giörva
giördiz glamm á bordom
griots enn hrumr at fótum.

Þá mællti Sigurdr: feitr ertu Þórirr; hann svarar: matr min velldr því oc munngát. Þá flydi lidit þeirra Þóris allt á land upp, en Þórir vard hand-

tekinn. Egill var oc hand-tekinn, þvíat hann villdi eigi flyia frá kono sinni. Magnus konongr let flytia þá Þóri báda í Vambar-hólm; en er Þórirr var uppleiddr, reikadi hann á fótom; þá mællti Vidkunnr: Meir á bakborda, Þórir! Sídan var Þórir leiddr til gálgá, þá mællti hann:

Varom felagar fiórir
fordom einn vid styri.

Oc er hann kom at gálganom, mællti hann: Ill ero ill rád. Sídan var hann hengdr; oc þá er uppreid gálg-treit, var Þórir sva höfigr, at sundr slitnadi hálsinn, oc fell búkrinn nidr til iardar. Þórir var manna mestr bædi hár oc digr. Egill var oc til gálga leiddr, enn er konongs þrælar skylldo hengia hann, þá mællti Egill: Eigi skulo þer mic fyri því hengia, at eigi veri hverr ydar makligri at hánga. Þá var þetta kvedit:

Ord frá ec Agli verda
unnar dags á munni
sól vid siklings þræla
satt einardár latta.
Hvern þeirra kvad hærra
hialldr bliks en sic miklo
beid ofmikit eydir
ángr makligra at hánga.

Magnus konongr sat hiá á medan þeir voro hengdir, oc var sva reidr, at engi var hans manna sva

diarfr, at þyrdi at bidia þeim fridar. Þá mællti konongr, er Egill sparn gálgann: Illa koma þer göfgir frændor í þörf. I því syndiz, at konongr villdi hafa verit bedinn, at Egill hefdi lífit. Sva segir Biörn enn krepphendi:

Snarr raud Sygna harri
sverd á úthlaups ferdom
vitt rann vargr at slíta
varma brád á Harmi.
Fráttu hve fylkir mátti
fór sva at hengdr var Þórir
för vard gunnar görvis
greid Drottins svik leida.

## CAP. VII.

## FRÁ REFSINGOM VID ÞRÆNDI.

Magnus konongr hellt sídan sudr til Þrándheims, oc lagdi inn í Þrándheim, oc veitti þar stórar refsingar þeim mönnom, er sannir voro landráda vid hann, dráp hann suma, enn brendi bú fyrir summom. Sva segir Biörn enn Krepp-hendi:

Hrafn greddir vann hrædda
hlífar stygdr í bygdom
Þrænska drótt er Þótti
þeim markar böl sveima.
Hygg ec at hersa tveggia
her balldr lyki alldri

sinniör vera svaro
svangr flaug aurn til hánga.

Sveinn Haralldzson Flettis flydi fyrst í haf út, oc sva til Danmarkar, oc var þar til þess er hann kom ser í sætt vid Eystein konong, son Magnus konongs, hann tók Sveinn í kærleika, sva hann gerdi hann skutil-svein sinn, oc hafdi hann í virdingom. Magnus konongr hafdi þá ríki einn saman; hann fridadi vel fyrir landino, oc eyddi öllom víkingom oc útilego-mönnom; hann var madr röskr oc herskárr, starfsamr, oc líkari í öllo Haralldi konongi födr-födr sínom at skaplyndi, enn födr sínom.

## CAP. VIII.

## FRÁ SVEINKA BÓNDA OC ELFARGRÍMOM OC SIGURDR ULLSTRENG.

Madr het Sveinki, oc var Steinarsson, hann bió austr í Vík vid Elfi, enn ríkasti madr. Hann hafdi fóstrat Hákon Magnusson ádr Þórir af Steig tók vid hönom. Sveinki hafdi eigi þá enn gefiz í valld Magnusi konongi. Magnus konongr let kalla til sín Sigurd Ullstreng, oc sagdi hanom, at hann vill senda hann at boda Sveinka af löndom oc konongs eignom, þvíat hann hefir enn eigi til var hneigz, ne sóma gört; sagdi vera lendamenn í Vík austr,

Svein

Svein Bryggiofót, Dag Eilífsson oc Kolbiörn Klacka, at flytia vart mál til rettra laga. Þá mællti Sigurdr: eigi vissac þess manns van í Noregi, er þrír lendir menn mundi þyrfa til at koma vid mitt fulltingi. Konongr mællti: eigi er tiltekit, nema þurfi. Nú byrr Sigurdr ferd sína eino skipi, oc hellt austr til Víkur, oc stefnir saman lendom mönnom, oc sídan er þíngs kvatt of Víkina, oc þeim tilbodit austan Elfar byggionom, oc öllom ödrom, oc verdr þar fiölment, en er þíngit var sett, átto menn of hríd at bída Sveinka. Sídan er sen ferd manna, oc var þat lid sva vel búit at vapnom, sem á eina is-möl væri at líta; oc koma þeir Sveinki á þíngit, oc setiaz nidr í einn hríng; voro þeir allir iárnklæddir, oc glóadi á; þeir höfdo V hundrot manna. Þá stendr Sigurdr upp, oc mællti: Guds qvedio oc sína sendir minn herra Magnus konongr Guds vinom oc sínom, öllom lendom mönnom, och ödrom sínom undir-mönnom í ríkino, ríkom bændom, med allri alþydo, oc þar med fögur ord oc vináttu-heit; bydr hann þeim öllom vinátto sína oc gódvilia, þeim er til hans vilia hneigiaz. Nú vill konongr syna sic í allri blído oc gódom fridi til allra sinna manna, þeirra er til hans vilia þióna, vill hann vera þeirra oc allz ríkisins nádugr herra; baud hann sic til fórysto, oc vera bríóst fyrir öllom Noregs mönnom:

er ydr gott vel at taka konongs máli oc slíkom bodom. Þá stendr upp madr í flocki þeirra Elfargrímanna mikill vexti ofsa þrútuligr í lodkápo, hann hafdi refdi um öxl, oc stál-hatt mikinn á höfdi; hann leit reiduliga til, oc mællti: Erat hlums vant, qvad refr, dró haurpo at ísi; hann taladi eigi fleiri ord, oc setz þá nidr aptr. Nockoro sídarr stód upp Sigurdr Ullstrengr, oc tekr sva til orda: Litlar greinir oc tengingar konongs mála höfom ver or flocki þeirra Elfargrímanna, oc medallagi vingiarnligar; en sic metr hverr í slíko, oc mun verda en at göra berara konongs erindi. Þá beiddiz hann land-skyllda af ríkis mönnom oc leidángrs görda, oc alls annars konongligs sóma, renni hver hugom heim, hve þat mun gört hafa, unni hver ser sóma, en konongi rettra laga, ef ádr hefir nockot áskort. Setz nidr sídan. Sami madr rís upp í flocki Elfargrímanna, sem fyrr, hann varpadi nockvat sva hettinom, oc svarar snæliga: Snuggir sveinar, qvodo Finnar, átto andra fala; setz nidr sídan. Oc nockoro sídarr reis Sigurdr upp, oc hafdi ádr tal tekit vit lenda menn, sagdiz eigi þurfa fiödr at draga um sköruligt konongs erindi; oc er nú helldr reiduligr, segiandi at þeim heyrdi eigi at taka sva hædiliga konongs bodum oc eyrendum, því þat væri eigi sæmiligt. Hann var í raudum skarlats kyrtli, oc hafdi vesl blátt yfir ser; hann varpadi veslino, oc mællti en framar:

Nú er sva komit, at hverr verdr at hafa gætur á siálfom ser, oc stunda eigi at draga dár at ödrum, en hverr lysir siálfr hverr madr at se; þarf eigi af manni at skera, er nú þat sed hvers ver þickiom verdir, er þat þolanda, en hitt er meira, er neysuliga er svarat konongs erindi, virdir þó hverr sic. Madr heitir Sveinki, oc er Steinarsson, byrr hann austr vid Elfi, konongr vill hafa af hönom rettar land-skylldir oc sínar eignir, eda boda hönom af landom ellar; oc er eigi at slota vid eda svara skotyrdom; muno verda hönom iafn-ríkir, þótt hann taki óvirdiliga voro máli, oc er nú betra enn sídar at snúa áleidis síno máli med sóma, en bída neyso fyrir þriósko; oc setz nidr. Þá rís Sveinki upp, oc kastadi hettinom á bak ser aptr, veitti hann Sigurdi mörg hædidilig ord, oc mællti: Putt, putt, sagdi hann, skömm hundum, skitu refar í brunn karls; heyr á fyrn, aumr ermlauss madr oc af bakskyrtan, hvat bodar þú mer af löndom? sendir voro fyrr þeirra erinda þer skylldir, Sigurdr Ullbelgr, het annar Gilli Bakrauf, en annar verra nafni, voro nótt í húsi, oc stálo hvars komo: hvat bodar þú mer af löndom? Letsto eigi sva mikit fordum, var minna kapp þitt, medan Hákon konongr fóstri minn var á lífi, er þú vart sva hræddr fyrir hanom, ef þú vart á leid hans, sem mús er í skreppo; vartu sva hulldr fötom, sem hundr á skipi; var þer trodit í

kyl, sem korni í belg; vartu sva elltr af ódölom, sem árs gelldingr or stódi; áttir þú einn veg andar-rúm, sem otr í kelpo: muntu boda mer af löndom? hvat þá, lát þú helldr gódra giallda vert, því þú hefir audno á, ef þú kemz med fiörvi brott; oc stöndom upp oc at þeim. Sprutto þá upp allir hans menn, oc gerdo mikit vapna-brak. Sá þá Sveinn Bryggiofótr oc adrir lendir menn þat eitt fánga rád, at skióta hesti undir Sigurd, oc reid hann sva á skóg á brott. Lykr sva, at Sveinki fer heim til iarda sinna; en Sigurdr Ullstrengr komz land-veg vid illan leik nordr í Þrándheim á fund Magnus konongs, oc sagdi hönom sva búit af ferd sinni. Þá mællti konongr: Þurftir þú nú nockvat traust lendra manna minna. Sigurdr let illa yfir ferdinni, oc kvedz fyrir hvern mun hefna vilia, oc eggiadi konong miöc. Magnus konongr let búa V skip, oc ferr þegar hann er búinn sudr med landi, oc sva austr til Víkur, þiggr þar dyrligar veizlor af lendom mönnom sínom. Konongr sagdi þeim, at hann villdi hitta Sveinka; er því fyrir ydor at lysa, segir hann, at ec ætla hann muni vilia vera konongr yfir Noregi. Þeir segia, at Sveinki var madr bædi ríkr oc ódæll. Nú fer konongr or Víkinni, þar til er hann kom fyrir bæ Sveinka. Þá beidaz hinir lendo menn at vita tídindi, oc gánga fyrst upp frá skipom; en er þeir koma siálfir uppá land, siá þeir ferd

Sveinka, at hann var kominn á leid frá bæ sínom med her mans, oc allvel búit. Þeir hinir lendo menn hallda á lopt hvítom frid-skilldi; oc er Sveinki ser þat, stödvar hann lidit, oc hittaz sídan. Þá mællti Kolbiörn Klacki: Magnus konongr sendir þer qvedio Guds oc sína, oc bidr þic gæta sæmdar þinnar en tignar konongs, oc búaz eigi vid ofstopa at beriaz vid konong; baudz Kolbiörn til at bera fridmál milli þeirra, oc bidr hann stödva lid sitt. Sveinki sagdiz bída mundi, fóro ver því á mót, at eigi trædi þeir akra vara. Þeir hitto konong, oc sögdo allt myndo á hans valldi. Konongr mællti: skiótr er dómr minn, flyi hann af landi brott, oc komi alldri til Noregs aptr medan mitt ríki er; láta skal hann oc feit allt. Mun eigi þat meiri sæmd, sagdi Kolbiörn, oc betra ödrom konongom til spurningar, at þú görir hann or landi, oc hann megi vera med ríkom mönnom fyri fiár sakir; en hann man alldregi aptr koma, medan ver höfom löndin, en þú görir þá ríkdómliga: hygg at vid siálfom þic, oc vird til ord var. Konongr mællti: fari hann í brott þegar. Þá hitta þeir Sveinka, oc segia hönom blíd ord konongs, oc þat med at konongr bidr hann or landi fara, oc göra hönom þann sóma, fyrir þat er hann hafdi afbrugdit vid hann; er þat sómi hvarstveggia, at unna konongi sæmdar, hygg at. Þá mællti Sveinki: skipan er þá á ordin, ef konongr

mælir blídliga til vor; hví mynda ec lönd flyia, eda eigur mínar? heyr á, segir hann, betra þicki mer at falla á eignom mínom, en flyia ódol mín. Segit sva konongi, at eigi fly ec sva lángt hedan, at se eitt aur-drag. Kolbiörn mællti: eigi er þat einsætt; er betra at vægiaz til virdingar vid inn bezta höfdingia, en bægiaz til stórra vandræda. Er gódom dreng gott, þar sem hann lifir. Mant þú þar mest metinn, er menn ero ríkastir fyrir, en halldit hlut þínom vid slíkan höfdingia. Heyr heit var, oc vird nockurs var erindi, biódumz ver til forvisto um eignir þínar, oc trúligrar vardveizlo; oc þat med, er þú kemr aptr til iarda þinna, at giallda alldregi skatt, nema þat se þinn vili; skulo ver þar til leggia bædi fe oc fiör: drep eigi hendi vid, oc firr sva góda drengi vandrædom. Þá þagnar Sveinki, oc mællti sídan: vitrliga er eptirleitat, en þó grunar mic, hvart eigi mun vera hallat konongs erindi, en fyrir sva mikinn gódvilia sem þer synit, skal virda ord ydar, oc man ec fara or landi vetr-lángt, ef þá skal ec í fridi hafa eignir mínar, vid þessi heit ydar; seg þau mín ord konongi, at fyrir ydrar sakir göri ec þat, en eigi konongs. Þá hitta þeir kon-ong, oc segia, at Sveinki leggr allt á hans valld, en beidir þar fyrrir sóma af ydr, vill vera í brott III vetor, oc þá aptr koma, ef þat er konongs vili; gör fyrir konongdóm þinn oc bæn vara, lát sva

vera, er alt er á þínom dómi, oc skulom ver allt vidleggia, at hann komi eigi aptr, nema at þínom vilia. Þá mællti konongr: drengiliga flyti þer, oc fyrir ydrar sakir þá skal slíkt vera, sva sem þer beidit; segit hönom sva. Þeir þöckudo konongi med fögrom ordom; fóro sídan at hitta Sveinka. Segia hönom blídlig konongs ord; erom ver fegnir ordnir, ef þid mættit sættaz: beidiz konongr þess, at nefnd væri á III vetra frest of brautferd þína, en væntom þess, ef ver vitom sannendi, at hann man fyrri eigi þykiaz þín mega án vera, oc er virdingar rád at neita eigi. Sveinki sagdi: hvat er þá helldr? þá segit konongi, at ec göra hönom eigi nú fyrst skapraun í hervist minni, oc taki þer vid varnadi mínom. Snyr lidi síno heim á bæinn, oc þegar á brott, oc var ádr búinn vid þesso. Kolbiörn er eptir, oc byr þar til veizlo í móti Magnúsi konongi, sem þat væri ádr rádit. En Sveinki rídr nú uppá Gautland med öllo lidi síno, því er hönom likar. Konongr þiggr veizlor at búom sínom, ferr sídan aptr til Víkr, oc ero þat sídan kalladar konongs eignir er Sveinki hefir átt, en Kolbiörn lætr vardveita. Konongr tekr veizlor í Víkinni. Sidan ferr hann nordr; er nú kyrt um hríd. Nú legz á þá íllþydi Elfar-grímana, er höfdingialaust er, oc ser konongr, at eydaz man ríkit austr þannog. Þótti þat þá einsætt, at unna Sveinka at brióta straum fyrir, syniz þat hæfiligaz;

oc sendir konongr Sveinka ord tysvar, en hann fór eigi fyrr en Magnus konongr fór siálfr sudr til Danmarkar; þar fann hann konung, oc sættuz þeir Sveinki at fullo, oc fór Sveinki þá heim til iarda sinna oc búa, oc var iafnan sídan hinn mesti oc trúasti vin Magnus konongs, oc styrkti ríki hans austr þar; helldo þeir kærleikom medan þeir lifdo.

## CAP. IX.

## HERNADR MAGNUS KONONGS Í SUDREYOM.

Magnus konongr byriadi ferd sína or landi, oc hafdi med ser lid mikit oc frítt, oc gódan skipakost, hellt hann lidi því vestr um haf, oc fyrst til Orkneyia; hann tók þar höndom Iarlana Erlend oc Pál, oc sendi þá báda austr í Noreg. En hann setti eptir Sigurd son sinn til höfdingia yfir eyonom, oc feck hönom rádoneyti. Magnus konongr hellt lidi síno til Sudreyia, en er hann kom þar, tók hann þegar at heria oc brenna bygdina, en drap mannfólkit, oc rænto allt þar er þeir fóro, en landzlydrinn flydi undan víds vegar, sumir inn í Skotlandz fiördo, en sumir sudr inn í Satíri eda út til Irlandz, sumir fengo grid, oc veitto handgaungo. Sva segir Biörn enn Krepphendi:

Lek of liódhús fíkiom
limsorg nærri himni

vitt bar ferd á flótta
fúss gaus elldr or húsom.
Aurr skiölldungr fór elldi
í vist búendor misto
róg geisla vann ræsir
raudan lífs oc audar.
Húngr þverrir let heriat
hrídar gagls á skídi
taunn raud tyrvist innan
teitr vargs í ben margri.
Grætti Grænlandz drottinn
geck hátt Skota steckvir
þiód rann mylsk til mædi
meyar sudr í eyom.

## CAP. X.

## FRÁ LÖGMANNI SYNI GUDRAUDS KONONGS.

Magnus konongr kom lidi síno vid eyna helgo, oc gaf þar grid oc frid öllom mönnom oc allra manna varnadi. Þat segia menn, at hann lyki upp Kolumba kirkio hinni litlo, oc geck konongr eigi inn, oc lauk þegar aptr hurdina í lás, oc mællti, at engi skylldi sva diarfr vera sídan, at gánga inn í kirkio þá, oc hefir sídan sva gört verit. Þá hellt Magnus konongr lidino til Ilar, heriadi þar oc brendi. En er hann hafdi unnit þat land, þá fór hann sudr firi Satiri, heriar þar á bædi bord, á Irland oc

Skotland, fór sva allt herskilldi sudr til Manar, oc heriadi þar sem í ödrom stödom. Sva segir Biörn Krepphendi:

Vítt bar sniallr of sletta
Sandey konongr randir
rauk um Il þá er ióko
allvallz menn á brennur.
Sanntiri laut sunnar
seggia kind und eggiar
sigr gædir red sídan
sniallr Manveria falli.

Lögmadr het son Gudraudar Sudreyia konongs; Lögmadr var settr til landvarnar í Nordreyom. En er Magnus konongr kom til Sudreya med her sinn, þá flydi Lögmadr undan her oc hvar um eyar, en at lykdom tóko menn Magnus konongs hann med scipsögn manna, þá er hann villdi flyia út til Irlandz; let konongr hann í iárn setia, oc hafa í gæzlo. Sva segir Biörn Krepphendi:

Hætt var hvert þat er átti
hvarf Gudrodar arfi
lönd vann lofdungr þrænda
Lögmanni þar bannat.
Nytr feck nesiom utar
nadrs bíng töpud fíngin
Egda gramr þar er umdo
úngr vættrima túngor.

## CAP. XI.

## FALL HUGA JARLS INS PRÚDA.

Sídan hellt Magnus konongr lidino til Brettlandz. En er hann kom í Önguls-eyar-sund, þá kom þar á móti hönom herr af Brettlandi, oc redo Jarlar tveir fyrir, Hugi Prúdi oc Hugi Digri, oc lögdo þegar til orrosto, vard þar hardr bardagi. Magnus konongr skaut af boga, en Hugi Prúdi var albryniadr, sva at eigi var bert á hönom nema augun ein. Magnus konongr skaut auro at hönom, oc annar Háleyskr madr, er þar stód hiá konongi; skuto þeir bádir senn; kom önnur aurin í nef-biörg hiálmsins, oc lagdiz nef-biörgin fyrir út af annan veg, en annat skotit kom í auga Jarlinom, flaug þat aptr í gegnom höfudit, oc er þat konongi kent. Fell þar Hugi Iarl, en sídan flydo Brettar, oc höfdo látit mikit. Sva segir Biörn inn Krepphendi:

Líf spelli red laufa
lundr í Aunguls-sundi
broddr fló þar slaug snuddo
snúdigt Huga ins Prúda.
Öll hefir Ióta fellir
eyland farit brandi
vítt liggr dyggs und dróttom
döglings grund of stundir.

Oc enn var þetta qvedit:

Dundi broddr á brynio
bragningr skaut af magni

sveigdi allvalldr Egda
álm stauck blód á hiálma.
Strengs fló hagl í hrínga
hne ferd en let verda
Haurda gramr í hardri.
hiarl-sókn banat Iarli.

Magnus konongr feck sigr í þeirri orrosto, þá eignadiz hann Aunguls-ey, sva sem hinir fyrri Noregs konongar höfdo lengst sudr eignazt ríki, þeir er í Noregi höfdo verit. Aunguls-ey er þridiongr Brettlandz. Eptir orrosto þessa sneri Magnus konongr aptr lidi síno, oc hellt fyrst til Skottlandz. Þá fóro menn milli þeirra Mælkolfs Skota konongs, oc gördo þeir sætt milli sín; skylldi Noregs konongr eignaz eyar þær allar, er liggia fyri vestan Scotland, oc stiórnfausto scipi mætti fara í milli oc megin-landz. En er Magnus konongr kom sunnan til Satíriss, þá let hann draga skúto um Satíriss-eid, oc leggia styri í lag; konongr siálfr settiz í lypting, oc hellt á hialmun-völ, oc eignadiz sva land þat, er þá lá á bakborda. Satíri er mikit land, oc er betra enn hin bezta ey í Sudr-eyom, nema Mön. Eid miótt er milli oc meginlandz á Skotland; þar ero opt dregin lángskip yfir.

## CAP. XII.

## DAUDI ORKNEYIA JARLA.

Magnus konongr var um vetrinn í Sudr-eyom, þá

fóro menn hans um alla Skotlandz fiördo, röro fyrir innan eyar allar bædi bygdar oc óbygdar, oc eignudo lönd öll Noregs konongi fyri vestan Skotland. Magnus konongr feck til handa Sigurdi syni sínom Biadmynio dóttur Myriartaks konongs, Þialfasonar Ira konongs; hann red fyri Kunnoktum, oc gaf hönom konongs nafn, oc setti hann yfir Orkneyar oc Sudreyar, oc feck hann í hendur Hákoni Pálssyni frænda sínom. Eptir um sumarit fór Magnus konongr lidi síno austr í Noreg. Erlendr Jarl vard sótt-daudr í Nidarósi, oc er þar iardadr, en Páll Jarl í Biörgun. Skopti Augmundarson Þórbergssonar var lendr madr ágætr, hann bió í Gizka á Sunnmæri, hann átti Gudrúno dóttur Þórdar Folasonar, sem bar merki Olafs konongs á Sticklastödom, er hann fell; börn þeirra voro Augmundr, Finnr, Þórdr, Þóra er átti Asolfr Skúlasonr. Synir þeirra Skopta oc Gudrúnar voro enir mannvænsto menn í æsko oc hinir vinsælusto.

## CAP. XIII.

### DEILA MAGNÚSAR KONONGS OC INGA KONONGS.

Steinkell Svía-kongr andadiz nær falli Haralldanna. Hákon het sá konongr er næstr var í Svíþiód eptir Steinkel konong. Sídan var Ingi konongr son Stein-

kels konongs, gódr konongr oc ríkr, oc allra manna mestr oc sterkastr, hann var þá konongr í Svíþiód, er Magnus konongr var yfir Noregi. Magnus konongr taldi þat verit hafa landaskipti at forno, at Gautelfir hefdi skilit ríki Noregs konongs oc Svia konongs, en sídan Væni til Vermalandz, taldiz Magnus konongr eiga alla þá bygd, er lá fyri vestan Væni til Vermalandz, en þat er Sunn-dalr oc Norddalr, Vear oc Vardyniar, oc allar Markir er þar liggia til; en þat hafdi þá lánga ríd legit undir Svía konongs velldi, oc til Vestra-Gautlandz at skylldom; en Marka-menn villdo þá vera sem fyr undir Svía konongi. Magnus konongr reid or Víkinni oc uppá Gautland, oc hafdi lid mikit oc frítt. En er hann kom í mark-bygdina, heriadi hann oc brendi, oc fór sva um allar bygdir, geck fólkit undir hann, oc svardi hönom lydni. En er hann kom upp til vatnsins Væniss, leid á haustit. Þá fóro þeir út í Kvaldins-ey, oc gördo þar borg af torfi oc vidom, oc grofo díki um. En er þat virki var gört, þá var þar flutt í vist oc önnor faung, þau er þyrfti. Konongr setti þar í CCC manna, oc voro þar höfdingiar fyrir Finnr Scoptason oc Sigurdr Ullstrengr, oc höfdo it frídasta lid; en konongr sneri þá ofan aptr í Víkina.

## CAP. XIV.

### FRÁ NORDMÖNNOM.

Enn er Svía konongr spurdi þetta, þá dró hann lid saman, oc fóro þau ord um, at hann mundi ofan rída á hendur Nordmönnom, en þat frestadiz um ríd; þá qvado Nordmenn þetta:

Allengi dvelr Ingi
ofan reid inn þióbreidi.

En er ísa lagdi á vatnit Væni, þá reid Ingi konongr ofan, oc hafdi nær XXX hundrada manna. Hann sendi ord Nordmönnom þeim er í borginni sáto, at þeir skylldo í brott fara med fang allt þat er þeir höfdo fengit, oc aptr í Noreg. En er sendimenn báro þeim konongs ord, þá svarar þeim Sigurdr Ullstrengr, sagdi at Ingi konongr mundi ödro verda vit at koma, en vísa þeim brott sem hiörd í haga, oc qvad hann ádr nærr mundo gánga verda. Sendimenn báro aptr þau ord til konongs. Sídan reid Ingi konongr úti eyna vid allan herinn; þá sendi hann annat sinni ord til Nordmanna, bad þá brott fara, oc hafa vapn sín oc klædi oc hesta, en láta eptir ráns-fe oc klædi; þeir neitudo þesso. Sídan veitti konongr þeim atgöngo, oc skutuz þeir á. Þá let konongr bera til grjót oc vido, oc fylla díkit. Sídan let hann taka ackeri oc drengia vid ása lánga, oc bera þar uppá timbr-vegginn: gengo þar margir

menn at, oc drógo sundr vegginn; þá voro görvar eisor stórar, oc skótit á þá logandi bröndom. Þá bádo Nordmenn grida. En konongr bad þá utgánga vapnlausa oc yfirhafnarlausa. En er þeir gengo út, þá var hverr þeirra sleginn lima-högg, oc fóro sídan brott vid sva búit oc heim aptr í Noreg; en Marka-menn allir sneroz þá aptr undir Inga Svía konong. Þeir Sigurdr oc hans felagar sótto á fund Magnus konongs, oc sögdo hönom sínar ófarar.

## CAP. XV.

### ORROSTA Á FOXERNI.

Þegar um varit er ísa leysti, þá fór Magnus kon-ongr med lidi miklo austr til Elfar, oc hellt upp eptir hinni eystri kvísl, oc heriadi allt í velldi Svía konongs. En er hann kom uppá Foxerne, þá gengo þeir á land upp frá skipom, en er þeir komo yfir á eina er þar verdr, þá kom í móti þeim her Gauta, oc vard þar orrosta, oc voro Nordmenn ofr-lidi bornir, oc komo á flótta, oc var drepit mart af þeim vid fors einn. Magnus konongr flydi, en Gautar fylgdo þeim, oc drápo slíkt er þeir mátto. Magnus konongr var audkendr, manna mestr, hann hafdi raudan hiúp yfir brynio, hárit silki-bleikt, oc fell á herdar áptr. Augmundr Skoptason reid á adra

hlid

hlid konongi, hann var oc manna mestr oc frídastr: hann mællti: gef mer hiúpinn, konongr. Konongr svaradi: hvat skal þer hiúprinn? Ek vil hafa, sagdi Augmundr, gefit hefir þú mer stærra. Þar var sva háttat, at vellir slettir voro vída, oc sázc þeir þá ávallt Gautar oc Nordmenn, en þá varo enn kleifar á millom oc skógar-kiörr, oc fal þá syn; þá feck konongr Augmundi hiúpinn, oc fór hann í. Sídan rido þeir fram á völlona; sneri þá Augmundr þvers í brott oc hans menn. En er Gautar sá þat, þá hugdo þeir þat konong vera, oc rido þannog allir eptir, enn konongr reid þá leid sína til skips. En Augmundr dró naudoliga undan, oc kom þó heill til skips. Hellt Magnus konongr sídan ofan eptir ánni, oc sva nordr í Víkina.

## CAP. XVI.

## ÖNNOR ORROSTA MAGNUSAR KONONGS OC INGA KONONGS Á FOXERNE.

Sá madr kom til Magnus konongs, þá er hann var í Vík austr, er Gípardr het, Valskr madr, oc kvadz vera riddari gódr, oc baud sic til þiónosto vid Magnus konong, kvadz hafa spurt at konongr átti stiórnsamt ríki: konongr tók vel vid hanom. Þá bióz Magnus konongr at fara uppá Gautland, þvíat

hann kalladi þar til ríkis, oc letz eiga at giallda Gautom þann svadil, er hann þóttiz farit hafa fyrir þeim um várit; þá hafdi hann mikit lid, oc gengo Vestr-Gautar undir hann allt um hinar nyrdstu bygdir. Sídan settiz hann vid landamærit, oc biöggo í tiölldom, oc hugdiz til áreidar. Ingi konongr frá þat, oc safnar lidi, oc stefnir á fund Magnusi konongi; oc er Magnusi konongi kom niósn um ferdir hans, eggiodo lidshöfdingar konong aptr-hvarfs, enn konongr villdi þat víst eigi, oc helldr í móti Svia konongi, fyrr er hann vardi, á náttar-þeli. Þeir funduz þar sem heitir á Foxerni; oc er hann skipadi lidi síno, þá spyrr konongr þá at: hvar er Gipardr? en hann fanz hvergi. Þá mællti konongr:

Vill hann eigi flock varn fylla
falsk riddari inn Valski.

Þá tók undir skálld eitt, er med kononginom var:

Spurdi gramr hvat gördi
Gipardr þá er lid bardiz
ver rudom vapn í dreyra
varat hann kominn þannog.
Framreidar var fnaudi
fulltraudr á ió raudom
vill eigi flock varn fylla
falsk riddari enn Valski.

Þar vard mikill mann-skadi, oc lauk sva þessi orrosto, at fiölldi lá eptir af Svíom, er slegit var,

en Ingi konongr frelsadiz med flótta; Magnus konongr feck mikin sigr. Þá reid Gipardr af landi ofan, oc mælltiz eigi vel um, er hann var eigi vid orrosto; fór hann sídan í brott, oc vestr til Englandz, oc var útivist þeirra hörd, oc lá Gipardr löngum. Þá geck til austrar Islendzkr madr, er Elldiarn het, oc er hann sá hvar Gipardr lá, þá qvad hann þetta:

Hví samir hitt at dúsa
hirdmanni gedstirdom
verdu nú þótt kiöl kosti
knár riddari in hári.
Þat er satt at ec byd bytto
breid-húfom þer reida
austr er til hár í hesti
hval-jardar Gipardi.

Oc er þeir komo vestr til Englandz, segir hann at Nordmenn höfdo nítt hann, var þá mótz kvatt, oc kom þar til einn Greifi, oc var fyrir hann borit málit, enn hann qvedz þá enn lítt vera vanr málom manna, er hann var úngr madr, oc skamma stund forrædi haft, en þó qvedz hann þat sídst kunna, oc eigi annan lut midr en þann, at skynia er kvedit var; en þó megom ver heyra. Þá qvad Elldiarn:

Frá ec at flótta rákut
falsk annat lid manna
þar var hardr er ec heyrda
hernadr á Foxerni.

Vard hiálm þrimo herdis
hár þar er staddir várot
gángr þá er Gautzka drengi
Gipardr í hel bardir.

Þá mællti greifinn: lítt em ec scælldinn, enn heyra kann ec, at þetta er eigi níd, oc þer er vegr at þesso. Hann kann oc ei um at tala, oc finnr at þetta er spott.

## CAP. XVII.

### KONONGA-STEFNA Í ELFINNI.

Annat sumar eptir var lögd kononga-stefna vid Kononga-hello í Elfi, oc komo þar Magnns konongr, oc Ingi Svía konongr, oc Eirekr Sveinsson Dana konongr, oc var sú stefna bundin med gridom. En er þíng var sett, þá gengo konongar fram á völlinn frá ödrom mönnom, oc töludoz vid litla ríd, gengo þá aptr til lids síns, oc var þá gör sættin, at hverr þeirra skylldi hafa þat ríki, er ádr höfdo haft fedr þeirra; en hverr þeirra kononga bæta vid sína menn rán oc mannskada, en hverr þeirra sídan iafna vid annan. Magnus konongr skylldi fá Margretar, dóttur Inga konongs; hon var sídan köllut Frid-kolla. Birto þeir þetta fyri mönnom sínom, urdo þá á stuttri stundo mesto óvinir besto vinir. Þat var mál manna, at eigi hefdi set höfdingligri menn en þeir voro allir. Ingi konongr var einna

mestr oc þrekoligastr, oc þótti han vera aulldrmannligstr. En Magnus konongr þótti sköroligastr oc hvatligastr; en Eiríkr konongr var einna fegurstr: en allir voro þeir menn frídir, stórir, oc gaufugligir, oc ord-sniallir, oc skilduz þeir at sva búno.

## CAP. XVIII.

## KVON-FÁNG MAGNUS KONONGS.

Magnus konongr feck Margretar, dóttur Inga konongs, sem fyr var ritat, var hon send austan af Svíþiód til Noregs med vegligo fauroneyti. En Magnus konongr átti ádr nockur börn, þau er nefnd ero. Eysteinn het son hans, oc var hans móderni lítit: annar het Sigurdr, oc var hann vetri yngri; þóra het hans módir. Olafr het hinn þridi, oc var hann myklo yngstr; módir hans var Sigrídr dóttir Saxa í Vík, gaufugs mans í þrándheimi; hon var fridla konongs. Sva segia menn, at þá er Magnus konongr kom or vestr-víkingo, at hann hafdi miöc þá sido oc klæda-búnat, sem títt var í vestr-löndom, oc margir hans menn; gengo þeir ber-leggiadir um stræti, oc höfdo stutta kyrtla, oc sva yfir-hafnir; þá köllodo menn hans hann Magnus Berfætt eda Berbein. Sumir kölludo hann Magnus Háfa, en sumir Styrialldar-Magnus. Hann var manna hæstr; mark var gört um hæd hans á Mário-kirkio í kaup-

ángi, þeirri er Haralldr konongr hafdi göra látit; þar á nordr-dyronom voro klappadar á steininom crossar III, einn Haralldz hæd, annar Olafs hæd, þridi Magnus hæd, oc var cross fyrir hveria hæd, oc þar markat hvar þeim var hægst at kyssa á; var ofast Haralldz kross, en lægstr Magnus kross, en Olafs kross-mark iamnær bádom hinna. Þessi vísa er kend Magnusi konongi, at hann hafi ort til Keisarans dóttur:

Ein er sú er mer meinar
Matthilldr oc vekr hilldi
már dreckr sudr or sárom
sveita leik oc teiti.
Sá kennir mer svanni
sín lönd er ver raundo
sverd bito högna hurdir
hvít-iarpr sofa lítit.

Enn qvad hann:

Hvat er her í heimi betra
hyggr skálld af þrá sialldan
miöc er lángr sá er dvelr drengi
dagr en viven fögro.
Þungan ber ec af þíngi
þann harm er ec skal svanna
skreytaz menn á móti
minn alldregi finna.

Þá hafdi Magnus konongr spurt vingiarnlig ord dóttur Keisarans til sín, at hon hefdi þat mællt,

at slíkr madr þótti henni sæmiligr, sem Magnus konongr var; þá kvad hann þetta:

Jörp mun eigi verpa
armlín á glæ sínom
ord spyr ec gull-hríngs gerdar
gód um skálld í hliódi.
Ann ec þótt eigi finnak
opt gudvefiar þopto
viti menn at ec hygg hennar
hála ræktar málom.

## CAP. XIX.

## ÓSÆTT MAGNÚSAR KONONGS OC SCOPTA.

Scopti Augmundarson vard missáttr vid Magnus konong, oc deildo þeir um dáinn arf nockorn, hellt Scopti, en konongr kalladi til med sva mikilli freko, at þat var vid vada siálfan; varo þar at áttar margar stefnor, oc lagdi Scopti þat rád til, at þeir fedgar skylldo alldregi allir senn vera á konongs valldi, sagdi at þá myndi þeim hlyda. Þá er Scopti var fyri konongi, flutti hann þat fram, at skylld frændsemi var milli þeirra konongs oc hans, oc þat med, at Scopti kvadz verit hafa iafnan kærr vinr konongs, oc sva födr hans, oc alldregi skiopladiz þeir í vinátto; sagdi oc sva, at menn mætti þat skilia, at hann var sva viti borinn, at ec man eigi, segir hann, þat mál hallda í deilo vid ydr konongr,

ef ec mællta rángt, en því bregdr mer til forellris míns, at ec hallda rett-mæli fyrir hveriom manni, oc göra þar öngan manna mun at. Konongr var hinn sami, oc mykdiz eigi skap hans vid slíkar rædor. Fór Scopti heim.

## CAP. XX.

### FERD FINNZ SCOPTASONAR.

Sídan fór Finnr Scoptason á konongs fund, oc taladi vid hann, oc bad konong þess, at hann skylldi láta þá fedga ná rettendom af þesso máli. Konongr svarar styggliga oc strítt. Þá mællti Finnr: til annars hugda ec at ydr konongr, en þer mundot göra mik lög-ræning, þá er ec settumz í Kvaldimsey, er fáir villdo adrir vinir þínir, oc sögdo sem satt var, at þeir voro framselldir, er þar sáto, oc til dauda dæmdir, ef Ingi konongr hefdi eigi lyst vid oss meira höfdingia-skap, en þer hafdit fyrir oss set, oc mun enn þó mörgom virdaz, sem ver bærim þadan svívirding, ef þat veri nockurs vert. Konongr skipadiz eigi vid slíkar rædor, oc fór Finnr heim.

## CAP. XXI.

### FERD AUGMUNDAR SCOPTASONAR.

Sídan fór Augmundr Scoptason á fund konongs, en er hann kom fyri konong, bar hann upp erindi sitt,

oc bad kononginn göra þeim fedgom rett. Konongr svarar, at þat var rett, er hann mællti, oc þeir voro firna diarfir. Þá mællti Augmundr: koma muntu konongr þesso áleidis, at göra oss rángt fedgom, fyri sakir ríkis þíns; mun oc þat her sannaz, sem mællt er, at flestir launa illo eda öngo, er lífit er gefit. Skal þat oc fylgia míno máli, at alldregi sídan skal ec koma í þína þiónosto, oc engi varr fegda, ef ec ræd. Fór Augmundr sídan heim, oc sázc þeir alldregi sídan.

## CAP. XXII.

### FERD SCOPTA OR LANDI.

Scopti Augmundarson byriadi ferd sína um varit eptir af landi á brott; þeir höfdo V lángskip, oc öll vel búin; til þeirrar ferdar redoz med hönom synir hans Augmundr oc Finnr oc Þordr. Urdo þeir helldr síd-búnir; þeir helldo um haustit til Flæmingia-landz, oc voro þar um vetrinn. Snemma um varit sigldo þeir vestr til Vallandz, oc varo þar um sumarit. Sigldo þeir út um Nörfasund, oc um haustit til Roma-borgar; þar andadiz Scopti. Allir aundudoz þeir fedgar í þeirri ferd. Þórdr lifdi lengst þeirra; hann andadiz í Sikiley. Þat er sögn manna, at Scopti hafi fyrstr siglt Nörfa-sund Nordmanna, oc vard sú ferd hin frægsta.

## CAP. XXIII.

### IARTEGNIR ÓLAFS KONONGS VID ELLDZBRUNA.

Sá atburdr giördiz í kaupángi, þar sem Olafr konongr hvílir, at elldr kom í hús í bynom, oc brann vída. Þá var borit út or kirkionni scrín Olafs konongs, oc sett á mót elldinom. Sídan lióp at madr einn hvat-vís oc úvitr, oc bardi scrínit, oc heitadiz vid þann helga mann, sagdi sva, at allt mundi þá uppbrenna, nema hann byrgi þeim med bænom sínom, bædi kirkian oc aunnur hús. Nú let almáttugr Gud vidberaz bruna kirkionnar; en þeim úvitra manni sendi hann augna-verk þegar eptir um nóttina, oc lá hann þar allt til þess hinn helgi Olafr konongr bad hönom miskunar vid almáttugan Gud, oc bættiz hönom í þeirri sömo kyrkio.

## CAP. XXIV.

### IARTEGNIR ÓLAFS KONONGS Á KREPTRI KONO.

Sá atburdr vard en í kaupángi, at kona ein var færd þángat til stadarins, þar sem hinn helgi Olafr konongr hvílir; hon var sva armsköput, at hon var kropnut öll saman, sva bádir fætur lágo biúgir vit þióin uppi. Ok er hon var idugliga á bænom, oc hafdi heitit á hann grátandi, þá bætti hann henni

þá miklu vanheilso, svo fætur oc leggir oc adrir limir rettuz or lyckiom, oc þiónadi sídan hverr lidr oc limr rettri skepno; mátti hon ei ádr kriúpa þángat, en þadan geck hon heil oc fegin til sinna heim-kynna.

## CAP. XXV.

### HERNADR Á IRLANDI.

Magnus konongr byriadi ferd sína af landi, oc hafdi her mikinn; þá hafdi hann konongr verit yfir Noregi IX vetor; hann hellt vestr um haf, oc hafdi it frídasta lid, er til var í Noregi. Hanom fylgdo allir ríkis-menn, er í voro landino, Sigurdr Hranason oc Ulfr bródir hans, Vidkunnr Iónsson, Dagr Eilífsson, Serkr or Sogni, Eyvindr Aulbogi, stallari konongs, oc margir adrir ríkismenn. Fór konongr vid þesso lidi öllo vestr til Orkn-eyia, oc hafdi þadan med ser sono Erlendz Jarls, Magnus oc Erling; þá sigldi hann til Sudr-eyia, oc er hann lá vid Skotland, þá liόp Magnus Erlendzson um nótt af skipi konongs, oc svam til landz, fór sídan upp í skóg, oc kom fram í hird Skota konongs. Magnus konongr hellt lidino til Irlandz, oc heriadi þar; þar kom Myriartak konongr til lids vid hann, oc unno þeir mikit af landino, Dyflini oc Dyflinar skiri. Magnus konongr var um vetrinn uppi í Kunnocktum med Myriartak konongi, en setti menn sína

til gæzlo landz þess, er hann hafdi ádr unnit. En er váradi, fóro þeir konongar med her sinn vestr allt á Uladstir, oc átto þar orrostor margar, oc unno landit, oc höfdo unnit mestan lut af Uladstir, þá Myriartak fór heim á Kunnacktir.

## CAP. XXVI.

### UPPGANGA MAGNUS KONONGS.

En Magnus konongr bió þá skip sín, oc ætladi austr til Noregs, en setti menn sína til landgæzlu í Dyflinni. Hann lá vid Uladstir öllo lidino, oc voro þeir segl-búnir. Þeir þóttuz þurfa strand-höggva, oc sendi Magnus konongr menn sína til Myriartaks konongs, at hann skylldi senda þeim strand-högg, oc qvad á dag, nær koma skylldi, hinn næsta dag fyrir Bartholomeus messo, ef sendimenn veri heilir; en fyrir messo-dags aptaninn voro þeir eigi komnir. En siálfan messo-daginn, er sól rann á vidu, þá geck Magnus konongr á land med mestan luta lids síns frá skipom, oc villdi leita eptir mönnom sínom oc strand-höggvi. Vedr var vindlaust oc sól-skin, leidin lá yfir myrar oc fen, oc voro þar höggnar yfir klappir, en kiarr-skógar tveggia vegna frá brauto. Þá er þeir sótto fram, var fyrir þeim leiti nockut miöc hátt, þadan sá þeir vída. Þeir sá ió-reyk mikinn uppá landit;

ræddo þá um milli sín, hvart þar mundi fara her Ira, en sumir sögdo, at þar mundi fara menn þeirra med strand-höggit. Námu þeir þá stad; þá mællti Eyvindr Aulbogi: herra, sagdi hann, hveria ætlan hafi þer á ferd þessi, óvarliga þickir mönnom þú fara, veitzo at Irar ero svikalir, oc ætlit nú rád nockut fyrir lidi ydro. Þá mællti konongr: fylkiom nú lidi voro, oc verom vidbúnir, ef þetta ero svik. Var þá fylkt, geck konongr oc Eyvindr fyrir fylkingonni; hafdi Magnus konongr hiálm á höfdi, oc raudan skiölld, oc lagt á med gulli Leon, gyrdr sverdi því er Legg-bítr het, tann-hiölltat, oc gulli vafidr medal-kaflinn, oc it bitrasta sverd; hann hafdi kesio í hendi, oc silki-hiúp raudan yfir skyrto, oc skorit fyrir oc á bak Leon med gulu silki; oc var þat mál manna, at eigi hefdi sed vaskligra mann ne skörugligra. Eyvindr hafdi oc silki-hiúp raudan, oc vid sama hætti sem konongr, var hann oc mikill madr oc frídr, oc hinn hermannligsti.

## CAP. XXVII.

### FALL MAGNUS KONONGS.

En er ió-reykrinn nálgadiz, þá kendo þeir þar sína menn, oc fóro þeir med strand-höggit, er Ira konongr hafdi sendt þeim, oc hellt hann vel öll ord

sín vid Magnus konong. Sídan snero þeir út til skipanna, oc var þá mid-degis-skeid. En er þeir koma út á myrarnar, fórsk þeim seint yfir fenin, þá þusti her Ira fram or hverio skógarnefi at þeim alla vegna, oc redo þegar til bardaga, en Nordmenn fóro dreift oc tvístrott, þá fello þegar brátt margir af þeim. Þá mællti Eyvindr vid konong: óheppiliga fer lid vart, tökom nú skiótt gott rád. Konongr mællti: blásit herblástrinn öllo lidino undir merkit, en þat lid sem her er, skióti á skialld-borg, oc förom sídan undan á hæli út yfir myrarnar, sídan man eigi saka, er ver komom á slett-lendit. Irar skuto diarfliga, en þó fello þeir all-þyckt, en æ komo tveir í eins mans stad. En er konongr var kominn at næsta díki, þá var tór-færa mikil, oc fá-stadar yfir fært, fello þar Nordmenn miöc. Þá kalladi konongr Þórgrím Skinn-húfo, lendan mann sinn, hann var Upplendskr, oc bad hann fara yfir díkit med sína sveit, en ver munom, segir hann, veria medan, sva at ydr man eigi saka; farit sídan á hólm þann, er þar verdr, oc skiótit á þá þaddan, medan ver förom yfir díkit, þvíat þer erut bog-menn gódir. En er þeir Þórgrímr komo yfir díkit, köstudo þeir skiölldunom á bak ser, oc runno til skipa ofan. En er konongr sá þat, mællti hann: ódrengiliga skilz þú vid konong þinn, óvitr var ec, þá er ec giörda þic lendan mann, en ec

görda útlagdan Sigurd Hund, alldri mundi hann sva fara. Magnus konongr feck sár, oc var hann lagdr kesio gegnom bædi lærin fyrir ofan kne. Konongr greip skaptit millum fóta ser, oc braut or keflit, oc mællti: sva briótom ver hvern sperri-legginn, sveinar, gángit vel fram, eigi man mic saka. Litlo sídar var Magnus konongr höggvinn á hálsinn med spördo, oc var þat hans bana-sár; þá flydo þeir er eptir voro. Vidkunnr Ionsson drap þegar þann mann, er konongi veitti bana-sár, oc flydi sídan, oc hafdi III sár; hann bar til skipa sverdit Legg-bít oc merki konongs; þeir runno sídarst Vidkunnr, annar Sigurdr Hranason, þridi Dagr Eilífsson. Þar fell med Magnusi konongi Eyvindr Olbogi, Ulfr Hranason, oc margir adrir ríkis-menn; fell mart af Nordmönnom, en miklo fleira af Irum. En þeir Nordmenn er undan komoz fóro brott þegar um haustit. Erlingr son Erlendz Jarls fell á Irlandi med Magnusi konongi. En þat lid er flyit hafdi af Irlandi kom til Orkneyia. Oc er Sigurdr spurdi fall Magnusar konongs födr síns, þá redz hann þegar til ferdar med þeim, oc let eptir dóttur Ira konongs, oc fóro þeir þegar um haustit austr til Noregs med öllo lidino.

## CAP. XXVIII.

### FRÁ MAGNUSI KONONGI OC VIDKUNNI IÓNS-SYNI.

Magnus konongr var konongr í Noregi X vetor, oc var á hans dögom fridr gódr innan-landz, en menn höfdo miöc starfsamt af leidöngrom. Magnus konongr var hinn vinsælasti af sínom mönnom, en bændom þótti hann hardr. Þat herma menn frá ordom hans, þá er vinir hans mællto, at hann færi opt óvarliga, er hann heriadi utanlandz; hann svarar sva: till frægdar skal konong hafa, en eigi til láng-lífis. Magnus konongr var nærr XXX at alldri, er hann fell. Eigi flúdi Vidkunnr fyrr en hann hafdi drepit þann mann, er banamadr var Magnuss konongs; oc af þessom sökom tóko synir Magnus konongs hann í inn mesta kærleik.

---

# XII.

# SAGA AF SIGURDI KONONGI IORSALA-FARA

## OC BRÆDROM HANS

# EYSTEINI KONONGI OC OLAFI KONONGI.

## CAP. I.

### UPPHAF SONA MAGNUS KONONGS.

Eptir fall Magnus konongs Berfættz tóko synir hans konong-dóm í Noregi, Eysteinn, Sigurdr oc Olafr; hafdi Eysteinn en nordra lut landz, enn Sigurdr en sydra. Olafr konongr var þá IV edr V vetra; en þann þridiong landz, er hann átti, höfdo þeir bádir til vard-veizlo. Sigurdr konongr var til kon-ongs tekinn, þá er hann var XIII vetra edr XIV, en Eysteinn var vetri elldri. Þá er synir Magnus konongs voro teknir til kononga, komo utan or Ior-sala-heimi, oc sumir or Mikla-gardi, þeir menn er farit höfdo med Scopta Augmundarsyni, oc voro þeir hinir frægsto, oc kunno margskonar tídindi at segia; en af þeim nynæmom girntiz fiölldi mans í Noregi til þeirrar ferdar; þat var oc sagt, at í

Mikla-gardi fengo Nordmenn full-sælo fiár, þeir er á mála villdo gánga. Þá bádo menn kononga, at annar-hver þeirra, Eysteinn eda Sigurdr, skylldi fara, oc vera fyrir lidi því, er til útferdar redz; en kononga iátudo því, oc biuggo ferd þá med beggia þeirra kostnadi. Til þeirrar ferdar redoz margir ríkis-menn, bædi lendir-menn oc bændor. En er ferdin var búin, þá var þat afrádit, at Sigurdr skylldi fara, en Eysteinn skylldi hafa land-rád af beggia þeirra hendi.

## CAP. II.

### FRÁ ORKNEYIA JÖRLOM.

Einom vetri eda II eptir fall Magnus konongs Berfættz, kom vestan af Orkneyom Hákon son Páls Jarls. Konongar gáfo hönom Jarl-dóm, oc yfirsókn í Orkneyom, sva sem Jarlar höfdo haft fyrir hönom, Páll Jarl fadir hans, eda Erlendr födur-bródir hans. Fór Hákon Jarl þá þegar aptr til Orkneyia.

## CAP. III.

### FERD SIGURDAR KONONGS OR LANDI.

Fiórom vetrom eptir fall Magnus konongs, fór Sigurdr konongr vid lidi síno or Noregi; þá hafdi hann LX skipa. Sva segir Þórarinn Stutt-felldr:

Sva kom fylkiss
framt lid saman
marg spaks mikit
milldingi villt.
At skip vid skip
skarfögur of lög
hreins grams hedan
hnigo sextigir.

Sigurdr konongr sigldi um haustit til Englandz: þá var þar konongr Heinríkr, son Vilhiálms Bastardar; var Sigurdr þar um vetrinn. Sva segir Einar Skúlason:

Vas auflugr red vísi
vestr helmingi mestom
ód at Ensko ládi
ægiss marr und harra.
Stál let hilmir hvílaz
heipt-gladr oc var þadra
ne gramr á val vimrar
vetr-lengiss stígr betri.

## CAP. IV.

## FERD SIGURDAR KONONGS.

Sigurdr konongr hellt eptir um várit lidino vestr til Vallandz, oc kom fram um haustit út á Galizo landi, oc dvaldiz þar annan vetr. Sva segir Einar Skúlason:

Oc sá er özt gat ríki
ól þiód-konongr sólar
aund á Iacobs landi
annan vetr und ranni.
þar frá ec hilmi heriar
hialldrs laus-mæli giallda
gramr svan bræddi snemma
snar-lyndr frömom Jarli.

En þat var med þeim atburd, at Jarl sá er þar red fyrir landi, gördi sætt vid Sigurd konong, oc skylldi Jarl láta setia torg þeim Sigurdi konongi til mat-kaupa allan vetrinn, en þat endiz eigi lengr enn til Ióla, oc gördiz þá íllt til matar, þvíat landit er skarpt oc lítit mat-land. þá fór Sigurdr konongr med miklo lidi til kastala þess er Jarl átti, oc flydi Jarl undan, þvíat hann hafdi lítit lid. Sigurdr konongr tók þar vist mikla, oc mikit herfáng annat, oc let flytia til skipa sinna, bióz sídan í brott, oc fór vestr fyrir Spán. þá er Sigurdr konongr sigldi fyrir Spán, barsk þat at, at víkingar nockurir þeir er fóro at fefángi, komo í móti hönom med galeida-her, en Sigurdr konongr lagdi til orrosto vid þá; hóf þar sína fyrsto orrosto vid heidna menn, oc vann af þeim VIII galeidur. Sva segir Halldor Skvalldri:

Oc fá-dyrir fóro
fiölnis rotz at móti
víg-ásom hlód vísi
víkingar gram ríkom.

Nádi herr at hrióda
hlaut drengia vinr fengi
fyrdom hollr en fellat
fátt lid galeidur átta.

Sídan hellt Sigurdr konongr til kastala þess er Sintre het, oc bardiz þar adra orrosto, hann er á Spani; þar sat í heidit fólk, oc heriadi þadan á christna menn; hann vann kastalann, oc dráp þar allt fólk, þvíat eigi vildi kristnaz láta, oc tók þar fe mikit. Sva segir Halldor Skvalldri:

Stór skal ec verc þau er váro
vanar dags á Spani
prútt let slöngvir sóttan
Sintre konongs inna.
Gördiz helldr vid harda
hermenn gramr beriaz
grátt er görva neitto
Guds retti ser bodnom.

## CAP. V.

### UNNIN LISSIBON.

Eptir þat hellt Sigurdr konongr lidino til Lissibonar, þat er borg mikil á Spáni, oc hálf kristin, en hálf heidin; þar skilr Span hinn kristna oc Span heidna, ero þau heröd heidin öll, er vestr liggia þadan. Þar átti Sigurdr konongr orrosto hina þridio vid heidna menn, oc hafdi sigr; feck hann þar fe mikit. Sva segir Halldor Skvalldri:

Sudr vant sigr inn þridia
sniallr vid borg þá er kalla
lofdungs kundr er lendot
Lissibon at fróni.

Þá hellt Sigurdr konongr lidino vestr fyri Span heidna, oc lagdi til borgar þeirrar, er köllut er Alkassi, oc átti þar ena IV orrosto vid heidna menn, oc vann borgina, oc drap þar mart fólk, sva at hann eyddi borgina. Þeir fengo þar ofa fe mikit. Sva segir Halldorr Skvalldri:

Ut frá ec ydr þar er heitir
Alkassi styr hvassan
fólk þeysandi fysaz
fiórda sinn at vinna.

Oc enn þetta:

Unnit frá ec í einni
eyddri borg til sorga
hitti herr á flótta
heidins vífs at drífa.

## CAP. VI.

## ORROSTA Í FORMINTERO.

Þá hellt Sigurdr konongr fram ferdinni, oc lagdi út til Nörva-sunda; en í sundonom var fyrir hönom víkinga-her mikill, oc lagdi konongr til orrosto vid þá, oc átti þessa hina V orrosto vid heidna menn,

frá því er hann sigldi af Noregi, oc hafdi sigr. Sva segir Halldor Skvalldri:

Treystuz egg fyrir austan
ydr tiódi Gud rióda
ná-skári fló nyrra
Nörfa-sund til unda.

Sídan lagdi Sigurdr konongr herinom fram hit sydra med Serk-landi, oc kom til eyiar þeirrar, er köllut er Formintera; þar hafdi þá setz her mikill blámanna heidinna í helli nockorn, oc sett fyrir framan hellis-dyrin sterkan stein-vegg, var oc hátt upp at múrnom, sva at hverr sem upp vildi gánga vard hrakinn í brott med grióti oc skotum; þeir heriodo vída um landit, oc flutto til hellissins allt her-fáng. Sigurdr konongr veitti uppgöngo í ey þeirri, oc fór til hellissins, oc var hann í bergi nockoro, oc var hátt at gánga upp hallinn til steinveggsins, en biargit skútti yfir fram stein-vegginn. Heidingiar vördo stein-vegginn, oc hrædduz eigi vapn Nordmanna, þvíat þeir mátto bera griót oc skot nidr undir fætor ser ofan á Nordmenn. Nordmenn redo oc eigi til uppgaungunnar at sva búno. Þá tóko heidingiar pell oc adra dyr-gripi, oc báro út á vegginn, oc skóko at Nordmönnom, æpdo á þá, eggiodo oc frydo þeim hugar. Þá leitadi Sigurdr konongr ser ráda: hann let taka tva skip-báta, er barkar heita, oc draga uppá bergit yfir

hellis-dyrnar, oc let drengia med strengiom digrom allt undir inn-vidona oc um stafnana. Sídan gengo menn þar í, sva sem rúm höfdo, leto þeir síga skipin ofan fyrir hellinn med strengiunom, skuto þeir þá oc grytto er á skipunom voro, sva at heidingiar hrucko inn af stein-vegginom. Þá geck Sigurdr konongr med herinn uppí bergit, undir stein-vegginn, oc gáto brotit hann, oc komoz sva upp í hellinn, en heidingiar flydo undan inn um stein-vegginn, þann er settr var um þveran hellinn. Þá let konongr bera í hellinn vido stóra, oc kasta bál mikit í hellis-dyronom, oc slá elldi í. En heidingiar, er elldr oc reykr sótti þá, leto sumir lífit, sumir flydo, sumir gengo á vapn Nordmanna, sumt fólk var drepit, en sumt brent. Þar fengo Nordmenn it mesta her-fáng þess er þeir hefdi tekit í þessi ferd. Sva segir Halldor Sqvalldri:

Vard fyrir stafni
styriar giörnom
frid-raskadar
Formintera.
Þar vard eggiar
oc elld þola
blámanna líd
ádr bana fengi.

Oc enn þetta:

Baud-styrkr letz þú barka
bragnings verk á Serkiom

fræg hafa giörzc fyrir gygiar
gagn-stig ofan síga.
En í hall at helli
her-nennin fiölmennom
gaundlar þíngs med gengi
gny þróttr nedan sóttir.

En segir Þórarinn Stutt-felldr:

Bad gramr guma
gunn-hagr draga
byr-varga á biarg
blá-svarta tva.
Þá er í reipom
ram-dyr þrama
sígo fyrir helliss
hlid dyr med lid.

## CAP. VII.

## ORROSTUR Á IVITZO OC MANÖRC.

Þá fór Sigurdr konongr á leid, oc kom til eyiar þeirrar, er Ivitza er köllut, oc átti þar ina VII orrosto, oc feck sigr. Sva segir Halldor Skvalldri:

Marg-dyrkadr kom merkir
mord-hióls skipa stóli
fúss var fremdar ræsirr
frid-slitz til Ivitzo.

Eptir þat kom Sigurdr konongr til eyiar þeirrar, er Manork heitir, oc átti þar hina átto orrosto vid

heidna menn, oc feck sigr. Sva segir Halldor Skvalldri:

Knátti enn hina átto
odd-hríd vakit sídan
Finnz let giölld à grænni
grams ferd Manörk verda.

## CAP. VIII.

## GEFIT RODGEIR JARLI KONONGS-NAFN.

Sigurdr konongr kom um várit til Sikileyar, oc dvalldiz þar lengi. Þar var þá Rodgeir hertogi, hann fagnadi vel konongi, oc baud hönom til veizlo. Sigurdr konongr kom þíngat, oc mikit lid med, var þar dyrligr fagnadr, oc hvern dag at veizlonni stód Rodgeirr hertogi oc þiónadi fyrir bordi Sigurdar konongs, oc hinn VII dag veizlonnar, þá er menn voro komnir til bordz, oc höfdo tekit laugar, þá tók Sigurdr konongr í hönd hertoganom, oc leiddi hann uppí hásætit, oc gaf hönom konongs nafn, oc þann rett, at iafnan skylldi konongr vera yfir Sikileyiar-velldi, en ádr höfdo Jarlar oc hertogar verit yfir því ríki.

## CAP. IX.

## FRÁ RODGEIRI KONONGI.

Þat er skrifad í Croniconom, at Rodgeir let sic fyrst kalla konong yfir Sicilien Anno Christi 1102,

þar hann ádr let ser nægia med Jarls nafn alleina yfir Sicilien, oc var þó hertogi yfir Calabria oc Apúlia, oc var kalladr Rodgeir hinn ríki; því hann þar eptir gördi ser skattgilldann kononginn í Tunct eda Tunis í Africa, oc let því grafa þessi ord á sitt sverd: *Apulus & Calaber, Siculus mihi servit & Afer.* Rodgeir Sikileyar konongr var hinn ríkasti konongr, hann vann Pul allann, oc lagdi undir sic, oc margar adrar stór-eyar í Gricklandz hafi; hann var kalladr Rodgeir inn ríki. Hans son var Vilhiálmr konongr í Sikiley, er lengi hafdi ófrid mikinn vid Micklagardz keisara. Vilhiálmr konongr átti III dætur, en öngan son; hann gipti eina dóttr sína Heinriki keisara, syni Fridreks keisara, en þeirra son var Fridrekr, er fyrir skömmo var keisari Roma-borgar. Adra dóttur Vilhiálms konongs átti hertogi af Kypur; ena III átti Margrit yfir-kussari; Henrikr keisari drap þá báda. Dóttur Rodgeirs ríka Sikileyar konongs átti Manuel keisari í Micklagardi, var þeirra sun Kirialax keisari.

## CAP. X.

## IORSALA-FERD SIGURDAR KONONGS.

Um sumarit sigldi Sigurdr konongr út um Gricklandz haf til Iorsala-landz, hann kom af hafi vid Akers-borg, oc let þar eptir skipin, fór þadan land-

veg upp til Iorsala-borgar, oc er þat fretti Balldvini Iorsala konongr, at Sigurdr konongr mundi sækia til borgar, let hann sækia dyrdlig klædi, oc breida nidr á veginn, oc því meir vöndut, er nær var borginni, oc mællti sídan: þat viti þer, at nú mun koma vor at vitia frægr konongr nordan or heimi, ero nú mörg hans snilldar-brögd sögd, oc ágætlig verk, skulom ver hönom vel fagna: en í þessom lut, er nú görom ver, manom ver marka stórmennsko hans oc ríkdóm: rídr hann rettan veg at borginni, oc lætr ser lítils þikia vert um þenna fyrirbúning, þá virdi ec, sem hann muni slícra luta gnótt eiga í síno ríki; en ef hann rídr af rettom veg, virdi ec minna konongs-sóma hans. Sigurdr konongr rídr nú at borginni med miklo drambi, oc ser hann hverso fyrir er búit, rídr hann fram á klædin, oc sva bidr hann alla sína menn göra. Balldvini konongr fagnadi Sigurdi konongi forkunnar vel, oc reid med hönom allt út til árinnar Iordanar, oc sídan aptr til Iorsala-borgar. Sva segir Einar Skúlason:

Húf let hílmir svifa
haf-kalldan lof skálldi
es at of alvalldz risno
einfallt í grik-sallti.
Adr vid einkar breida
aud-lestir skip festi

aull beid ölld med stilli
Akrsborg fegins morgin.

Oc enn qvad hann:

Get ec þess er gramr fór vitia
glygs Iorsala bygdar
mædr vitud audling ædra
ógn-blídr und sal vídom.
Oc leyg-hati laugazc
leyft rád var þat nádi
hauka fróns í hreino
hvatr Iordanar vatri.

Sigurdr konongr dvalldiz miöc lengi á Iorsala-landi um haustit oc aundurdan vetr.

## CAP. XI.

## UNNIN SÆTT.

Balldvin konongr gördi veizlo fagra Sigurdi konongi, oc lidi miklo med hönom. Þá gaf Balldvin konongr Sigurdi konongi marga helga dóma, oc þá var tekinn spánn af krossinom helga, at rádi Balldvinar konongs oc Patriarcha, oc svördo þeir bádir at helgom dómi, at þetta tre var af hinom helga krossi, er Gud siálfr var píndr á. Sídan var sá heilagr dómr gefinn Sigurdi konongi, med því at hann svardi ádr oc XII menn med hönom adrir, at hann skylldi fremia kristni med aullom mætti sínom, oc Erkibiskups stóli koma í land í Noregi,

ef hann mætti; oc at krossin skylldi þar vera, sem hinn helgi Olafr konongr hvílldi, oc at hann skylldi tíund fremia, oc siálfr göra. Sigurdr konongr fór sídan aptr til skipa sinna í Akrs-borg, oc þá bió Balldvini konongr her sinn at fara til Syrlandz til borgar þeirrar er Sætt het; meina sumir þat hafa verit Sidon á Syrlandi; sú borg var heidin, oc villdi hann vinna hana frá heidingiom, oc undir þá christno. Til þeirrar farar redz Sigurdr konongr med hönom, med öllo síno lidi oc LX skipom, oc þá er kon-ongar höfdo litla ríd setit um borgina, gáfoz heid-nir menn upp, oc eignuduz þá konongar borgina, oc ofa-fe mikit, en lids-menn annat her-fáng. Sig-urdr konongr gaf Balldvina konongi sinn hluta í borginni. Sva segir Halldor Skvalldri:

Borg heidna tokt brædir
benia tíkr vid ríki
hádiz hverr vid prydi
hilldr en gaft af milldi.

Einar Skúlason segir oc her frá:

Sætt frá ec dæla drottinn
drengr minniz þess vinna
tóko hvast í hristar
hríd valslöngur rída.
Sterkr braut válikt virki
vals munn-litudr gunnar
faugur rudoz sverd en sigri
snarr bragningr fagnar.

Eptir þat fór Sigurdr konongr til skipa sinna, oc bióz brott af Iorsala-landi. Þeir sigldo nordr til eyiarinnar Kypr, oc dvalldiz Sigurdr konongr þar nockora hríd; fór sídan til Gricklandz, oc lagdi at öllo lidino út vid Engilsnes, oc lá þar hálfan mánad, oc var hvern dag rad-byri at sigla nordr eptir hafino. En Sigurdr konongr villdi bída þess byriar, er þver-skytingr væri, oc seglom öllom mætti aka at endilöngom skipom; fyrir því at aull segl hans voro sett pellom, bædi þat er fram vissi oc aptr; fyrir því at hvarugir fram-byggiar edr aptr-byggiar villdo siá id ófegra seglanna, oc villdo þess (byriar) bída.

## CAP. XII.

## FERD SIGURDAR KONONGS Í MIKLAGARD.

Þá er Sigurdr konongr sigldi inn til Mikla-gardz, sigldi hann nærr landi; þar eró allt á landit upp borgir oc kastalar oc þorp, sva at hvergi slítr. Þá sá af landino í bug allra seglanna, oc bar hvergi í milli sva sem einn gardr væri; allt fólk stód úti, þat er siá mátti siglingina Sigurdar konongs. Spurt hafdi Kirialax keisari oc til ferdar Sigurdar konongs, oc let hann upplúka borgar-hlid þat á Miklagardi, er Gullvarta heitir, þat hlid skal innrída keisarinn, þá er hann hefir lengi ádr í brott verit frá Micklagardi, oc farit her-ferdir, oc hafi vel

sigraz; oc þá let keisarinn breida pell um öll stræti borgarinnar frá Gullvörto oc til Laktiarna, sva heita keisarans hallir inar ágæzto. Sigurdr konongr mællti til sinna manna, at þeir skylldi rída drambsamliga í borgina, oc láta ser litit um finnaz alla ny-breytni er þeir sá, oc sva gördo þeir. Keisari let fara allt í móti þeim med leika oc söngva: reid Sigurdr konongr oc allir hans menn vid þvílíkan prís í Miklagard. Sva segia menn, at Sigurdr konongr let skúa hest sinn med gulli, ádr hann reid í borgina, oc skylldi sva tilhaga, at undan skylldi stöckva einhver skórinn á strætino, oc skylldi eingi hans manna tillíta; oc er þeir Sigurdr konongr komo til hallar hinnar ágæzto, var þar allt vel fyrirbúit. Enn er menn Sigurdar konongs voro komnir i sæti, oc búnir til dryckio, koma í höllina sendimenn keisara, oc báro milli sín í stórom töskom gull oc silfr, oc sögdo at keisarinn sendi Sigurdi konongi, en konongr leit eigi til fiárins, oc bad menn sína scipta med ser. Sendi-menn fóro oc sögdo keisara; hann svarar: sá konongr mun vera stórom ríkr oc audigr, er hann vill eigi til slíkra luta hneigiaz, edr giallda lofleg ord fyrir; bidr þá en fara med stóra Cistera fulla af gulli. Þeir koma en fyrir Sigurd konong, oc segia hönom, at þessar giafir oc sendingar era hönom sendar af stól-konongi.

Sig-

Sigurdr konongr mællti: þetta er mikit fe oc fagurt, oc scipti þer med ydr þesso menn mínir. Sendimenn fóro aptr, oc sögdo keisara; hann svarar: tveim sciptir um þennan konong, at hann mun vera yfir ödrom konongom at ríki oc fe, eda hann mun eigi vera at iöfnom vitrleik, sem konongi sæmdi: farit nú í þridia sinn, oc færit hönom inn dyrasta purpura, oc hrokada þessa Cistera af gulli, oc þar lagdi hann á ofan tva gull-hrínga. Nú fara sendimenn oc koma fyri Sigurd konong, oc sögdo at stól-konongr sendi þetta it mikla fe Sigurdi konongi; hann stód þá upp oc tók hríngana, oc dró á hönd ser. Sídan taladi hann sniallt erendi á Grizco, oc þackadi keisara fögrom ordom allan sóma sinn oc stór-lyndi, oc scipti nú þesso fe med mönnom sínom vid miklom sóma. Sigurdr konongr dvalldiz þar nockora ríd. Þá sendi Kirialax keisari menn til hans, oc let spyria, hvart hann villdi þiggia at keisaranom VI skippund af raudo gulli, eda vildi hann, at keisarinn leti efna til leiks þess, er hann var vanr at láta leika á Padreimi? Sigurdr konongr kaus leikinn, en sendi-menn sögdo, at keisarann kostadi eigi minna fe leikinn, en þetta gull var. Þá let keisarinn efna til leiks, oc var þá leikit at vanda, oc veitto allir leikar betr konongi þann dag enn drottningo, þvíat drottning á iafnan hálfan

leikinn, oc keppaz í öllom leikom menn þeirra; oc segia Grickir, at þá er konongr vinnr fleiri leika á Padreimi en drottning, þá man konongr vinna sigr, er hann fer her-ferdir. Þat segia menn, þeir er verit hafa í Micklagardi, at Padreimr se á þá leid görr, at veggr hár se settr um einn völl, sva til at iafna sem tún-svid kringlott, oc gardr umhverfis med stein-veggiom, oc sita menn þar á, en leikrinn er á vellinom; ero þar skrifot margskonar forn-tídindi, Æsir, Volsungar oc Giúkungar, er þat steipt af kopar oc málmi, med sva miklom hagleik, at þat þickir allt kvikt vera, oc syniz mönnom sem þeir komi í leikinn; er leikrinn settr med sva miklom brögdom oc velom, at sva syniz sem menn rídi í lopti, oc skot-elldr er þar vid, oc allzkonar haurpo-leikar oc söng-færi.

## CAP. XIII.

### SIGURDR KONONGR HELLT SNÆDING MIKLAGARDZ KEISARA.

Þat er sagt, at Sigurdr konongr skylldi veita snæding einn dag keisaranom, oc bad hann sína menn ætla til skörugliga alla luti, er hafa þyrfti til þeirrar veizlo; oc þá er til var fengit allra luta, sem ríkom mönnom sómdi at veita tignom maunnom, þá bad Sigurdr konongr sína menn gánga at því

stræti í borginni, er vidr væri keyptr, sagdi at þeir mundi mikinn þurfa. Þeir sögdo, at konongr þyrfti eigi ugga, at vidinn mundi skorta, þvíat mörgom lössom vidar var ekit í borgina hvern dag; en er þeir þurfto til at taka, var á brott allr vidrinn, oc sögdo þeir þat konongi; hann svaradi: farit oc vitit þá, ef þer fáit valnötur, eigi munom ver þeim sídr kunna at ellda. Þeir fóro oc fengo sva miklar, sem þeir villdo. Því næst kom keisarinn oc hans höfdingiar oc hird, oc settoz saman, oc er þar margfalldr sómi, oc veitir Sigurdr konongr med mikilli prydi oc miklo kappi; oc er þat finnr keisarinn oc drottning, at ecki skortir, þá sendir hon menn at vita hverio þeir ellda, oc nú koma þeir at húsi eino, oc siá at þar var fullt af valnötom; fóro sídan oc sögdo þat drottningo; hon mællti: víst er konongr sá stór-lyndr, oc man fátt til spara síns sóma; engi vidr logar betr en þetta. Hon hafdi þetta til raunar gört, hver rád Sigurdr konongr tæki, ef hon leti bera frá hönom elldi-vidinn.

## CAP. XIV.

### FRÁ HEIM-FERD SIGURDAR KONONGS IORSALA-FARA.

Eptir þetta bióz Sigurdr konongr til heim-ferdar, gaf hann keisaranom öll skip sín, oc voro höfut þau

en se-miklo, er voro á konongs skipino, sett upp á Petrs-kirkio, ero þar sídan til synis. Kirialax keisari gaf sídan Sigurdi konongi marga hesta, oc feck hönom leid-toga um allt ríki sit, oc let setia hönom torg til matar-kaupa oc dryckiar um sitt ríki. Fór þá Sigurdr konongr brott af Micklagardi, en eptir dvalldiz mikill flölldi Nordmanna, er geck þar á mála. Sigurdr konongr fór utan fyrst um Bolgara-land, oc þá of Ungara-land, oc of Pannonia oc Svafa oc Beiara; fann hann Lozarium keisara af Roma-borg í Svafa, oc fagnadi hann hönom forkunnar vel, oc feck hönom leid-toga allt um sitt ríki, oc let hallda hanum torg, sva sem þeir þurfto til allra kaupa. En er Sigurdr konongr kom í Slezvík í Danmörk, þá veitti Eilífr Jarl hönom dyrliga veizlo, þat var um midsumars-skeid. I Heidaby hitti hann Niculas Dana konong, oc fagnadi hann hönom afarvel, oc gördi hann fyrir hönom veizlo mikla, oc fylgdi hönom siálfr nordr á Iotland, oc gaf hönom skip med öllom búnadi. Fór þá Sigurdr konongr heim til Noregs, oc var hönom vel fagnat, er hann kom heim í ríki sitt. Var þat mál manna, at eingi hefdi verit farin meiri virdingarför or Noregi, en þessi er Sigurdr konongr fór, oc þá var hann tvítugr at alldri; hann hafdi III vetor verit í þessi ferd. Olafr konongr bródir hans var þá XII vetra gamall at alldri.

## CAP. XV.

### FRÁ ATHÖFN EYSTEINS KONONGS.

Eysteinn konongr hafdi oc mart starfat í landino, þat er nytsamligt var, medan Sigurdr konongr var í ferdinni. Hann let göra í Biörgun höll hina miklo, er mest oc frægst herbergi hefir verit í Noregi; hann hóf munk-lífi í Nordnesi í Biörgun, oc lagdi þar til fe mikit; þar let hann göra Mikials-kirkio, it vegligsta stein-musteri; hann let oc göra þar í konongs gardi Postula-kirkio, þar let hann oc göra höllina miklo, er vegligast tre-hús hefir gört verit í Noregi; hann let oc göra kirkio á Agdanesi, oc þar virkit, oc haufn, er ádr var auræfi; hann let oc göra í Nidarósi í konongs gardi Nicolás-kirkio, oc var þat hús allmiöc vandat at skurdom oc allri smíd; hann let oc göra kirkio nordr í Vagom á Hálogalandi, oc lagdi provendu til.

## CAP. XVI.

### FRÁ EYSTEINI KONONGI.

Eysteinn konongr gördi ord hinom vitrostom mönnom til Iamtalandz, oc hinom ríkustom, baud þeim til sín, en fagnadi öllom er komo, med blído mikilli, oc leiddi brott med vin-giöfom, oc teygdi þannig til vinátto vid sik. En er þeir vöndoz margir

at fara til hans, oc þágo giafir hans, en sumom sendi hann giafir, þeim er eigi kvamo siálfir, þá kom hann ser í fullkomna vinátto vid alla þá menn, er mest redo fyrir landino. Sídan taladi hann fyrir þeim, oc sagdi, at Iamtir hefdo þat ílla gört, er þeir höfdo snúiz undan Noregs konongom í hlydni eda skatt-giöfom. Tók þar til máls, er Iamtur höfdo gengit undir ríki Hákonar Adalsteins-fóstra, oc verit sídan lengi lyd-skylldir undir Noregs kononga; inti oc þat, hverso mörg þarfindi þeir mátto hafa af Noreg, eda hverso mikil ómakindi þeim veri, at sækia til Svía konongs þat er þeir þurfto. Oc kom hann sva sínom rædom, at Iamtir siálfir budo hönom, oc bádo hann at þeir villdi snúaz tíl lydni vid hann, oc kölludo þat vera þurft sína oc naudsyn; dró sva saman þeirra felagskap, at Iamtir gáfo landit allt undir ríki Eysteins konongs. Tóko fyrst til þessa máls ríkis-menn, oc höfdo þar trúnadareyda af öllo fólki. Sídan fóro þeir til Eysteins konongs, oc svördo hönom landit, oc hefir þat halldiz lengi sídan. Vann Eysteinn konongr med viti Iamtaland, en eigi med álaupom sem sumir forellrar hans.

## CAP. XVII.

## FRÁ ATGÖRVI EYSTEINS KONONGS.

Eisteinn konongr var madr hinn frídasti synom, blá-eygr oc nockot opin-eygr, bcik-hvítr á hár oc

hrockin-hárr, ecki hár medal-madr á vöxt, spekingr at viti, fródr at öllom lögom oc dæmom, oc mannfródr, rád-sniallr oc ord-spakr, oc hinn sniallasti oc milldastr af fe, manna gladastr oc lítillátastr, hug-þeckr oc ást-sæll allri alþydo. Hann átti Ingibiörgo dóttr Guthorms Steigar-Þórisssonar; þeirra dóttir var Maria, er sídan átti Gudbrandr Skafhaugsson. Eysteinn konongr hafdi í marga stadi bætt rett landz-manna, oc hellt hann upp miöc lögunom; hann giördi ser kunnig öll lög í Noregi, hann var oc spekingr mikill at viti. Á þeima lut má nockut marka, hverr dyrdar-madr Eysteinn konongr var, eda hverso hann var vin-hollr oc hugkvæmr eptir at leita vid vini sína, hvat þeim væri at harmi. Sá madr var med hanom, er Ivarr het Ingimundarson, Islenzkr madr, vitr oc ætt-stórr, oc skálld, var konongr vel til hans oc ástsamliga, sva sem syndiz í þessom lút. Ivar tók ógledi, oc er konongr fann þat, heimti hann Ivar til máls vid sik, oc spurdi, hví hann væri sva ógladr? en fyrrum er þú vart med oss, var oss margskonar skemtan at þínom rædom; hugnar þer eigi til vor? Ivar qvad þat eigi vera. Konongr svaradi: eigi leita ec af því eptir, veit ec, at þú mant vera sva vitr madr, at ec hefi öngan lut gört af vid þik; seg mer hvat er? Hann svaradi: þat sem er, herra, má ec eigi frá segia. Þá mællti konongr: geta man

ec þá til: ero menn þeir nockorir, er þer getiz eigi at? hann qvad eigi þat. Konongr svarar: þickiz þú af mer hafa minna sóma en þú vildir? hann sagdi eigi þat vera. Konongr mællti: hefir þú sed nockora þá luti, er þer hefir sva mikit um fundiz, at þer þickir þat ílla? hann qvedr eigi þat vera. Konongr mællti: fysir þic til nockorra manna eda annarra höfdingia at fara? hann qvad eigi þat vera. Konongr mællti: vandaz nú getan; ero nockorar konor þær her eda á ödrom löndom, er þer er eptir-siá at? hann sagdi at þat er. Konongr mællti: ver eigi þar um hug-siúkr; þegar er varar, far þú til Islandz, oc man ec fá þer fe oc mikinn sóma, bref oc innsigli til þeirra manna, er ráda eigu, oc veit ec eigi þeirra manna vanir, at eigi muni hneigiaz fyrir mínom ummælom eda ógnarordom. Ivar svaradi: þúngligarr er farit, herra, bródir minn á þessa kono. Þá mællti konongr: hverfom þar frá; se ec þar rád til. Eptir Iól man ec fara á veizlor, oc far þú med mer, mantu þá siá kurteisar konor margar, oc ef eigi ero þær kong-bornar, man ec fá þer í hendor oc gipta þer einahveria. Ivar svarar: herra, því er þúngligarr komit, at iafnan er ec se fagrar konor, oc dyrlígar, þá minnir mic hinnar kononnar, oc er því harmr minn at meiri. Konongr mællti: þá mun ec gefa þer nockvat ſorrædi, oc eignir med at skemta þer.

Hann svaradi: eigi uni ec því. Þá mællti konongr: þá fæ ec þer fe, oc far þú þángat til landa, sem þú villt. Hann qvedz eigi þat vilia. Þá mællti konongr: vandaz mer nú eptir at leita, oc hefi ec nú leitat nær sem ec kann. En einn er nú lutr eptir, oc er sá lítis verdr hiá þessom, er ec hefi bodit þer; far þú hvern dag, er bord er uppi, á minn fund, oc ef ec sit eigi yfir vanda-málom, mun ec tala vid þic, oc ræda um kono þessa á alla vega, þess er mer má í hug koma, oc man ec gefa mer tóm. Þat verdr stundom, at mönnom verdr harms lettara, ef um er rætt; þat skal oc fylgia, at alldreigi skaltu giaflaust á brott fara. Hann svarar: þenna vil ec, herra, oc hafit þöck fyrir eptirleitanina. Oc nú göra þeir sva iafnan, er konongr sitr eigi yfir vandamálom, þá talar konongr vid hann, oc lettiz hönom nú harms síns, oc gledz hann.

## CAP. XVIII.

## FRÁ SIGURDI KONONGI.

Sigurdr konongr var madr mikill oc sterkr, iarpr á hár, sköruligr, eigi fagr, vel vaxinn, fá-mælltr, oc optazt ecki þydr, vin-gódr oc fastúdligr, eigi taladr miöc, sidlátr oc veglátr. Sigurdr konongr var madr stiórnsamr oc refsingasamr; hellt vel lögin, milldr af fe, ríkr konongr oc ágætr. Olafr

konongr bródir hans var madr hár oc miórr, frídr synom, gladr oc lítillátr oc vinsæll. Þá er þeir brædor allir, Eysteinn, Sigurdr oc Olafr, voro kon-ongar í Noregi, þá tóko þeir af margar álögur, þær er Danir höfdo lagt á lydinn, þá er Sveinn Alfífo-son red Noregi, oc urdo þeir af því vinsælir stórom vid alþydo oc stórmenni.

## CAP. XIX.

### DRAUMR SIGURDAR KONONGS JORSALA-FARA.

Sigurdr konongr tók ógledi mikla, sva at lítt mátti nióta tals hans, sat hann oc skömmom vid dryckio. Þat þótti ráda-mönnom þúngt, oc vinom hans oc hirdinni, oc bidia sídan Eystein konong leggia til nockor rád, at hann fengi vitat hverio gegndi, er menn fengo öngva orskurdi mála sinna, er Sigurd konong sótto at, þótt fyrir hann bæri. Eysteinn konongr svarar: vant er at ræda oc leita eptir slík-om lutom vid konong; en þó at bæn margra manna vard þat, at hann het. Oc eitthvert sinn er þeir váro bádir sáman, vekr Eysteinn konongr til vid bródr sinn, oc spurdi hví gegnir ógledi hans; er þat nú herra margs mans hrygd, er þer erut sva ógladir, villdom ver vita hvat er velldr, eda hafi þer nockor tídindi fregit, er þat se stórra luta vert? Sigurdr konongr segir, at eigi er þat. Er þat þá

bródir, segir Eysteinn konongr, vilit þer or landi, oc afla ydr meira ríkiss, sem fadir varr? hann qvad eigi þat vera. Ero nockorir menn þeir í landi her, er fyrir reidi þinni se ordnir? Konongr sagdi eigi þat vera. Þat vil ec þá vita, ef ydr hefir dreymt nokvat, þat er þer færr áhyggio. Konongr sagdi at sva var. Seg mer þá bródir, segir Eysteinn konongr, drauminn. Sigurdr konongr mælti: eigi man ec segia þer, nema þú rádir eptir því sem vera mun, oc mun ec þat allglögt vita mega, hvart þú rædr rett, eda eigi. Eysteinn konongr svaradi: þat er, herra, mikill vandi á bádar hendor; sitia fyrir reidi þinni, er á man liggia, ef eigi verdr rádit, eda ágáng múgsins, ef ec geri eigi or nockot; en þar til mun ec þó helldr ráda, at hætta á ydar miskun, þó at eigi verdi rádit eptir þvi sem ydr líkar. Sigurdr konongr svarar: þat dreymdi mic, at mer þótti sem ver brædr iij sætim allir á einom stóli fyrir Kristz-kirkio nordr í Þrándheimi, oc þá syndiz mer sem gengi út or kirkionni hinn helgi Olafr konongr frændi varr, skryddr konongs skrúdi, liómandi oc vegsamligr, hann var med hinni dyrligsto ásióno oc miöc blídligr. Hann geck at Olafi konongi bródr ockrom, oc tók í hönd hönom, oc mællti vid hann blídliga: far þu med mer frændi, sagdi hann; hann syndiz mer standa upp, oc ganga med hönom inn í kirkiona. Oc nockoro sidar kom

hinn helgi Olafr konongr út af kirkionni, oc þó eigi sva blídr oc vegsamligr sem ádr. Geck hann at þer bródir, oc mællti vid þic, at þú skylldir gánga med ser, leiddi hann þic med ser, oc gengo þit sídan í kirkiona. Þá hugsada ec oc vænta, at hann mundi einnin út til mín koma, oc í móti mer, en þat vard eigi; þar af vard ec hryggr, oc þá sló yfir mic hræzlo mikilli oc ómegni, oc vard ec med öllo máttlaus, oc vaknadi ec í þvi. Eysteinn konongr svarar: herra, sagdi hann, sva ræd ec draum þenna, at stóllinn iartegnir ríki vart brædra, en er þer syndiz Olafr konongr koma med blído yfir-bragdi í móti Olafi konongi bródr okrom, þar man hann lifa skemst vor brædra, oc mun hann eiga gott fyrir höndom, því at hann er vinsæll oc úngr at alldri, mun fátt yfir-lidit, oc mun hinn heilagi Olafr konongr hiálpa hanom. En þar er þer syndiz hann mer í móti koma, oc eigi med iafn-mikilli blído, þar mun ec lifa nockorom vetrom lengr, oc verda þó eigi gamall, oc væntir mic at hans ásiá man yfir mer standa, en þat hann kom í móti mer, þar var hann eigi med iammiklom blóma, sem vid Olaf konong bródor ockrom, mun þat fyrir því, at mart hefir mik hendt til afgiörda oc bodorda brota. En þar sem þer þótti frestaz qvama hans þer í móti, þat get ec at eigi muni marka heimvon þína, helldr þitt lánglíf; en vera kann at

þú mætir nockro þúngo áfelli, er þer þótti sem nockor óbirta legdiz yfir þic oc ótti; oc get ec at þú verdir var ellztr, oc rádir lengst ríki þesso. Þá mællti Sigurdr konongr: vel er rádit oc vitrliga, oc er mest ván at gángi eptir þesso; tekr konongr nú at glediazc.

## CAP. XX.

## KVANFÁNG SIGURDAR KONONGS.

Sigurdr konongr feck Málmfrídar, dóttur Haralldz konongs Valldimarssonar, austan or Hólmgardi, sonar Jarizleifs Gamla, oc Ingigerdar dóttur Olafs Sænska Svía konongs. Módir Haralldz konongs Valldimarssonar var Gyda Gamla drottning, dóttir Haralldz Gudenasonar Engla konongs. Módir Málmfrídar drottningar var Christin drottning, dóttir Inga Svía konongs Steinkellssonar. Önnor dóttir Haralldz Valldimarssonar, systir Málmfrídar, var Ingibiörg, er átti Knútr Lávardr, son Eiriks hins Góda Dana konongs, sonar Sveins konongs Ulfssonar. Börn þeirra Knútz oc Ingibiargar voro þau Valldimarr Dana konongr, er konong-dóm tók í Danmörk eptir Svein Eiríksson, Margret, Kristin, Katrin. Margreto átti Stígr Hvítaledr, þeirra dóttir var Christin, er átti Karl Sörkvisson, Svía konongr; þeirra son var Sörkvir konongr, fadir Jóns konongs.

Dóttir Sigurdar konongs oc Málmfrídar var Christin, sem átti Erling Jarl Skacka.

## CAP. XXI.

### HER HEFR ÞÍNGA-ÞÁTT.

Sigurdr Hranason, mágr konongs, vard missáttr vid Sigurd konong. Hann átti Skialldvöro, systur Magnús konongs Berfættz sammædra. Hann hafdi haft Finn-för af hendi kononga, fyrir sakir tengda oc lángrar vinátto, oc margra gódra luta, er Sigurdr Hránason veitti konongum, oc var hann hinn merkiligasti madr oc hinn vinsælasti. En þar bar sva at, sem opt kann verda, at vandir menn oc öfundsiukir rægdo hann vid konong, meirr enn sannordir, oc báro þat í eyro Sigurdi konongi, at Sigurdr Hránason mundi meira eigna ser af Finn-skattinom, en hófi gegndi; ræda þar til her um, at Sigurdr kunongr lagdi á hann fiandskap oc reidi sína, oc sendir eptir hönom, oc er hann kemr á konongs fund, ber konongr þetta á hann, oc segir at hann vardi eigi þat, at þu mundir sva launa mer, sagdi hann, mikit len oc sóma, at eigna þer konongs eign, oc hafa meira lut af, en þer var leyft. Þá svarar Sigurdr Hránason: eigi er þat satt, er ydr er frá sagt; slikan lut hefi ec þar af, sem ydart er leyfi til. Sigurdr konongr mællti: eigi munto því

eino fyrir hlíta, oc rætt man ádr málít verda med meiri freko, en letti; oc skiliaz at því. Litlo sídarr med umtölom vina sinna sótti Sigurdr konongr Sigurd Hranason um þetta mál á móti í Biörgvin, oc villdi göra hann útlaga. Oc er í þat efni var komit, oc sva mikinn vanda, þá ferr Sigurdr Hranason á fund Eysteins konongs, oc segir hönom med hverso miklo áfelli Sigurdr konongr vildi heimta málit af hönom, oc bidr hann nú ásiá. Eysteinn konongr svarar: þat er vant mál er þu beidir, at veita mótmæli bródur sínom, segir lángt þess í milli, hvart hann veitir at málino, eda gengr í móti, qvad þa brædor báda iafnt eiga þetta mál, Sigurd konong oc sic, en fyrir sakir naudsyniar þinnar oc mágsemdar okrar, þá man ec tilleggia nockor ord. Nockro sídar hittir Eysteinn konongr Sigurd konong, oc bidr hann eirdar manninom; sagdi skylldo þá sem var, at Sigurdr Hranason átti Skialldvöro faudur-systur þeirra, oc segir hann bæta vilia þat er konongi mislíkar; þó at eigi telldi hann sik sannan at sökinni; bad konong minnaz á lángt vinfengi þeirra. Sigurdr konongr sagdi þat meiri stiórn, at refsa slíka luti. Þá svarar Eysteinn konongr; ef þú villt bródir lögom at-fylgia oc eptir landz-stiörn refsa slíkt, þá er þat mun-rettligast, at Sigurdr Hranason nióti vitna sinna, oc á mál þetta á þíngi at dæma, en eigi á móti, þvíat sökin veit til landz-

laga, en eigi til Biarkeyíar-rettar. Þá mællti Sigurdr konongr: vera má at sva viti sökin, Eysteinn konongr, sem þú segir, oc ef þetta ero eigi lög, þá muno ver málit á þíngi sækia. Sídan skildoz konongar, oc þótti miöc sinn veg hvarom þeirra. Þá stefndi Sigurdr konongr máli þesso til Arnar-nes þíngs, oc ætlar þar fram at hafa. Eysteinn konongr kom oc þángat, oc sótti þíngit, oc er sökin fór fram í dóm, þá geck at Eysteinn konongr, ádr en dómr felli á Sigurd Hranason; þá beiddi Sigurdr konongr lögmenn, at þeir felldi dóm á. En Eysteinn konongr svarar á þá leid: þat hygg ec at her muni vera menn sva vitrir, oc kunnig lögin í Noregi, at eigi á at dæma lendan mann utlagan á þesso þíngi. Oc flytr hann nú sva málit til laga, at öllom má þat skiliaz sannligt. Þá mællti Sigurdr konongr: kapp leggr þú á mikit Eysteinn konongr mál þetta, oc vera má at meira starf verdi fyrir, ádr en þetta mál gángiz vid, en til var hugat, en eigi fyrir því at sídr skal framhallda. Oc giarnan vilda ec nú, at hann yrdi sekr í sínom átt-haga. Þá mælti Eysteinn konongr, fátt mun þat vera, at eigi verdi framgengt, ef þer vilit fylgia, oc er þess ván sva marga oc stóra luti sem þer hafit unnit; en her er ván at í móti standi fáir menn oc smáir. Skiliaz þeir at sva búno, sva at

eigi

eigi syzliz at málino. Eptir þat stefnir Sigurdr konongr Gulaþíng, oc sækir til siálfr, oc stefnir at ser mörgom dyrom höfdingium; þar kemr oc Eysteinn konongr med sínar sveitir, oc ero nú margir fundir at áttir oc stefnur at málino af vitrom mönnom, oc málit ransakat fyrir lögmönnom. Nú flytr Eysteinn konongr þetta fram, at allir þeir menn er fyri söcom voro hafdir, voro í Frosta-þíngs-lögom, oc sacir höfdo gerst á Hálogalandi. Lykz med þvi þíngit, at eigi er at gört, oc eydir hann sökina med þesso, oc skiliaz konongar at því, oc voro miöc reidir. Fer þá Eysteinn konongr nordr til þrándheims. Sigurdr konongr stefnir at ser öllom lendom mönnom, oc lendra manna húskörlom, oc nefnir or hverio fylki lid mikit búanda allt sunnann or landi, oc dróz at honom her mikill, stefnir hann lidino öllo nordr med landi, sækir sva allt nordr á Hálogaland, oc vill sva greipliga ad at gánga, at göra Sigurd Hranason útlaga þar í frændhaga sínom, oc stefnir hann til sín Háleygiom oc Naumdælom, oc stefnir þíng í Hrafnisto. Eysteinn konongr biózc or kaupángi med lidi miclo, oc sækir til þíngsins; hann tekr þá med hand-festi sókn oc vörn af Sigurdi Hranasyni. A þesso þíngi flutti hvari-tveggi kononga fram sitt mál. Þá leitar Eysteinn konongr vid lögmenn, hvar þau lög ero sett í Noregi, at

bændöm se rett at dæma kononga mál, ef annar sækir mál af ödrom; flyt ec mál þat med vitnom fram, at Sigurdr hefir mer í hendr fengit málit. Nú á Sigurdr konongr vid mic málit, en eigi vid Sigurd Hranason. Lögmenn segia at Kononga málom ætti at skípa á Eyra-þíngi í Nidarósi. Eysteinn konongr svarar: þat hugda ec at sva mundi vera, oc þángat mun sökin horfa, oc segiz konongr oc vilia þar rettan dóm falla láta um mál Sigurdar Hranasonar. Þá mællti Sigurdr konongr: Sva miöc sem þú villt þyngia oc óhægia fyrir mer of þetta mál, þá skal ec því þráligarr fylgia; oc skiliaz þeir at sva búno. Sækia nú hvarir tveggio sudr til kaupángs, var þar stefnt VIII fylkna þíng. Eysteinn konongr var þá í bænom, oc hafdi allmikit lid, en Sigurdr konongr lá á skipom. En er til þíngs skylldi gánga, þá voro grid sett. Oc ec þar var komit fólk allt, oc málit skylldi kæra, þá stód upp Bergþór Bockr, son Sveins Bryggio-fótz, oc bar fram vitni sitt, at Sigurdr Hránason hefdi leynt af Finnskattinom. Eysteinn konongr stód þá upp oc svarar: þó at þessi sök væri sönn, er þú ber nu fram, sem ec veit þó eigi med sannendom hver vitnisburdr þetta er; oc þó at sva væri, at þat sannadiz, þá hefir þessi sök nú verit eydd á þremr laug-þíngom, oc móti ino fiórda. Nú kref ec lögrettomenn at dæma Sigurd syknan sakarinnar at

lögom; oc sva var giort. Þá mællti Sigurdr konongr: ser ec, Eysteinn konongr, at þú hefir flutt fram lög-króka, en mer er eigi þat kunnigt. Nú er sú ein sóknin eptir, er ec mun vera vanari en þú, Eysteinn konongr, skal þá nú oc fram hafa; oc sneri sídan á brott til skipa sinna, oc let færa af tiölld, oc lagdi lidino öllo út til Hólms, átti þar þing, oc sagdi sva lidino, at um morguninn eptir skylldo þeir leggia árdegis inn til Hovalla, oc gánga upp oc beriaz vid Eysteinn konong. En um kvölldit, er Sigurdr konongr sat at mat-bordi á skipi síno oc snæddi, þá vard hann eigi fyrr varr vid, en madr let fallaz nidr á þiliornar í fyrir-rúmino, oc tók um fót hönom; þar var Sigurdr Hranasón, oc bad þá Sigurd konong göra af síno rádi slíkt er hann vildi, qvadz eigi vilia at af hönom hlytiz nockor vandrædi medal þeirra brædra. Geck þá til Magni Biskop oc Málmfrídr drottning, oc margir höfdingiar adrir, oc bádo grida Sigurdi Hranasyni, oc med þeirra bæn tók Sigurdr konongr hann upp, oc tók af hönom festor, oc setti hann med mönnom sínom, oc hafdi hann med ser sudr í land. Um haustit feck Sigurdr konongr Sigurdi Hranasyni orlof, at fara heim nordr til eigna sinna, oc gaf hönom þá syslo af sinni hendi, oc var iafnan sídan vinr hans. Eptir þetta vard alldregi mart um milli þeirra brædra, ne blída med ástsemd.

## CAP. XXII.

### DAUDI OLAFS KONONGS.

Á þrettánda ári ríkis þeirra brædra, tók Olafr kon-ongr Magnússon sótt, þá er hann leiddi til bana; oc er hann iardadr í Nidarósi at Kristz kirkio; var hann mörgom miöc harm-daudi. Módir Olafs kon-ongs var Sigridr dóttir Saxa í Vík, systir Kára Au-stráds, er kalladr var konongs fóstri, hann var ríkr madr oc vinsæll. Önnorr dóttir Saxa or Vík var Þóra, hon gat son, er Sigurdr het Slembidiacn, er sídan kalladiz sonr Magnus konongs Berfættz. Kári konongs fóstri átti Borghilldi, dóttur Dags Eilífs-sonar, þeirra son var Sigurdr Austrádr, lendr madr, fadir Jons, er átti Sigrídi, systur Inga konongs Bar-darsonar. Sídan redo þeir ij konongar landi, Ey-steinn oc Sigurdr, en ádr höfdo þeir brædr iij verit konongar yfir Noreg xij vetor, v sídan er Sigurdr konongr kom í land, en vij ádr. Olafr konongr var xvij vetra, þá er hann andadiz, en þat var xj. Kalendas Januarii. Þá er Eysteinn konongr hafdi verit einn vetr austr í landi, en Sigurdr konongr var þá nordr, þá sat Eysteinn konongr lengi um vetrinn í Sarps-borg.

## CAP. XXIII.

### FÆDDR MAGNUS BLINDI.

Bóndi ríkr er nefndr Olafr í Dali, audugr madr,

hann bió í Aumord í Dali mikla, hann átti ij börn. Son hans het Hákon Faukr, en Borghilldr dóttir, hon var kvenna fridust oc vitr kona, oc fród miöc. Þau Olafr oc börn hans voro lengi um vetrinn í Borg, oc var Borghilldr iafnan á tali vid Eysteinn konong, oc mællto menn all-misiafnt um vinfengi þeirra. En eptir um sumarit fór Eysteinn konongr nordr í land, en Sigurdr konongr fór þá austr, oc annann vetr eptir var Sigurdr konongr austr í landi, oc sat löngom í Kononga-hello, oc efldi stórmiöc þann kaupstad. Þar gerdi hann kastala mikinn af torfi oc grióti, oc let grafa um díki mikit; hann let húsa í kastalanom, oc giöra þar kirkio. Krossinn helga let hann vera í Konongo-hello, oc hellt hann eigi í því eida sína, er hann hafdi svarit á Jorsalalandi, en hann framdi tíundir, oc flest allt annat þat er hann hafdi svarít; hann setti Krossinn fyrir því austr vid landz endann, at hann hugdi þat vera mundo allz landz gæzlo; en þat vard at hino mesta órádi, at setia þann helgann dóm sva miöc undir valld heidinna manna, sem sídan reyndiz. Borghilldr Olafsdóttir heyrdi þann qvitt, at menn illmællto þau Eysteinn konong um tal sitt oc vinátto, þá fór hon til Borgar, oc fastadi þar til iárns, oc bar iárn þar fyrir þetta mál, oc vard vel skyr. Enn er þetta spurdi Sigurdr konongr, þá reid hann þat á einom degi, er miklar voro ij dag-leidir, oc

kom fram í Dali at Olafs, var þar um nótt, þá tók hann Borghilldi frillo-taki, oc hafdi hana brott med ser; þeirra son var Magnús, hann var brátt sendr til fósturs nordr á Hálogaland í Biarkey, til Vidkunns Jonssonar, oc fæddiz hann þar upp. Magnus var allra manna frídastr, brád-görr á vöxt oc á afl.

## CAP. XXIV.

### MANN-JAFNADR KONONGA.

Eysteinn konongr oc Sigurdr konongr fóro einn vetr bádir at veizlom á Upplöndom, oc átti sín bú hvar þeirra, en er skamt var milli þeirra bæia, er konongar skylldo veizlor taka, þá syndiz bændom þat rád, at þeir skylldo bádir vera samt at veizlonom, oc síno sinni at hvers búom, voro þeir fyrst bádir samt at því búi er Eysteinn konongr átti. En of kvelldit er menn tóko at drecka, var munngát eigi gott, oc voro menn hliódir. Þá mællti Eysteinn konongr: hví ero menn sva hlíódir, hitt er aul-sidr meiri, at menn göri ser gledi, fám oss öl-teiti nockora, man þá enn áreitaz um gaman manna. Sigurdr bródir, þat man öllom sæmst þyckia, at vid hefiom nockorar skemtanar rædor. Sigurdr konongr svarar helldr styggt: vert þú sva málugr, sem þú villt, en lát mic ná at þegia fyrir þer. Eysteinn konongr mællti: Sá aul-sidr hefir

iafnan verit, at menn taka ser iafnadar-menn, vil ec her sva vera láta. Þá þagdi Sigurdr konongr. Se ec, sagdi Eysteinn konongr, at ec verd at hefia þessa teiti, mun ec þic bródir taca til iafnadarmanns mer, færi ec þat til, at iafnt nafn höfom vid bádir oc iafna eign, göri ec önganu mun ættar ockarrar eda uppfæzlo. Þá svaradi Sigurdr konongr: mantu þat eigi er ec braut þic á bak ef ec villda, oc vart þú vetri elldri. Þá svaradi Eysteinn konongr: Eigi man ec hitt sídr, er þú feckt eigi leikit þat er miúkleikr var í. Þá mællti Sigurdr konongr: Mantu hverso of sundit fór med ockr, ec mátta kefia þic ef ec villda. Eysteinn sagdi: Eigi svam ec skemra en þú, oc eigi var ec verr kaf-syndr, ec kunna oc vel á ís-leggiom, sva at öngann vissa ec þann er kepdi vid mic, en þú kunnir þat eigi helldr en naut. Sigurdr konongr svarar: höfdingligri iþrótt oc nytsamligrí þycki mer sú, at kunna vel á boga, ætla ec at þú nytir eigi boga minn, þóttu spyrnir fótom í. Eysteinn konongr sagdi: Eigi em ec bogsterkr sem þú, en minna mun skilia bein-skeyti ockra, en miklo kann er betr enn þú á skídom, oc hafdi þat en verit köllot fyrr gód iþrótt. Sigurdr konongr sagdi: Þess þickir mer mikill munr, at þat er höfdingligra, at sá er yfir-madr skal vera annarra manna, se mikill í flocki, sterkr oc vapnfærr, betr enn adrir menn, oc audsærr oc audkendr,

þá er margir coma saman. Eysteinn konongr sagdi: Eigi er þat sídr, oc einkanna hlutr, at madr se frídr synom, er sá oc audkendr í mannfiöllda, þicki mer þat oc höfdingligt, því at frídleíkinom samir hinn besti búnadr. Kann ec oc miklo betr til laga enn þú, oc sva hvat er vid skulom tala, em ec miklo slett-ordari enn þú. Sigurdr konongr sagdi: vera kann at þú hafir numit fleiri lög-pretto, því at ec átta þá annat at starfa, oc engi fryrr þer slett-mælis, en hitt mæla margir, at þú ser eigi all-fastordr, oc lítit mark se, hverio þú heitir, oc mælir eptir þeim er þá ero hiá, oc er þat eigi konongligt. Eysteinn konongr svarar: þat ber til þess, er menn bera mál sín fyrir mic, þá hugsa ec þat fyrst, at lúka sva hvers manns máli, at þeim mætti bezt þickia. Þá kemr opt annar, sá er mál á vid hann, oc verdr þá opt dregit til oc midlat, at bádom skylldi líka; hitt er oc opt, at ec heiti því er ec em bedinn, því at ec villda at allir færi fegnir af mínom fundi. Se ec hinn kost, ef ec vil hafa, sem þú görir, at heita öllom illo, en eingan heyri ek efndanna fryia. Sigurdr konongr svarar: þat hefir verit mál manna, at ferd sú er ec fór or landi, væri helldr höfdinglig, en þú sazt heima á medan, sem dóttir faudr þíns. Eysteinn konongr svarar: nú greipt þú á kylino, eigi mynda ec þessa rædo vekia, ef ec kynna her eingo um at svara;

nærr þótti mer hino, at ec gerda þic heiman sem systr mína, ádr þú yrþir búinn til fararinnar. Sigurdr konongr svarar: heyrt muntu hafa getit, þat at ec átta orrostor miöc margar í Serklandi, oc feck í öllom sigr, oc margskonar gersemar, þær er eigi hafa fyrr slíkar híngat í land komit; þótta ec þar mest verdr er ec fann göfgasta menn, en ec hygg, at eigi hafir þú enn leynt heimdraga nafnino; fór ec til Jorsala, segir hann, oc com ec vit Púl, oc sá ec þic eigi þar, bródir, ek gaf konongdóm Rodgeiri Jarli inom ríka, vann ec viij orrostor, oc vartu at öngri. Fór ec til grafar Drottins, oc sá ec þic eigi þar bródir. Fór ec í ferd þeirri lengst út til Jordanar, þar sem Drottinn var scírdr í, oc lögdumz ec út yfir ána, oc sá ec þik eigi þar; enn fyrir utan ána á backanúm var kiarr nackvat, oc reid ec þer þar knút á kiarrino, oc bídr þín þar. Mælltac sva fyrir attu skylldir leysa, bródir, eda hafa elligar þvílíkan formála er þar á var lagdr. Þá mællti Eysteinn konongr: smátt mun ec hafa her í móti; spurt hefir ec þat, at þu áttir orrostur nockurar utanlands, enn nytsamligra var hitt landi varo, er ec giörda medan. Nordr í Vogom setti ec fiskimanna búdir, at fátækir menn mætti næraz til lífs hiálpar, oc setta ec þar prests vist, oc lagda ec fe til kirkio þeirrar, er náliga var allt heidit ádr. Mano þeir menn muna, at Eysteinn konongr hefir

verit í Noregi. Um Dofra fiall var för or þrándheimi; urdo menn þar iafnan úti, oc fóro þar margir menn hördom förom; let ec þar sæluhús göra, oc fe til leggia; oc mano þeir vita, at Eysteinn konongr hefir verit í Noregi. Fyrir Agdanesi voro öræfi, oc hafn-leysi, fóroz mörg skip, þar er nú höfn gör oc gott skiplagi, oc kirkia görr. Sídan let ec vita göra á há-fiöllom; nú muno þessa nióta allir menn innan-landz. Höllina let ec göra í Biörgyn oc Postula-kirkio, oc rid milli. Nú mano konongar þeir muna nafn mitt, er eptir koma. Michials kirkio let ec göra, oc múnklífi; skipada ec lögom, bródir, at hver mætti hafá rettíndi víd annan, oc ef þau ero halldin, þá man betr fara landzstiórnin; Stöpulinn let ec göra í Sinhólms-sundi med járn-hríngum; þeim Jamtum höfom ver oc snúit undir þetta ríki, meir med blídom ordom oc viti, enn med ágángi oc ófridi. Nú er þetta smátt at telia; enn eigi veit ec víst, at landz-búunom se þetta óhallhvæmara, enn þótt þú brytiadir blámenn fyri fiandann á Serklandi, oc hrapa þeim sva til helvítis. En þar sem þú hrósadir gódgiörningom þínom, ætla ec mer eigi minna til sálo-bótar, stadi þá er ec let setia hrein-lífis mönnom. En þar sem þú reitt mer knútinn, oc mun ec þann eigi leysa, en rída mátta ec þer þann knút ef ec villda, at þú værir alldri konongr í Noregi, þá er þú sigldir ein-

scipa í her minn, er þú komt í land. Líti nú vitrir menn, hvat þú hefir umfram; oc vita sculo þer þat, gull-hálsarnir, at menn muno enn iafnaz vid ydr í Noregi. Eptir þát þögnudo þeir bádir, oc var hvartveggi reidr. Fleiri lutir urdo þeir í sciptom þeirra brædra, er þat fannz á, at hvarr dró sic fram oc sitt mál, oc villdi hverr vera ödrom meiri, en þó hellzt fridr millom þeirra, medan þeir lifdo. Þat er sagt eitt sínn, at Sigurdr konongr var kominn í sæti sitt, enn Ingibiorg Guttormsdóttir, kona Eysteins konongs, mællti til Sigurdar konongs: mörg oc mikil stórvirki mano lengi uppi vera, þau er þer hafit unnit, Sigurdr konongr, í út-löndom. Hann svaradi med víso:

Sciótt bar ec sciölld inn hvíta
scalld bidr at Gud valldi
ár til eggia scúrar
ótraudr enn frá raudan.
Þar hefi ec hogg of höggvit
hand-vist á Blálandi
Gud rædr sócn oc sigri
svanni þínom manni.

## CAP. XXV.

## FRÁ KER-LAUGO.

Þat er sagt, at Sigurdr konongr var at veizlo nockorri á Upplöndom, en þar voro laugar görvar. En

er konongr var í lauginni, oc var tialldat yfir kerit, þá þótti konongi renna fiskr í kerino hiá ser. Þá sló á hann hlátri sva miclom, at þar fylgdi stadleysi oc vitleysi, oc kom þat sídan miöc optliga at hönom. Ragnhilldi, dóttur Magnús Berfættz, gipto þeir brædor hennar Haralldi Kesio, hann var son Eiríks Góda Dana konongs, oc voro synir þeirra Magnús, Olafr, Knútr, Haralldr.

## CAP. XXVI.

## SKIP-SMÍDI EYSTEINS KONONGS OC DAUDI HANS.

Eysteinn konongr let göra skip mikit í Nidarósi, þat var gört at vexti oc med hætti eptir því sem Ormrinn Lángi hafdi verit, er Olafr konongr Tryggvason hafdi göra látit; var þar oc dreka höfut á framan, enn krókr aptr, oc hvart tveggia gullbúit. Skipit var bard-mikit, enn stafnarnir þótto nockoro minni enn best væri. Hann let oc göra þar í Nidarósi naust bædi mörg oc sva stór, at afrek var í, oc giör med hinom bestom faungom, oc smídot ágæta vel. VI vetrom eptir andlát Olafs konongs barz þat at, þá er Eysteinn konongr var á veizlo á Stinn oc Hustödom, þar feck hann bráda sótt, þá er hann leiddi skiótt til bana. Hann andadiz iiij Kalendas Septembris, oc var lík hans flutt-

nordr til Kaupángs, oc iardat at Krist-kirkio, oc er þat mál manna, at yfir enskis mans grepti hafi sva margir menn í Noregi iam-hryggvir stadit, sem Eysteins konongs, sídan er andadr var Magnús kon-ongr gódi, sonr Olafs hins Helga. Eysteinn var konongr xx vetr at Noregi; en eptir andlát hans var Sigurdr bródir hans einn konongr at Noregi, medan hann lifdi.

## CAP. XXVII.

### KRISTNUT SMÁLÖND.

Nicolás Dana konongr, son Sveins Ulfssonar, feck sídar Margretar drottningar, dóttur Inga konongs, er fyrr hafdi átt Magnús konongr Berfættr, oc het son þeirra Nicoláss Magnús hinn sterki. Nicolás konongr sendi ord Sigurdi konongi Jórsala-fara, oc bad hann veita ser lid oc styrk allan af síno ríki, oc fara med ser austr fyrir Svía-velldi til Smálan-da, at kristna þat fólk, þvíat þeir er þar bygdo, helldo eigi kristni, þó at sumir hefdí vid skírn te-kit. Var þann tíma vída í Svía-velldi mart fólk heidit, oc mart illa kristit, þvíat þá voro nockorir konongar þeír er kristni köstodo, oc helldo uppi blótom, sva sem Blót-Sveinn gördi, eda sídan Ei-ríkr enn ársæli. Sigurdr konongr het ferd sinni, oc gördo konongar stefnolag sitt í Eyrar-sundi.

Sídan baud Sigurdr konongr almenningi út af öllom Noreg, bædi at lidi oc skipom. En er saman kom her sá, þá hafdi hann vel ccc skipa. Nikolás konóngr kom miklo fyrr til stefnunnar, oc beid þar lengi, þá kurrudo bændr illa, oc sögdo at Nordmenn mundo eigi koma. Sídan rufo þeir Danir leidángrinn, fór konongr brott oc allr herinn. Nockro sídar kom Sigurdr konongr þar, oc líkadi honom illa; helldo þó austr í Sumarós, oc átto þar húsþíng, oc taladi Sigurdr konongr um lausmælí Nicoláss konongs, oc kom þat ásamt med Nordmönnom, at þeir skylldo giöra nockut hervirki í landi hans, fyrir þessa sök. Þá tóko þeir upp þorp þat er heitir Tuma-þorp, er skamt liggr frá Lundi, oc helldo sídan austr til kaup-bæar, þess er heitir Kalmarnar, oc heriodo þar, oc sva á Smálöndom, oc lögdo vista-giölld á Smálönd xv hundrut nauta, oc tóko Smálendingar vid kristni. Sídan vendir Sigurdr konongr herinom aptr, oc kom í sitt ríki med mörgom stórom gersemom oc fiárlutom, er hann hafdi aflat í þeirri ferd, oc var sá leidángr kalladr Kalmarna leidángr. Þat var sumri fyrr enn myrkrit micla. Þenna einn leidángr röri Sigurdr konongr medan hann lifdi; oc var konóngr.

## CAP. XXVIII.

## FRÁ ÞÓRARNI STUTTFELLD.

Þat barsk at eitt sinn, þá er Sigurdr konongr geck frá skytningi oc til aptan-söngs, oc voro menn drucknir miöc oc kátir, oc sáto margir úti fyrir kirkionni, oc súngo aptan-sönginn, oc vard söngrinn ógreidr; þá mællti konongr: hvat karla er þat er ek se þar stendr hiá kirkionni í felldi nockorom? Þeir svörudo, kvádoz ecki þat vita. Þá mállti konongr:

Villir hann vísdóm allan
velldr því karl í felldi.

Karl gengr fram oc mællti:

Hyck at her megi þeckia
helldr í stuttom felldi
oss enn ek læt þessa
óprydi mer hlyda.
Værir milldr ef mæra
mik villdir þú skickio
hvat hafi helldr en tötra
hilldingr muni villdri.

Þá mællti konongr: kom til mín at morni, þar er ec dreck. Lídr nú af nóttin, um morguninn fer Islendingr, er sídan var kalladr Þórarinn Stuttfelldr, oc kemr at dryckio-stofonni, en madr stód úti fyrir stofunni, oc hafdi horn í hendi, oc mællti: Islendingr, segir hann, þat mællti konongr at

þú skylldir yrkia víso, ádr þú gengir inn, ef þú villdir þiggia nockora vingiöf át hönom, oc kveda um þann mann er Hákon Serksson heitir, er kalladr er Mör-strútr, oc geta þess í vísunni. Siá madr er vit hann ræddi het Arni Fiöro-skeifr. Sídan gánga þeir inn, oc gengr Þórarinn fyrir konong, oc kvad víso:

Þú vændir mer þrænda
þengill ef ec stef fenga
frænda Serks at fundi
folk rackr gefa nockvat.
Letzu at Hákon heiti
hilldingr inn fe-milldi
enn samir mer at minnaz
Mörstrútr á þat görva,

þá mællti konongr: þat sagda ec alldregi, oc mantu vera spottadr, oc er þat rád at Hákon skapi þer víti fyrir, oc farir þú í sveit hans. Hákon mællti þá: vel skal hann her kominn med oss, oc se ek hvadan þetta er at komit, oc setr Islending it næsta ser á milli þeirra, oc voro þeir nú allkátir. Þá er áleid daginn, oc nockot tók at fá á þá dryckrinn, þá mællti Hákon: þickiz þú nockot Islendingr eiga bót-þarfa vid mic, eda þótti þer eigi helldr sett velrædi fyrir þik? Þórarinn svarar: víst þickiumz ec þer bæta eiga. Hákon svarar: þá muno vid sáttir, ef þú yrkir víso adra um Arna. Hann qvedz

þess

þess albúinn; gánga sídan yfir, þar sem Arni sat, oc qvad þórarinn víso:

Fullvída hefir frædom
Fiöro-skeifr of her veifat
lystr oc leiri kastat
lastsamr ara hins gamla.
Oc vantu eina kráko
ordvandr á Serklandi
skeifr bartu högna háfo
hræddr varliga brædda.

Arni lióp upp þegar, oc brá sverdi, oc villdi ráda til hans. Hákon bad hann hætta, oc vera kyrran, oc bad hann á þat mega minnaz, at hann mundi lægra lut bera ef þeir ættiz vid. þórarinn geck sídan fyrir konong, oc segir at hann hafdi drápo ort um hann, oc bad hann hlyda, oc þat veitti konongr hönom, oc er þat köllut Stuttfelldar drápa. þá spyr konongr hvat þórarinn vill ráds síns, en hann qvadz sudr hafa ætlat at gánga til Rums. þá feck konongr hönom fé mikit, oc bad hann til sín vitia er hann kæmi aptr, oc qvadz þá mundo göra sóma hans; enn her skilr eigi um þat, hvart þeir fundoz sídan.

## CAP. XXIX.

## FRÁ SIGURDI KONONGI OC ÓTTARI BIRTING.

þat er mál manna, at eigi hafi meiri skörungr verit ne stiórnsamligri konongr í Noregi, enn Sigurdr kon-

ongr, en þó var þat er áleid stundina, at varla feck hann gætt skaplyndis síns ne hugar, at eigi yrdi þat stundum med miklo áfelli oc þúngligom atburdom, en ávallt þótti hann merkiligr höfdíngi oc dyrdligr af ferd sínni. Þat er frásagt einn hátídar-dag Hvítasunno, at Sigurdr konongr sat yfir bordom vid miklo fiölmenni med mörgom vinom sínom, oc þá er hann kom í hásæti sitt, sá menn at hann sat med miklo van-megni oc þúngo yfirbragdi, voro menn hræddir um hann, hvern veg at reida mundi. Konongr leit á lydinn, oc aurgadi augunom, oc sá umhverfis sic á pallana, en eingi af mönnom hans þordi at tala til hans. Hann tók þá upp bókina dyro, er hann hafdi haft í land; hon var öll ritin gull-stöfom, sva at eigi hafdi meira gersemi komit í einni bók í Noreg. Drottning hans sat þá hiá hönom. Þá mællti Sigurdr konongr: mart kann skipaz, segir hann, á manns æfinni. Ek átti ij luti þá er mer þótto bestir er ek kom í land; þat var bók þessi oc drottningin, en nú þicki mer hvarr ödrom verri oc andstyggiligri; þetta á ec nú sva í eigo minni, at mer þickir vest allra luta. Drottning fidr eigi hvernog hon er sva ferlig, því at geitar-horn stendr or höfdi henni, oc því betri sem mer þótti hon, því aullo verri þicki mer hon nú; enn bók þessi dugir til einskis. Því næst kastadi hann bókinni á elldinn fram, er gör

var á hallar-gólfino, enn laust drottninguna kinnhest hiá augano. Drottning gret, oc þó konongs mein meirr, enn af höggino edr mótgörd ser veittri. Sá madr stód upp fyrir konunginom, einn af kertisveinom konongs, er het Ottar Birtingr, bóndason, oc var þó kertisveinn konongs, oc skylldi þá þióna um daginn; hann var lítill vexti oc kurteis, vaskligr, diarfr oc skemtiligr, enn svartr á hár oc hörund, því þótti hönom auk-nefni gefit, er hann var Birtingr kalladr. Hann lióp til oc greip bókina or elldinom, er konongr hafdi kastat á elldinn, oc hellt á, oc mællti til konongs: úlíkir dagar voro þeir, herra, er þer sigldut med fegurd oc prydi at Noregi, oc komz her til landz med mikilli frægd oc vegsemd, því þá runno allir vinir þínir í móti þer med fagnadi, oc fögnudo komo þínni, oc iáttudo allir þer at konongi, oc villdo hafa þic yfir ser, med hinni mesto vegsemd oc sæmd; enn nú ero komnir yfir oss hrygdar-dagar, þvíat á þessari ágæto hátíd ero her komnir til þín vinir þínir margir, oc mego eigi kátir vera sökom þíns skaplyndis harms oc vanheilso; þat væri æskiandi, at þer gætut verit gladir med þeim, oc gör nú sva vel, góþi konongr, þigg þetta heilrædi oc sættiz nú fyrst vid drottninguna, oc gledit hana med blídskap, er þú hefir mikit afgört vid, oc sídan út í frá alla höfdingia þína, vini oc þiónosto-menn, þat er mitt rád. Þá

sagdi Sigurdr konongr: hvat muntu kenna mer rád, hinn herfiligsti kotkarls-son, fíflskofullr bónda-úngi, oc hinnar minsto ættar, oc af allra leidasta oc armasta kyni kominn; oc lióp hann þá upp sídan, oc brá sverdi, oc reiddi at hönom bádom höndom, oc let sem villdi hann höggva hann: enn Ottar stód kyrr oc rettr, oc hrærdiz eigi or stad, brá ser eigi vid ne blöskradi, eins oc væri hann med öllo óttalaus, enn konongr brá flöto sverdino, er ofan reid at höfdi Ottari, oc sló línliga utan á herdar hönom. Því næst þagnadi hann, oc settiz nidr í hásætit, þögnodo þá oc allir menn sem í höllinni voro, því eingi þordi át yrkia ordi á hann; þá litadiz konongr um, oc hógligar enn it fyrra sinn, oc mællti sídan: seint má reyna mennina hvílíkir ero, her sáto vinir mínir oc lendir menn, oc stallarar, skutulsveinar oc allir hinir besto menn í landino, oc vard eingom iamvel til mín sem þessom, er ydr man þickia lítilsverdr hiá ydr, enn hann unni mer nú mest. Ek kom her inn örr madr, oc villdag spilla görsemi minni, hann bætti þat med mer, oc annari hendi hræddiz hann eigi banann; taladi sídan fagurt erindi, stillti ordonom sva, at mer yrdi at virding, enn eigi taldi hann þá lutina er minn harmr aukadiz vid, þat felldi hann allt nidr, er þó mátti med sönno umræda; enn sva var þó skörulig hans ræda, at engi var sva vitr madr hiá, at

sniallara mundi mæla. En sídan lióp ec upp, örvita, oc let ec sem ec villda höggva hann, enn hann var sva fullhugi, sem engi ótti væri um at vera; enn þá er ec sá þat, let ec þetta verk fyrir-faraz, sva ómakligr sem hann var. Nú skulo þer vinir mínir vita hverio ec mun launa hönom; hann er ádr kerti-sveinn, nú skal hann vera lendr madr minn, oc mun þat þó fylgia, er eigi man minna vera, at hann man merkiligasti madr vera af stundo lendra manna minna. Þá þackadi konongr bónda-syni í allra þeirra nærvero, at hann hefdi stillt ged hans med vitrligom ordom oc diörfom huga, oc gert þat sem lenz-höfdingiar hans hefdi eigi þorat; gördi konongr hann at sínom ædsta lenz-höfdingia. Opt var Sigurdr konongr med þesskonar skap-lestí oc undarligom sidom, oc hverier sem þá af hans fátækum þenurum villdu áminna hann, þeim hlyddi hann bezt, oc gaf þeim gótz oc garda þar fyrir. Ottar gördiz sídan hinn merkiligsti madr í Noregi, af mörgom gódom lutom oc dyrligom.

## CAP. XXX.

### DRAUMR SIGURDAR KONONGS.

Ofarliga á dögom Sigurdar konongs var hann at veizlo á búi síno eino. Enn um morguninn þá er konongr var klæddr, var hann fámáligr oc ókátr,

oc hrædduz vinir hans, at þá mundi enn at hönom koma vanstillit. Enn ár-madrinn var vitr madr oc diarfr; hann kvaddi konong máls, oc spurdi ef hann hefdi nockot tídinda fregnat, þau er sva væri mikils verd, at hönom stædi þat fyrir gledi, eda væri þat, at veizlan hugnadi hönom eigi vel, eda væri nockorir þeir lutir er menn mætti bætur á ráda. Sigurdr konongr sagdi, at öngir lutir helldo þeir til, er hann ræddi um, enn þat helldr til segir hann, at ec hugsa draum þann er fyrir mic bar í nótt. Herra, segir hann, gódr draumr skylldi sá vera, en heyra villda ec hann giarna. Konongr mællti: ek þóttumz vera úti staddr her á Jadri, oc siá út í haf, leit ec þángat sorta mikinn, oc var för í, oc er nálgadiz híngat, þá syndiz mer þat mikit tre eitt, oc ódo limarnar uppi, enn ræturnar í siá. Enn er treit kom vid landit, þá braut þat, oc rak brot tresins vída um landit, bædi um meginland, oc um út-eyar, sker oc strandir; oc þá gaf mer syn, sva at ec þóttumz siá of allan Noreg it ytra med siánom, oc sá ec at í hveria vík var rekit brot af þesso tre, oc voro sum smá, enn sum stærri. Þá svaradi ármadrinn: þat þykir mer líkast um þenna draum at þer siálfir munut best skilia, oc villdu ver at þer redit siálfir. Þá mællti konongr: þat þykir mer líkazt um draum þenna, at vera muni fyrir tilkvamo mans nockors i land þetta,

oc mun hann her stadfestaz, oc hans afspríngr mun vída dreifaz um land þetta, oc vera miöc misstórt, sem í drauminom var.

## CAP. XXXI.

## FRÁ ÁSLÁKI HANA.

Sva bar at eitt sinn, er Sigurdr konongr sat med mörgom göfugom mönnom í strídom hug, var þat friá-kvelld eitt, at dróttsetinn spurdi hvat til matar skylldi búa; konongr svarar: hvat nema slátr; enn sva mikil ógn var af ordom hans, at eingi þordi hönom í móti at mæla. Voro nú allir ókátir, biuggoz menn nú til borda, como inn sendingar, heitt slátr, oc voro allir menn hliódir, oc hörmudo konongs mein. Enn ádr enn matrinn væri signdr, þá tók sá madr til orda er Áslakr Hani het: hann hafdi verit lengi med Sigurdi konongi í útferdinni, eigi var hann ættstór madr, hvatr oc lítill vexti; oc er hann sá i hvert efni komit var, oc at engi mundi svara konónginom, þá mællti hann oc spurdi: hvat rykr á diskinom fyrir ydr, herra? Konongr svarar: hvat vildir þú, Áslákr hani, eda hvat syniz þer? hann svarar: þat syniz mer, herra, sem ek villda eigi at væri, at slátr se; konongr mællti: enn þótt sva se, Áslákr hani; Áslákr svarar: hörmuligt er slíkt at vita, er sva miöc skal missynaz þeim ágæta

konongi, er sva mikinn sóma hefir fengit í veröll-dinni af ferd sinni; oc ödro hetz þú þá, er þú steigt or Jordan, oc hafdir laugaz í því vatni sem Gud siálfr, oc hafdir pálm í hendi, oc kross á bríngo, enn þú mundir slátr eta friádag; ok ef smærri menn gördi slíkt, væri stór-refsinga fyrir verdt; oc eigi er sva vel skiput höllin, sem líkligt veri, er engi verdur til, nema ec einn lítill madr, um slíkt at ræda. Konongr þagnadi, oc tók eigi til matarins; oc er áleid mat-málit, bad konongr brott taka slátr-diskinn, kom þá fram sá matr er hönom hæfdi vel at hafa, oc tók konongr nockot at kætaz helldr, er áleid mat-málit, oc drack. Menn mællto at Aslákr skylldi forda ser, enn hann qvadz eigi mundo þat göra, veit ec eigi hvat þat mun tióa, er sannazt at nú er gott at deyia, er ek hefi því framkomit sem ek villda, at firra kononginn glæp, enn hann á þat heimillt at láta drepa mik ef hann vill. Um kvell-dit kalladi konongr á hann oc mællti: hverr eggiadi þik Aslákr hani, at mæla slíkom ber-yrdom vid mic í mann-fiöllda? eingi, herra! sagdi hann, nema ek siálfr; konongr mællti: vita mantu nú vilia hvat þú skalt fyrir hafa þína dirfd, eda hvers þú þickiz verdr? hann svarar: viltu vel launa, herra! þá em ec feginn, enn ef ödro-vís verdr, þá er þat þitt. Þá mællti konongr: þú mant minni laun fyrir taka enn maklígt er; ek mun gefa þer iij bú; enn þann

veg skipti her til, sem úlíkligara mátti þicka, er þú firdir mic miclo úhappi, helldr enn lendir menn, er ec átta mikit gott at. Lauk sva þesso.

## CAP. XXXII.

### KONA LEIDD JÓLA APTAN TIL KONONGS.

Sva bar at eitt sinn Jóla-kvelld, er konongr sat í höllinni, oc bord voro framsett, þá mællti konongr: fái mer slátr; herra! sögdo þeir, eigi er þat sidr í Noregi, at eta slátr Jóla-kvelld. Konongr svarar: er þat eigi sidr, þá vil ec þó þann sid hafa. Þeir fóro, oc færdo hönom hníso; konongr stángadi vid knífinom, oc tók eigi til; þá mællti konongr: fái mer kono inn í höllina: þeir leiddo kono fyrir hann, oc hafdi hon sítt falldat. Konongr tók hendinni til höfuds henni, oc leit á, oc mællti: úsællig kona er þetta, þó eigi sva, at eigi megi sæma vit slíkt; sídan leit hann á höndina oc mællti: ófaugur hönd, oc eigi vel vaxin, enn þó verdr at sæma vid slíkt; þá bad hann at hon retti fram fótinn, oc hon gördi sva, leit hann á oc mællti: ferligr fótr oc mikill miöc, enn eigi má gaum at því gefa, sæma verdr vid slíkt. Þá bad hann at þeir skylldo þá uppleggia kyrtilinn um hana, oc er hann sá legginn, mællti hann svá: Sví verdi þínom legg, er bædi er blár oc digr, oc mantu vera

púta ein, oc bad þá leida hana brott, oc vil ec eigi vid hana búa.

## CAP. XXXIII.

### HARALLDR GILLI KOM Í NOREG.

Hallkell Húkr, son Jons Smiörballta, var lendr madr á Mæri, hann fór vestr um haf, oc allt til Sudreyia; þar kom til fundar vid hann, utan af Irlandi, sá madr, er het Gilli Kristr, oc sagdiz vera son Magnúss konongs Berfætts; módir hans fylgdi honom oc sagdi, at hann het Haralldr ödro nafni. Hallkell tók vid þessom manni, oc flutti med ser til Noregs, oc fór þegar á fund Sigurdar konongs med Haralldi oc módur hans, þau bera fram sitt erindi fyrir konongi, ræddi Sigurdr konongr þetta mál fyrir höfdingiom oc bad menn tilleggia sem syndiz. Enn menn lögdo her allmisiafnt til; oc allir bádo þó konong ráda siálfan fyrir; enn fleiri voro þeir er í móti ríso, oc tók konongr meir sitt einrædi. Þá let Sigurdr konongr kalla til sín Haralld, oc sagdi hönom sva, at hann vill eigi synia hönom, at Haralldr fremi skírsló til fadernis ser; med því at hann vill þat vera láta í festo, þótt hönom beriz þat faderni, er hann segir, at Haralldr skal eigi beidaz konongdóms medan Sigurdr konongr eda Magnús konongr lífa, oc fóro þessar

festar fram med svardógom. Sigurdr konongr sagdi, at Haralldr skylldi troda slár til fadernis ser, enn sú skírsla þótti mönnom helldr frek, þvíat hann skylldi þá skírslo fremia til fadernis ser, enn eigi til konongdóms; enn Haralldr iátti þesso oc fastadi til iárns, oc hefir sú skírsla mest gör verit í Noregi; IX plóg-iárn glóandi voro nidrlögd, oc geck Haralldr þar eptir berom fótom, oc leiddo hann Biskopar ij, hann kalladi á hinn helga Columba medan, þar var oc gör reckia hanns. Þá mællti Magnus, son Sigurdar konongs: eigi tredr hann hugmannliga iárnin. Konongr svarar: illa mælir þú oc grimmliga, þvíat hann hefir sköruliga framit. Sídan let Haralldr fallaz í reckiona, oc eptir þriá daga sídan er skírslan var framin, var skírslan reynd, voro þá fætur hanns óbrunnir. Eptir þat tók Sigurdr konongr vel vid frændsemi Haralldz; enn Magnús, son hanns, óþockadiz miöc vid hann, oc margir höfdingiar snero miöc eptir hönom. Sigurdr konongr treystiz sva miöc vinsælld sinni vit allt landz-fólk, at hann beiddiz þess, at allir menn skylldo þat sveria, at Magnus, son Sigurdar konongs, skylldi einn vera konongr eptir hann, oc feck hann þá svardaga af öllo landz-fólki.

## CAP. XXXIV.

### VEDIAN HARALLDZ OC MAGNUSAR.

Haralldr Gilli var madr hárr oc grannvaxinn, hálslángr, helldr lángleitr, svarteygdr, döckhárr, skiótligr oc fráligr, oc hafdi miöc Irskan búnad, stutt-klæddr oc lett-klæddr. Haralldi var stirt miöc um Norrænt mál, oc kyfldi miöc til ordanna, oc höfdo margir menn þat miöc at spotti, enn Sigurdr konongr let þat eigi duga, þegar hann var vid. Þat var vandi, at Haralldr fylgdi Sigurdi konongi til svefns á kvölldom, oc eitt sínn bar sva til, at þeir Magnus gáto hann eptir dvalit, oc sáto þeir lengi oc drucko. Haralldr taladi vid annan mann, sagdi hann vestan af Irlandi, oc var þat í rædo hanns, at þeir menn voro á Irlandi, at sva voro fóthvatir, at eingi hestr tók um þá á skeidi. Magnús konongs-son heyrdi þetta, oc mællti: nú lygr hann enn, sem hann er vanr; Haralldr svarar: satt er þetta, at þeir menn muno finnaz á Irlandi, at eingi hestr í Noregi mun hlaupa um þá; ræddo þar um nockorom ordom, þeir voro bádir drucknir. Magnúsi hafdi verit sendr hestr gantskr, gersemi mikil, oc skiótr miöc, ræddo þeir um er vid voro, at eingi myndi hestr vera jafnskiótr, oc viko til Haralldz. Þá mællti Magnús: her skaltu vedia fyrir höfdi þíno, ef þú rennr eigi

iamhart sem ec ríd hesti mínom, enn ec mun leggia í móti gullhríng minn. Haralldr sagdi: eigi sagdi ec, at ec renna sva hart, helldr þat, at finna man ec þá menn á Irlandi, ec sva hart muno renna, oc má ec vedia um þat. Magnús konongs-son svarar: eigi man ec fara til Irlandz, her skulo vid vedia, enn eigi þar. Haralldr geck þá brott til svefns, oc villdi eigi eiga fleira vit hann. Þetta var í Oslo. Enn eptir um morguninn, þá er lokit var for-messom, reid Magnús upp í götor, oc gördi þá ord Haralldi at koma þannug. Enn er Haralldr kom, var hann sva búinn; hafdi skyrto oc il-banda brækor, stuttan möttul, hött Irskan, á höfdi, spiótskapt í hendi. Magnús markadi skeidit. Haralldr mællti: oflángt ætlar þú skeidit; Magnus ætladi þegar myklo lengra, oc sagdi þó vera ofskamt. Mart var hiá manna. Þá tóko þeir skeid fram, oc fylgdi Haralldr iafnan frambæginom. Enn er þeir komo til skeids-enda, mællti Magnús: þú hellz í gagntakit, oc dró hestrinn þic. Magnús hafdi gautzkan hest allskiótan. Þeir tóko annat skeid aptr, rann þá Haralldr allt skeid fyrir hestinom. Enn er þeir komo til skeids-enda, þá spurdi Haralldr: hellt ec nú í gagntakit? Magnús svarar: nú tókt þú fyrri til. Let Magnús þá blása hestinn um hríd; enn er hann var búinn, þá keyrdi hann sporom hestinn, oc kom hann skiótt á

hlaup. Haralldr stód þá kyrr; þá leit Magnús aptr oc kalladi: renn nú, segir hann; þá lióp Haralldr oc skiótt fram um hestinn, oc lángt fyrir fram, oc sva til skeids-enda; kom hann sva myklo fyrr, at hann lagdiz nidr, oc spratt upp, oc heilsadi þá Magnúsi frænda sínom, þvíat hann kom þá. Oc eptir þat fóro þeir heim til bæiar. Enn Sigurdr konongr hafdi verit medan at há-messo, oc vissi hann þetta eigi, fyrr enn eptir mat um daginn. Þá mællti hann reidoliga til Magnúsar: þer kallit Haralld heimscan, enn mer þickir þú vera meira fól, eigi kantu utanlandz sido manna; vissir þú þat eigi fyrr, at menn í ödrom löndom temia sic meir vid adrar ídróttir, enn at kyla öl, eda göra sic æran ok ófæran, oc vita þá eigi til manns; oc fá Haralldi hríng sinn, oc gabba hann alldri sídan, medan mitt höfut er fyrir ofan molld, oc ec á at ráda.

## CAP. XXXV.

### FRÁ SUNDFÆRI.

Þat bar til eitt sinn, þá er Sigurdr konongr var úti á skipom, oc lágo þeir í höfn, oc kaupskip nockot hiá þeim Islandzfar. Haralldr Gilli var í fyrir-rúmi á konongs skipi, enn næst hönom fram frá lá Sveinn Rimhilldarson, hann var son Knútz Sveinssonar af Jadri. Sigurdr Sigurdarson var oc

þar, lendr madr ágætr, hann styrdi þar skipi. Þat var einn fagran vedr-dag, var heitt skin, oc fóro menn margir á sund, bædi af láng-skipunom oc af kaupskipino. Islendzkr madr einn, sá er á sundi var, henti gaman at því, at færa nidr þá menn er verr voro syndir, oc hlógo menn at því. Sigurdr konongr sá þetta oc heyrdi; sídan kastadi hann klædom af ser, oc leypr á sund, oc lagdiz at Islendingi, grípr hann oc færdi í kaf, oc hellt nidri, oc þegar annat sinn er Islendingr kom upp, færdi konongr hann nidr, oc hvert sinn eptir annat. Þá mællti Sigurdr Sigurdarson: skolu ver konong láta deyda manninn? madr svarar, segir at eingi var allfúss til at fara. Sigurdr svarar at verda mundi madr til, ef Dagr Eilífsson væri her; sídan lióp Sigurdr fyrir bord, oc svam til konongs, tók til hanns, oc mællti: tyn eigí manninom herra, siá nú allir, at þú ert myklo betr syndr. Konongr mællti: lát mic lausan, Sigurdr, ec skal bana hönom, þvíat hann vill kefia menn vára. Sigurdr svarar: vit skulom nú leika fyrst, enn þú Islendingr leita til landz, oc hann gördi sva. Enn konongr let Sigurd lausan, oc svam hann til skips síns, sva fór oc Sigurdr; enn konongr bad Sigurd verda eigi sva diarfan at koma í augsyn ser; þat var sagt Sigurdi, oc geck hann á land upp.

## CAP. XXXVI.

## FRÁ HARALLDI OC SVEINI HRÍMHILLDARSYNI.

Þá um kvelldit, er menn fóro at sófa, leko sumir menn uppi á landi. Haralldr var í leikinom á landi, oc bad skó-svein sinn fara út á skipit, oc búa hvílo sína, oc bída sín þar. Sveinninn gördi sem hönom var bodit. Konongr var sofa farinn; enn er sveininom þótti Haralldr seinn, þá lagdiz hann uppí rúmit Haralldz. Sveinn Hrimhilldarson mællti: skömm mikil er at fara til þess heiman frá búom sínom dugandis mönnom, at draga knapa her upp iamnhátt ser. Sveinninn svarar, oc kvad Haralldr vísadi hönom þángat. Sveinn Rimhilldarson svarar: oss þickir eingi ofgæda kostr í, at Haralldr liggi her, þó at hann dragi eigi híngat þræla upp, eda staf-karla, oc greip upp ridvöl oc laust sveinninn í höfudit, sva at blód fell um hann. Sveinninn lióp þegar upp á land, oc segir Haralldi hvat í var ordit. Haralldr geck þegar á skipit út, oc aptr í fyrir-rúmit, hann hió med handöxi til Sveins, oc veitti hönom sár mikit á höndina, geck Haralldr sídan á land upp. Sveinn lióp þegar á land eptir hönom, drifo þá til frændor Sveins, oc tóko Haralld höndom, oc ætludo at

hen-

hengia hann. Enn er þeir bioggo þar um, þá geck Sigurdr Sigurdarson út á skip konongs, oc vakdi hann. Enn er kanongr brá augom í sundr, oc kendi Sigurd, þá mællti konongr: fyrir þetta sama skaltu deyia, er þú komt í augsyn mer, þvíat þú vissir ec bannada þer þat; oc lióp konongr upp. Sigurdr mællti: kostr mun þess konongr, þegar þer vilit, enn adrar syslor ero ydr nú fyrst skylldari; far sem skiótast máttu upp á land, oc hiálpa Haralldi bródr þínom, þvíat Rygir vilia nú hengia hann. Þá mællti konongr: Gud gæti nú til, Sigurdr; kalla nú lúdr-svein minn, oc lát blása lidino upp til mótz vit mic. Konongr lióp upp á land, enn allir er hann kendo, fylgdo med hönom, oc þar til er gálginn var búinn. Tók konongr Haralld þegar til sín, enn allt fólk þusti þegar til konongs med alvæpni, er lúdrinn hafdi vidkvedit. Þá sagdi konongr, at Sveinn oc allir hanns felagar skylldo útlagir fara; enn vid bæn manna feckz þat af konongi, at þeir skylldo hafa landzvist oc eignir sínar, enn sárit bótalaust. Þá spurdi Sigurdr Sigurdarson, ef konongr villdi, at hann færi þá í brott. Þat vil ec eigi, sagdi konongr, alldregi má ec þin án vera.

## CAP. XXXVII.

## JARTEGNIR OLAFS KONONGS VID TÚNGO-SKORINN MANN.

Kolbeinn het madr úngr oc fátækr, enn Þóra módir Sigurdar konongs Jórsalafara, hon let skera túngo or höfdi hönom, oc var til þess eigi sök, enn sá inn úngi madr Kolbeinn hafdi eitt stycki haft af diski konongs-módur, oc sagdi at steikari hefdi gefit hönom, enn hann þordi eigi vid at gánga fyrir henni. Sídan fór sá madr mállaus lánga ríd. Þess getr Einar Skúlason í Olafs-drápo:

Göfug let hrund or höfdi
hvítings of sauk litla
audar aumom beidi
úngs manns skera túngo.
Þann sám ver er várom
válaust numinn máli
hodda brjót þar er heitir
Hlíd fám vikom sidarr.

Hann sótti sídan til Nidaróss, oc vakdi at Kristz-kirkio, enn um ótto-saung Olafs-völo dag hinn sídara, þá sofnadi hann, oc þóttiz siá Olaf hinn helga konong koma til sín, oc tala vit sic, oc taka hendi sinni í stúfinn túngunnar oc heimta; enn er hann vaknadi, þá var hann heill, oc þackadi vorom drottni fegin-samlíga, oc enom helga Olafi kon-ongi, er hann hafdi heilso oc miskun af þegit;

hafdi farit þángat ádr mállaus, oc sótti hanns heilagt skrín, enn þadan fór hann heill oc skorin-ordr.

## CAP. XXXVIII.

### JARTEGNIR ÓLAFS KONONGS VID HERTEKINN MANN.

Úngan mann nockorn danskan at edli tóko heidnir menn, oc flutto til Vindlandz, oc höfdo þar í böndom med ödrom herteknom mönnom. Nú var hann um daga í iarni einnsaman vardveizlolaus, enn um nætor þá var sonr bónda í fiötrom med hönom, at hann hliópist eigi frá hönom. Enn sá aumi madr beid alldreigi svefn ne ró fyrir harms sakir oc sorga; hugleiddi marga vega hvat til hiálpar væri, qvíddi miöc ánaud, oc mæddist bædi í sullt oc písl, oc vænti öngrar aptr-lausnar af frændom sínom, fyrir því at þeir höfdo tvisvar ádr leystann hann af heidnom löndom med fiárlut, oc þóttist hann því vita at þeim mundi þá þikia bædi mikit fyrir því oc kostnadarsamt, at gánga undir it þridia sinn. Vel hefir sá madr, er eigi bídr slíkt íllt þessa heims, er hann þóttist þá bedit hafa. Nú gerdiz hönom einginn annar til, enn laupast í brott, oc komast undan, ef þess verdr audit. Því næst rædr hann til á náttar-þeli, oc drepr son bónda, höggr af hönom fótinn, oc stefnir

sva til skógar med fiöturinn undan. Enn um morguninn eptir er lysti, þá verda þeir varir vit, oc fara eptir hönom med hundom tveim, er því voro vanir vit, at spyria þá upp er undan liópost, finna hann í skógi þar sem hann lá oc leyndist fyrir þeim. Nú taka þeir hann höndom, beria oc beysta, oc leika allskonar illa. Sídan draga þeir hann heim, liá hönom lífs at hvaro naudoliga, oc engrar annarar miskunar: draga hann til písla, oc setto hann í myrkva-stofo, þar er fyrir voro ádr xvj adrir christnir menn; bundo hann þar bædi iárnom oc ödrom böndom, sem fastast mátto þeir. Sva þótti hönom vesölld oc píslir þær, er fyrr hafdi hann haft, sem þat væri skuggi nockor þessa alls ens illa er nú hafdi hann. Engi madr sá hann augom í þeirri prísund, sá er hönom bædi miskunar; engom manni þótti aumligt um þann vesælligan, nema christnom mönnom er þar lágo bundnir med hönom, þeir hörmodo oc greto hanns mein, oc sína neyd oc úgæfo. Oc um dag nockurn lögdo þeir rád fyrir, bádo at hann heitist hinum heilaga Olafi konongi, oc giæfist til embættis-manns í hanns dyrdar-húsi, ef hann kæmiz med Guds miskun oc hanns bænom burt ór þeirri prísund. Nú iátadi hann því feginn, oc gafz þegar til þess stadar sem þeir bádo hann. Nóttina eptir, þá þóttiz hann siá í svefni mann einn eigi háann standa þar et næsta

ser, oc mæla vid sik á þá leid: heyrdo hinn aumi madr, segir hann, hví rísto eigi upp? hann svarar: lávardr minn, hvat manna erto? hann sagdi: ec er Olafr konongr, er þú kalladir á. Oho! lávardr minn gódr, segir hann, ec villda feginn upp-rísa, ef ec mætta, enn ec ligg iárnom bundinn, oc þó í fiötrom, med þeim mönnom, er her sitia bundnir. Sídan heitir hann á hann, oc qvad sva at ordom: statto upp skiótt, oc ædraz eigi um, víst erto nú lauss. Því næst vaknadi hann, oc sagdi þá sínom felögom, hvat fyrir hann hafdi borit. Sídan bádo þeir hann uppstanda, oc freista ef satt væri. Hann stendr upp, oc kendi at hann var lauss. Nú sögdo felagar hanns adrir, oc kvádo þat hönom fyrir ecki koma mundi, þvíat hurd var læst utan oc innan. Þá lagdi ord til gamall madr, sem þar sat meinliga halldinn, oc bad hann eigi tortryggia þessa manns miskun, er hann hefdi lausn af fengit, oc sva, at þat mun hanns iarteikn vit þik gört hafa, at þú skulir hanns miskunar nióta, oc hedan lauss verda, enn eigi þer verda til meiri vesælldar oc písla, nú lát vit fimt, segir hann, oc leita dyra, oc ef þú mátt útkomaz, þá erto hólpinn. Sva gerdi hann, finnr dyrnar þegar opnar, stöckr út iamnskiótt, oc burt í skóginn. Þegar þeir urdo varir þessa, þá slógo þeir hundom sínom, oc fóro eptir sem skyndiligast, enn hann liggr oc leyniz, oc ser

gerla vesall karl, hvar þeir fara eptir hönom. Nú villaz hundar þegar farsins, er þeir lido at hönom, enn þeim öllom vílltiz synin, sva at einginn madr mátti finna hann, oc lá hann þar fyrir fótom þeim. Vendo þeir þá heim aptr þadan, oc veinudo miöc oc hörmudo, er þeir mátto ey fá stadit hann. Olafr konongr let hönom eigi tortína er hann var til skógar kominn, gaf hónom heyrn oc heilso alla, er þeir höfdo ádr barit höfut allt á hönom, oc knosit til þess er hann deyfdi. Því næst komz hann á skip med Christnom mönnom tveim, þeim er lengi höfdo verit þar píndir, oc neytto þá allir saman þess farkostar sem ákafast, oc flutluz þá áleidiss af þeim laupstígi. Sídan sótti hann til þess helga manns húss, var þá heill ordinn oc herfærr. Þá idradiz hann sinna heita, geck á ord sín vid þann helga konong, oc liópz á brott om dag, oc kom at kvölldi til bónda einns, þess er hönom veitti herbergi fyrir Guds sakir. Sídan um nóttina er hann var í svefni, sá hann meyiar þriár gánga til sín, frídar oc fagr-búnar, oc orto ordi á hann þegar, oc vördo hann miklom ávítom, er hann skyldi sva diarfr giöraz, at laupa frá þeirra góda konongi, er hönom hafdi sva mikla miskun veitt, fyrst er hann leysti hann or iárnom, oc allri þrísund, oc firraz þann liúfa lávard, er hann hafdi á hönd gengit; því næst vaknadi hann felmsfullr, oc stód upp

þegar árdegis, oc sagdi hús-búanda; enn sá gódi búandi let hann eigi ödro vit koma, enn venda heim aptr til þess helga stadar. Sá madr ritadi at upphafi þessa iarteikn, er siálfr sá manninn, oc á hönom iárna-stadinn.

## CAP. XXXIX.

### SIGURDR KONONGR FÆR CECELIU.

Þá er áleid æfi Sigurdar konongs, gördiz sú nylynda um rád hans, at hann vill láta eina drottningona, oc fá þeirrar kono er Cecelia het, hon var ríks manns dóttir. Lætr hann búa til veizlo mikillar, oc ætlar at fá at brúdlaupi í Biörgun. Enn er þat spyr Magni biskop, gördiz hann úkátr, oc einn dag gengr biskop til hallarinnar, oc med hönom prestr hanns einn, er Sigurdr het, er sídan var biskop í Biörgun. Enn er þeir komo at höllinni, sendir biskop konongi ord, at hann vill hitta hann, oc bad konong útgánga til hanns, oc hann giördi sva, geck út oc hafdi brugdit sverd í hendi, oc tók hann vel vit biskopi, oc bydr hönom inn til dryckio med ser. Biskop svarar: annat erindi hefi ec nú: er þat satt herra, sem mer er sagt, at þú ætlir at kvangaz, oc láta eina drottningona, enn taka adra kono? konongr qvad þat satt vera. Biskop tók þá at þrútna miöc, oc svarar mædiliga: því syniz ydr, herra,

at göra slíkt í varri biskops-syslo, at svívirda sva miöc guds bod oc rett, oc helga kirkio; undrar mic, at þer foraktit sva míöc vort biskopligt embætti oc konongdóm þinn; nú vil ec þat göra, sem ec em skylldr til, banna þer af Guds hálfo, oc hinns helga Olafs konongs, oc Petrs postola, oc allra heilagra manna, þetta órád. Oc medan hann mællti þetta, stód hann rettr, oc sem hann retti hálsinn undir höggit, oc væri búinn, ef konongr reiddi ofan sverdit. Enn sva hefir Sigurdr prestr sídan sagt, er sídarr var biskop, at eigi þótti hönom himininn meiri enn kálf-skinn, sva þótti hönom konongrinn ógrligr. Sídan geck konongr aptr ínn i höllina, oc svaradi öngo; enn biskop fór aptr til sinna heimkynna; var þá sva blídr oc kátr, at hann kvaddi hvert barn hlæiandi, oc lek vit fingur ser; þá spurdi Sigurdr prestr: hví þat sætti, oc mællti sva: þó ero þer nú kátir herra, kemur ydr eigi þat nú í hug, at konongr muni leggia reidi á ydr, oc man þat vænna rád at leita undan? þá mællti biskop: líkligra þicki mer þat, at hann muni eigi sva göra, enn hverr væri daud-daginn betri eda æskiligri, enn láta líf sitt fyrir Guds dyrd, eda deyia fyrir heilaga Christni oc eigit embætti, at banna þat er eigi er vit sæmandi, oc því em ec nú kátr, er ec hefi þat gört er ec átta. Því næst gerdiz þyss mikill í bænom, bióz konongr þá þadan strax eptir

þetta, oc flutti med ser mikit korn oc mallt oc hunáng; hellt sídan sudr í Stafángr, oc efnar þar til veizlo, at láta sik þar samanvígia vid Cecelio. Oc er biskop spyrr þat, sá er þar red fyrir, hittir hann konong, oc spyrr ef þat er satt, at konongr ætli at qvangaz, at lifandi drottningonni? Konongr qvad sva vera. Biskop svarar: ef sva er, herra, þá mego þer siá, hverso miöc þat er bannat enom smærrom mönnom; nú er þat eigi úlikligt, at þer ætlit ydr heimilla, er meira hafit valldit, at láta ydr slíka hluti sóma, enn þat er þo miöc í móti retto; oc veit ec eigi, hví þer vilit þat göra í vorom biskops-dómi, at vanvirda sva Guds bodord oc heilaga kirkio, oc varn biskops-dóm. Nú muno þer nockora stóra luti vilia tilleggia þessa stadar í fiárlutom, oc bæta sva vit Gud oc vit oss. Þá mællti konongr: tak þar fe vart, sem þú villt; furdo úlíkir urdo þer Magna biskopi. Geck konongr í brott, oc líkadi eigi betr vit þenna, enn vit hinn er forbodit lagdi á. Eptir þat feck konongr þessar kono, oc hafdi hana i miklom kærleikom, oc unni mikit.

## CAP. XL.

### EFLDR KAUP-STADR Í KONONGA-HELLO.

Sigurdr konongr let sva miöc efla kaupstadinn í Konongahello, at þá var eingi ríkari í Noregi; sat

hann þar laungom til land-gætzlo. Hann let húsa konongs-gard í kastalanom, hann lagdi þat á öll heröd, þau er í nánd voro kaup-stadinom, oc sva bæiar-mennina, at á hveriom xij mánudom skylldi hverr madr IX vetra gamall eda ellri bera til kastalans v vapn-steina eda adra v staura, oc skylldi þá göra hvassa í annann enda, oc fimm álna háfa. Þar í kastalanom let Sigurdr konongr göra Kross-kirkio, hon var tre-kirkia, oc þó miök vöndot at efnom oc smíd. Þá er Sigurdr hafdi konongr verit XXIV, var vígd Kross-kirkia. Þá let konongr þar vera Krossinn helga, oc marga adra helga dóma. Sú var köllot Kastala-kirkia. Þar setti hann fyrir há-alltara tabulam, er hann hafdi göra látit í Grick-landi, oc var gör af eiri oc silfri, oc gyllt öll, oc fagrliga sett smelltom gimsteinom. Þar var oc skrín, er Eiríkr Eymuni Dana-konongr hafdi sendt Sigurdi konongi, oc plenarium ritat gull-stöfom, er Patriarkinn hafdi gefit Sigurdi konongi.

## CAP. XLI.

### ANDLÁT SIGURDAR KONONGS.

Þrim vetrom sídar er Kross-kirkia var vígd, þá er Sigurdr konongr var staddr í Vík austr, tók hann sótt; bádo þá vinir hanns, at hann leti konona af hendi, oc hon siálf villdi þá vitskiliaz, oc bad kon-

onginn þá í sóttinni at hon færi brott, oc þat mætti hönom þá best gegna. Konongr segir: eigi kom mer þat í hug, at þú mundir fyrirláta mik sem adrir, oc sneriz frá henni, oc gerdi dreyr-raudan, enn hon geck í brott. Sækir hann nú sóttin, oc í þeirri sótt fær hann bana, oc var lík hans flutt til grafar í Oslo. Hann andadiz einni nótt eptir Mario-messo í fösto; hann var iardadr at Hallvardz kirkio, oc var lagdr í steinvegginn, utar frá körnom enom sydra megin. Magnús son hanns var þar þá í bænom, tók hann þegar allar fe-hirdzlor konongs, er Sigurdr konongr andadiz. Sigurdr var konongr yfir Noregi eptir dauda Magnusar konongs Berfætta, födur síns, vij vetr oc xx; hann var þá at alldri xl, oc var hanns ölld gód landz-folkino, var þá bædi ár oc fridr.

---

# XIII.

# SAGAN AF MAGNUSI KONONGI BLINDA OC HARALLDI KONONGI GILLA.

## CAP. I.

### MAGNÚS OC HARALLDR TIL KONONGA TEKNIR.

Magnús son Sigurdar konongs var tekinn til konongs í Oslo yfir land allt, þegar eptir andlát hans, sva sem alþyda hafdi svarit Sigurdi konongi; giördu þá þegar margir menn handgengnir hönom, oc sva lendir menn. Magnús var hveriom manni frídari, er þá var í Noregi; hann var madr skapstórr oc grimmr, atgerfi-madr mikill, enn vinsælld födur hanns heimti hann mest til alþydo vinátto. Hann var dryckio-madr mikill, fegiarn, óþydr oc ódæll. Haralldr Gilli var madr lettlátr, kátr oc leikinn, örr, sva at hann spardi eigi vit vini sína, oc manna rádþægastr, sva at hann let adra ráda med ser öllo því er villdo. Slíkt allt dró hann til vinsællda oc ordlofs, þydduz hann þá margir ríkismenn, öngom mun midr enn Magnús konong. Haralldr var þá í Túnsbergi, er hann spurdi andlát Sigurdar konongs bródur síns. Atti hann þá stefnor

vid vini sína, oc redo þeir þat af, at eiga hauga-þíng þar í bænom. A því þíngi var Haralldr til konongs tekinn yfir hálft land, voro þat þá kalladir naudungar-eidar, er hann hafdi svarit födurleifd sína af hendi ser. Tók Haralldr ser þá hird, oc gördi lenda menn, oc dregz hönom brátt lid öngom mun minna enn Magnúsi konongi. Fóro þá menn milli þeirra, oc stód sva VII nætor. Enn fyrir því at Magnús konongr feck lid mycklo minna, þá sá hann öngan sinn kost annan enn skipta ríkino í helminga vit Haralld. Var þá skipt, at hálft ríki skylldi hafa hvarr vit annan, þat er Sigurdr konongr hafdi haft. Enn skipa-stólinn oc bordbúnat, oc görsimar, oc allt lausafe, þat er Sigurdr konongr hafdi haft, hafdi Magnús einn, oc undi hann þó verr sínom luta. Oc redo þeir þó landi nockora ríd í fridi, oc hugdo miók ser hvárir. Haralldr konongr gat son er Sigurdr het, vit Þóro dóttur Guttorms Grábarda. Haralldr konongr feck Ingirídar dóttur Rögnvalldz, hann var son Inga konongs Steinkells-sonar Svía-konongs. Magnús konongr átti Christino dóttur Knútz Lávardar, systor Valldamars Dana-konongs. Magnús konongr vard henni eigi unnandi, oc sendi hana sudr aptr til Danmerkr, oc geck hönom allt sídan þyngra, feck hann úþocka mikinn af frændom hennar.

## CAP. II.

## FRÁ HER HARALLDZ OC MAGNUSAR KONONGA.

Þá er þeir frændor höfdo tveir konongar verit iij vetor yfir Noregi, Haralldr oc Magnús, sáto þeir inn fiórda vetr bádir nordr í kaupángi, oc veitti hvarr ödrom heimbod; oc var þó æ vit bardaga búit med lídino. Enn at vári sækir Magnús konongr med skipa-lidino sudr fyrir land, oc dró lid at ser or hverio fylki, allt þat er hann feck, oc leitadi þá þess vit vini sína, ef þeir vilia fá hönom styrk til þess, at taka Haralld af konong-dómi, oc midla hönom slíkt af ríki, sem hönom syndiz, tiárr þat fyrir þeim, at Haralldr hafdi fyrr svarit ríki af hendi ser. Feck Magnús konongr til þessa samþycki margra ríkis-manna. Fór Haralldr konongr þá um várit til Upplanda, oc et efra austr til Víkur; dró hann oc lid at ser, þá er hann spurdi tíl Magnúss konongs; oc hvar sem þeir fóro, hioggo hvarir bú fyrir ödrom, oc sva drápoz þeir menn fyrir. Magnús konongr var myklo fiöl-mennari, þvíat hann hafdi haft allan þorra landz til lids-safnadar. Haralldr var í Víkinni austan-fiardar, oc dró lid at ser, oc tóko þá hvarir fyrir ödrom bædi menn oc fe. Þar var þá med Haralldi konongi Kriströdr bródir hanns sam-mædri,

oc margir adrir lendir menn; enn þó voro myklo fleiri med Magnúsi konongi. Haralldr konongr var med lid sitt, þar sem heitir Fors á Ranríki, oc fór þadan út til sævar. Lafrantz-vöko aptan mötuduz þeir oc voro at náttverdi þar sem heitir Fyrileif; enn vard-menn helldo hestvörd alla vega frá bænom, oc þá verda vard-menn varir vit lid Magnúss konongs, at þeir fóro at bænom; oc hafdi Magnús konongr nærr LX hundrut manna, enn Haralldr konongr hafdi XV hundrut manna. Þá komo vard-menn er báro niósnina Haralldi konongi, oc segia at lid Magnúss konongs var þá komit miöc at bænom. Konongr svarar: hvat mun Magnús konongr Sigurdar-son frændi vilia? eigi mun þat, at hann muni vilia beriaz vit mik. Þá svarar Þióstolfr Alason: sva muno þer herra verda at göra rád fyrir ydor oc lidi ydro, sem Magnús konongr muni hafa her til þess samandregit í allt sumar, at hann mun ætla at beriaz, þegar er hann finnr ydor. Þá stód Haralldr konongr upp, oc bad menn sína þá taka vapn sín, scolom vit beriaz, ef Magnús konongr frændi minn vill beriaz. Þar næst var blásit, oc geck allt lid Haralldz konongs út frá bænom í akr-gerdi nockort, oc setto þar upp merki sín. Haralldr konongr hafdi ij hrínga-brynior, enn Christrödr bródir hanns hafdi öngva brynio; er kalladr var hinn hraustasti madr. Þá

er Magnús konongr oc hanns menn sá lid Haralldz konongs, þá fylkdo þeir lidi síno, oc gördo sva lánga fylking, at þeir skylldo kríngia allt um lid Haralldz konongs. Sva segir Halldorr Skvalldri:

Magnús feck þar er myklo
margs gengis naut hann lengri
valr nam völl at hylia
varmr fylkingar arma.

## CAP. III.

### ORROSTA Á FÝRILEIF.

Magnús konongr let bera fyrir ser krossinn helga í orrosto þessi, vard þar orrosta mikil oc hörd. Kriströdr konongs-bródir hafdi gengit med sína sveit í midia fylking Magnúss konongs, oc hió til beggia handa, oc stucko fyrir hönom menn tveggia vegna. Enn einhverr bóndi ríkr, sá er verit hafdi í lidi Haralldz konongs, var staddr á bak Kriströdi; hann reiddí upp kesiona tveim höndom, oc lagdi í gegnom herdarnar oc kom fram um bríóstit, oc fell þar Kriströdr. Þá mællto margir er hiá stódo: hví hann færí sva, oc gördi þetta it illa verk. Bóndi svarar: nú veit hann þat, er þeir hiöggo bú mitt í sumar, oc tóko allt þat er heima var, enn höfdo mik naudugan í her med ser, hugda ek hön-

hönom þá slíkan, ef ek fenga færi á. Eptir þat kom flótti í lid Haralldz konongs, oc flydi hann siálfr oc allt lid hanns. Mart fell af lidi Haralldz konongs; þar feck bana-sár Ingimarr af Aski Sveinsson, höfdingi mikill oc lendr madr. Þá kvad hann þetta:

Flögd hvötto mik
til Fyrileifar
æ var ek ófúss
til orrosto.
Mik bito örvar
af álmboga
man ek alldregí
á Ask koma.

Þar fello oc nær LX hirdmanna Haralldz konongs; hann flydi þá austr í Vík til skipa sinna, oc fór or landi þegar á fund Eiríks konongs til Danmarkar. Sva segir Halldor Skvalldri:

Hard-ela lezto herdir
haddings á ió tradda
gladr tok gramr vit haudri
grund til Eiríks fundar.
Feck sá er fremstr var myklo
fliót-mælltr konongr Jóta
red Hollseto hrædir
hraust gengi þer drengia.

Sva segir Einarr Skúla-son:

Sótti á slett
seids hryn leidar
iörd elld skerdir
úngr Skánúnga.
Fann fiöl-nennin
freks landreka
gífr skæs göfugr
gran-ríódr Dana.

Haralldr konongr sótti Eirík Eimuna Dana-konong at trausti, þeir fundoz sudr á Smálandi. Eiríkr konongr tók vel vit hönom, oc mest fyrir því, at þeir höfdo svariz í brædra-lag. Hann veitti Haralldi konongi at veizlo oc yfir-ferd Halland, oc gaf hönom viij lángskip reidalaus. Eptir þat fór Haralldr konongr nordr um Halland, oc kom þá mart Nordmanna þar til mótz vit hann. Magnús konongr lagdi undir sik land allt eptir orrosto þessa; grid gaf hann öllum mönnom þeim er sárir voro, oc let græda sem sína menn, oc kalladi ser þá landit allt; hann hafdi þá allt it bezta mann-val er í var landino. Enn er þeir redo rádom sínom, þá villdi Sigurdr Sigurdarson oc Þorir Ingirídarson oc allir hinir vitrosto menn at þeir helldi flockinom í Víkinni, oc bidi þar, ef Haralldr leitadi sunnan. Enn Magnús konongr tók hitt med einrædi síno, at hann fór nordr til Biörgyniar, oc settiz þar um

vetrinn, oc let lidit allt fara frá ser, enn lenda menn til búa sinna.

## CAP. IV.

## DAUDI ÁSBIARNAR OC NEREIDS.

Haralldr konongr kom til Konongahello med lid þat er hönom hafdi fylgt or Danmörko. Þá höfdo safnat fyrir lendir-menn oc bæiar-menn oc setto digra fylking upp frá bænom. Enn Haralldr konongr geck af skipom sínom, oc gördi menn til bónda-lids, oc beiddi af þeim, at þeir verdi hönom eigi vígi land hanns, oc letz eigi myndo meira beidaz, enn hann átti at retto at hafa, oc fóro menn í milli; oc of sídir gáfo bændor upp safnadinn, oc gengo til handa Haralldi konongi; veitti hann þá til lids ser len oc veizlor lendom mönnom, enn bændom rettar-bætor, þeim er í lid sneroz med hönom. Eptir þat safnadiz mikit folk til Haralldz konongs, fór hann þá austan of víkina, oc gaf gódan frid öllom mönnom, nema menn Magnúss konongs, þá let hann ræna eda drepa, hvar sem hann stód þá. Oc er hann kom austan til Sarpsborgar tók hann þar höndum ij lenda menn Magnuss konongs, Asbiórn oc Nereid bródr hanns, oc baud þeim kost at annarr skylldi hánga, en ödrom steypa í forsinn Sarp, oc bad þá kiósazc at. Asbiörn kaus at fara í Sarp, því at hann var ellri,

enn sá þótti daudinn enn grimmligri, oc var sva gört. Þess getr Halldórr Skvalldri:

Asbiörn vard sá er ordom
illa hellt vit stilli
gramr fædir val vída
vígs í Sarp at stíga.
Nereid let gramr á grimman
grand-meid Sigars fianda
húss-þínga gallt hengia
brann-báls glötudr mála.

Eptir þat fór Haralldr konongr nordr til Tunsbergs, oc var þar vel vit hönom tekit, safnadiz oc þar til hanns her mikill.

## CAP. V.

### RÁDA-GERD.

Magnús konongr sat í Biörgun oc spyr þessi tídindi; let hann þá kalla á tal vit sic alla höfdingia þá er voro í bönom, oc spyrr ráds, hvernug med skal fara. Þá svarar Sigurdr Sigurdarson: her kann ec gott rád til at leggia, láti þer skipa skúto med gódom drengiom, oc fá til at styra mik eda annan lendann mann, at fara á fund Haralldz konongs frænda þíns, oc bióda hönom sættir, eptir því sem rettlátir menn göra yckar í milli, þeir sem ero í landino, oc biódit at hann hafi ríki hálft vid ydor, oc þickir mer líkligt vit orda-fulltingi gódra manna,

at Haralldr konongr þeckiz þetta bod, oc verdi þá sættir milli ydar. Þá svaradi Magnús konongr: eigi vil ec þenna kost, eda hvat stodar þá þat, er ver unnom allt ríkit undir oss í sumar, ef ver skulom nú midla helming af; oc gefit þar til annat rád. Þá svarar Sigurdr Sigurdarson: sva syniz mer, herra, sem lendir-menn þínir setiz nú heima, oc vili eigi koma til þín, þeir er í haust bádo þík heimleyfis; giördir þú þá miök í móti mínom rádom, er þú dreifdir þá sva miök því fiölmenni er ver höfdom; því ek þóttumz vita, at þeir Haralldr konongr mundo leita aptr í Víkina, þegar er þeir spyrdi at þar væri höfdingia-laust. Nú er þat annat rád, oc er þat íllt, oc kann þó vera at hlydi: gör til gesti þína oc annat lid med þeim, lát fara heim at þeim lendom-mönnom oc drepa þá, er nú vilia eigi undirvíkiaz naudsyn þína, enn gefid eignir þeirra þeim nockurom er nú vilia ydur lid veita, þó at ádr se eigi mikils virdir; látid þá keira upp fólkit, haf eigi sídur illa menn enn góda, farit sídan austr í móti Haralldi konongi med þat lid er þer fáit, oc berizc. Konongr svarar: óvinsællt mun þat verda at láta drepa mart stór-menni, enn hefia upp lítil-menni, hafa þeir opt eigi sídur brugdizc, enn verr skipat landit; vil ec enn heyra fleiri rád þín. Sigurdr svarar: vandaz mer nú ráda-gördin, er þer vilit eigi sættaz oc eigi beriaz;

förom ver þá nordr til þrándheims, þannug er landz-megin er mest fyrir oss, oc tökom lid þat allt upp um leid, er ver fám; kann vera þá at þeim Elfargrímom leidiz at rekaz eptir oss. Konongr svarar: eigi man ec nú flyia fyrir þeim, er ver elltom í sumar; oc rád þú mer betra rád. þá stód Sigurdr upp, oc biózc til brottgöngo oc mællti: ec skal þá nú ráda þer þat rád, er ec se at þer vilit hafa, oc framgengt mun verda: sit her í Biörgun, þar til er Haralldr konongr kemr med múga hers, oc munut þá annathvart verda at þola bana eda skömm. Oc var Sigurdr eigi lengr at þessari stefno.

## CAP. VI.

## FRÁ LIDI HARALLDZ KONONGS.

Haralldr konongr fór austan med landí, oc hafdi all-mikinn her, var þessí vetr kalladr múga-vetr. Haralldr konongr kom til Biörguniar ióla-aptan, oc lagdi lidino í Flórovaga, oc villdi eigi beriaz um iólin fyrir helgi sakir. Enn Magnús konongr let búaz vidr í bænom. Hann let reisa valslöngo út í hólmi, oc hann let göra iárn-rekendur, enn sumt af vidom, oc leggia um þverann vaginn yfir frá konongs-bryggio til Nordness, oc til Múnka-bryggio. Hann let slá her-spora, oc kasta nidr yfir á Jonsvöllom, oc eigi meir enn iij daga var

heilagt halldit um iólin, at eigi veri smídat. Enn affara-dag jólanna þá let Haralldr konongr blása til bæiarins öllo lidino: nær LX hundrot manna höfdo safnaz til Haralldz konongs um Jólin.

## CAP. VII.

### TEKINN MAGNÚS KONONGR.

Haralldr konongr het á hinn helga Olaf konong til sigurs ser, at láta göra Olafs-kirkio þar í bænom, med sínom eins kostnadi. Magnús konongr setti fylking sína út í kristz-kirkio gardi, enn Haralldr konongr lagdi fyrst at Nordnesi. Enn er þeir Magnús konongr sá þat, snero þeir þá inn eptir í bæinn, oc inn í vags-botn. Enn er þeir fóro inn um strætit, þá hliópo margir bæiar-menn inn í garda sína oc til heimilis síns, enn þeir er yfir gengo á völlona, liópo á her-sporana. Þá sá þeir Magnús konongr, at Haralldr konongr hafdi róit öllo lidino yfir í Hegravík, oc gengo þeir þar upp, oc sva it efra upp á backann fyri ofan bæinn; þá sneri Magnús konongr út eptir stræti, flydi þá lidit frá hönom víds-vegar, sumt í fiall upp, sumt upp um Nunno-setr, sumt í kirkior, eda falz í ödrom stödom. Magnús konongr flydi þá út á skip sitt, enn þeim var engi kostr at komaz brott, þvíat iárn-rekendurnir gætto fyrir utan. Fylgdi hönom

oc fátt manna, voro þeir fyrir því einkis færir. Sva segir Einarr Skúlason í Haralldz-drápo:

> Luko vag viko
> vara kostr fara
> bryns Biörgynar
> braut há-skrautom.

Litlo sídar þá komo menn Haralldz konongs út á skipin, var þá hand-tekinn Magnús konongr; hann sat aptr í fyrir-rúmi á hásætis-kistonni, oc med hönom Hákon Faukr, módur-bródir hanns, hinn mannvænsti madr, enn kalladr eigi vitr, oc Ivarr Özurarson, oc margir adrir vinir hanns voro þá handteknir, enn sumir voro þegar drepnir.

## CAP. VIII.

### MEIDDR MAGNUS KONUNGR.

Haralldr konongr átti þá stefnor vit ráda-neyti sitt, oc beiddi þá ráda-gördar med ser, oc at lykdom þeirrar stefno fengoz þeir orskurdir, at taka Magnús sva frá ríki, at hann mætti eigi kallaz konongr þadan í frá. Var hann þá seldr í hendor konongs-þrælom, enn þeir veitto hönom meizlor, stúngo út augun bædi, oc hiöggo af hönom annan fót, enn sídarst var hann gelldr. Ivarr Auzurarson var blindadr, enn Hákon Faukr drepinn. Eptir þetta lagdiz land allt undir ríki Haralldz kon-

ongs. Giördiz þá miök eptir-leit, hverir mestir hefdi verit vinir Magnúsar konongs, eda hverir mest mundi víta fe-hirdzlor hanns eda görsimar. Krossinn helga hafdi Magnús konongr haft med ser, sídan er Fyrizleifar orrosta hafdi verit, oc villdi hann þá eigi til segia, hvar hann var þá nidr-kominn. Reinhalldr Biskop í Stafángri var Enskr, oc kalladr miök fegiárn; hann var kærr vinr Magnúss konongs, oc þótti mönnom þat líkligt, at hönom mundi vera fengin fein til vardveizlo, stórfe oc dyrgripir; voro menn sendir eptir hönom oc kom hann til Biörgynar, váro þá kensl þessi borin á hann, enn hann synniadi þverliga, oc villdi ei vitgánga, oc baud fram skírslor fyrir sik. Haralldr konongr villdi eigi þat, oc lagdi á Biskop fe-gialld, at giallda ser xv merkor gullz. Biskop qvadz eigi sva vilia vesla Stad sinn, oc vill helldr hætta lífi síno. Sídan hengdo þeir Reinhalld biskop út í Hólmi vit valslöngona. Enn er hann geck til gálgans, hristi hann bótann at fæti ser, oc mællti, oc svardi um: eigi veit ec meira fe Magnúss konongs, enn þat sem þar er í bótanom; þar var í einn gull-hríngr. Reinhálldr biskop var iardadr í Nordnesi at Mikials-kirkio, oc váro þessi verk miök löstot. Sídan var Haralldr Gilli einn konongr yfir Noregi medan hann lifdi.

## CAP. IX.

### UNDUR Í KONONGA-HELLO.

Fimm vetrom eptir andlát Sigurdar konongs urdo tídindi mikil í Kononga-hello. Þeir voro þar þá syslomenn Guthormr, sonr Haralldz Flettis, oc Sæmundr Hùs-freyia. Hann átti Ingibiörgo dóttur Andreas prestz Brunssonar. Þeirra synir váro þeir Páll Flipr oc Gunni Fis. Asmundr het son Sæmundar laungetinn. Andreas Brunsson var allmikill merkis-madr, hann saung at Cross-kirkio; Solveig het kona hanns. Med þeim var þá at fóstri oc uppfæzlo Jon Loptzson, oc var þá XI vetra gámall. Loptr prestr Sæmundarson, fadir Jons, var þá oc þar. Dóttir Andreas prestz oc Solveigar het Helga önnor er Einar átti. Þat barsk at í Kononga-hello drottins nótt hina næsto eptir Páskaviko, at gnyrr vard mikill á strætom úti of allan bæinn, sem þá er konongr fór med alla hird sína, oc hundar leto sva illa, at eigi mátti vardveita þá, oc brutoz út. Enn allir er út komo, urdo galnir, oc bito þat er fyrir vard, menn eda fenad; enn allt þat er bitit vard, oc blód kom út á, þá ærdiz, oc allt þat er hafanda var, þá let burd sinn oc ærdiz. Þessi minning var náliga hveria nótt frá Páskom oc til Uppstigningardags. Mennirnir óttuduz miök undur þessi, oc redoz margir í brott,

oc selldo garda oc fóro í heröd, eda í adra kaupstadi; oc þótti þeim öllom þetta mest verdt, er vitrastir voro, oc hræddoz þat, oc sögdo sem var, at þetta mundi vera fyrir stór-tídindom miklom, þeim er þá voro enn eigi fram-komin. Enn Andreas prestr taladi þá lángt oc sniallt Hvítasunnodag, oc veik hann sva til lykda rædo sinni, at hann ræddi um vanda byarmanna, oc bad menn herda hugi sína, oc eyda eigi þann enn dyrliga stad, hafa helldr gæzlo yfir ser, oc ætla rád sitt, oc gæta sín vid öllo því er vid mætti komas, vit elldi eda ófridi, oc bidia ser miskunar til Guds.

## CAP. X.

## UPPHAF ORROSTO Í KONONGA-HELLO.

Or bænom biuggoz XIII byrdingar, oc ætludo til Biörguniar, oc tyndoz XI, med mönnom oc fe, oc öllo því er á var, enn hinn XII braut, oc helldoz mennirnir, enn fe tyndiz. Þá fór Loptr prestr nordr til Biörgunar med allt sitt, oc hellt hann heilo öllo. Lafrantz-vöko dag tynduz byrdingar. Eiríkr Eymuni Dana-konongr oc Auzurr erkibiskop sendo ord bádir til Kononga-hello, oc bádo þá varaz um stad sinn, sögdo at Vindor höfdo her mikinn úti, oc heriodo vída á kristna menn, oc höfdo iafnan sigr. Bæiar-menn lögdo oflítinn hug á sitt

mál, afrækduz oc ómintuz þess at meir, er lengra leid frá þeirri ógn er yfir þá hafdi komit. Lafrantz-vöko dag þá er talat var fyrir há-messo, kom Rettiburr Vinda-konongr til Kononga-hello, oc hafdi hálft þridia hundrat vinda-sneckior, enn á hverri sneckionni voro menn XLIIII, oc hestar ij. Dunimiz het systor-son konongs, enn Unniburr het höfdingi einn, er red fyrir miklo lidi. Þeir ij höfdingiar fóro upp med öllom her í senn eptir eystri kvísl, upp um Hísing, oc komo sva ofan at bænom, enn sumo lidino lögdo þeir upp í vestri kvísl til bæarins. Þeir lögdo at landi út vit stikin, oc leto þar upp hesta sína, oc reid þat lid et efra of Bratzás, oc rido sva upp um bæinn. Einar mágr Andreas prestz bar þessi tídindi upp til Kastala-kirkio, þvíat þar var þá bæiar-lydrinn, oc hafdi þannig sótt til há-messo. Oc kom Einarr þá er Andreas prestr taladi, oc sagdi mönnom at her fór at bænom med fiöllda her-skipa, enn sumt lid reid ofan um Bratzás. Þá mællto margir at þat mundi vera Eiríkr Dana-konongr, oc vænto menn ser grida af hönom. Lióp þá fólkit allt ofan í bæinn til fiár síns, oc vapnadiz oc geck ofan á bryggior, oc sá þeir þegar, at þetta var ófridr, oc óflyiandi her. Austr-fara skip IX fluto í ánni fyrir bryggiom, er kaupmenn átto. Vindor lögdo þar fyrst at, oc bördoz vit kaupmennina. Kaupmenn tóko vel vit,

vapnuduz, oc vörduz lengi vel oc drengiliga. Vard þar orrosta hörd oc vidrtaka ádr kaupskipin yrdo hrodin. I þeirri hríd leto Vindor hálft annat hundrat skipa at öllo lidino. Þá er bardaginn var sem mestr, stódo bæiarmenn á bryggíonom, oc skuto á heidingia. Enn er orrosta renadi, þá flydo bæiarmenn upp í bæinn, oc sídan í kastala, oc höfdo allir menn med ser dyr-gripi sína, oc allt fe þat er med mátti komazc. Solveig oc dætor hennar, oc ij konor adrar gengo upp á lánd. Þá er Vindor háfdo unnit kaupskipin, þá gengo þeir á land, oc könnudo lid sitt, oc birtiz þá skadi þeirra. Þá liópo þeir sumir í bæinn, enn sumir á kaupskipin, oc tóko fe þat allt, er þeir villdo med ser hafa. Því næst lögdo þeir elld í bæinn, oc brendo hann allan, oc sva skipin. Eptir þat sótto þeir öllo lidino at kastalanom, oc skipudoz til atsóknar.

## CAP. XI.

### ÖNNOR ORROSTA.

Rettibur konongr let bióda þeim er í kastalanom voro, at ganga út, oc hafa lífs grid med vapnom oc klædom, oc gulli oc silfri; enn allir æpdo á móti, oc gengo út á borgina, sumir skuto, sumir grytto, sumir köstudo staurom. Oc var þat mikil orrosta, fell mart af hvarom-tveggiom, enn myklo

fleira af Vindom. Sólveig kom upp á bæ þann er heita Sólbiargir, oc sagdi þar tídindin. Þá var skorin upp herör oc send til Skúrhaga, þar var samburdar-öl nockvat, oc mart manna. Þar var sá bondi er het Aulver Mikli-mudr, hann lióp upp þegar, oc tók skiölld sinn oc hiálm, oc öxi mikla í adra hönd ser, oc mællti: standit upp, gódir drengir, oc takit vapn ydar, oc förom til lidveizlo vit hæiarmenn, því at þat mun skömm þickia hveriom manni er þat spyr, at ver sitiom her oc kylum öl, enn gódir drengir látiz í bænom fyrir varar sakir. Margir svörudo oc mællto móti, sögdo þeir mundo tyna ser, enn koma bæiar-mönnom at öngo lidi. Þá lióp Aulver upp oc mællti: þó at allir þer dveliz eptir adrir, þá skal ec þó einnsaman fara, oc láta skulo heidingiar i eda ij fyrir mik, ádr enn ec falla; hleypr sídan ofan til bæiarins, enn menn nockorir fóro eptir hönom, oc villdo siá ferd hanns, oc sva vita, ef hönom mætti nockot vithiálpa. Enn er hann kom sva nærr kastalanom, at heidnir menn mátto siá hann, þá liópo móti hönom viij menn alvapnadir. Enn er þeir mættuz, liópo heidnir menn umhverfis hann. Aulver reiddi upp öxina, oc laust fremri hyrno undir kverk þeim er á bak hönom stód, sva at í sundr sneid kiálkana oc barkann, oc fell sá opinn á bak aptr. Þá reiddi hann fram öxina fyrir sik, oc höggr annan

í höfudit, oc klauf þann í herdar nidr. Sídan sóttuz þeir á, oc drap hann þá enn ij, oc vard siálfr sárr miök. Enn þeir iiij, er eptir voro, flydo þá, enn Aulver rann eptir þeim; díki nockot var fyrir þeim, oc liópo þar í ij hinir heidno, oc drap Aulver þá báda, stód hann þá oc fastr í díkino; enn ij heidnir komoz undan af þeim átta. Enn þeir menn er fylgt höfdo Aulvi, tóko hann, oc flutto aptr med ser til Skúrhaga, oc vard hann græddr at heilo; oc er þat mál manna, at eigi hafi einn madr drengiligri ferd farit. Lendir menn ij, Sigurdr Gyrdarson, bródir Philippus, oc Sigardr komo vid VI hundrut manna til Skúrhaga, oc hvarf Sigurdr aptr med iiij hundrot manna, oc þótti sídan lítils-verdr, oc lifdi skamma stund; enn Sigardr fór med cc. manna til bæiarins, oc bardiz þar vid heidna menn, oc fell þar med öllo lidi síno. Vindor sótto kastalann, enn konongr þeirra oc höfdingiar voro fyrir utan bardagann. I einhveriom stad hiá Vindom var einn sá madr, er skaut af boga, oc drap mann til bana af hverri aur, enn ij menn stódo fyrir hönom med skiölldom, oc hlífdo hönom. Þá mællti Sæmundr Húsfreya vit Asmund son sinn, at þeir skylldo skióta at skytanom bádir senn, enn ec mun skióta at þeim er skiölldinn ber fyrir hönom; hann gördi sva, enn sá skaut skilldinom nidr fyrir sik; þá skaut Asmundr milli skiall-

danna, oc kom örin í enni skytanom, sva at út kom um hnackann, oc fell sá daudr á bak aptr. Enn er Vindor sá þat, yldo þeir allir sem hundar eda vargar. Þá let Rettibur konongr kalla til þeirra, oc baud þeim enn grid; enn þeir neitto því. Sídan veitto þeir heidingiar þa enn harda atsókn. Þá var sá enn einn af heidnom mönnom, er sva diarfliga bardiz, oc sva nær geck, at hann komz allt at kastala-hurdinni, oc lagdi sverdi þann mann er fyrir innan stód hurdina, enn menn báro at hönom skot oc spiót, oc hann var hlífdar-lauss, þá beit eigi; var hann sva fiölkunnigr, at ecki vapn festi á hönom. Þá tók Andreas prestr vígdan elld, oc blezadi, oc skar í tundr, oc lagdi í elldinn, oc setti á örvar-odd tundrit, oc feck Asmundi; þessi öro skaut hann at hinom fiöl-kunnuga manni, oc beit þetta skot sva, at hönom vanz at fullo, oc fell hann nidr. Þá leto heidingiar illiliga enn sem fyrr, yldo oc gnysto, oc fóro allir til konongs þeirra, þótti kristnom mönnom sem þá væri von til ráds, at þeir mundi fráhverfa. Þá skilldi túlkr sá er kunni vindversko, hvat höfdingi sá mællti, er Unniburr het; hann sagdi sva: þetta fólk er atallt oc íllt vidskiptis, oc tótt ver takim allt fe þat er í stadnom er, þá mætto ver tilgefa annat fe iamn-mikit, at ver hefdim eigi her komit, sva

höfom

höfom ver her mikit lid látit, oc marga höfdingia. Fyrst í dag er ver tókom at beriaz vit kastalann, þá höfdo þeir fyrst til varnar skot oc spiót, þvi næst bördo þeir oss med grióti, enn nú beria þeir oss med kefli-völom sem hunda; enn se ec fyrir því, at þeirra faung þverra til varnar, oc skulom ver enn göra þeim harda hríd; oc freistom þeirra enn. Enn sva var sem hann sagdi, at þá skuto þeir staurom, enn í fyrsto hríd höfdo þeir borit óvarliga skot-vapn sín oc griót; enn er kristnir menn sá at mínkadiz fiöldi af staurunom, hiöggo þeir í tvau hvern staurinn. Enn heidingiar sótto þá med hinom mesta ákafa, oc hvílldux í milli; giördoz nú hvarir-tveggio miök módir oc sárir. Oc í einni-hverri hvílld, þá let Rettibur Vinda-konongr enn bióda þeim grid, oc at þeir skylldo hafa vapn sín oc klædi, oc þat er þeir gæti siálfir bórit út or kastalanom. Þá var fallinn Sæmundr Húsfreyia, oc var þat þá rád manna, þeirra er eptir voro, at gefa upp kastalann oc siálfa sik í valld heidinna manna, oc var þat it ósniallasta rád, fyrir því at heidingiar efndo eingi ord sín, oc tóko alla menn, kalla oc konor oc börn, oc drápo allt þat er sárt var oc úngt, oc þeim þótti íllt med ser at flytia; þeir tóko allt fe þat er var í kastalanom, þeir gengo inn í Kross-kirkio, oc rænto hana at öllo skrúdi

hennar. Andreas prestr gaf Rettibur konongi refdi silfr-búit oc gyllt, enn Dunimiz systor-syni hanns fíngrgull; fyrir því þóttuz þeir vita, at hann mundi vera ráda-madr nockr í stadinom, oc virdo hann meira enn adra menn; þeir þóko krossinn helga oc höfdo brott; þeir tóko oc tabolam er stód fyrir alltarino, þá er Sigurdr konongr hafdi göra látit í Grícklandi oc haft í land, þeir lögdo hana nidr flata á graduna fyrir alltarit. Eptir þat gengo heidingiar út af kirkionni. Þá mællti Rettibur konongr: þetta hús hefir fyrr buit verit med ást mikilli vit þann gud er húsit á; enn sva lítz mer nú sem lítt muni gætt hafa varit til stadarins eda hússins, því at ec se at gudinn er reidr ordinn þeim er vardveita. Rettibur konongr gaf Andreas presti kirkiona oc skrínit oc krossinn helga, bókina, plenarium, oc klerka iiij. Enn heidnir menn brendo þó kastala-kirkiona, oc húsin öll þau er þar voro í kastalanom. Enn sá elldrinn, er þeir höfdo tendrat í kyrkionni, sloknadi tysvar, þá hiuggo þeir ofan kirkiona, oc tók þá at loga innan öll, oc brann sem önnor hús. Þá fóro heidnir menn til skipa sinna med herfángit, oc könnudo þá lid sitt, enn er þeir sá skada sinn, þá tóko þeir at herfángi allt folkit, oc skipto milli skipanna. Þá fóro þeir Andreas prestr á konongs-skipit med krossinn helga; þá kom ótti mikill yfir heidingia, af þeirri bending

er yfir konongs-skipit kom; þat var hiti sva mikill, at allir þeir þóttuz nær brenna. Konongr bad túlkinn spyria prestinn, hví sva vard; hann sagdi: at almáttkr Gud, sá er kristnir menn trúdo á, sendi þeim mark reidi sinnar, er þeir dirfdoz þess, at hafa med höndom hanns píslar-mark, er eigi vilia trúa á skapara sinn; oc sva mikill kraptr fylgir krossinom, at opt hafa ordit fyrr þvílíkar iartegnír yfir heidnom mönnom, þá er þeir hofdo hann med höndom, ok sumar enn berari. Konongr let skióta kennimönnom á skip-bátinn, oc bar Andreas prestr krossinn helga í fángi ser. Þeir leiddo bátinn fram med endilöngo skipino, oc fram fyrir bardit, oc aptr med ödro bordi til lyptingar, skuto sídan vit forkom oc hrundo bátinom inn at bryggiom. Sídan fór Andreas prestr um nóttina med krossinn til Sólbiarga, oc var bædi regn oc rotavegr, oc flutti hann þadan til gódrar gæzlo. Rettibur konongr oc hanns lid, þat er eptir var, fór brott oc aptr til Vindlandz, oc mart þat fólk er tekit hafdi verit í Konónga-hello var lengi sídan í Vindlandi í þián, enn þeir er út voro leystir, oc aptr komo í Noreg til ódala sinna, urdo allir at minna þrifnadi enn ádr. Kaupstadrinn í konnonga-hello hefir alldri fengit uppreist sídan, slíka sem ádr hafdi hann.

## CAP. XII.

### FRÁ MAGNÚSI BLINDA.

Magnús konongr, er blindadr hafdi verit, fór sídan nordr í Nidarós, oc gaf sik til klaustrs í Hólmi, ok tók vit múnka-klædom. Þá var þannug skeytt Hernes mikla á frosto í provendo hanns. Enn Haralldr konongr red þá einn landi eptir um vetrinn, oc gaf öllom mönnom sættir, er hafa villdo; tók hann þá marga menn til hird-vistar er verit höfdo med Magnúsi konongi. Einarr prestr Skúlason segir sva, at Haralldr konongr átti ij orrostor í Danmörko, adra vit Hvedn, enn adra vit Hlesey:

Otryggom let eggiar
eliun-þrárr und hárri
Hvedn á hölldom rodnar
hrafns munn-litudr þunnar.

Oc enn þetta:

Átti sókn vid sletta
serk-riódr hárs merki
harda þar er bregg of virdom
Hles-eyar þröm bleso.

Haralldr konongr Gilli var allra manna milldastr. Þat er sagt, at á hanns dögom kom af Islandi til biscops-vígslo Magnús Einarsson, oc var konongr ágætliga vel til hanns, oc veitti hanom mikinn sóma. Enn er biskop var útbúinn híngat, oc skipit

albúit, geck hann í höllina er konongr drack, oc kvaddi hann dyrliga, oc fagnadi hönom; konongr tók vit hönom blídliga. Drottning sat hiá konenginom. Þá mællti konongr: herra biskop, erò þer nú búnir til brottferdar? hann qvad sva vera. Konongr mællti: eigi hittir þú nú í tíma til, er þer komut sva, at bordin voro uppi; nu er eigi til at gefa ydor sva virdugligt sem skyldi; eda hvat er til at gefa biskopi? Fe-hirdirinn svarar: herra, upp ætlom ver nú gefnar geyrsimar. Konongr mællti: til er bord-kerit herna, þigg þat biskop, fe er her í. Enn biskop þackadi hönom sinn sóma. Þá mællti drottning: far heill oc sæll herra biskop! Konongr mællti til hennar: far heill oc sæll herra biskop, hveria heyrdir þú göfga kono slíkt mæla vit biskop sinn, oc gefa hónom eigi? Hon svarar: hvat er nú til, herra? Konongr mællti: til er hægindit undir þer. Sídan var þat tekit, oc var skorit um pell, oc var þat inn dyrligsti lutr. Oc er biskop veik í brott, þá let konongr taka undan ser hægindit, oc mællti: lengi hafa þau saman verit. Sídan for biskop á brott, oc kom út til Islandz til stóls síns, oc var þá rætt um hvat af bord-kerino skyldi göra, þess er konongi gegndi bezt. Spurdi biskop ráds eptir, oc mællto margir at selia skyldi, oc gefa sídan verdit fátækom mönnom. Þá mællti biskop: annat rád vil ec taka; göra skal af kalek

her á stadinom, oc vil ec sva mæla fyrir, at þer hinir helgo menn allir, er her er af helgr dómr í þessi enni helgo kirkio, leti hann hvert sinn nióta, er yfir hönom er messa súngin. Oc sá kalekr er þar sídan at stadnom í Skálhollti. Enn af pellunom, er yfir voro dregin hægindin, er konongr gaf hönom, ero nú görvar fyrirsöngs-kápor, er þar í Skálhollti ero. I þessom lut má marka stórlyndi Haralldz konongs, oc mörgo ödro, þó at her se fátt af ritat. Haralldr konongr tók Þóro dóttur Guthorms Grábarda, oc lagdi hana hiá ser, oc átto þau son er Sigurdr het. Son átti hann oc vit Ingirídi drottningo, er Ingi het. Dóttir Haralldz konongs het Brigitt, önnor Maria. Brigittu dóttur hanns átti fyrst Ingi Hallsteinsson Svía-konongr, sídan Magnús Heinreksson, sídarst Birgir Brosa.

## CAP. XIII.

## UPPHAF SIGURDAR SLEMBI-DIAKN.

Sigurdr er madr nefndr, er upp fæddiz í Noregi, hann var kalladr son Adalbrictz prestz. Módir Sigurdar var Þóro, dóttir Saxa or Vík, systir Sigrídar, modur þeirra Olafs konongs Magnússonar oc Kára konongs-þródur, er átti Borghilldi, dóttur Dags Eilifssonar. Synir þeirra voro þeir Sigurdr á Austrátt oc Dagr. Synir Sigurdar varo þeir Jon á Austrátt,

oc Þórsteinn oc Andreas daufi. Jon átti Sigrídi, systur Inga konongs, oc Skúla hertuga. Sigurdr var í barn-æsko settr til bókar, oc vard hann klerkr oc vígdr til diakns. Enn er hann giordiz fullkominn at alldri oc afli, þá var hann manna vaskligastr, mikill madr oc sterkr, oc um alla atgiörvi var hann umfram adra iafn-alldra sína, oc náliga hvern mann annan í Noregi. Sigurdr var snemma ofsa-madr oc óeirdar-madr mikill; hann var kalladr Sigurdr Slembi-diákn. Manna var hann frídastr synom, helldr þúnn-hárr, oc þó vel hærdr. Þá kom þat upp fyrir Sigurdi, at módir hanns sagdi, at fadir hanns væri Magnus konongr Berfættr; oc þegar hann red siálfr háttom sínom, þá afrækdiz hann klerka-sido, oc fór af landi brott. I þeim ferdom dvaldiz hann lángar hrídir. Þá fór hann út til Jórsala, oc kom til Jórdanar, oc sótti heim marga helga stadi, sva sem pálmarom er títt. Oc er hann kom aptr, dvaldiz hann í kaupferdom. Einn vetr dvaldiz hann í Örkneyiom med Haralldi Jarli, oc var med hönom at drápi Þórkels Fóstra Sumarlida-sonar. Sigurdr var oc uppi á Skotlandi med David Skota-konongi, oc var hann þar mikils virdr. Eptir þat fór Sigurdr til Danmerkr, oc var þat hanns sögn oc hanns manna, at hann hefdi flutt skírslor til fadernis ser, oc bar svá, at hann væri son Magnúss konongs Berbeins, oc þar væri

vit v. biskopar. Sva segir Ivarr Ingimundarson í Sigurdar-bælki:

> Giördo skírslo
> of Skiölldongs kyn
> fim biskopar
> þeir er framarst þótto.
> Sva bar raunir
> at ríks konongs
> þess var hinn milldi
> Magnús fadir.

Vinir Haralldz konongs Gilla sögdo, at þat hefdi verit svik oc lydi Dana vit Nordmenn. Þat er sagt frá Sigurdi Slembi, at hann hafdiz vit í kaupferdom nockora vetor; einn vetr var hann á Islandi, oc var þá á vist med Þórgilsi Oddasyni á Stadarhóli í Saurbæ, oc visso fáir hverr hann var. Þat var um haustit er saudir voro reknir í rett oc ætladir til skurdar, oc er þeir hendo saudina, lióp einn saudrinn at Sigurdi; Sigurdr let sem hann leitadi þángat hiálpar, rettir at hönom hönd, oc kippir út or rettinni, oc lætr hann laupa í fiallit upp, oc mællti: eigi leita nú fleiri traustzins til vár, enn at hiálp skal hönom verda. Þat giördiz enn um vetrinn at kona ein hafdi stolit, oc vard Þórgils henni reidr, oc vill refsa henni, enn hon lióp þar til hiálpar, er Sigurdr var, hann setti hana nidr í pallinn hiá ser. Þórgils bad hann selia hana fram, oc segir hvat hon hefir giört; enn

Sigurdr bad henni fridar, er hon hefir þángat traust sótt, oc þórgils gefi henni upp sökina; enn þórgils qvad hana scyldo víti fyri taka. Enn er Sigurdr sá at þórgils vill eigi heyra bæn hanns, leypr hann upp oc brá sverdi, oc bad hann tilsækia. Oc er þórgils sá at hann villdi vígi veria konona, leitz hönom madrinn med miklo yfirbragdi, oc grunar hverr vera muni, oc lætr vidberaz at giöra á hlut kononnar, oc gaf henni grid. þar voro fleiri útlendir menn, oc hafdi Sigurdr minst yfirlát. Einn dag er Sigurdr kom í stofo, tefldi aust-madr vid einn heima-mann þórgils, sá var skartz-madr mikill, oc barsk á mikit. Aust-madrinn kalladi á Sigurd, oc bad hann ráda nockot um taflit med ser; Sigurdr sá á, oc leitz hönom farit. Sá mádr er tefldi vit aust-manninn hafdi sáran fót, þrútnadi tá hanns oc vægdi. Sigurdr setz í pallinn, oc tekr eitt strá oc dregr eptir gólfino, enn ketlingar liópo um gólfit; hann dregr æ fyrir þeim stráit, þar tíl er kemr yfir fót hönom, enn hann spratt upp, oc kvad vit, enn taflit svarfaz, göra þeir nú at þrætomál hvarr þeirra hefdi; oc því er þessa getit, at Sigurdr þótti nær ser tekit hafa bragdit. Eigi visso menn fyrr at hann væri lærdr, enn þvatt-daginn fyrir páska, þá saung hann yfir vatni; oc æ þóttí hann því meira verdr, er hann var lengr. Oc um sumarit eptir ádr enn þeir skildo, mællti Sigurdr,

at þórgils skyldi kunnliga senda menn til Sigurdar Slembis. Þá svarar þórgils: hvat er þer at hanom lángt? hann svarar: ec em Sigurdr Slembidiákn, son Magnúss konongs Berfættz. Fór hann sídan utan.

## CAP. XIV.

## FRÁ SIGURDI SLEMBI-DIAKN.

I þennann tíma var Haralldr einn konongr í Noregi, oc var þat mál manna, at hann væri eigi vitr madr, oc eigi jamn-grimmr, sem Magnús konongr frændi hanns, sonr Sigurdar konongs. Þá Haralldr Gilli hafdi verit konongr VI vetur, kom Sigurdr til Noregs; gáfo þá menn hönom þat rád, at hann færi á fund Haralldz konongs, oc birta fyrir hanom frændsemi þeirra, oc freista hverso þá skipadiz mál hanns. Sigurdr sótti á fund Haralldz konongs bródur síns, oc hitti hann í Biörgun, geck þegar á konongs valld, oc birti fyrir hönom faderni sitt, oc beiddi konong taka vid frændsemi sinni. Konongr veitti öngva skióta orskurdi um þat mál, oc bar þetta sídan fyrir vini sína, oc átti vit þá tal oc stefnor. Enn er rád-giafar konongs urdo þessa varir, mælltо þeir þat, ef Sigurdr væri til ríkis leiddr, at hann mundi þeim verda ofstór, sva sem Magnús konongr hefdi verit; enn þeir sáto nú miök í kyrrsæti, oc redo lendir-menn land-rádom miök.

Feckz þat rád at med konongi, at láta drepa Sigurd, oc finna hönom dauda-sök. Kom þat þá upp af tali þeirra, at konongr bar sakir á hendor Sigurdi um þat, er hann hafdi verit at aftöko Þórkels fóstra fyrir vestan haf. Þórkell hafdi fylgt Haralldi konongi til Noregs, þá fyrst er hann komit hafdi til landz; hafdi Þórkell verit hinn mesti vinr Haralldz konongs. Var þesso máli sva fast fylgt, at fyrir þetta var Sigurdi gefin dauda-sök, oc med rádi lendra manna vard þat sva framgengt, at eitt kvelld sídla gengo til gestir nockorir þar er Sigurdr var, oc kölludo hann med ser; tóko scúto nockora, oc röro med Sigurd brott ór bænom nordur um Holldhello. Sigurdr sat aptr á kisto einni, oc hugsadi sitt mál, oc grunadi hann, at þetta mundi vera svik. Hann var sva búinn, at hann hafdi brækur blár, oc skyrto oc möttul á tyglom at yfirhöfn. Hann sá nidr fyrir sik, oc hafdi hendur at möttuls-böndunom, let stundom á höfut ser upp, enn stundom let hann af. Enn er þeir voro komnir fyrir nesit, náliga út til Miólcr-ár, voro þeir kátir oc drucknir, oc sumir röro ákafliga, oc ugdo fátt at ser. Þá stód Sigurdr upp, oc geck á bord, enn ij menn, þeir er til gæzlo voro fengnir vit hann, stódo upp, oc gengo med hönom at bordino út, tóko þeir möttulinn bádir tveir oc helldo frá hönom, sem sidr er til at göra vit ríka

menn. Enn er hann grunadi at þeir helldi fleirom klædom hanns, þá greip hann sinni hendi hvarn þeirra, oc steypdiz utanbordz med báda þá, enn skútan rendi lángt fram, oc vard þeim seint at víka, oc laung dvöl ádr enn þeir fengi sína menn tekna. Enn Sigurdr tók sva lángt kaf á brott, at hann var fyrri á landi uppi, enn þeir fengi snúit skútonni eptir hönom. Sigurdr var allra manna fót-hvatastr, oc stefnir hann í fiall upp, enn konongs-menn fóro alla nótt oc leitudo hanns, oc fundo hann eigi. Hann lagdiz nidr í biarg-skoro nockora, oc svaladi hönom miök, fór hann þá af brókonom, oc skar rauf á setgeiranom, oc smeygdi á sik, oc tók út höndunom, oc halp med því lífi síno at sinni. Enn konongs-menn fóro aptr, oc mátto eigi leyna óförom sínom.

## CAP. XV.

## SVIKRÆDI VID HARALLD KONONG.

Sigurdr þóttiz nú finna, at eigi myndi hönom til hiálpar vera, at leita optar á fund Haralldz konongs, oc var hann þá í fylsknom allt haustit oc aundverdan vetr. Hann var í bænom í Biörgyn á laun med presti nockorom. Haralldr konongr var þar í bænom, oc mart ríkis-manna med hönom. Nú leitadi Sigurdr um med tilstilli vina sinna, ef

hann mætti vidkomaz at ráda konongi svikrædi oc líflát. Voro miök margir menn at þessom rádom, oc þeir sumir er þá voro hirdmenn oc herbergissveinar Haralldz konongs, enn þeir höfdo fyrr verit hirdmenn Magnúss konongs, voro þeir þá í kærleikom miklom vit Haralld konong, sva at æ var nockorr af þessom yfir bordi konongs. Lucio-messo at qvelldi, er þeir ætlodo at fremia þetta velrædi, rædduz vit ij menn er þar sáto; þá mællti annar til konongs, herra, sagdi hann, nú höfom vid felagar skotit ockarri þræto undir ydar orslit, oc höfom vit vediat her um aski hunángs, hvarr ockarr satt segir. Ec segi, at þer munot í nótt liggia hiá Ingirídi drottningo þinni, enn hann segir, at þer munot liggia hiá Þóro Guthorms-dóttur. Þá svaradi konongr læiandi, oc var miök úvitandi, at þessi spurning væri med sva mikilli vel, oc sagdi hann mundi eigi lióta ved-feit, oc þóttuz þeir af því vita, hvar hanns var at vitia á þeirri nótt, enn höfut-vördr var þá halldinn fyrir því herbergi, er flestir hugdo at konongr mundi ísófa, oc drottning var í.

## CAP. XVI.

### DRÁP HARALLDZ KONONGS.

Sigurdr Slembir oc nockorir menn, sem í rádom voro med hönom, komo um nóttina til herbergis

þess, er Haralldr konongr svaf í, oc drápo fyrst vard-menn, sídan bruto þeir upp hurdina, oc gengo inn med brugdnom sverdom. Ivarr Kolbeinsson vann fyrstr á Haralldi konongi; enn konongr hafdi druckinn nidrlagz, oc svaf fast, oc vaknadi vid þat er menn vágo at hönom, oc mællti í óvitino: sárt byr þú nú vid mik, Þóra? Enn hon lióp upp vid oc mællti: þeir búa sárt vit þík, er verr vilia þer enn ec. Let Haralldr konongr þar líf sitt. Þessir menn gengo inn at hönom med Sigurdi: Ögmundr son Þrándar Scaga, Kolbeinn Þorliótzson af Batalldri, Erlendr Islendingr. Enn Sigurdr vit sína menn geck í brott, let hann þá kalla þá menn til sín, er hönom höfdo heitiz til föroneytis, ef hann fengi Haralld konong tekit af lífi. Þá gengo þeir Sigurdr oc hanns menn brott, tóko til skúto nockorrar, skipuduz vit árar oc röro út á vágínn fyrir konongs-gard, tók þá at lysa af degi. Þá stód Sigurdr upp, oc taladi vit þá er stódo á konongs-bryggionom, oc lysti vígi Haralldz konongs ser á hendur, oc beiddiz þá af þeim vidrtöko, oc þess at þeir tæki hann til höfdingia, svá sem burdir hanns voro til. Þá dreif þángat á bryggiornar fiöldi manns or konongs-gardi, oc svörodo allir senn einom munni, oc mællto, at þat skylldi alldreigi verda at þeir veitti lydni oc þiónkan þeim manni, er myrdann hefdi bródor sinn; enn ef þú

ert eigi hanns bródir, þá átt þú öngva ætt til at vera konongr. Þeir bördo þá saman vapnom sínom, oc dæmdo þá alla útlaga oc fridlausa. Var þá blásit konongs-lúdri, oc stefnt saman öllom lendom-mönnom oc hird-mönnom. Enn Sigurdr oc hanns menn sá þann sinn kost hinn fegursta, at verda brotto; hann hellt þá á Nordr-hördaland, oc átti þar þíng vid bændor, gengo þeir undir hann, oc gáfo hönom konongs-nafn. Þadan fór hann inn í Sogn, oc átti þar þíng vit bændor, oc var hann þar oc til konongs tekinn. Þá fór hann nordr um fiáll, oc sva inn í fiördo, oc tóko flestir vel hanns máli. Sva segir Ivar Ingimundarson:

Tóko vit milldom
Magnúss syni
Haurdar oc Sygnir
at Haralld fallinn.
Sóroz margir
menn á þíngi
budlúngs seyni
í bródor-stad.

Haralldr konongr var iardadr í Kristz-kirkio inni forno.

---

XIV.

# SAGAN AF SIGURDI, INGA OC EYSTEINI, HARALLDZ-SONOM.

## CAP. I.

### UPPHAF SIGURDAR OC INGA KONONGA.

Ingirídr drottning oc med henni lendir-menn oc hirdin sú er Haralldr konongr hafdi haft, redo þat af, at hleypi-skúta var gör nordr til Þrándheims, at segia fall Haralldz konongs, oc þat med at Þrændor skylldo taka til konongs son Haralldz konongs Sigurd, er þá var nordr þar, oc Gyrdir Bárdarson fóstradi. Enn Ingirídr drottning fór þegar austr í Vík. Ingi het son þeirra Haralldz konongs, er var at fóstri þar í Víkinni med Amunda Gyrdarsyni, Lögbersa-sonar. Enn er þau komo í Víkina, var þegar stefnt Borgar-þíng, var þar þá Ingi til konongs tekinn, var hann þá á annan vetr. At því rádi hurfo þeir Amundi oc Þióstólfr Alason, oc margir adrir stórir höfdingiar. Enn er þau tíd-indi komo nordr til Þrándheims, at Haralldr kon-ongr var af lífi tekinn, tóko Þrændor til konongs Sigurd, son Haralldz konongs, á Eyra-þíngi; var hann þá á fiórda vetr, oc hurfo at því rádi Ottar Bir-

Birtingr, Petr Sauda-Ulfsson, oc þeir brædor, Guttormr af Reini or Ottar Balli Asólfssynir, oc margir adrir stórir höfdingiar, oc fiölldi annara manna. Oc sneriz þá undir þá brædor náliga allr landzlydr, oc allra hellzt fyrir þá sök, at fadir þeirra var kalladr heilagr; oc var þeim sva land svarit, at undir öngan mann annan skylldi gánga konongdómr, medan nockr þeirra lifdi sona Haralldz konongs.

## CAP. II.

## FRÁ SIGURDI SLEMBI-DIÁKN.

Sigurdr Slembir sótti nordr um Stad, oc þá er hann kom á Nord-mæri, voro allt komin fyrir hönom bref oc iartegnir ráda-manna þeirra, er snúitz höfdo til lydni vit sono Haralldz konongs, oc feck hann þar önga vidtöko eda uppreist. Enn med því at Sigurdr var siálfr lidfár, þá redo þeir þat af, at stefna inn í Þrándheim, oc leita á fund Magnúss blinda, þvíat hann hafdi ádr gört ord fyri ser inn þannog til vina sinna, oc til vina Magnúss. Þá var Sigurdr konongr Haralldssson í bænum, oc med hanom margir ríkis-menn, oc var Sigurdi Slembi eigi þángat færiligt at leita. Hann hafdi þá med ser marga sína vini, oc sva Magnúss vini. Enn er hann kom til káupángs, röro þeir upp í

ána Nid, oc leita á fund Magnúss konongs, oc komo festom á land í konongs-gardi, oc urdo þeir þá undan at leita, þvíat lydr allr stód á móti. Þeir lögdo sídan at vit Hólm, oc tóko þar út or klaustri Magnús blinda Sigurdarson at naudgom múnkom, hann hafdi tekit ádr múnks-vígslo. Sú er fleiri manna frásögn, at Magnús færi at siálfs síns vilia bravt, þótt hitt veri gört til umbótar máls hanns. Fluttuz þeir Sigurdr þá brott eptir Jólin þegar, oc vænto ser lidsinnis af frændom sinom oc vinom Magnúsar, oc sva gafz; fóro þeir Sigurdr út eptir firdinom, sótto sídan eptir þeim Biörn Egilsson, Gunnar af Gimsum, Hálldorr Sigurdarson, Aslákr Hákonarson, oc þeir brædor Benedict oc Eiríkr, oc hird sú er fyrr hafdi verit med Magnúsi konongi, oc fiölldi annara manna. Þeir fóro med flockinn sudr fyrir Mæri, oc allt fyrir Raumsdals-mynni. Þeir Sigurdr oc Magnús skipto þar lidi síno, oc fór Sigurdr Slembir vestr um haf þegar um vetrinn; enn Magnús fór til Upplanda, oc vænti hann ser þar mikills lids-afla, sem hann feck; var hann þar um vetrinn oc um sumarit allt, oc hafdi mikit lid. Enn Ingi konongr fórr þá at hönom med lidi síno, oc hittoz þeir þar sem heitir í Mynni. Vard þar mikil orrosta, oc hafdi Magnús konongr meira lid. Sva er sagt, at Þióstólfr Alason hefdi Inga konong í killting ser, medan

bardaginn var, oc geck undir merki, oc kom þióstólfr í mikla naud af erfidi oc atsókn; oc er þat mál manna, at þá hafi Ingi konongr fengit vanheilindi þat, er hann hafdi allan alldr sídan, medan hann lifdi, oc knytti hrygginn, enn annar fótrinn skemri enn annar, oc sva afl-lítill, at hann var illa gengr medan hann lifdi. þá sneri mannfallino á hendor Magnúsi oc hanns mönnom, oc fello þessir í öndverdri fylkingo, þórkell, Halldor Sigurdarson, Biörn Egilsson, Gunnar af Gimsum, oc mikill luti lids hanns, ádr hann villdi undan rída. Sva segir Kolli hinn Prúdi:

Unnot austr fyrir Mynni
odd-hríd enn brast sídan
hilmir feck und hiálmi
hrafns verdar lid sverdom.
Lögdot þer enn eirar
örr syniadir brynio
úngr vardir þú þengill
þitt land saman randir.

Oc enn þetta:

Fyrr lá hanns enn harri
hríng-milldr þadan villdi
verdúng öll á velli
víg-fimr konongr himni.
Sundr klauft siklíngr þrænda
sókn-fús enn Magnúsi
þer fecks hálfo hærri
her-scriptir iöfurr gipta.

Magnús flydi þadan austr á Gautland til Karls Jarls Sóna-sonar, hann var ríkr madr oc ágiarn. Magnús blindi oc hanns menn sögdo sva, hvar sem þeir komo fyrir höfdíngia, at Noregr mundi liggia lauss fyrir, ef nockorir stórir höfdíngiar villdo tilsækia, er kalla mátti at eingi var konongr yfir landi, oc lendra-manna forrád váro yfir ríkino, enn þeir lendir-menn, er hellz ero til ráda teknir, þá var nú hverr þeirra ósáttr vit annan fyrir öfundar sakir. Enn med því at Karl var ágiarn til ríkis oc áhlydinn of fyrir-tölor, þá safnar hann lidi, oc rídr austan í Víkina, oc geck mart fólk undir hann fyrir ræzlo sakir. Enn er þetta spyria þeir Þióstólfr Alason oc Amundi, þá fóro þeir í móti med þat lid er til feckz, oc höfdo med ser Inga konong. Þeir hitto Karl Jarl oc her Gauta, oc funduz austr á Króka-skógi, oc átto þeir orrosto; vard þar mikit mannfall, oc feck Ingi konongr sigr. Þar fell Munan Augmundarson módur-bródir Karls Jarls. Augmundr fadir Munans var son Orms Jarls Eilifssonar, oc Sigrídar dóttur Finnz Jarls Arnasonar. Astrídr Augmundar-dóttir var módir Karls Jarls. Mart annara manna af Gautom fell á Króka-skógi; enn Jarl flydi austr af Skóginom. Ingi konongr rak þá allt austr or ríki síno, oc vard þeirra för hin hædiligsta. Sva segir Kolli:

Lysa mun ec hve liósa
laut rafn í bøn Gauta
aurn fylldit sik sialldan
sár-ísa raud vísi.
Golldit vard þeim er görđo
glaum herdondom sverda
raun er at ríki þíno
róg á Króka-skógi.

## CAP. III.

### FERD EIRÍKS KONONGS Í NOREG.

Magnús blindi fór þá til Danmerkr á fund Eiríks konongs Eymuna, oc feck hann þar gódar vidtökor. Baud hann konungi, ef hann villdi fara med Dana-her í Noreg, oc leggia undir sik landit, at hann mundi fylgia hönom, segir ef hann kæmi med styrk hers síns, at eingi madr í Noregi mundi þora at skióta skapti eino í móti hönom. Konongr skipadiz vit fortölor Magnúsar, oc baud út leidángri, oc fór hann med cc skipa nordr í Noreg, oc var Magnús blindí oc hanns menn í þessi ferd med Danakonongi. Enn er þeir komo í Víkina, þá fóro þeir til hófs nockors med spekd oc fridi austan-fiardar. Enn er þeir komo lidinu austan til Túnsbergs, var þar mikíll safnadr fyrir lendra-manna Inga konongs. Vatn-Ormr Dagsson, bródir Gregoriuss, red mest fyrir þeim; þar mátto Danir eigi á land

komaz, oc eigi vatn taka ser, var þar mart drepit af þeim. Þá lögdo þeir inn eptir firdi til Oslóar, oc var þar fyrir Þióstólfr Alason. Sva er sagt, at þeir villdo láta bera út skrín Hallvardz hins helga or bænom um aptaninn, er þeir urdo varir vid lidit, oc gengo sva margir undir, sem vit máttto komaz. Enn sva þúngt var skrínit, at þeir mátto eigi lengra bera, enn utar á kirkio-gólfit. Enn um morgoninn, er þeir sá at herinn fór utan at Höfutey, þá báro iiij menn skrínit upp or bænom; Þióstólfr oc allt bæiar-fólkit fylgdi med skríninu, fór þat upp á Rauma-ríki til Fors, oc var þar iij mánadi.

## CAP. IV.

### BÆR BRENDR Í OSLO.

Eiríkr konongr ok hanns lid sótti upp í bæinn. Þióstólfr nam stadar fyrir ofan bæinn, oc runno menn Eiríks konongs eptir þeim Þióstólfi, enn stafnbúi hanns vard skiótastr, sá het Askell. Þióstólfr skaut broddi til hanns, oc laust undir kverkina sva at yddi út um hnakkann, oc þóttiz Þióstólfr eigi skotit hafa betra skot, þvíat ecki var bert á hönom nema þat eitt. Þióstólfr fór uppa Rauma-ríki oc samnadi þar lidi um nóttina, oc kom ofan til bæiarins um morguninn. Eiríkr konongr let

leggia elld í Hallvardz-kirkio, oc vída um bæinn, oc brendo upp allan. Því næst kom Þióstólfr ofan med lid mikit til bæiarins, enn Eiríkr konongr lagdi á brott skipa-lidi síno, oc mátto þeir hvergi á land komaz þeim-megin fiardar fyrir safnadi lendra-manna, enn hvar sem þeir leitudo til land-göngo, þá lágo eptir v eda vi eda fleiri. Ingi konongr lá í Hornboro-sundom med lidi miklo, oc Amundi fóstri hanns Gyrdarson, oc börduz vid Eirík konong þar, oc drápo mart af hanum, flydi hann undan, ok sneriz aptr sudr til Danmarkar. Ingi konongr fór eptir hönom, oc hendi áf þeim allt þat er hann mátti, oc er mál manna, at eigi hafi verri ferd farin verit í annars konongs velldi med iamn-miclo lidi. Enn Eiríki konongi líkadi illa, oc þótti þeir Magnús oc hanns menn miöc hafa spottat sik, er hann hafdi komit í þessa ferd, oc qvadz eigi sídan skylldi vera þeirra vinr slíkr sem ádr. Nú er at segia frá sonom Haralldz oc Sigurdi Slembi, sem sagt hefir vitr madr oc skynsamr Eiríkr Oddzson, oc er þessi frásögn Hákonar Maga lends-mans, hann sat yfir oc sagdi frá þessom tídindom, er ritot voro fyrsta sinni; enn hann siálfr oc synir hanns voro í öllom þessom ferdom oc orrostom, oc voro allar adrar ferdir kunnar.

## CAP. V.

### FRÁ SIGURDI SLEMBI-DIÁKN.

Sigurdr Slembir kom þat sumar vestan um haf til Noregs, spurdi hann þá um ófarir Magnúss frænda síns; þá þóttiz hann vita at hann mundi eiga lítit traust í Noregi, sigldi hann þá allt útleid sudr med landi, oc kom fram í Danmörko, hann hellt til Eyrarsundz. Enn sudr fyrir Eyri hitti hann Vinda-sneckior nockorar, oc lagdi til bardaga vit þá, oc feck sigr, hraud þar VIII sneckior oc dráp mart manna, enn hann hengdi suma. Flackadi Sigurdr í sudr-löndom um hríd, enn hann vissi eingan sinn afla í Noregi, oc var þar (vörn) mest, sem voro þrændir oc Mærir. Sva segir Ivarr:

Riso vid vísa
vestan komnom
þrændir oc Mærir
þeir er þrifom nítto.
Brugdoz hölldar
í huga sínom
mensco milldom
Magnúss seyni

Oc þat segir hann, þá er Sigurdr fór af Noregi, at hann kom í Svía-konongs ríki:

Drifo til reipa
í raudo vedri

reyndir at risno
ræsis þegnar.
Urdo seggir
segls at gæta
þá var svalt á siá
enn sumir ióso.

Hratt hvast scipi
í hvöto vedri
raust rídandi
oc ramir straumar.
Festo seggir
Sneckio lánga
kynstórs iöfurs
vid Kalmars-nes.

Þá var hann kominn í Dana-konongs ríki, oc gördi ser þar marga at vinom höfdingia; konongin siálfann fyrst, sem her segir:

Ser framliga
fridar leitadi
il-riódr ara
vit Jota gram.

Hann átti oc orrostu vid Maun vid Vindor, oc hafdi sigr, þá hellt hann sunnan, oc lagdi upp í Elfina í eystri-qvísl, oc vann þar iij skip af lidi þeirra Þóriss Huínantorda, oc Olafs sonar Haralldz Kesio, systursonar síns: Módir Olafs var Ragnhilldr, dóttir Magnús konongs Berfætz; enn ellti Olaf á land upp. Sva segir Ivarr:

Vann í elfi
þar er iöfurr bardiz
fall fólkstara
til fódr-leifdar.
Sculfo sceyti
scot mögnudoz
hnigo hríng-vidir
huarra tveggio.

Enn þióstólfr var í Konongahello, oc hafdi safnat fyrir, oc skylldi þar veria landit, enn Sigurdr Slembir hellt þannug lidi síno, oc skutoz þeir á, oc mátto eigi á land gánga; fello menn af hvarom tvegiom, oc mart vard sárt. þar fell Ulfhedinn Söxólfsson, nordlendskr madr, stafn-búi Sigurdar; Sigurdr lagdi brott oc hellt nordr í Víkína, oc rænti vída. Enn er Sigurdr lá í höfn þeirri er Portyria het, á Lungardz sído, oc sætti þar skipom er fóro í Víkina eda brott þadan, oc rænti, enn Túnsbergs-menn gördo lid at hönom, oc komo á óvart, sva at þeir Sigurdr voro á landi, oc skipto fángi síno; kom sumt lid ofan at þeim, enn sumt lagdi skipom um þvera höfnina fyrir utan þá. þar fell mart manna af lidi Sigurdar; þar fell Fidr Geit oc Askell Smidsson; enn Sigurdr hlióp á skip sitt, oc reri út at þeim, enn skip Vatn-Orms var þar næst, oc let hann síga skip sitt á hömlom, enn Sigurdr röri út hiá þeim, oc kómz undan eino skipi, enn mart fell af lidi hanns. þá var þetta ort:

Vard eigi vel vid styrio
Vatn-Ormr í Portyrio.

## CAP. VI.

## DRÁP BEINTEINS.

Sigurdr Slembi-diákn sigldi sídan sudr til Danmerkur, oc tyndiz madr af skipi hanns, sá er het Kolbeinn Þórliótzson or Batalldri af Hadalandi, hann var á eptir-báti er bundinn var vit skipit, er þeir sigldo miök; braut Sigurdr skipit er þeir komo sudr til Danmerkr, oc var hann um vetrinn í Alaborg. Enn um sumarit eptir þá fóro þeir Magnús sunnan bádir saman med vij skipom, oc komo á Lista á óvart um nótt, oc lögdo þeir skipom sínom at landi. Þar var fyrir Beinteinn Kolbeinsson, hirdmadr Inga konongs, enn hraustasti madr. Þeir Sigurdr runno þar upp í ellding nætur, oc komo á óvart, oc tóko hús á þeim, oc villdo leggia elld í bæinn, enn Beinteinn komz út í búr nockvat med herklædom sínom, oc vel búinn at vapnom, oc stód hann fyrir innan dyrin med brugdit sverd, oc hafdi skiölld fyrir ser, enn hiálm á höfdi, var þá búinn til varnar; dyrnar voro helldr lágar. Sigurdr spurdi, hverr sveina fúsastr væri at gánga inn at Beinteini, oc þat er nú kurteisi; enn eingi vard skiótt tilbúinn. Beintein heyrdi hvat þeir töludo, oc segir sva: hver ydar er inngengr, þá skal vapn

fyrir-finna; enn myrkt var í búrino, oc stód hann vit dyrin med brugdit sverd. Sigurdr stód braut frá nockut, oc sá at eingi vard tilbúinn; hann tók grá-felld einn oc vafdi um hönd ser, hann brá sverdi, oc sneri upp at húsino, hann var í skyrto einni, oc hafdi ecki á höfdi; hann hleypr inn í húsit, sva snart sem kólfi scyti, oc um hann, sva at hann var þegar í innanverdo húsino. Beinteinn hió eptir hanum oc misti; Sigurdr sneri þegar utar at Beinteini, skiptuz þeir fám höggom vid, ádr Sigurdr hió hann bana-högg oc kom sva út, at hann hafdi höfudit í hendi ser, oc var madrinn einkar hvatligr, þvíat allra manna var hann snæfr-mannligastr. Sva segir Ivar:

Hellt á Lista
lofdúngr scipom
örr fyrir Agdir
austan af nesiom.
Hne hersa kyn
herr var í landi
brunno bygdir
fyrir budlúngi.

Dreif til skógar
fyrir sciölldongi
land-manna lid
þar er logar brunno.
Vöcdo drengir
med dör rodin

blóđ Beinteini
ádr bana fengi.

Þeir tóco fe allt er var í bænum, oc fóro sídan til skipa sinna oc helldo brot. Enn er Ingi konongr oc hanns vinir spyria dráp Beinteins, oc þeir Kolbeins-synir Sigurdr oc Gyrdir, brædor Beinteins, þá giördi konongr lid mikit at þeim Sigurdi Slembi, oc fór siálfr, oc tók scip undan Hákoni Púngelltu Pálssyni, oc dóttor-syni Asláks Erlingssonar af Sóla, systrúngi Hákonar Maga. Enn Ingi konongr ellti Hákon á land upp, oc lid hanns allt, oc tók hvert fat þeirra. Þeir flydo í Fiördo inn undan Sigurdr Stockr, son Eindrida í Gaut-dali, oc Eiríkr Hæll bródir hanns, oc Andreas Kellduscítr son Gríms or Ord. Enn Sigurdr Slembir oc Magnús Blindi oc Þórleifr Sciappa sigldu nordr it ytra iij scipom á Hálogaland, oc var Magnús um vetrinn í Biarkey nordr med Vidkunni Jónssyni bródrsyni Knútz. Enn Sigurdr hió stafna af scipi síno, oc hió á raufar oc sökdi nidr í Ægisfirdi innanverdom; sat Sigurdr um vetrinn í Tiállda-sundom í Kinn, þar sem heitir Gliúfrafiördr. I innanverdom Firdinom er hellir í biargino, þar sáto þeir Sigurdr um vetrinn á Finnmörk á laun, meir enn xx menn, oc tiölldudo fyrir hellis-dyrnar, sva at eingi mátti siá dyrnar or fiöro. Þeir fengo Sigurdi vistir um vetrinn Þórleifr Sciappa oc Einar Ögmundarson af

Sandi, oc Gudrúnar Einarsdóttur Arasonar af Reykiahólom. Þann vetr er sagt, at Sigurdr leti Finna göra ser skútor ij inn í fiördom, oc voro sini bundnar, oc engi var saumr í, enn vidiar fyrir kne, oc vóro xij menn á bord hvarri. Sigurdr var med Finnom þá er þeir gördo skútornar, oc höfdo Finnar þar munngát, oc gördo Sigurdi veitzlo. Þá kvad Sigurdr þetta:

Gott var í gamma
þar ver gladir druckom
oc gladr gramsson
geck medal beckia.
Vara þar gamans vant
at gaman-dryckio
þegn gladdi þegn
þar landz sem ec var.

Skútor þær voro sva sciótar, at ecki skip tók þær á vatni, sva sem qvedit var:

Fátt eitt fylgir
furo Háleyskri
svipar und segli
sin-bundit skip.

Enn um varit fóro þeir Sigurdr oc Magnús nordan med þær sömo skútor, er Finnar höfdo gört. Enn er þeir komo nordan í Vaga, drápo þeir þar Svein prest, oc sono hanns tva.

## CAP. VII.

### HERNADR SIGURDAR SLEMBI-DIÁKNS.

Sigurdr hellt þá sudr í Vikar, oc tóko þar Vilhiálm Skinnara, lendan-mann Sigurdar konongs, annan þóralldi Kiept, oc drápo þá báda. þá fór Sigurdr sudr med landi, oc hitti þar Styrkár Glæsi-rófo sudr vit Byrdo, er hann fór sunnan or kaupángi, oc drap hann. Enn er Sigurdr kom sudr til Valsness, þá hitti hann þar Svína-Grím fyrir Valsnesi, oc let höggva af hönom ena hægri hönd. þá fór hann sudr a Mæri, fyrir utan þrándheims-mynni, oc tók þar Hedin Hird-maga oc Kálf Kríngło-auga, oc let hann Hedin undangánga, enn þeir drápo Kálf. Sigurdr konongr oc Sáda-Gyrdir fóstri hanns spurdo til fara Sigurdar Slembi-diákns, oc hvat hann hafdiz at; þá sendo þeir menn at leita hanns, fengo þá til forráda Jon Kaudo, son Kálfs ins ránga, bródor Ivars biskops, oc annan Jon prest Smyril. þeir skipudo Hreininn, er var ij rúm oc xx, oc allra skipa skiótast. þeir fóro at leita Sigurdar, oc fundo hann eigi, oc fóro aptr nordr med lítinn ordz-tír, þvíat menn sögdo sva, at þeir sæi þá Sigurd, oc þordo eigi at leggia at þeim. Sigurdr fór þá sudr med landi, oc giördi allstadar stórann skada. Hann fór sudr á Haurdaland, oc kom í Herdlo; þar átti bú Einarr son Laxa-Páls, oc var

hann farinn inn í Hamars-fiörd til Gángdaga-þíngs. Þeir tóko feit allt er heima var, oc lángskip hálfþrítugt, er Einarr átti, oc son hanns iiij vetra gamlan, er lá hiá verkmanni hanns; villdo sumir drepa sveininn, enn sumir hafa brot med ser. Verkmadrinn sagdi þeim: eigi er ydor happ í at drepa sveininn, oc eingi tilslægr er ydor at hafa hann í brott, þvíat þetta er minn son, enn eigi Einars; oc af hanns ordom leto þeir eptir sveininn, enn þeir fóro í brott. Enn er Einarr kom heim, þá gaf hann verkmanninom fe til ij aura gullz, oc þackadi hanom sitt orrædi, oc lezc skylldo vera vin hanns iafnan sídan. Sva segir Eiríkr Oddzson, er fyrsta sinn ritadi þessa frásógn, at hann heyrdi í Biörgun Einar Pálsson segia frá þessom atburdom. Sigurdr fór þá sudr med landi, oc allt í Vík austr, oc hitti Finn Sauda-Ulfsson austr á Kuilldum, er hann fór at heimta skylldir Inga konongs, oc let hengia hann. Þeir fóro sídan sudr til Danmerkr.

## CAP. VIII.

### BREF-SENDING INGA KONONGS.

Víkveriar oc Biörgyniar-menn mællto at þat var ósómi, er Sigurdr konongr oc vinir hanns sáto kyrrir nordr í kaupangi, þótt födurbani hanns færi

þiód-

þiód-leid fyrir utan Þrándheims-mynni, enn Ingi konongr oc hanns lid sat í Vík austr vid háskann siálfan, oc vardi landit, oc hafdi átt margar orrostor. Þá sendi Ingi konongr bref nordr til kaupángs, stódo þessi ord þar á: Ingi konongr, son Haralldz konongs, sendir qvedio Sigurdi konongi bródor sínom, oc Sáda-Gyrdi, Augmundi Suipti, Ottari Birtingi, oc öllom lendom-mönnom, hird-mönnom oc hús-körlom, oc allri alþydo, sælom oc vesölom, úngom oc gömlom, Guds oc sína. Aullom mönnom ero kunnug vandrædi þau er ver höfom, oc sva æska, at þú ert v vetra gamall, enn ec iij; mego vit eigi atfæraz, nema vit niótim vina ockarra oc gódra manna. Nú þikkiumz ec oc mínir menn vera nærr staddir vandqvædom oc naudsyn beggia ockarra, enn þú eda þínir vinir; nú giördu sva vel, at þú far til fundar vít mic sem fyrst, oc sem fiöl-mennztr, oc verom bádir saman, hvat sem igeriz; nú er sá ockar mestr vinr, er til þess helldr, at vit æ seom sem sáttaztir, oc sem iafnast halldnir í öllom lutom. Enn med því at þú afrækiz, oc villt eigi fara at naudsynligri ordsending minni enn, sem fyrr hefir þú gört, skaltu vit því búaz, at ec mun fara á hendur þer med lidi, oc skipti þá Gud med ockor; þviat eigi megu ver hafa lengr sva búit, at sitia med sva miklom kostnadi oc fiöl-

menni, sem her þarf fyrir ófridar sakir, enn her þarf margs vit; tekr þú hálfar allar landskylldir oc adrar tekíor í Noregi. Lifit í Gudz fridi.

## CAP. IX.

### TALA ÓTTARS BIRTINGS.

Þá stód upp á þíngino Ottar Birtingr, oc svarar fyrstr manna: þat er mál Sigurdar konongs til Inga konongs bródor síns, at gud þacki hönom góda qvedio sína, oc sva, starf oc torvelldi, er þú hefir oc þinir vinir í ríki þíno, at beggia ockar naudsyn. Enn þótt sumt þicki helldr ördigt í ordom Inga konongs til Sigurdar konongs bródor síns, þá hefir hann mikit til síns máls í marga stadi. Nú vil ec lysa yfir míno scapi, oc heyra hvart því fylgir vili Sigurdar konongs, oc annara ríkismanna, at þú Sigurdr konongr búiz, oc þat lid er þer vill fylgia, at veria land þitt, oc farir sem fiölmennastr á fund Inga konongs bródor þíns, sem fyrst mátto, oc styrki hvarr yckar annan í öllom farsælligom lutom, enn almáttugr gud báda yckr. Nú viliom ver heyra ord þín, konongr. Petr son Sauda-Ulfs bar Sigurd konong á þíngit, er sídan var kalladr Petr Byrdarsveinn. Þá mællti konongr: viti þat allir menn ef ec skal ráda, þá vil ec fara á fund Inga konongs bródor míns, sem fyrst má ec.

Enn þá taladi annar þetta, oc hverr at ödrom, oc hóf sinneg hverr, enn lauk í sama stad, sem Ottar Birtingr hafdi fyrst uppkvedit, oc var þat þá rádit, at stefna lidi saman, oc fara austr í land. Sídan fór Sigurdr konongr austr í Vík med mikló lidi, oc hitti þar Inga konong bródr sinn.

## CAP. X.

## ORROSTA VIT HÓLMINN GRÁ.

Sama haust komo þeir Sigurdr Slembir oc Magnús Blindi sunnan or Danmörk med xxx scipa, bædi Dana-her oc Nordmanna, þat var nær vetr-nóttom. Enn er þetta spyria konongar, oc þeirra lid, fara þeir austr í móti þeim; þeir hittoz í Hvolom vit Holminn Grá; þat var inn næsta dag eptir Marteins-messo, þá var Sunnodagr. Ingi konongr oc Sigurdr konongr höfdo þá xx skip, oc öll stór; vard þar orrosta mikil, enn eptir hina fyrsto ríd, þá flydo Danir med xviii skip, oc heim til Danmerkur. Þá hruduz skip þeirra Sigurdar oc Magnúsar. Enn er miök var hrodit skip Magnúss, lá hann í reckio sinni. Hreidarr Griótgardz-son, er lengi hafdi fylgt hönom, oc verit hird-madr hanns, hann tók Magnús konong í fáng ser, oc villdi hlaupa med hann á annat skip. Þá var Hreidarr skotinn spióti á milli herdanna, oc þar í gegnom; oc

þat sögdo menn, at þar fengi Magnús bana af því eno sama spióti, oc fell Hreidarr á bak aptr á þiliornar, enn Magnús á hann ofan: oc mællti þat hverr madr um, at hann þótti vel oc prúdliga hafa fylgt sínom lávardi oc lánar-drottni; gott er hveriom, er slíkan ordróm getr. Þar fell Lodinn Sauprudr af Línostödom, á skipi Magnúss konongs, oc Brúsi Þórmódarson, stafnbúi Sigurdar Slembi-diákna, oc Ivarr Kolbeinsson, oc Hallvardr Fægir, fyrirrúms-madr Sigurdar Slembis; sá Ivarr geck fyrst inn at Haralldi konongi, oc vann á hönom. Þá fell mikill luti lids þeirra Magnúsar oc Sigurdar, þvíat Inga menn leto eingan undan gánga, þann er þeir mátto ná, þótt her seo nefndir fáir menn. Þeir drápo í einom hólmí meir enn XL manna; þar voro ij Islendskir menn drepnir, Sigurdr prestr son Bergþórs Márssonar, oc annar Clemet son Ara Einarssonar. Enn iij Islendskir menn lifdo eptir; Ivarr Skráut-hánki, son Kálfs inns ránga, er sídan var biskop í Þrándheimi, hann var fadir Eiríks erkibiskups; Ivarr hafdi iafnan fylgt Magnúsi konongi, hann komz á skip Jons Kaudo bródor síns; enn Jon átti Cecilio dóttur Gyrdar Bárdarsonar, oc var þar í lidi Inga konongs oc Sigurdar. Þeir iij komuz á skip Jons; annar Arnbiörn Ambi, er sídan átti dóttur Þorsteins í Audshollti; þridi Ivarr Dynta Starrason, hann var bródir Helga Starrasonar, enn

þrænskr at módor-kyni; var hann hinn vænsti madr. Oc er lids-menn urdo vidvarir þetta, at þeir voro þar, þá gripo þeir til vapna sinna, oc gengo at þeim Joni, enn þeir biöggoz vid, oc var þá vit siálft, at þar myndi alþyda beriaz; enn þat vard at sætt med þeim, at Jon leysti undan Ivar brodor sinn oc Arnbiörn, oc festi fe fyrir þá, enn þat fe var hönom gefit sídan. Enn Ivarr Dynta var leiddr á land upp, oc höggvinn, þvíat þeir Sigurdr oc Gyrdir, Kolbeins synir, villdo eigi taka fe fyrir hann, þvíat þeir kendo hönom, at hann hefdi verit at vígi Beinteins bródor þeirra. Þat sagdi Ivarr biskop, at þat hefdi sva yfir hann lidit, at hönom hafi vest þótt, er Ivarr var leiddr á land upp undir öxi, oc hvarf ádr til þeirra, oc bad þá heila hittaz. Sva sagdi Gudrídr Birgisdóttir, systir Jons erkibiskops, Eiríki Odds-syni, at hon heyrdi Ivarr biskop þetta mæla.

## CAP. XI.

### SIGURDR SLEMBI-DIÁKN HAND-TEKINN.

Þrándr Gialldkeri het madr, er styrdi skipi í lidi Inga konongs. Enn þá var sva komit, at Inga menn röro á smá-bátom milli skipanna, at þeim mönnom er á sundi voro, oc drápo hvern er þeir nádo. Sigurdr Slembir liópp á kaf af skipi síno, þá

er hrodit vàr, oc steypti brynio af ser í kafi, oc svam sídan, oc hafdi skiölld yfir ser. Enn menn nockorir af skipi þrándar tóko á sundi mann einn, oc villdo drepa, enn sá bad sic undan, oc letz mundo segia þeim hvar Sigurdr Slembir var, enn þeir villdo þat. Enn skilldir oc spiót oc menn daudir, oc vapn oc klædi fluto vída á siánom hiá skiponom. Siá munot þer, sagdi hann, hvar flytr einn raudr skiölldr, þar er hann undir. Sídan röro þeir þángat, oc tóko hann, oc flutto upp í skip þrándar. Enn þrándr giördi ord þióstólfi oc Ottari, oc Amunda oc Gyrdi. Sigurdr Slembir hafdi haft á ser elldzvirki, oc var fnióskrinn í valhnotarskurn innan, oc steypt um utan vaxi. því er þessa getit, at þat þótti hugkvæmiligt at búa sva um, at alldregi mætti vætaz. því hafdi hann sciölld yfir ser, er hann svam, at þá vissi eingi, hvart sá skiölldr var eda annar, er margir flutto á sænom. Sva sögdo þeir, at alldregi mundo þeir hitta hann, ef eigi væri þeim sagt til hanns. Enn er þrándr kom til landz med Sigurd, þá var sagt lidsmönnom, at hann var tekinn; þá sló ópi á herinn af fagnadinom. Enn er Sigurdr heyrdi þetta, þá mællti hann: margr vandr madr mun her verda feginn af höfdi míno í dag. þá geck at þióstólfr Alason, þar er hann sat, oc strauk af höfdi hönom silki-húfo hlaudom búna, oc mællti: hví var

þú sva diarfr, þræls-sonrinn, at þú þordir at kallaz son Magnúsar konongs Berfætta? Sigurdr svarar: eigi þarftu at iafna födr mínom vit þræl, þvíat lítills var þinn fadir verdr hiá mínom födr. Hallr son Þórgeirs læknis Steinssonar, hirdmadr Inga konongs, var vitstaddr þessi tídindi; hann sagdi Eiríki Oddssyni, enn hann reit eptir þessa frásögn. Eiríkr reit bók þá, er köllot er Hryggiar-stycki. I þeirri bók er frásagt Haralldi Gilla oc sonom hanns, oc frá Magnúsi Blinda, oc frá Sigurdi Slembi, oc allt um dauda þeirra. Eiríkr var vitr madr, oc var í þenna tíma laungom í Noregi. Suma frásögn ritadi hann eptir fyrirsögn Hákonar Maga, lends-manns þeirra Haralldzsona. Hákon oc synir hanns voro í öllom þessom deilom oc ráda-giördom. Enn nefnir Eiríkr fleiri menn, er hönom sögdo frá þessom tídindom, vitrir oc sannordir, oc voro sva nær, at þeir sá edr heyrdo atburdina; enn sumt ritadi hann eptir siálfs síns heyrn eda syn.

## CAP. XII.

### PÍNING SIGURDAR SLEMBI-DIÁKNA.

Hallr segir sva, at höfdingiar villdo þegar drepa láta Sigurd; enn þeir menn er grimmastir voro, oc þóttoz eiga at reka harma sínna á hönom, redo píslom hanns, oc voro til þess nefndir brædor Bein-

teins, Sigurdr oc Gyrdir Kolbeinssynir, oc Petr Byrdar-sveinn villdi hefna Finns bródur síns. Enn höfdingiar oc flest-allt fólk geck frá. Þeir bruto fótleggi hanns í sundr med öxar-hömrom, oc handleggi. Þá fletto þeir hann af klædom, oc ætludo at flá hann kykvann, oc klufo svörd í höfdi hönom, enn þat mátto þeir eigi göra fyrir blód-rás. Þá tóko þeir svard-svipor, oc bördo hann lengi, sva at vandliga var öll húdin af, sem fleginn væri. Enn sídan scuto þeir stock á hrygginn, sva at sundr geck. Þá drógo þeir hann til tress, oc hengdo, oc hiuggo sídan af hönom höfudit, ok drógo brott sídan höfudit oc líkama hanns, oc reyrdo í hreysi nockuro. Þat er allra manna mál, vina hanns oc úvina, at eingi madr í Noregi hafi betr verit at ser görr um alla luti enn Sigurdr, í þeirra manna minnom, er þá voro uppi, enn ógæfo-madr var hann um suma luti. Sva sagdi Hallr, at hann mællti fátt í pínslonom, oc svaradí fám ordom, oc fám mönnom, þó at ordi orti á hann. Enn þat segir Hallr, at hann bráz alldregi vid, er þeir píndo hann, helldr enn þeir lysti á stock edr stein; enn þat let hann fylgía, at þat mátti vel vera of gódan dreng, þann er vel væri at þreki búinn, at sva mátti standaz píningar, at því at madr helldi munni sínom, eda brigdiz lítt vid. Enn þat sagdi hann, at alldregi brá hann máli sino, oc iafn lett-

mællt væri hönom, sem þá at hann sæti á ölbeck inni; hvarki mællti hann hærra ne lægra, eda skiálfendra, enn sem vandi hanns var til; mællti hann allt til þess er hann andadiz, oc saung hrídom or psalterio, oc letz hönom þat þyckia umfram eliun edr annara manna styrk. Enn prestr sá er þar hafdi kirkio skamt frá, let lík Sigurdar færa þannug til kirkio, sá prestr var vinr þeirra Haralldzsona. Enn er þetta spurdiz, þá köstudo þeir reidi á hann, enn leto aptr flytia líkit þángat sem ádr hafdi verit, oc vard þá prestrinn fe fyrir at giallda. Vinir Sigurdar fóro sídan eptir líkama hanns or Danmörko sunnan med skip, oc færdo til Alaborgar, oc grófo at Mario-kirkio þar í bænom. Sva sagdi Eiríki Ketill profastr, er vardveitti Mario-kirkio, at Sigurdr væri þar grafinn. Þióstolfr Alason let færa lík Magnúsar Blinda til Oslóar, oc grafa at Hallvardz-kirkio hiá Sigurdi konongi födor sínom. Lodinn Sauprud oc Þórleif Bryniolfsson oc Kolbein leto þeir færa til Tunsbergs; enn allt lid annat grofo þeir þar.

## CAP. XIII.

### EYSTEINN HARALLDZ-SON KOM Í NOREG, OC UPPHAF MAGNÚSAR HARALLDZ-SONAR.

Sigurdr oc Ingi konongar höfdo þá rádit VI vetor Noregi; þat vár kom Eysteinn vestan af Scotlandi,

hann var sun Haralldz konongs Gilla. Arni Sturlason oc þórleifr Bryniolfsson, oc Kolbeinn Hrúga höfdo farit vestr um haf eptir Eysteini, oc fylgdo hönom í land, oc helldo þegar med hann nordr til þrándheims; tóko þrændor vit hönom, oc var hann þegar til konongs tekinn á Eyra-þíngi um Gagndaga, sva at hann skylldi hafa þridiúng Noregs vit brædor sína Sigurd oc Inga. þeir Sigurdr oc Ingi voro þá austr í landi, fóro þá menn milli þeirra kononganna, oc sætto þá at því, at Eysteinn skylldi hafva þridiúng ríka. Var því trúat of faderni hanns, er Haralldr kenongr hafdi tilsagt. Biadauk het módir Eysteins konongs, oc kom hon í Noreg med hönom. Magnus het hinn fiórdi sun Haralldz konongs Gilla, hann fóstradi Kyrpinga Ormr; hann var oc til konongs tekinn, oc hafdi sinn fiórda lúta af landi. Magnus var veill at fótom, oc lifdi skamma ríd, oc vard sótt-daudr; hanns getr Einarr Skúlason:

Aud gefr Eysteinn lydom
eykr hialldr Sigurdr skialldar
lætr Ingi slaug syngva
semr Magnús frid bragna.
Fiöl-dyrs hafa fiórir
fólk-tialld komit alldri
rydr bragnings kyn blódi
brædr und sól enn ædri.

## CAP. XIV.

### DRÁP ÓTTARS BIRTINGS.

Eptir fall Haralldz konongs Gilla var Ingirídr Drottning gipt Ottari Birtingi, hann var lendrmadr oc höfdingi mikill, þrændskr at ætt; hann var mikill styrkdar-madr Inga konongi, medan hann var mest í barnæsko. Sigurdr konongr var eigi mikill vin Ottars, oc þótti hann vera allt hallr undir Inga konong. Ottar Birtingr var drepinn nordr í kaupángi, í einvígi um kvelld, er hann geck til aptansaungs. Enn er hann heyrdi hvininn af högg-ino, þá brá hann upp hendi sinni oc styckio í móti högginо, oc hugdi at kastat væri snækecki at hönom, sem títt var úngom sveinom. Ottar fell vit höggít, enn Alfr Raudí son hanns kom þá gángandi í kirkiogardinn; hann sá fall födor síns, oc sva at madr sá, er vegit hafdi födur hanns, lióp austr um kirkiona. Alfr lióp eptir hönom, oc drap hann vit saung-húss hornit, oc mællto menn at hönom hefdi vel tekiz til um hefndina, oc þótti hann myklo meiri madr sídan enn ádr.

## CAP. XV.

### UPPHAF EYSTEINS KONONGS, HARALLDZSONAR.

Eysteinn konongr Haralldsson var þá inn í Þránd-

heimi, er hann spurdi fall Ottars, oc stefndi til sín bónda-lidi, hann fór út til bæiar oc vard allfiölmennr. Enn frændor Ottars oc adrir vinir kendo rádin mest Sigurdi konongi, enn hann var þá í kaupángi, oc voro bændor miök geystir á hendor hönom. Enn konongr baud fyrir sik skírslor, oc festi iárnburd, at sva skylldi sanna mál hanns, oc vard þat at sætt. Fór Sigurdr konongr eptir þat sudr í land, oc urdo þessar skírslor alldregi framfluttar.

## CAP. XVI.

### UPPHAF ORMS KONONGS-BRÓDUR.

Ingirídr drottning gat sun vid Ivari Sneis, er kalladr var Ormr, oc sídan var kalladr konongs-bródir; hann var madr frídr synom, oc giördiz höfdingi mikill, sem enn mun sídar getít verda. Ingirídr drottning var sídan gipt Arna á Stodreimi, hann var sídan kalladr konongs-mágr, oc voro þeirra börn, Ingi, Nicolás, Philippus í Herdslo, oc Margret, er átti Biörn búkr, enn sídan Simun Kárasun.

## CAP. XVII.

### ÚTFERD ERLINGS SKACKA OC RÖGNVALLDZ JARLS.

Erlingr het son Kyrpinga-Orms, oc Ragnhilldar dóttur Sveinka Steinarssonar. Kyrpinga-Ormr var

sun Sveins Sveinssonar, Erlendzsonar or Gerdi. Módir Orms var Ragna, dóttir Orms jarls Eilífssonar oc Sigrídar, dóttur Finnz jarls Arnasunar. Módir Orms Jarls var Ragnhilldr, dóttir Hákonar jarls hinns ríka. Erlingr var vitr madr, oc var vinr mikill Inga konongs, oc med hanns rádi feck Erlingr Christinar, dóttur þeirra Sigurdar konongs Jórsalafara oc Málmfrídar drottningar. Erlingr átti bú á Staudlu á Sunnhörda-landi. Erlingr fór or landi oc med hönom Eindridi Ungi, oc enn fleiri lendir-menn ríkir, oc höfdo frítt lid; þeir biöggoz til Jórsalaferdar, oc fóro vestr um haf til Orkneyia. Þadan fór Raugnvalldr jarl, er Kali var kalladr, oc Vilhiálmr biskop, þeir höfdo allz af Orkneyiom xv lángskip, oc sigldo fyrst til Sudreyia, oc þadan vestr til Vallandz, oc þá leid sídan, er farit hafdi Sigurdr konongr Jorsalafari út til Nörvasunda, oc heriudo vida út um Span heidna. Litlo sídar er þeir höfdo siglt út um sundin, skildiz á brott Eindridí Ungi, oc þeir er hönom fylgdo med VI skipom, oc fóro sídan ser hvarir. Enn Raugnvalldr jarl oc Erlíngr Skacki hitto drómund einn í hafi, oc lögdo til IX skipom, oc bördoz vit þá; enn at lyktom lögdo þeir sneckionom undir drómundinn, báro þá heidnir menn ofan á þá bædi vapn oc griót, oc grytor fullar af vellanda biki oc vidsmiörvi. Erlingr lá síno skípo næst inn undir

drómundinom, oc bar fyrir utan þat skipit vapnaburdinn heidinna manna. Þá hiuggo þeir Erlingr raufar á drómundinom, sumar í kafi nidri, enn sumar uppi á bordonom, sva at þeir gengo þar inn. Sva segir Þórbiörn Skacka-skálld í Erlingsdrápo:

Hiöggo öxar eggiom
ugglaust hvatir glugga
því var nennt á nyio
Nordmenn í kaf bordi.
Eydendor sá ydrar
arnar húngrs á iárnom
vag fylvingi velar
vígskörd ofan bördot.

Audun Raudi het sá madr, stafnbúi Erlíngs, er fyrstr geck upp á drómundinn; þeir unno þá drómundinn oc drápo þar ógrynni manna, oc tóko þar ofa-fe mikit, oc unno þeir frægan sigr. Raugnvalldr jarl oc Erlingr Skacki komo í þeirri ferd til Jórsala-landz, oc allt út til árinnar Jórdanar. Snero þá aptr, oc fyrst til Mikla-gardz, oc leto þar eptir skip sín, oc fóro sunnan landveg, oc helldo þá heilo öllo, þar til er þeir komo í Noreg, oc var þeirra ferd allmiök lofut. Erlingr þótti nú myclo meiri madr enn ádr, hvarvetna af ferd sinni oc kvanfángi síno, sva var hann oc spekíngr at viti, audigr oc ættstórr, málsniallr, oc var mest hallr at allri vinátto til Inga konongs, allra þeirra brædra.

## CAP. XVIII.

### FÆDDR HÁKON HERDA-BREIDR.

Sigurdr konongr fór at veizlom í Vík austr med hird sína, oc reid um bæ þann er ríkr madr átti, er Simun het. Enn er konongr reid gaugnom bæinn, þá heyrdi hann inn í hús nockvot kvédandi sva fagra, at hönom fannz um mikit, oc reid til hússins, oc sá inn, at þar stód kona ein vít kvern, oc kvad vit forkunnar fagurt, er hon mól. Konongr steig af hestinom, oc geck inn til kononnar, oc lagdiz med henni. Enn er konongr fór í brott, þá vard Simun bóndi víss, hvert örindi konongs hafdi þángat verit; enn konan het Þóra, oc var verkakona Simunar bónda. Sídan let Simun vardveita kost hennar; enn eptir þat ól sú kona barn, oc var sá sveinn nefndr Hákon, oc kalladr son Sigurdar konongs; fæddiz Hákon upp med Simuni Þórbergssyni oc Gunnhilldi kono hanns. Þar fædduz oc upp synir þeirra Simunar, Aunundr oc Andreas, oc unnoz þeir Hákon mikit, sva at þá skildi ecki nema hel.

## CAP. XIX.

### FRÁ EYSTEINI OC HÍSINGS-BÚOM.

Eysteinn konongr Haralldzson var staddr austr í Vík nærr landz-enda; hann vard ósáttr vid bændor á Reíni oc Hísingsbúa, giördo þeir safnat at hönom,

enn hann hellt vit þá orrosto, oc hafdi sigr; þar heitir Leikberg, er þeir bördoz; hánn brendi oc miök vída um Hísing. Sídan gengo bændor til handa, oc gulldo konongi stór giölld, enn konongr tók af þeim gísla. Sva segir Einar Skúlason:

Víkveriom gallt
vard þannog hallt
giörrædi gramr
giafmilldr oc framr
Flest fólk vard hrætt
ádr fengi sætt
enn gislar tók
sá er giölldin iók.

Oc enn:

Vann siklingr sótt
vid snarpa drótt
leyfdr er lydom kærr
Leikbergi nærr.
Reinir flydo ríkt
oc reiddo slíkt
aulld festi aud
sem audlingr baud

## CAP. XX.

## HER-FERD EYSTEINS KONONGS HARALLDZSONAR.

Litlo sídarr byriadi Eysteinn konongr ferd sína or landi vestr um haf, oc sigldi þá fyrst til Kataness,

hánn

hann spurdi þá til Haralldz jarls Maddadar-sonar í þórs-á, hann lagdi þannug til med þriár smá-scútor, oc kom á þá óvara. Enn jarl hafdi haft þrítögt skip, oc á nærr LXXX manna. Enn er þeir voro óbúnir vid, þá fengo þeir Eysteinn konongr þegar uppgöngo á skipit, oc tóko jarl höndom, oc höfdo med ser á skip; hann leysti sik út med iij mörkom gullz, oc skillduz þeir at sva búno. Sva segir Einarr Skúlason:

Voro sogns med sára
syni Maddadar staddir
má-grennir fremzc manna
máttigr tigir átta.
þrimur skútom tók þreytir
þann jarl drasils hranna
hraustr gaf hræ-skúfs nistir
haufut sitt fraumom iöfri.

þadan sigldi Eysteinn konongr sudr fyrir austan Skotland, oc lagdi til kaupstadar þess á Skotlandi, er Apardion heitir, oc drap þar mart manna, enn rænti stadinn. Sva segir Einarr Skúlason:

Frett hefir ec at fell
fólk brusto svell
iöfurr eyddi frid
Apardionar lid.

Adra orrosto átti hann sudr vid Hiartapoll vid riddara-lid, oc kom þeim á flótta, oc hraud þar skip nockor. Sva segir Einarr:

Beit budlúngs hiörr
blód fell á dörr
hird fylgdiz holl
vid Hiartapoll.
Huginn gladdi heit
hruduz Engla beit
óx vitnis vín
um val kasta rín.

Þá hellt hann enn sudr á England, oc átti þar hina iij orrosto vid Hvítabæ, oc feck sigr, enn brendi bæinn. Sva segir Einarr:

Jók hilmir hialldr
þar var hiörva galldr
hiósk hilldar sky
vid Hvítaby.
Ríkt lek vid rann
raudz ylgiar tann
fekz fyrdom harmr
fyri skóga garmr.

Eptir þat heriadi hann vída um England, enn þá var Stefnir konongr á Englandi; þar næst átti Eysteinn konongr orrosto vit Skarpa-sker vit riddara nockora. Sva segir Einarr:

Drap döglíngr gegn
dreif strengiar regn
vid Skörpo-sker
skialld-kænan her.

Þar næst bardiz hann vid Pilavík, oc feck sigr. Sva segir Einarr:

Raud siklíngr sverd
sleit gylldis ferd
prútt Parta lík
í Pilavík.
Vann vísir allt
fyri vestan sallt
brandr gall vit brún
brent Lángatún.

Þar brendo þeir Lángatún, mikit þorp, oc segia menn at sá býr hafi fengit litla uppreist sídan. Eptir þat fór Eysteinn konongr brott af Englandi um haustit, oc aptr til Noregs, oc ræddo menn of þessa ferd allmisiafnt.

## CAP. XXI.

### FRÁ HARALLDZ-SONOM.

Fridr gódr var í Noregi aundverda daga suna Haralldz konongs, oc var þeirra samþycki til nockorrar hlítar, medan hit forna rádoneyti þeirra lifdi. Enn þeir Ingi oc Sigurdr voro bernskir, oc höfdo þeir þá eina hird bádir, enn Eisteinn einn ser, var hann madr fullroskinn at alldri. Enn er andat var rádoneyti þeirra Inga oc Sigurdar, Sáda-Gyrdir Bárdarson, Amundi Gyrdarson, Þióstólfr Alason, Ottar Birtíngr, Augmundr Sviptir, oc Augmundr Drengr, bródir Erlíngs Skacka, (lítills þótti vert um Erling medan Augmundr lifdi), skilldo þeir hird sína Ingi

konongr, oc Sigurdr konongr. Redz þá til fulltíngs vid Inga konong Gregorius, son Dags Eilífssonar oc Ragnhilldar, dóttur Scopta Augmundarsonar. Gregorius hafdi aud fiár, oc var siálfr skörúngr hinn mesti. Giördiz hann forstióri fyrir landrádom med Inga konongi, enn Ingi konongr veitti hönom at taka af sinni eigo, slíkt er Gregorius villdi.

## CAP. XXII.

## FRÁ HÁTTALAGI HARALLDZSONA.

Sigurdr konongr giördiz ofstopa-madr mikill, oc óeirinn um alla luti, þegar er hann óx upp, sva voro þeir Eysteinn konongr bádir, oc var þat þó nockoro nær sanni, þar sem Eysteinn var. Sigurdr konongr giördiz mikill madr oc sterkr, vaskligr madr synom, iarpr á hár, munn-liótr, enn vel at ödrom andlits-sköpom, allra manna var hann sniallastr í máli, oc giörvastr at ser. Þess getr Einarr Skúlason:

Snilld berr snarpa ellda
sár-flóds þars rydr blódi
gefit hefir Gud siálfr iöfri
gagn Sigurdr magni.
Sva es þá Rauma ræsir
reid-ordr taulor greidir
rausn vidr gramr sem gumnar
glad-mælltr þegi adrir.

Eysteinn konongr var madr svartr oc döcklitadr, helldr hárr medal-madr, vitr madr oc skynsamr. Enn þat dró mest ríki undan hönom, er hann var sínkr oc fegiarn. Hann átti Rögno, dóttor Nicoláss Masa. Ingi konongr var þeirra mun frídastr í andliti, hann hafdi gult hár, oc helldr þunt, oc hröck miök; lítill var uppvöxtr hanns, oc traudliga mátti hann gánga einn saman, sva var visinn annar fótrinn, enn knyttr var hann á herdom oc á bríngo. Hann var blídmælltr oc dæll vinom sínom, aurr af fe, oc let miök höfdingia ráda med ser landrádom. Hann var vinsæll vid alþydo, oc dró þat allt saman miök ríki undir hann oc fiölmenni. Brigida het dóttir Haralldz konongs Gilla, hon var fyrst gipt Inga Hallsteinssyni Svía konongi, enn sídan Karli jarli Sónasyni í Gautlandi, enn þá Magnúsi Svía konongi; þau Ingi konongr Haralldzson voro sam-mædra. Sídast átti Brigido Birgir jarl Brosa; þau átto iiij sono, einn var Philippus jarl, annar Knútr jarl, þridi Folki, fiórdi Magnúss. Dætor þeirra: Ingigerdr, er átti Sörkvir Svía konongr, þeirra son var Jón konongr; Christín het önnor, þridia Margret. Maria het önnur dóttir Haralldz konongs Gilla, hana átti Símun Skálpr, son Hallkells Húks, Nicolás het son þeirra. Margret het hin þridia dóttir Haralldz konongs Gilla, hana átti Jon Hallkellsson, bródir Símunar. Nù giördiz mart

í med þeim brædrom, þess er til sundr-þyckis var, enn ec mun þó hins eins geta, er mer þickir mestom tídindom sætt hafa.

## CAP. XXIII.

## NICOLÁS CARDINALI KOM TIL LANDZ.

Nicolás Cardinali af Rómaborg kom í Noreg á dögom þeirra Haralldzsona, oc hafdi pávinn hann sendan í Noreg. Cardinalinn hafdi reidi mikla á þeim brædrom, Sigurdi konongi oc Eysteini, oc urdo þeir at gánga til sættir vid hann; enn hann var afarvel sáttr vid Inga konong, oc kalladi hann son sinn. Enn er þeir voro allir sáttir vid hann, veitti hann þeim at vígia Jón Birgisson til Erkibiskups í Þrándheimi, oc feck hönom klædi þat, er pallium heitir, oc mælti sva, at Erkibiskops stóll skylldi vera í Nidarósi at Kristz-kirkio, þar er Olafr konongr hinn helgi hvílir. Enn ádr höfdo lyd-biskopar einir verit í Noregi. Cardinalinn skipadi oc, at eingi madr skylldi bera vapn i kaupstödom at úsekio, nema XII menn, er fylgdir helldo med konongi. Hann bætti oc mörgo sido Noregs-manna, medan hann var í landi. Eingi hefir sá madr komit í Noreg útlendr, at allir menn metti iam-mikills, eda iam-miklo mætti ráda vid alþydo sem hann. Hann fór sudr sídan med miklar vingiafir, oc letz iafnan

mundo vera sídan enn mesti vinr Nordmanna. Enn er hann kom sudr til Rómaborgar, þá andadiz brádliga þar pávi sá, er ádr hafdi verit, enn allr Rómaborgar lydr villdi taka Nicolaum Cardinala til páva. Þá var hann vígdr til Páva, med nafni Adrianus; oc sva sögdo þeir menn, er of hanns daga komo til Rómaborgar, at alldrigi átti hann sva skyllt erindi at tala vid adra menn, at eigi mællti hann vid Nordmenn fyrst, ávallt er þeir villdo ná máli hanns. Var hann eigi lengi pávi, oc er hann nú kalladr madr heilagr.

## CAP. XXIV.

### JARTEGNIR OLAFS KONONGS *).

Á dögom þeirra sona Haralldz Gilla, vard sá atburdr, at madr sá, er Halldór er nefndr, vard

---

*) Duo, qvæ seqnuntur, capita, & pleraqve alia similis argumenti, omnibus *Heimskringlæ* Codd. & chartaceis & membraneis ignota, soli debentur Editioni Peringskiöldianæ. A *Snorrio* non esse profecta, & res & verba loquntur. Palam est, Peringskiöldium, cum suam Editionem moliretur, ad manns habuisse *Codicis Flateyensis* exemplar, exqve ingenti illo, qvem hujus libri auctor, a *Sturlæsonio* certe diversissimus, habet, miraculorum *Olafi* Regis catalogo, in festis hujus Sancti recitari forte solito, hæc mutuatum, miraculorum istas narrationes, in sua

fyrir Vindum, oc tóko þeir hann oc veitto hönom meidzlor, skáro kverkarnar oc drógo þar út túngona, oc skáro af í túngo-rótunom. Sídan sókti hann til hinns helga Olafs konongs, rendi huganom fastliga til hinns helga manns, oc bad miök grátandi Olaf konong liá ser máls oc heilso. Því næst feck hann mál oc miskun af þeim góda konongí, giördiz þegar hanns þiónusto-madr um alla sína lífdaga, oc vard dyrdligr madr oc trúfastr. Þessi iarteikn vard hálfom mánadi fyrir Olafs-messo ena sídari, á þeim degi, er Nicolás Cardinal vard landfastr í Noregi.

## CAP. XXV.

### JARTEGNIR ÓLAFS KONONGS VID RÍKARD PREST.

Brædor tveir voro á Upplöndom, kynstórir menn oc fiádir vel, synir Guttorms Grábardz, Einar oc Andres, mödur-brædor Sigurdar konongs Haralldzsonar, átto þar eignir oc ódul stór. Systur átto þeir, frída helldr at yfirsyn, enn eigi þó til forsiála vit vandra manna ordi, sem sídan reyndiz; hafdi

---

tempora digestas, historiæ opportunis locis inseruisse. Cujus consilium secutus est *Schöningius*, neqvid in hac Editione, qvod Snorrianò operi uspiam attextum, lector desideraret. Id qvod semel hic monuisse suffecerit.

hon blídlæti mikit vid prest einn Enskan, er Ríkardr het, er þar var heimilis-vistom med brædrom hennar, oc giördi hon hönom mart í villd, oc opt mikit gagn, fyrir sakir gódvilia. Þat bar eigi betr at, enn um kono þá fór oc flaug ferligt ord; sídan er þat var á málreid komit, þá hugdo þat allir menn á hendor prestinom, oc sva brædor hennar, þegar er þeir urdo þess varir, þá leto þeir hann líkligastan til fyrir alþydo. I þeirri miklo blído, er þeirra var á medal, var þeim sídan mikill ófarnadr, sem eigi var örvænt, er þeir brædor þögdo um leyndri væl, oc leto eigi á ser finna. Enn um dag nockorn kölludo þeir prestinn til sín, enn hann vardi einskis af þeim nema góds eins, teygdo hann heiman med ser, oc sögduz fara ætla í annat herat, oc sysla þar nockot þat er þeir þurfto, oc bádo hann fylgia ser. Þeir höfdo med ser heima-mann sínn, er vissi þessi rád med þeim. Fóro þeir á skipi eptir vatni því er Rönd heitir, oc framm med vatns-ströndinni, oc lendo vit nes þat, er Skiptisandr het; þeir gengo þar á land upp, oc leko stund nockra. Þá fóro þeir í nockorn leyndan stad, oc bádo verkmanninn liósta hann öxarhamarshöggi; hann sló prest, sva at hann lá í svíma; enn er hann vitkadiz, mællti hann: hví skal nú sva hart vit mik leika. Þeir svörodo; þótt eingi segdi þer, þá skaltu nú finna, hvat þú hefir giört; báro

sídan sakir á hendur hönom; hann syniadi oc mællti, bad Gud skipta á milli þeirra, oc hinn heilaga Olaf konong. Sídan bruto þeir sundr fót-leggi hanns; þá drógo þeir hann milli sín til skógar, oc bundo hendur hanns á bak aptr. Sídan laugdo þeir streng at höfdi hönom, oc þilio undir herdar oc höfudit, oc setto í sneril, oc snero at strenginn. Þá tók Einar ellri hæl, oc setti á auga prestz, oc þión hanns stód yfir, oc laust á med öxi, oc hleypti út augano, sva þegar stöck nidr á kampinn. Enn þá setti hann hælinn á annat augat, oc mællti vit þióninn: lióstо mun kyrrara; hann giördi sva, þá skautz hællinn af auga-steininom, oc sleit frá hönom hvarminn. Sídan tók Einar hvarminn med hendi sinni, oc hellt af upp, oc sá at auga-steinninn var þar. Þá setti hann hælinn vit kinnina út, enn þióninn laust þá, oc sprack auga-steinninn á kinnarbeinit nidr, þar er þat var hædst. Sídan opnudo þeir munn hanns, oc tóko túnguna, drógo út oc skáro af, enn sídan leysto þeir hendur hanns oc haufut. Þegar er hann vitkadiz, þá vard hönom þat fyrir, at hann lagdí augasteinana upp vit brárnar í stad sinn, oc hellt hann þar vit bádom höndom sem hann mátti. Enn þá báro þeir hann til skips, oc fóro til bæiar þess, er heitir á Sæheimrod, oc lendo þar. Þeir sendo mann til bæiarins at segia, at prestr lá þar á skipi vid ströndo.

Medan sá madr var uppfarinn, er sendr var, þá spurdo þeir, ef prestr mætti mæla, enn hann bladradi túngonni, oc villdi vitleita at mæla. Þá mællti Einar vit bródor sinn: ef hann rettiz vit, oc grær fyrir túngo-stúfinn, þá kemr mer þat í hug, at hann muni mæla. Sídan klipto þeir túngo-stúfinn med taung, oc togudo, oc skáro tvisvar þadan frá, oc í túngo-rótunom hit þridia sinn, oc leto hann þar liggia hálf-daudan. Húsfreyia þar á bænom var fátæk, enn þó fór hon þegar, oc dóttir hennar med henni, oc báro hann heim til húss í mötlom sínom. Sídan fóro þær eptir presti, enn er hann kom þángat, þá batt hann sár hanns öll, oc leitodo þau hönom hæginda, slíkra hvörra þau mátto. Hann lá hinn sári prestr aumliga búinn, vilnadiz iafnan Guds nádar, oc tortrygdi þat ecki, bad Gud mállaus med hugrenningo oc sútfullo hiarta, því öllo traustara, er hann var siúkari, oc rendi huganom til þess millda konongs, Olafs hinns helga, Guds dyrdlings, oc hafdi hann ádr heyrt mart sagt af hanns dyrdar-verkom, oc trúdi því öllo hvatara á hann af öllo hiarta til allrar hiálpar í sínom naudom. Enn er hann lá þar lami, oc öllo megni numinn, þá gret hann sárliga oc stundi, oc bad med sáro brióstí þann dyrliga Olaf konong duga ser. Enn epter midia nótt þá sofnadi prestr hinn sári, þá þóttiz hann siá mann göfugligan koma til

sín, oc mæla vit sik: illa ertu nú leikinn, Ríkardr felagi; se ec nú at eigi er máttrinn mikill. Hann þóttiz sanna þat. Þá mællti sá oc vit hann: miskunar ertu þurfi. Prestr svarar: ec þyrfti miskunar almáttugs Guds, oc hinns heilaga Olafs konongs. Hann svarar: þú skalt hafa; oc því næst tók hann túngo-stúfinn, oc heimti sva hart, at prestinom vard sárt vit. Því næst strauk hann hendi sinni um augo hönom, oc um bein, sva um adra limí er sárir voro. Þá spurdi prestrinn, hver þar væri? hann leit vit hönom oc mællti: Olafr er her nordan or Þrándheimi; enn sídan hvarf hann í brott; enn prestrinn vaknadi alheill, oc þegar tók hann at mæla: sæll em ec nú, sagdi hann; almáttkom Gudi se þöck, oc hinom heilaga Olafi konongi, hann hefir græddan mic. Enn sva hörmuliga sem hann var ádr leikinn, sva brádar bætor feck hann allrar þeirrar óhamíngio, oc sva þótti hönom, sem hann hefdi ordit hvarki sár ne siúkr; túngan heil, augun bædi í lag komin, med biörtom skygnleik, beinbrotin oc öll önnor sár gróin edr verklaus, fengit ena besto heilso. Enn til iartegna var, at augo hanns höfdo verit útstúngin, þá greri ör hvítt á hvarmi hvöro-tveggia, til þess at siá mætti dyrdir þess hinns gaufga konongs, á þeim manni, er sva var aumliga búinn.

## CAP. XXVI.

## INGI KONONGR OC SIGURDR KONONGR ÁTTO ÞÍNG Í HÓLMI.

Eysteinn oc Sigurdr konongr höfdo ordit ósáttir fyrir þá sök, at Sigurdr konongr hafdi vegit hirdmenn Eysteins konongs, Haralld ínn Víkverska, er hús átti í Biörgvin, oc annan Jóan prest Tabardzson, oc Biarna Sigurdarson; oc fyrir þá sök lögdo þeir med ser sættar-stefno um vetrinn á Upplöndom. Þeir sáto lengi ij á tali. Enn þat kom upp af hiali þeirra, at þeir skylldo hittaz í Biörgun allir brædor eptir um sumarit. Þat fylgdi því máli, at þeir villdo at Ingi konongr hefdi bú ij eda iij, oc sva mikil önnor audæfi, at hann mætti hallda þriátigi manna med ser; oc letz hann eigi þickia hafa heilso til, at vera konongr. Ingi konongr oc Gregorius spurdo þessi tídindi, oc fóro til Biörgyniar, oc fiölmento miök. Sigurdr konongr kom þar litlo sídar, oc hafdí hann lid syno minna. Þá höfdo þeir Sigurdr oc Ingi verit XIX vetr konongar yfir Noregi. Eysteinn konongr var seinni austan or Víkinni, enn þeir nordan. Þá let Ingi konongr blása til þíngs út í hólmi, oc koma þeir þar Sigurdr oc Ingi, oc fiölmenna mikit. Gregorius hafdi ij lángskip, oc vel nió-tigo manna, er hann feck allar vistir; hann hellt betr húskarla sína, enn adrir

lendir-menn, þvíat hann drack alldri sva í scytningom, at eigi drycki húskarlar hanns allir med hönom. Hann geck med hiálm gulldrodinn á þíngit, oc allt lid hanns var hiálmat. Ingi konongr stód upp, oc sagdi mönnom frá, hvat hann hafdi spurt, hvernog brædor hanns villdo vit hann scipta oc setia hann af ríki, oc bad ser lids. Enn alþyda manna gördo gódan róm at máli hanns, oc qvádoz hönom vilia fylgia.

## CAP. XXVII.

## FRÁ GREGORIUS DAGS-SYNI.

Þá stód upp Sigurdr konongr, oc taladi: taldi þat ósatt, er Ingi konongr kendi hönom oc þeim, kvad Gregorius slíkt uppsetia, oc kvad eigi skylldo lángt til, at sá skylldi fundr þeirra verda, ef hann mætti ráda, at hann mundi steipa hiálminom þeim hinom gull-rodna, oc lauk sva síno máli, at hann kvad þá eigi lengi skylldo báda lifa. Gregorius svarar: kvedz þat ætla, at hann þyrfti lítt at fysaz þess, oc letz vit því búinn vera. Fám dögom sídarr var veginn húss-karl Gregoriuss úti á stræti, oc vá húss-karl Sigurdar konongs. Þá villdi Gregorius gánga at þeim Sigurdi konongi, enn Ingi konongr latti, oc mart annara. Enn eitt kvölld, er Ingirídr drottning, módir Inga konongs, geck frá aptan-saung,

kom hon at, þar er þá var höggvinn Sigurdr Skrúdhyrna, hann var hirdmadr Inga konongs, oc var þá gamall, oc hafdi mörgom konongom á hendi verit; enn þeir höfdo vegit hann hirdmenn Sigurdar konongs, Hallvardr Gunnarsson oc Sigurdr, son Eysteins Trapala, oc kendo menn rádin Sigurdi konongi. Þá geck hon þegar á fund Inga konongs, oc sagdi hönom, oc kvad hann lengi mundi lítinn konong, af hann villdi eigi atfæraz, þótt hirdmenn hanns væri drepnir, annar at ödrom, sva sem svín. Konongrinn reiddiz vid átölor hennar; oc er þau hnipdoz vid, þá kom Gregorius inn gángandi hiálmadr oc bryniadr, oc bad konong eigi reidaz, kvad hana satt mæla; enn ec em her kominn til lids vid þic, sagdi hann, ef þú villt veita Sigurdi konongi atgöngo, oc er her meir enn c manna hiálmadir oc bryniadir, oc munom ver þadan at þeim sækia, er ödrom þickir verst. Enn flestir lötto, oc kvádo Sigurd konong mundo bæta vilia óhapp sitt. Enn er Gregorius sá, at leitaz mundi atförin, þá mællti hann vid Inga konong þannin: Sva bledia þeir af þer mennina, drápo fyrst minn húss-karl fyrir skömmo, enn nú hirdmann þinn, enn sídan muno þeir vilia veida mik, eda annan lendan-mann þann, er þeim þickir þer mest afnám í vera, er þeir siá at þú færiz eigi at, enn taka þic sídan af konongdóminom, eptir þat

er vinir þínir ero drepnir. Nú hverngan veg sem adrir lendir-menn þínir vilia, þá vil ec eigi bída lengr, sem naut höggsins, oc skulom vit Sigurdr konongr kaupa saman þessa nótt, at því kaupi sem þá má verda; er þat bædi at þú ert lítt at tekinn, fyrir sakir vanheilso þinnar, enda ætla ec lítinn viliann til at hallda vini þína. Enn ec em nú albúinn at gánga til fundar vid Sigurd konong hedan, þvíat her er merki mitt úti í gardinom. Ingi konongr stód þá upp, oc kalladi til vapna sinna, oc bad þá hvern mann búaz, er hönom villdi fylgia, oc kvad þá eigi tióa at letia sik; letz lengi hafa undan eirt, let þá mundo verda at sverfa til stáls med þeim.

## CAP. XXVIII.

### FALL SIGURDAR KONONGS.

Sigurdr konongr drack í gardi Sigrídar Sætu, oc bióz vid, oc ætludo menn at eigi mundi verda af atgaungonni. Þá geck Ingi konongr at gardinom med lid sitt ofan frá Smidabúdom, Arni konongsmágr utan frá Sandbrú, Aslákr Erlendzson or gardi sínom, enn Gregorius af strætino, oc þótti öllom þadan verst. Þeir Sigurdr konongr scuto miöc or lopta-gluggom, oc bruto ofna, oc báro griótit á þá. Þeir Grigorius híuggo upp gardzhlidit, oc fell þar

Einarr,

Einarr, son Laxa-Páls, í hlidino af lidi Sigurdar konongs, oc Hallvardr Gunnars-son, hann var scotinn í lopt inn, oc harmadi hann eingi madr. Þeir hiöggo húsin, oc geck lidit miök af hendi Sigurdi konongi oc til grida. Þá geck Sigurdr konongr á lopt eitt, oc villdi beida ser hlióds, enn hann hafdi gullrodinn skiölld, oc kendo menn hann, oc villdo þeir eigi hlyda hönom, enn scuto at hönom sva þyckt, sem í drífo sæi, oc mátti hann eigi þar vera. Enn þá er lidit var gengit af hendi hönom, oc menn hiöggo húsin miök, þá geck hann út þadan, oc Þórdr Húsfreyia med hönom, hirdmadr hanns, Víkverskr madr, oc villdo þannug sem Ingi konongr var fyrir, oc kalladi Sigurdr á Inga konong bródor sinn, at hann selldi hönom grid; enn þeir váro þegar höggnir bádir, oc fell Þórdr Húsfreyia þar med ordlofi miklo. Sigurdr konongr var iárdardr at Kristz-kirkio hinni forno í hólmi úti. Ingi konongr gaf Gregorius skip þat, er Sigurdr konongr hafdi átt. Þar fell mart manna, þótt ec nefni fá, af lidi Sigurdar konongs, oc sva af Inga konongs lidi; enn iiij menn af Gregoriuss lidi, oc sva af þeim er med hvarigom váro, oc urdo þeir fyrir scotom á bryggiom nidri, eda á scipom úti. Þeir bördoz XIV nóttom fyrir Jóansmesso-dag baptistæ, enn þat var friádagr. Enn ij nóttom eda

iij sídarr, kom Eysteinn konongr austan med xxx skipa, oc hafdi þar Hákon, son Sigurdar konongs, bródor-son sinn í för med ser. Eysteinn fór eigi til bæiarins, oc lá í Flórovagom, enn menn fóro medal, oc villdo sætta þá; enn Gregorius villdi at þeir færi út at þeim, oc kvad eigi sídarr betra mundi, kvadz hann mundi vera höfdíngi fyrir; enn þú konongr far eigi; scortir oss nú eigi lid til. Enn margir lötto, oc tókz af því eigi förin. Enn Eysteinn konongr fór austr aptr í Víkina, enn Ingi konongr nordr í Þrándheim; oc voro þeir þá sáttir at kalla, oc hittuz þó eigi siálfir.

## CAP. XXIX.

## FRÁ GREGORIUS DAGS-SYNI.

Gregorius Dagssón fór austr litlo sídarr enn Eysteinn konongr, oc var uppi á Höfundi at Brattzbergi, at búi síno, enn Eysteinn konongr var inni í Oslo, oc let draga scip sín meir enn ij vikur sævar at ísi, þvíat ís-lög voro mikil í Víkinni. Eysteinn konongr fór upp á Höfund, oc villdi taka Gregorius, enn hann vard varr vit, oc fór undan upp á Þelamörk med níotygi manna, oc þadan nordr um fiall, oc kom ofan í Hardángri, oc fór sídan í Edni til Stodlo til búss Erlíngs Skacka, enn hann var farinn nordr til Biörgyniar, enn Kristín kona

hanns, dóttir Sigurdar konongs, var heima, oc baud Gregorius slíkt allt, er hann villdi hafa þadan, oc feck Gregorius þar gódar vidtökor. Hann hafdi þadan á braut lángscip er Erlingr átti, oc allt þat er hann þurfti. Gregorius þackadi henni vel, oc let henni hafa ordit stórmannliga, sem von var at. Gregorius fór þá til Biörgyniar, oc funduz þeir Erlingr, oc þótti hönom Kristín vel hafa giört.

## CAP. XXX.

### SÆTT INGA KONONGS OC EYSTEINS KONONGS.

Sidan fór Gregorius Dagsson nordr til Þrándheims, oc kom þar fyrir Jól. Ingi konongr vard hönom inn fegnasti, oc bad hann hafa slíkt allt af sinni eign, er hann villdi. Eysteinn konongr brendi bæ Gregoriuss, oc hió bú hanns; enn naust þau er Eysteinn konongr hinn ellri hafdi göra látit nordr í Kaupángi, er mestar gersimar voro, þá voro brend um vetrinn oc skip góð med, er Ingi konongr átti, oc var þat verk it óvinsælsta, enn rádin voro kend Eysteini konongi, oc Philippus Gyrdarsyni, fóstbródor Sigurdar konongs. Um sumarit eptir fór Ingi konongr nordan, oc gördiz sem fiölmennastr, enn Eysteinn konongr sunnan, oc safnadi hann ser lidi. Þeir hittoz austr í Seleyiom, fyrir norda

Lídandi, oc var Ingi konongr miklo fiölmennari; var þá vit siálft, at þeir mundi beriaz. Enn þeir sættuz þó, oc vard þat at sætt, at Eysteinn konongr festi at giallda hálfan fimta tug marka gullz; enn Ingi skylldi hafa xxx marka, fyrir þat er Eysteinn konongr hafdi rádit skipa brennonni, oc sva naustanna; enda skylldi Philippus vera útlægr, oc sva þeir allir er at brennonni höfdo verit; þeir menn skylldo oc vera útlægir, er sannír urdo at áverkom vit Sigurd konong, þvíat Eysteinn konongr kendi þat Inga konongi, at hann helldi þá menn; enn Gregorius skylldi hafa xv merkor gullz fyrir þat er Eysteinn konongr brendi fyrir hönom. Eysteini konongi líkadi illa, oc þótti nauda-sætt vera. Ingi konongr fór austr í Vík fra stefnonni, enn Eysteinn konongr nordr í Þrándheim. Sídan var Ingi konongr í Víkinni, enn Eysteinn konongr nordr, oc hittuz þeir eigi; enn þau ein fóro ord milli þeirra, er eigi voro miök sáttgiarnlig; oc sva let hvartveggi drepa vini annars, enn Eysteinn konongr gallt eigi feit; kendi oc þat hvarr ödrom at eigi efndi þat er mællt var. Þeir Ingi konongr oc Gregorius spaundo miök lid undan Eysteini konongi; voru í því lidi Bárdi Standali Bryniólfsson, oc Simun Scálpr, son Hallkels Húks, Halldor Bryniólfsson, oc Jóan Hallkelsson, oc mart annara lendramanna, þótt eigi nefnom ver.

## CAP. XXXI.

### FRÁ INGA KONONGI OC EYSTEINI.

Þá er lidnir voro ij vetr frá falli Sigurdar konongs, drógo bádir konongar her saman; Ingi konongr austan or landi, oc feck hann átta-tigi scipa, enn Eysteinn konongr nordan, oc feck hann hálfan fimta tög skipa. Þá hafdi hann dreka hinn mikla, er Eysteinn konongr Magnússon hafdi giöra látit eptir orminom lánga, oc höfdo þeir allfrídt lid oc mikit. Ingi konongr lá skipom sínom sudr vid Mostr, enn Eysteinn konongr litlo nordarr í Græninga-sundi. Eysteinn konongr sendi sudr til móts vid Inga kon-ong Aslák únga Jónsson, oc Arna Sturluson Snæbiarnarsonar; þeir höfdo eitt skip. Enn er Ingamenn kendo þá, lögdo þeir at þeim, oc drápo mart manna af þeim, tóko skipit oc allt þat er á var, oc hvert fat þeirra. Enn þeir Aslákr oc Arni, oc nockorir menn med þeim, komoz undan á land upp, oc fóro til fundar vit Eystein konong, oc sögdo hönom hvernog Ingi konongr hafdi fagnat þeim. Eysteinn konongr hafdi þá hús-þíng, oc sagdi mönnom hvern ófrid þeir Ingi konongr gördo mönnom hanns, oc bad lids-menn ser fylgia, oc höfom ver lid sva mikit oc frítt, at ec vil hvergi undan flyia, ef þer vilit fylgia mer. Enn eingi vard rómr at máli hanns. Hallkell Húkr var þar,

enn synir hanns bádir med Inga konongi Simun oc Jon. Hallkell svarar, sva at miök margir menn mátto heyra: fylgi gullkistor þínar þer nú, oc veri land þitt.

## CAP. XXXII.

### DRÁP EYSTEINS KONONGS.

Um nóttina eptir röro þeir á brot mórgom scipom á laun, sumir til lags vid Inga konong, enn sumir til Biörgyniar, enn sumir í fiördo ínn. Enn at morni er lióst var, þá var konongr x scipom einom eptir; þá let hann þar eptir drekann mikla, þvíat hann var þúngr undir árom, oc fleiri scipin leto þeir eptir, hiuggo drekann miök, oc sva hiuggo þeir nidr munngát sitt, oc allt þat er þeir mátto eigi med ser hafa, þá spillto þeir. Eysteinn konongr geck á skip Eindrida Jóanssonar Mörnefs, oc fóro þeir nordr, oc inn í Sogn, oc þadan it efra austr í Vík. Ingi konongr tók skipin, oc fór med austr it ytra í Víkina. Eysteinn konongr var þá fyrir austan Folld, oc hafdi nær xij hundrut manna. Þá sá þeir skipa-lid Inga konongs, oc þóttos þeir eigi lid hafa til vidtöko, oc hleypdo á scóg undan; þá flydi á sinn veg hverr, sva at konongr vard vit annan mann. Þeir Ingi konongr urdo þá varir vid farar Eysteins konongs, oc sva þat at hann var fámennr; þeir fóro þá at leita. Simun Scálpr hitti

konong, er hann geck undan hrísrunni einom at þeim. Simun heilsadi hönom: heill lávardr, sagdi hann. Konongr sagdi: vetka ec nema þú þickiz nú minn lávardr. Simun mællti: þat er nú sem göriz. Konongr bad at hann skylldi hönom undansciota, kvad hönom þat byria, þvíat lengi hefir med ockr vel verit, þó at nú se annan veg. Simun kvad þá eigi myndo or því verda. Konongr bad þá, at hann skylldi hlyda messo ádr, oc sva var gört. Sídan lagdiz Eysteinn konongr nidr á grúfo, oc breiddi hendornar frá ser út, oc bad sik höggva í kross medal herdanna, kvad þá skylldo reyna, hvert hann mundi þola iárn edr eigi, sem þeir höfdo sagt lags-menn Inga konongs. Simun mællti vid þann er höggva skylldi konunginn, bad hann tilráda, kvad konong hellzt ílengi þar hafa kropit um lyng; var hann þá höggvinn, oc þótti verda vid prydiliga. Lík hanns var flutt til Fors, enn fyrir sunnan kirkio undir breckunni var lík hanns náttsett. Eysteinn konongr var iardadr at Fors-kirkio, oc er leg hanns á midio kirkiogólfi, oc breidt yfir kaugr, oc kalla menn hann helgan. Þar sem hann var höggvinn, oc blód hanns kom á iörd, spratt upp brunnr, enn annar þar undir breckonni, er lík hanns var náttsett. Af hvarotveggia því vatni þickiaz margir menn bót fá oc hafa fengit meina sinna. Þat er sögn Víkveria, at margar iártegnir

yrdi at leidi Eysteins konongs, ádr óvinir hanns steypti á leidit hunds sodi. Simun Scálpr var it mesta óþockadr af verki þesso, oc var þat alþydomál; enn sumir sögdo, at þá er Eysteinn konongr var handtekinn, at Simun sendi mann til fundar vit Inga konong, enn konongr bad Eystein eigi koma í augsyn ser. Sva hefir Sverrir konongr rita látit, enn þannig segir Einarr Skúlason:

Mun sá er mordi vandiz
margillr oc sveik stilli
síd af slíkom rádom
Simun Scálpr of hiálpaz.

---

XV.

# SAGAN AF HÁKONI HERDA-BREID.

## CAP. I.

### UPPHAF HÁKONAR HERDA-BREIDS.

Hákon, sun Sigurdar konongs, var tekin til höfdingia yfir flock þann, er ádr hafdi fylgt Eysteini konongi, oc gáfo flocks-menn hönom konongs-nafn; þá var hann x vetra. Þar voro þá med hönom Sigurdr, sun Hávardz Haulldz af Reyri, oc þeir

Andres oc Aunundr, fóstbrædor Hákonar konongs, Simunar synir, oc mart annarra höfdingia oc vina Eysteins konongs oc Sigurdar konongs. Þeir fóro fyrst upp á Gautland. Ingi konongr kastadi sinni eign á þat allt er þeir átto eptir í Noregi, oc gördi þá útlaga. Ingi konongr fór þá nordr í Víkina, oc var þar, enn stundom nordr í landi. Gregorius Dagsson var í Konongahello vid háskann, oc hafdi allmikit lid oc frítt, oc vardi þar landit.

## CAP. II.

### FRÁ GREGORIUS DAGS-SYNI.

Eptir um sumarit komo þeir Hákon konongr af Gautlandi, oc fóro til Konongahello, oc höfdo allmikit lid oc frítt. Gregorius var þar í bænom, oc stefndi þíng fiölment vid bændor oc bæiarmenn, oc krafdi ser lids; hönom þótto menn þat lítt ræma, oc letz hann illa trúa þeim. Þá fór Gregorius brott vid ij skipom inní Víkina, oc var all-ógladr, oc ætladi til móts vid Inga konong, þvíat hann hafdi þat spurt, at Ingi konongr fór med her mikinn nordan um Víkina. Enn er Gregorius var skamt nordr kominn, þá mætti hann þeim Simuni Scálp oc Halldori Bryniólfssyni, oc Gyrdi Amundasyni, fóstbródor Inga konongs. Gregorius var þeim feginn miök oc hvarf þá aptr, oc þeir allir saman,

oc höfdo xj skip. Enn er þeir röro upp til Kongahello, þá höfdo þeir Hákon þíng fyrir utan bæinn, oc sá för þeirra. Þá mællti Sigurdr af Reyre: Nú er Gregorius feigr, er hann fer í hendor oss med fá lidi. Gregorius lagdi at landi gagnvart bænom, oc villdi bída Inga konongs, þvíat hanns var von, enn hann kom eigi. Hákon konongr bióz vid í bænom, oc let Þórliót Scaufoscalla vera höfdingia í lidi því, er var á kaupskipom þeim er fluto fyrir bænom, hann var víkingr oc ránsmadr. Enn Hákon konongr, oc Sigurdr oc alþydan var í bænom, oc fylkdo á bryggionom, þvíat allir menn höfdo þar gengit undir Hákon konong í bænom.

## CAP. III.

### FLÓTTI HÁKONAR KONONGS.

Þá röro þeir Gregorius upp eptir ánni, oc leto hefia skipin ofan fyrir straumi at þeim Þórlióti, oc þeir scutuz um hríd, þar til er Þórliótr lióp fyrir bord oc hanns felagar, voro sumir drepnir, enn sumir komuz á land. Þá röro þeir Gregorius at bryggionom, oc þegar let Gregorius scióta upp bryggiom á síno skipi, undir fætor þeim Hákonar-mönnom. Þá fell sá madr er merki hanns bar, er hann ætladi til uppgöngo. Þá kvaddi Gregorius til at taka upp merkit Hall, sun Audunar Hallzsunar; hann giördi

sva, oc bar sídan merkit upp á bryggior, enn Gregorius geck þegar upp eptir hönom, oc scaut skilldi fram yfir höfut hönom, oc hlífdi sva bádom þeim. Enn þegar er Gregorius kom upp á bryggionar, oc Hákonar-menn kendo hann, þá opudo þeir, oc gafz rúmit þegar tva vega. Enn er fleira kom lidit upp af skipunom, þá sótti Gregorius med síno lido hart fram. Enn Hákonar-menn opudo í fyrsto, oc runno þvínæst upp í bæinn. Enn þeir Gregorius fylgdo þeim fullvel, sva at þeir ráko þá tysvar upp or bænom, oc drápo mart af þeim. Eingi var för scörugligri enn sú at máli alþydo, er Gregorius fór, fyrir því at Hákon hafdi meirr enn XI. hundrut manna, enn Gregorius eigi öll cccc. Þá mællti Gregorius vid Hall Audunarson eptir orrostona: margir menn þickia mer miúkari í sóknom enn þer Islendingar, þvíat þer erut óvanari enn ver Noregsmenn, enn eingir þickia mer vapndiarfari enn þer. Þá kom Ingi konongr litlo sídarr, oc let drepa marga menn, þá er vit Hákoni höfdo tekit, enn suma let hann fe giallda, enn hann brendi bæi fyrir summom, enn suma rak hann or landi, oc giördi þeim mart illt. Hákon flydi þá fyrst uppá Gautland undan vid öllo lidino, enn fór um vetrinn eptir it efra nordr í Þrándheim, oc kom þar fyrir Páskir, oc tóko Þrændir vel vit hönom, þvíat þeir höfdo iafnan þiónat undir þann sciölld. Sva er sagt, at

þrændir tóko Hákon til konongs, at hafa födrleifd sína, þridiúng Noregs vit Inga konong. Ingi konongr var í Víkinni oc Gregorius, oc villdi Gregorius farã at þeim nordr, enn margir lötto, oc vard þát eigi á þeim vetri.

## CAP. IV.

### DRÁP GYRDAR OC HÁVARDZ.

Hákon konongr fór nordan um várit frá þrándheimi, oc hafdi nær xxx skipa, enn menn hanns fóro fyrr vit viij skipom, oc heriudo á Mæri hvarritveggio. Engi madr mundi fyrr heriat hafa verit milli kaupánga. Jón, son Hallkels Húks, safnadi bóndalidi, oc fór at þeim, oc tók Kolbein Oda, oc drap hvert mannsbarn af skipi hanns. Sídan leitadi hann hinna, oc hitti þá á vij skipom, oc bördoz þeir, enn Hallkell fadir hanns gördi eigi fara til móts vid hann, sem þeir höfdo vidmæltz. þar fell mart gódra bónda, enn Jón vard siálfr sár. Hákon fór sudr til Biörgynar vit lidi síno, enn er þeir komo í Stiórvellto, þá spurdo þeir at Ingi konongr oc Gregorius váro austan komnir fám nóttom ádr til Biörgynar, oc þordo þeir þá ecki þannug at hallda. þeir sigldo þá sudr of Biörgyn et ytra, oc hitto þá á iij skipom lagsmenn Inga konongs, er seinni höfdo ordit austan. þar var Gyrdir Amunda-

son, fóstbródir Inga konongs, hann átti Gyridi, systor Gregoriuss, oc enn Gyrdr laugmadr Gunnhilldarson, þridi Hávardr Klíningr; enn Hákon konongr let þá drepa Gyrdi Amundason, oc Hávard Klíning, enn hann hafdi med ser Gyrd lögmann sudr, oc fór sídan austr í Víkina.

## CAP. V.

### FRÁ RÁDAGIÖRD.

Enn er Ingi konongr spurdi þat, þá fór hann austr eptir þeim, oc hittuz þeir austr í Elfi. Ingi konongr lagdi upp í ána eptir enni nyrdri kvísl, oc giördi niósn fyrir ser upp til þeirra Hákonar, enn hann lagdi at landi út vid Hísing, oc beid þar niósnarinnar. Enn er niósnar-menn komo aptr, þá gengo þeir til konongs, oc sögdo at þeir höfdo set lid Hákonar konongs, oc alla scipan þeirra, sögdo at þeir lágo upp vit stikin öllo lidino, oc tengdo skutstafna sína vit stikin; þeir hafa ij austrfarar-knörro, oc hafa þeir þá lagt yzta skipanna; á knörrunom voro hún-kastalar fram í stafni á bádom. Enn er þetta spyrr Ingi konongr hvern vidrbúnad þeir höfdo, þá let hann blása lidino öllo til húss-þíngs, oc er þíng var sett, þá leitar konongr ráds vit menn, oc kvedr at því Gregorius Dagsson, oc Erlin Skacka mág sinn, oc adra lenda-menn oc

skip-stiórnarmenn, oc segir allan vidrbúnad þeirra Hákonar-manna. Þá svarar Gregorius Dagsson fyrstr, oc birti sinn vilia, oc segir sva: fundir ockar Hákonar hafa atboriz nockorom sinnom, oc hafa þeir optaz haft meirra lid, oc fengit þó inn minna lut í ockrom vidskiptom. Enn nú höfom ver miklo meira lid, oc mun þat nú þickia líkligt þeim mönnom er fyrir scömmo hafa mist fyrir þeim göfugra frænda sinna, at her muni nú vel bera til um hefndir, þvíat þeir hafa nú lengi ádr rekiz undan oss í sumar; höfom ver þat opt mællt ef þeir bidi var, sva sem nú er sagt at vera muni, at ver mundim hætta til fundar vit þá. Nú er þat at segia frá míno scaplyndi, at ec vil leggia til orrosto vit þá, ef þat er eigi í móti konongs vilia, þvíat ec ætla enn, sem fyrr hefir verit, at þeir muni verda fyrir at láta, ef ver leggiom scellega at þeim; mun ec þar tilleggia, er ödrom þickir torsóttligast. At rædo Gregoriuss vard mikill rómr, oc letuz allir búnir at leggia til orrosto vit þá Hákon. Var þá róit öllom skipom upp eptir ánni, til þess er hvarir sá adra, þá víkia þeir Ingi konongr af árstraumin-om út undir eyna. Atti konongr þá enn tal vit styrimenn alla, oc bad þá skipa til atlögo, oc kvaddi þá at Erling Skacka, sagdi sem satt var, at eingi madr var í því lidi vitrari, ne kænni í orrosto, þó at sumir væri enn meiri ákafa-menn; veik konongr

þá enn rædonni til fleiri lendra-manna, oc nefndi suma á nafn, enn lauk sva rædo sinni, at hann bad þat hvern tilleggia, er hann hellz sæi at rádi gegndi, enn sídan alla saman verda á eitt sátta.

## CAP. VI.

### TALA ERLINGS SKACKA.

Erlingr Skacki svarar rædo konongs: skylldr em ec, herra, at þegia eigi vit rædo ydarri, enn ef þer vilit forvitnaz hvat mín rádagiörd mun vera, þá scal ec ydur þat láta heyra: þessi ætlan er nú er stefnd, er þvert frá míno scapi, þvíat þetta kalla ec vera ófæro, at beriaz vid þá at sva búno, þótt ver hafim lid mikit oc frítt; ef ver skulom veita þeim atlögo, oc róa árstraum þenna í mót, þá er iij menn róa í hálfrymi, þá verdr einn at róa, enn annar at hlífa þeim; hvat er þá, nema einn þridiúngr lids vors verdr til at beriaz? lítz mer sva sem óvígliga muni þeir komaz vit orrosto, er vit árarnar sitia, oc bökom horfa vit úvinom sínom. Nú gefit mer tómstund til rádagiördar, enn ec heit því þar í mót, at ec scal þat rád þar tilfinna, fyrr enn iij dagar se lidnir, at hógligar sculom ver vitkomaz at leggia á fund þeirra. Oc fannz þat miök í ordom Erlings, at hann latti atlögunnar; oc eigi at sídur eggiudo margir adrir, oc kvádo þá Hákon mundo

hlaupa á land upp, enn nú sem fyrr, oc höfom ver þeirra þá eigi, sögdo þeir, enn þeir hefa nú lítit lid, oc höfom ver nú rád þeirra allt í hendi. Gregorius lagdi fátt til, oc sneiddi þó sva til, sem Erlingi gengi miök þar til, er hann latti atlögunnar, at hann villdi þau rád ónyta, er Gregorius hafdi tillagt, helldr enn hitt, at hann kynni þetta giörr at siá enn allir adrir.

## CAP. VII.

### FRÁ LIDI HÁKONAR KONONGS.

Ingi konongr mællti þá til Erlings: mágr, sagdi hann, nú viliom ver þínom rádom framfara, hvernog hátta skal atlögunni. Enn fyrir því at þess ero rádamenninir fúsari, þá sculo ver nú í dag at þeim leggia. Þá mællti Erlingr: skútor þær allar sem ver höfom oc lettiskip sculo róa út um eyna, oc upp í ena eystri kvísl, oc sva ofan at þeim, oc freista ef þeir megi leysa þá frá stikunom; enn þá sculom ver róa nedan at þeim stórskipunom, oc veit eigi ádr enn reynt er, hvert þeir leggia því betr at, enn ec, sem þeir ero ódari. Þetta rád líkadi öllom vel. Nes nockort geck fram milli þeirra Hákonar konongs, oc sá hvargi skipin frá ödrom. Enn er scútna-herinn röri ofan eptir ánni, þá sá

þeir

þeir Hákon þat, enn ádr höfdo þeir verit á tali, oc rádit rádom sínom. Gáto sumir at þeir Ingi konongr mundi atleggia, oc margir ætludo at þeir mundo eigi treystaz, þvíat miök þótti seinkaz atlagan, enn þeir treystuz vel vidrbúnadi sínom oc lidi. Medr Hákoni var þá mart stórmenni, þar var Sigurdr af Reyri, oc þeir Simunar-synir, Önundr oc Andres, oc Nicolás Skialldvararson, Eindridi, son Jons Maurnefs, er þá var ágætastr madr oc vinsælastr í Þrændalögom, oc margir adrir voro þar lendirmenn oc sveitar-höfdingiar. Enn er þeir sá at Inga konongs menn röro mörgom skipom út eptir ánni, þá hugdo þeir Hákon, at Inga-menn mundo flyia vilia, ok hiöggo þeir þá tengslin frá stikunom, gripo þá til ára, oc röro eptir þeim, oc villdo reka þá, rendo skipin sciótt fyrir straumi. Oc er þau bar ofan eptir ánni fyrir nesit, er ádr var í milli, þá sá þeir at megin-lidit Inga konongs lá út vit eyna Hísing. Lagsmenn Inga konongs sá þá oc, hvar skip Hákonar fóro, oc hugdo at þeir mundo vilia atleggia, var þar þá þyss mikill oc vapna-brak, oc eggiun, oc lusto þeir upp herópi. Enn þeir Hákon snero skipom sínom nordr at landino, oc er þar vík-hvarf nockot, oc komít af árstrauminom. Þeir bioggoz þar um, báro upp á land skutfestar, oc snero út framstöfnom á öllom

skipom sínom, oc tengdo saman öll skipin, leto austrfarar-knörruna liggia út frá ödrom skipunom, annan fyrir ofan, enn annan fyrir nedan, oc tengdo þá vit lángskipin. Enn í midiom flotanom lá konongs-skípit, oc þar næst Sigurdar skip, enn á annat bord konongs-skipi lá Nicolás, enn þar næst Eindridi Jonsson. Öll hin smærri skip þeirra lágo utar meirr; þeir höfdo náliga öll skip sín ladin af vapnom oc grióti.

## CAP. VIII.

### TALA SIGURDAR AF REYRI.

Þá taladi Sigurdr af Reyri fyrir fólkino, oc mællti sva: þat er nú vænt at fram muni koma, er oss hefir lengi í sumar heitit verit, at fundr varr Inga mundi verda; höfom ver nú oc miök lengi vidbúiz, hafa oc margir varir felagar stórt bergt um, at eingi mundi flya edr fálma fyrir Inga konongi oc Gregorius, oc er nú gott at minnaz þeirra orda; enn ver megom med minna trausti um þat ræda, er fyrr höfom ordit nockot tannsárir í varom vidrskiptom, oc er þat sem hverr hefir heyrt, at ver höfom miök opt svadils-förom farit, fyrir þeim. Enn eigi at sídr er oss naudsyn á at verda vid sem mannligast, oc standa sem fastast, þvíat þann eigom ver útveginn til þess at ver fám sigrinn. Enn þótt ver hafim lid nockoro farra enn þeir, þá

má þó audna ráda, hvarir gagn skulo hafa, oc er sú van best í varo máli, at Gud veit at ver mælom rettara. Ingi hefir ádr höggvit nidr brædor sína ij; enn pat er eingom manni blindt, hveriar födrbætor hann hefir hugat Hákoni konongi, þær at höggva hann nidr sem adra frændor sína, oc mun þat synaz þenna dag. Hákon konongr beidiz eigi meira frá upphafi af Noregi, enn þess þridiúngs sem fadir hanns hafdi átt, oc var hönom þess varnat, enn at minni virding, er Hákon konongr betr tilkominn at taka arf eptir Eystein konong födur-bródor sinn, helldr enn Ingi eda Símun Scálpr, eda adrir þeir menn er Eystein konong tóko af lífdögom. Mörgom mundi sva lítaz, þeim er sálo sinni villdi þyrma, oc hefdi þvílíkir stórglæpir á hendor boriz sem Inga, at ecki mundo þora fyrir Gudi at kallaz med konongs-nafni, oc þat undrumz ec, at Gud þolir hönom þá ofdirfd, oc þat mun Gud vilia, at ver steypim hönom; beriumz ver því diarfligarr, at Gud man oss sigr fá; enn ef ver föllom, þá mun hann þat umbuna oss med margfölldom fagnadi, er nú ler hann vandom mönnom valldz at gánga yfir oss; fari menn stilliliga, oc felmti eigi, ef orrosta tekz; gæti hverr sín, oc sinna sveitbúa, enn Gud allra var. Gódr rómr var görr at máli Sigurdar, oc heto allir gódo um, at verda vel vit. Hákon konongr geck upp

á austrfarar-knörrinn, oc var þar sett skialldborg um hann, enn merki hanns var á lángskipino, því er hann hafdi ádr áverit.

## CAP. IX.

## FRÁ LIDSMÖNNOM INGA KONONGS.

Nú er at segía frá Inga konongi oc mönnom hanns; þá er þeir sá at Hákonar konongs menn biugguz til orrosto, var þá áin ein millom þeirra, þá giördo þeír hleypíscùto út eptir lidi síno, því er á brott hafdi róit, at þeir skylldo aptrsnúa, enn þeir konongr oc hanns menn bido þeirra, oc skipudo lidi síno til atlögo. Þá töludo höfdingiar fyrir lidino, oc sögdo ætlan sína, þat fyrst hver skipin skylldo næst liggia, oc þá hvar hvarir skylldo atleggia. Gregorius mællti sva: ver höfom mikit lid oc frítt; nú er þat mitt rád, at þer Ingi konongr set eigi í atlögunni, þvíat þá er allz gætt, er ydar er; oc eigi veit hvar óscytio ör geigar, þvíat þeir hafa þann vidrbúnat, at or húnkastölom á kaupskipunom mun borit scot oc griót, er þeim þá litlo óhættara, er fiarri ero. Þeir hafa lid eígi meira, enn þat er vid vart hæfi lendra-manna, at hallda orrosto vit þá. Ec mun leggia mitt skip at því skipi þeirra, er mest er, oc vænti ec enn, at skaumm raun se oss at beriaz vit þá; sva hefir enn verit

optast á varom fundom, þótt annan-veg hafi lidsmunr verit, enn nú er. Þetta líkadi öllom vel, er Gregorius mællti, at konongr siálfr legdi eigi til orrosto. Þá mællti Erlingr Skacki: því rádi vil ec oc fylgia, at þer konongr farit eigi til orrosto; lítz mer sva á vidrbúnat þeirra, sem ver munim þurfa vidsiá at giallda, ef ver sculom eigi fá mikit manntión af þeim, þicki mer best um heillt at binda. Enn sù ráda-giörd er ver höfdom fyrr í dag, þá mællto þar margir í mót því, er ec red, oc sögdot þer at ec villda eigi beriaz; enn mer þickir oss hafa snuiz til mikilla hæginda, er þeir ero í brotto frá stikunom; oc nú er sva komit, at ec man eigi letia at leggia til orrosto, þvíat ec se þat, er allir mego víta, hverso mikil naudsyn á er, at stöckva óalldar flocki þessom, er farit hefir of land allt med rán oc rifs, oc mætti menn eptir þat byggia land þetta í fridi, oc þióna einom konongi, þeim er sva er gódr oc rettlátr, sem Ingi konongr er, oc hefir hann þó lengi haft valk oc vandrædi af ofsa oc úiafnadi frænda sinna, oc verit bríóst fyrir allri alþydo, oc lagt sik í margfalldan háska, til at frida landit. Mart taladi Erlingr oc sniallt, oc enn fleiri höfdingiar, oc kom í sama stad nidr, at allir höfdingiar eggiudo atlögunnar; þeir bido þess er allt kom saman lid þeirra. Ingi konongr hafdi þá Beikisúdina, oc let hann at bæn vina

sinna, at hann lagdi eigi til orrosto, oc lá hann eptir vid eyna.

## CAP. X.

### UPPHAF ORROSTO.

Enn er lidit var búit, þá greida þeir atródrinn, oc liósta hvarirtveggio upp herópi, tengdo þeir Ingamenn eigi skip sín, oc fóro eigi samfast, þvíat þeir röro þveran strauminn, oc sveif miök stórskipunom. Erlingr Skacki lagdi at skipi Hákonar konongs, oc stack stafni at milli oc Sigurdar skips, tókz þá orrosta; enn skip Gregoriuss sveif uppá grunn, oc halladi miök, oc komoz þeir eigi í fyrsto vid atlöguna. Enn er Hákonar-menn sá þat, þá lögdo þeir til, oc sótto at þeim öllo-megin, er skip Gregorius lá fyrir. Þá lagdi at Ivarr, son Hákonar Maga, oc sveif saman lyptingunom. Ivarr krækdi stafn-liánom um Gregorius, þar sem hann var mióstr, oc hnyckdi hönom at ser, oc hörvadi Gregorius at bordino út, enn hann svarfadi upp eptir sídunni, oc var vid siálft at hann mundi krækia Gregorius fyrir bord. Vard Gregorius þó lítt sárr, þvíat hann hafdi spánga-brynio. Ivarr kalladi á hann, oc kvad hann þyckt byrdt hafa. Gregorius sagdi, kvad hann sva umbúa, at þess þyrfti vid, oc geck þó eigi af. Þá var vit siálft, at þeir Gregorius mundi verda fyrir bord at gánga, ádr Aslákr

úngi kom ackeri í skip þeirra, oc dró þá af grunnino. Þá lagdi Gregorius at skipi Ivars, oc áttuz þeir vid lánga ríd, oc var skip Gregoriuss bordmeira oc fiölmennara. Fell þá miök lid af Ivars skipi, enn sumir liópo fyrir bord. Ivarr vard sárr miök, sva at hann vard óvígr. Enn er skip hanns var hrodit, þá let Gregorius flytia Ivar til landz, oc kom hönom undan, oc voro þeir ávallt vinir sídan.

## CAP. XI.

## FLÓTTI HÁKONAR KONONGS.

Enn er Ingi konongr oc hanns menn sá, at Gregorius var á grunnino, þá het konongr á lidit, at þeir skylldo til þeirra róa; hann mællti þá: þetta var hit ósniallasta rád, at ver skylldom her eptir liggia, enn vinir varir fóro til bardaga, höfom ver þat skip, er mest er oc best skipat í öllom herinom; enn nú ec se, at Gregorius er nú lids þörf, þeim manni er ec á bezt at launa, oc leggiom til bardaga vid þá sem hardast; er þat oc rettast at ec se í orrosto, þvíat ec vil sigrinn eignaz ef fæz. Enn þótt at ec vissa fyrir, at varir menn mundi ósigr hafa, þá veri oss þó sá einn til, at vera þar sem vinir varir ero, þvíat ec má eigi atfæraz, ef ec missi þeirra manna, er rettliga mego kallaz brióst, oc röskvastir ero, oc lengi hafa verit förstio-

rar fyrir mer oc míno ríki; bad hann þá setia upp merkit, oc var sva gört, oc röro þeir yfir ána. Þá var bardagi sem ódastr, oc feck konóngr eigi rúm til atlögunnar, sva lágo skipin þraungt fyrir. Þá lögdo þeir undir austrfarar-knörrinn; þar var borit á þá ofan kesior, pálstafir oc griót sva stórt, at ecki hellz vid, oc mátto þeir eigi þar vera. Enn er lidsmenn sá þat at konongr var kominn, þá rymdo þeir fyrir hönom, oc lagdi hann þá at skipi þeirra Eindrida Jóanssonar; þá eyddo Hákonar-menn smáskipin, oc gengo uppá knörruna, enn sumir lupo á land. Erlingr Skacki oc hanns menn átto harda sókn, hann var í fyrirrúmino, hann kalladi á stafnbúa sína, oc bad þá gánga uppá konongs-skipit; þeir svörudo, at þat var eigi dællt, oc þar varo iárn á triám fyrir. Erlingr geck þá fram í stafninn fyrir, oc dvaldiz þar litla ríd ádr þeir greiddo uppgöngo á konongs-skipit, oc ruddiz þat skip stafna á millum, tók þá at flyia allir herinn; eptir þat lióp mart á kaf, oc mart fell, enn allr fiölldinn komz á land. Sva segir Einar Skúlason:

Margr fell madr af dreyrgo
mar-blacks á kaf saxi
gnógt elldi feckz gygiar
glaum rak ná fyrir straumi.
Elfr vard unda giálfri
eitr-kölld rodin heito

vitnis fell med vatni
varmt aulldr í men Karmtar.
Maurg fluto aud á urga
álm sveigdi lid hiálma
raud flugo stál í strídri
stafn-blódeg skip módo.
Adr á grund af grædiss
gædinga lid flædi
sveit vard í rym rítar
ryr Hákonar dyrom.

Einar orti um Gregorius Dagsson flock þann, er kalladr er Elvar-vísor. Ingi konongr gaf grid Nicolási Skialldvarar-syni, þá er skip hanns var hrodit, oc geck hann þá til Inga konongs, oc var med hönom sídan medan hann lifdi. Eindridi Jonsson lióp á skip Inga konóngs, þá er skip hanns var hrodit, oc bad ser grida. Konongr villdi gefa hönom grid, enn son Hávardz Klínings lióp til, oc hió hann bana-högg, oc var þat verk miök lastat; enn hann sagdi at Eindridi hafdi rádit drápi Hávardz födur síns. Eindridi var miök harmadr, oc þó mest í Þrændalögom. Þar fell mart af lidi Hákonar, enn èigi fleiri höfdingiar. Fátt fell af Inga konongs lidi, enn mart vard sárt. Hákon konongr flydi á land upp, enn Ingi konongr fór nordr í Víkina med síno lidi; hann var í Víkinni um vetrinn, oc sva Gregorius. Enn er þeir komo til Biörgyniar frá orrosto menn Inga konongs; synir

Ivars af Elldu, Bergliótr oc þeir brædor, þá drápo þeir Nicolás Scegg, er gialldkeri hafdi verit, oc fóro sídan heim nordr í Þrándheim. Hákon konongr kom nordr fyrir Jólin, enn Sigurdr var stundum heima uppi á Reiri. Gregorius hafdi tekit hönom grid af Inga konongi, sva at hann skylldi hafa eignir sínar allar, þvíat þeir Gregorius oc Sigurdr voro náfrændor. Hákon konongr var í kaupángi um Jólin, oc bördoz menn hanns einn aptan í hirdstofo um Jólin, á öndverdom Jólunom, oc höfdo VIII menn bana, oc margir urdo sárir. Enn eptir enn VIII dag Jóla, þá fóro þeir lagsmenn Hákonar konongs inn í Elldu, Alfr Raudi, son Ottars Birtings, oc nær LXXX manna, oc komo þeir á óvart öndverda nótt, þá er hinir voro drucknir, oc lögdo elld í stofuna, enn þeir gengo út oc vörduz vel; þar fell Bergliótr, son Ivars, oc Augmundr bródir hanns, oc miök mart manna. Þeir höfdo verit fyrir nær XXX manna. Um vetrinn í kaupángi nordr andadiz Andres Simunar-son, fóstbródir Hákonar konongs, oc var hann harmadr it mesta. Erlingr Skacki oc menn Inga konongs, þeir er í Biörgyn voro, leto sem þeir mundo fara nordr þá oc þá um vetrinn at þeim Hákoni konongi, oc þó vard eigi af þvi. Gregorius sendi þau ord austan or Konongahello, ef hann sæti iamnærr, sem þeir Erlingr, at hann mundi eigi sitia kyrr

í Biörgyn, ef Hákon leti drepa vini Inga konongs nordr í Þrándheimi, oc legonauta þeirra.

## CAP. XII.

## BARDAGI Á BRYGGIOM.

Ingi konongr oc Gregorius fóro austan um varit til Biörgyniar; enn þegar er Hákon spurdi þat oc Sigurdr, at Ingi var farinn or Víkinni, þá fóro þeir austr it efra í Víkina. Enn er þeir Ingi konongr komo til Biörgyniar, þá gördiz úsátt milli þeirra Halldórs Bryniólfssonar oc Biarnar Nicolássonar. Húskarl Biarnar spurdi, hví hinn væri sva bleikr, þá er þeir mættuz á bryggiom nidri; enn hann kvad ser látit blód. Eigi villda ec sva vid verda blódlátit, bastbleikr sem þú ert; enn ec ætla kvad hinn, at þú mundir verr vid verda oc ódrengiligar; oc urdo eigi meiri upphöf at enn sva. Þá óx ord af ordi, þar til er þeir deildo, oc bördoz því næst. Þá var sagt Halldóri Bryniólfssyni, at húskarl hanns var særdr á bryggiom nidri; enn Halldór drack þar hiá í gardinom, oc geck hann þá þángat til; enn ádr voro þar komnir húskarlar Biarnar, oc þótto Halldóri þeir óiafnt hafa skilit, oc stökudo þeir Halldór þá húskörlum Biarnar, oc knúskudo þá; var þat sagt Birni Búk, at Víkveriar bördo húskarla hanns á bryggiom nidri. Þá tóko þeir

Biörn vapn sín, oc fóro til oc villdo hefna sinna manna; urdo þá áverkar med þeim. Þá var sagt Gregorius, at Halldór mágr hanns þurfti lids vid, oc húskarlar hanns voro höggnir nidr, á stræti nidri. Þá liópo þeir Gregorius í brynior sínar oc fóro til. Þá var sagt Erlingi Skacka, at Biörn systurson hanns bardiz vid þá Gregorius oc Halldór á bryggiom inni, oc hönom var lids þörf. Þá fór hann til þannug, oc var allfiölmennr, oc bad menn veita ser lid; kvad mönnom klæki í vera, ef einn Víkverskr madr scal yfir oss gánga her í frændhaga varom, oc man oss þat æ oc æ uppí. Þar fello xiij menn, oc höfdo ıx þá þegar bana, enn sídarr önduduz iiij menn or sárom, enn mart vard sárt. Þá komo Inga konongi ord, at þeir bördoz inná bryggiom Gregorius oc Erlingr, oc fór hann til oc villdi skilia þá, oc mátti eingo áorka, þvíat þeir váro sva ódir hvarirtveggio. Þá kalladi Gregorius á Inga konong; oc bad hann fráfara, kvad hann eingo mundi til vegar koma at sva búno; kvad þat mesta geig, at hönom yrdi nockot, þvíat eigi kann vita hvar sá er, er eigi sparir þat óhapp vit sik, ef hann þikiz í færi komaz; sneri þá konongr í brott. Enn er þurru laup in mesto, þá gengo þeir Gregorius upp til Nicolás-kirkio, enn þeir Erlingr eptir, oc kölluduz þá á. Þá kom enn Ingi konongr í annat sinn, oc sætti þá, oc villdo þat hvarir-

tveggio, at hann skipadi einn milli þeirra. Þá spurdo þeir, at Hákon konongr var í Víkinni, fóro þeir Ingi konongr oc Gregorius austr, oc höfdo miök mart skipa. Enn er þeir komo austr, þá stucko þeir Hákon konongr undan, oc vard eigi orrosta. Þá fór Ingi konongr inn til Oslóar, enn Gregorius var í Konongahello.

## CAP. XIII.

### DRÁP MUNANS.

Gregorius spurdi til þeirra Hákonar konongs litlo sídarr, þar sem heita Saurbæir, þat er uppí víd mörkina. Gregorius fór þannig, oc kom um nótt, oc hugdi at þeir Hákon konongr oc Sigurdr mundo vera á enom meira bænom, oc lögdo þar elld í húsin. Þeir Hákon konongr voro á hinom minna bænom; þeir fóro til, þar er þeir sá elldinn, oc villdo duga sínom mönnom. Þar fell Munan, sun Ala Oskeins, bródir Sigurdar konongs, födur Hákonar; þeir Gregorius drápo hann, þá er hann villdi duga þeim er inni voro brendir; sumir gengo út, oc var þar mart manna drepit. Asbiörn Jalda komz af bænom, hann hafdi verit víkingr hinn mesti, oc var sár ordinn miök; enn bóndi einn hitti hann, oc bad Asbiörn at bóndinn skylldi hann láta undangánga, oc baud hönom fe til; enn

bóndinn letz þat mundo giöra, er hann var fúsari til, kvez opt hafa gengit hræddr fyrir hönom, oc hió hann banahögg. Þeir Hákon konongr oc Sigurdr komoz undan, enn mart var drepít lid þeirra. Eptir þat fór Gregorius heim til Konongahello. Litlo sídar fóro þeir Hákon konongr oc Sigurdr til búss Halldórs Bryniólfssonar á Vettaland, oc lögdo elld í húsin, oc brendo. Halldór Bryniólfsson geck út, oc var höggvinn þegar, oc húskarlar hanns med hönom; voro þar drepnir nær xx menn allz. Sigrídr kona hanns var systir Gregoriuss, hana letu þeir gánga til skógar í brott, í náttserk einom. Þar tóko þeir Amunda, son Gyrdar Amunda-sonar, oc Gyridar Dags-dóttur, systor-son Gregoriuss, oc höfdo vid ser; hann var þá v vetra.

## CAP. XIV.

## FALL GREGORIUSS DAGS-SONAR.

Gregorius spurdi þessi tídindi, oc þótti hönom mikil, fretti hann þá vandliga at, hvar þeir væri. Gregorius fór or Konongahello ofarla Jólanna med miklo lidi, oc komo þeir til Fors inn xiij dag Jóla, oc var hann þar um nótt eina, hafdi þar óttosaung affara-dag Jólanna, oc var hönom lesit gudspiall eptir; þá var laugardagr. Er þeir Gregorius sá lid þeirra Hákonar konongs, þá syndiz þeim miklo

minna enn sitt lid. A ein var í milli þeirra er þeir hittuz, er heitir Befia; ís illr var á ánni, þvíat flód geck undir ísinn utan. Þeir Hákon konongr höfdo höggvit á ánni vakir, oc mokat yfir snió, sva at eigi mátti tilsiá. Þá er Gregorius kom at ísnom á ánni, kvadz hönom illr synaz ísinn, oc kvad þeim þat rád, at fara til brúar, er skamt var ofar á ánni. Bónda-lidit svaradi, oc kvadz eigi vita hví gegndi, er hann skylldi eigi þóra at sækia at þeim um ísinn, eigi meira lid enn þeir höfdo fyrir, leto ís fullgódan. Gregorius svarar, kvad sialldan hafa þess þurft, at fryia ser allmiök árædis, kvad oc eigi enn vera skylldo, bad þá fylgia ser vel, oc standa eigi á landi, ef hann gengi á ísin, oc kvad þat þeirra rád vera, at gánga á ís vandan, letz þess ófús; enn eygi vil ek sitia ydr fryio, sagdi hann, oc bad þá bera merki sitt fram, geck hann þá þegar fram á ísinn med lidino; enn þegar er bænda-lidit fann at ísinn var vandr, þá hvarf lidit aptr. Enn Gregorius lá í ísinom, oc eigi miök; hann bad menn vidvaraz, enn eigi geck fleira med hönom, enn nær xx menn, enn annat lidit hvarf aptr allt. Madr skaut at Gregorius ör or flocki Hákonar konongs, oc laust undir kverk hönom, oc er nú þar lokit ævi hanns. Gregorius fell þar til iardar, oc x menn med hönom. Enn þat er almæli, at hann hafi verit höfut lendra-manna í Noregi,

í þeirra manna minnom er þá voro uppí, oc verit bezt vit oss Islendinga, sídan er Eysteinn konongr andadiz hin ellri. Lík Gregoriuss var fært á Höfund upp, oc grafit í Gimsey, at nunno-setri því er þar er. Þar var þá Baugeidr Abbadís, systir Gregoriuss.

## CAP. XV.

## INGI KONONGR SPYR FALL GREGORIUSS.

Ár-menn ij fóro med tídindin, at segia Inga konongi inn í Oslo, enn er þeir komo þar, þá heimto þeir konong á mál, enn hann spurdi hvat þeir segdi tídenda? Fall Gregoriuss Dags-sonar, sögdo þeir. Hví bar sva illa at? sagdi konongr. Þeir sögdo hönom. Konongr svarar: þeir redo þá er verr kunno. Þá er sva sagt, at hann kunni því sva illa, at hann gret sem barn. Enn er þat geck af hönom, mællti hann þetta: ec villda fara til fundar vit Gregorius, þegar er ec spurda dráp Halldórs, þvíat ec þóttumz þat vita, at Gregorius mundi eigi lengi sva sitia, at hann mundi eigi til hefnda ráda; enn þetta fólk let ecki væri iamskyllt sem Jóla-dryckia, oc eigi mátti henni bregda; þvíat ec veit víst, ef ec hefda þar verit, at annattveggia mundi at meira rádi framfarit, eda þá mundo vid Gregorius hafa farit til einnar gistingar bádir ella.

Enn

Enn þar er sá madr farinn, er mer hefir bestr verit, oc mest hefir landino halldit í hönd mer; enn þat hugda ec til þessa, at skamt mundi ockar í milli verda. Nù skal eid enn vitleggia, at fara til fundar vit þá Hákon, oc skal vera annathvart, at ec skal hafa bana, edr stíga yfir þá Hákon ella; enn era slíks manns at hefndra, sem Gregorius var, þótt þeir komi allir fyrir. Madr svarar, oc let hánn lítt mundo þurfa at leita þeirra, segir þá þannug ætla til fundar vit hann. Christín var þar í Oslo, dóttir Sigurdar konongs, brædrúnga Inga konongs. Konongr spurdi at hon ætladi á brott, oc sendi henni ord, oc spurdi hví hon villdi á brott or bænom; enn henni letz agasamt þickia, oc kvad eigi kvenna vist þar vera. Konongr bad at hon skylldi eigi á brott fara, oc med því at ver hafim gagn, sem ec ætla, þá mantu her vel halldin, enn ef ec fell, þá muno vinir mínir eigi ná at búa um lík mitt, enn þú skallt bidia, at þer se lofat at búa um; máttu mer sva hellzt launa, þat er ec hefi verit vel vit þik, at búa um lík mitt, þvíat þer man þat lofat.

## CAP. XVI.

### FRÁ INGA KONONGI.

Blasius-messo at kvölldi, kom niósn Inga konongi,

at Hákonar konongs væri þáván til bæiarins. Let Ingi konongr þá blása öllo lidi síno upp or bænom, oc let fylkia, oc var þá skorat nær XL hundrut manna. Konongr let vera fylkíngina lánga, oc eigi meir enn v menn á þioktina. Þá mællto menn vit konong, at hann skylldi eigi vera í orrosto, letz þickia mikil ábyrgd á hönom, oc veri Ormr bródir hanns höfdingi fyrir lidino. Konongr svarar: þat ætla ec, ef Gregorius lifdi oc væri hann her nú, enn ec vera fráfallinn, oc skylldi mín hefna, at hann mundi eigi liggia í fylsnom, oc mundi vera í orrosto siálfr. Enn þótt ec se verr tilfærr fyrir vanheilso sökom, enn hann var, þá skal ec eigi verr viliadr vit hann; oc er eingi ván, at ec muni eigi í orrosto vera. Sva segia menn at Gunnhilldr, er Simun hafdi átta, fóstra Hákonar konongs, leti sitia úti til sigurs Hákoni; enn sva geck frettin, at þeir skylldo beriaz vit Inga konong um nótt, enn alldregi um dag, qvad oc þá hlyda mundo; Þórdís Seggia er sú kona nefnd, er sagt er at úti sat; enn eigi veit ec sann á því. Simun Scálpr hafdi gengit í bæinn, oc lagdiz nidr at sofa, oc vaknadi vid herópit. Enn er áleid nóttina, kom niósn til Inga konongs, var hönom sagt, at þeir Hákon konongr fóro þá utan á ásinn, enn ís lá allt frá bænom út til Höfuteyar.

## CAP. XVII.

### TALA INGA KONONGS.

Ingi konongr med her sinn geck þá út á ísinn, oc setti hann þá fylking sína fyrir bæinn; var Símun Scálpr í þann arminn fylkingar, er út vissi til Þræla-bergs, enn í þann arminn er vissi til Nunnusetrs, var fyrir Gudrödr Sudreyia konongr, son Olafs Bitlíngs, oc Jón, son Sveins Bergþórs-sonar Búks. Enn er þeir Hákon konongr komo at fylking Inga konongs, þá æpto hvarir-tveggio heróp. Þeir Gudrödr oc Jón báknudo til þeirra Hákonar konongs, oc leto þá vita hvar þeir voro fyrir. Sídan snero Hákonar-menn þar at, enn þeir Gudrödr flydo þegar, vit nær xv hundrut manna, Enn Jón, oc mikil sveit med hönom, liópo í lid med Hákoni konongi, oc bördoz med þeim; var þetta sagt Inga konongi. Hann svaradi: svá mikit hefir skilit vini mína, alldregi mundi Gregorius sva fara medan hann lifdi. Þá bádo menn konong, at hesti skylldi skióta undir hann, oc ridi hann or orrosto uppá Raumaríki, mant þú þar fá nógt lids, segia þeir, þegar í dag. Konongr svarar: eingi hugr er mer á því; opt hefi ec ydr heyrt þat mæla, oc þycki mer satt, at lítit lagdiz fyrir Eystein konong bródor minn, sídan er hann lagdiz á flótta, oc var hann vel at ser gerr um marga luti, þá er konong pryda. Nú

kann ec þat siá vit vanheilindi mitt, hverso lítit man fyrir mik leggiaz, ef ec tek þat til, er hönom skylldi sva miök vefiaz, iafnmikit sem atferd ockra skildi, oc heilso oc alla eliun. Ec var þá á annan vetr, er ec var til konongs tekinn her í Noregi, enn nú em ec vel hálf-þrítogr. Ec þikiumz vandrædi oc ábyrgdir hafa meir haft í konongdóminom, helldr enn skemtan oc hóglifi. Ec hefi margar orrostor áttar, stundom vid meira lidi, oc stundom vid minna, hefir sú mín gæfa mest verit, at ec hefi alldri á flótta komit; rádi Gud lífi míno, hverso lángt vera skal, enn alldregi man ec á flótta leggiaz.

## CAP. XVIII.

## FALL INGA KONONGS.

Enn er þeir Jón oc hanns felagar höfdo rofit þann fylkingar-arm Inga konongs, þá flydo þeir oc margir, er þar höfdo næstir stadit; skildiz þá oc ridladiz fylkíngin, enn þeir Hákon konongr sótto þá fast at, var þá oc komit at dagan. Þá var sótt at merki Inga konongs, oc í þessi ríd fell siálfr Ingi konongr, enn Ormr bródir hanns hellt þá upp orrosto, flydi þá fiölldi fólks uppí bæinn. Ormr fór tysvar í bæinn, sídan er konongr var fallin, oc eggiadi lidit, oc hvartveggia sinn geck hann út á ísinn, oc hellt upp orrostunni. Þá sótto þeir Hák-

onar-menn þann fylkingar-arminn, er Simun Scálpr var fyrir; oc í þeirri atgaungo fell af lidi Inga konongs Gudbrandr Skafhaugs-son, mágr konongs; enn Simun Scálpr oc Hallvardr Hikri gengoz á, oc bördoz med sveitir sínar, oc ókuz út fyrir þræla-berg, oc í þeirri ríd fello þeir bádir um sídir Símun oc Hallvardr. Ormr Konongs-bródir feck þar allgott ord, enn þó flydi hann at lykdom. Adr um vetrinn hafdi Ormr fastnat ser Rögno, dóttur Nicoláss Masa, er átt hafdi Eysteinn konongr Haralldz-son, oc skylldi þá gánga at brúdkaupino sunnodaginn eptir. Blasius-messa var á friádegí. Ormr flydi austr á Svíþiód til Magnúss bródor síns, er þá var þar konongr, enn Rögnvalldr bródir þeirra var þá Jarl. þeir voro synir Ingirídar oc Henreks Hallta, hann var son Sveins Sveins-sonar Dana-konongs. Christín Konongs-dóttir bió um lík Inga konongs, oc var hann lagdr í steinvegginn í Hallvardz-kirkio, utar frá kórinom sydra megin; þá hafdi hann verit konongr hálfan þridia tog vetra. I þeirri orrosto fell mart manna af hvarom-tveggiom, enn þó miklo fleira af Inga konongs lidi. Arni Fridreksson fell þar af Hákonar konongs lidi. Enn þeir Hákonar-menn tóko upp brúdkaups veizlona alla, oc stórmikit lutskipti annat.

## CAP. XIX.

## FRÁ HÁKONI KONONGI OC CHRISTINO KONONGS-DÓTTUR.

Hákon konongr lagdi þá land allt undir sik, oc skipadi syslor allar sínom mönnom, oc sva kaupstadi. Þeir Hákon konongr oc hanns menn höfdo stefnur sínar í Hallvardz-kirkio, er þeir redo landrádom. Christín Konongs-dóttir gaf til fe presti þeim er kirkio lukla vardveitti, at hann leyndi manni hennar í kirkionni, sva at sá mætti heyra tal þeirra Hákonar konongs. Enn er hon vard vör hvat þeir redo, þá sendi hon mann til Biörgyniar Erlingi Skacka bónda sínom, at hann skylldi alldreigi trúa þeim Hákoni.

## CAP. XX.

## JARTEGNIR OLAFS KONONGS MEDAL VÆRINGIA.

Sá atburdr vard á Gricklandi, þá er þar var Kyrialax konongr, at konongr fór herferd á Blöckomanna-land. Enn er hann kom á Pezinavöllo, þá kom þar á móti hönom heidinn konongr med úvígan her. Þeir höfdo þángat haft hesta-lid, oc vagna stóra miök, oc ofan á vígskörd. Enn er þeir bioggo nátt-ból sitt, þá skipado þeir vögnom hveriom vit

annam fyrir utan herbúdir sínar, enn þár fyrir utan grófo þeir mikit díki. Var þat þá alltsaman vígi sva mikit, sem borg væri. Konongr heidni var blindr. Enn er Grickia konongr kom, þá setto heidnir fylkíng sína á völlom fyrir vagna-borg. Þá setto Grickir sína fylkíng þar í móti, oc rido hvorotveggio oc bördoz; fór þá illa oc óheppiliga, flydo Grickir, oc höfdo fengit mikit mann-tión, enn heidíngiar fengo sigr. Þá skipadi konongr fylkíng af Fröckom oc Flæmingiom, enn sídan rido þeir fram mót heidíngiom, oc bördoz vit þá, oc fór þeim sem hinom fyrrom, at margir voro drepnir, enn allir flydo þeir er undan komoz. Vard þá Grickia konongr reidr miök hermönnom sínom, enn þeir svörudo hönom, bádo hann þá taka til Væríngia vinbelgia sinna. Konongr segir sva, at hann vill eigi spilla gersömom sínom sva, at leida fá menn, þótt þeir væro hravstir, á móti sva miklom her. Þá svarar ordom konongs Þórir Helsíngr, er þá red fyrir Væríngiom: Þótt þar væri fyrir elldr brennandi, þá munda ec oc mínir lidar þegar íhlaupa, er ec vissa, at þat keyptiz í, at þer konongr hefdot þá frid eftir. Enn konongr svarar: heiti þer á hinn helga Olaf konong ydvarn, til fulltíngis oc styrktar ydur. Væríngiar höfdo hálft fimta hundrat manna, þá tóko þeir heit sitt med hand-festi, oc heto því, at reisa kirkio í Miklagardi med sínom kostnadi,

oc gódra manna stodom, oc láta þá kirkio vígia til vegs oc dyrdar hinom helga Olafi konongi. Sídan runno Væríngiar fram á völlinn. Enn er þat sáo heidíngiar, þá sögdo þeir konongi sínom, at þá fór enn lid af Grickia konongs her, oc rann of völlona, oc er þetta sögdo þeir hönd full manna. Þá svarar konongr: hver er sá hinn tígugligi madr, er þar rídr á þeim hvíta hesti fyrir lidi þeirra? eigi siáom ver hann, saugdo þeir. Þar var eigi minni lidsmunr enn sva, at heidíngiar sextío væri í mótí einom Christnom manni, enn eigi sídr helldo Væríngiar til bardaga alldiarfliga. Enn þegar er þeir komo saman, þá sló ótta í lid heidíngia oc rædslo, sva at þeir tóko þegar at flyia, enn Væríngiar ráko þá, oc drápo brátt mikinn fiöllda. Enn er þat sá Grickir oc Frackar, þeir er ádr höfdo flúit fyrir heidíngiom, sótto þá til oc ráko flóttann med þeim, voro þá Væríngiar komnir uppí vagna-borgina, vard þar oc mesta mann-fall. Enn er heidíngiar flydo, þá vard handtekinn hinn heidni konongr, oc höfdo Væríngiar hann med ser, tóko þá Christnir menn her-búdir heidíngia oc sva vagna-borgina.

## CAP. XXI.

### JARTEGN ÓLAFS KONONGS.

Sá atburdr vard á Stiklastödom í orrosto, sem fyrr var ritat, at Olafr konongr kastadi frá ser sverdino

Hneiti, þá er hann feck sár; enn einhver madr sænscr at ætt hafdi brotit sverd sitt, oc tók þá upp sverdit Hneiti, oc vá med því; enn sá madr komz brott or bardaganom, oc fór med ödrom flótta-mönnom, kom hann fram í Svíþiód, oc fór heim til búss síns. Hafdi hann sídan þat um alla sína æfi, enn sídan hanns son; oc tók hverr eptir annan þeirra frænda, oc fylgdi þat iafnan eign sverdzins, at hver sagdi ödrom nafn sverdsins, oc sva hvadan þat var komit. Enn þat var miklo sídarr, á dögom Kirialax Miklagardz keysara, at þar váro í gardi stórar sveitir Væríngia, þá var sva, at á eino sumri, þá er keysarinn var í her-för nockorri, lágo þeir í her-búdom. Væríngiar helldo vörd oc vökto yfir konongi, lágo þeir á völl-unom fyrir utan her-búdir; þeir skipto nóttinni med ser til vöko, enn þeir er ádr höfdo vakat, lögduz þá nidr oc sváfo, þeir voro allir med al-vepni. Þat var sidr þeirra, þá er þeir lögdoz til svefns, at hver hafdi hiálm á höfdi, enn skiölld yfir ser, oc sverd undir höfdi, oc skylldi leggia hægri hönd á medal-kafla. Einhver þeirra felaga, sá er hlotit hafdi vörd enn efsta luta nætur, þá vaknadi hann í dagan, þá var sverd hanns íborto; enn er hann leitadi, þá sá hann sverdit, hvar lá á vellin-om, lángt frá hönom; hann stód upp, oc tók sver-dit, ætladi hann at felagar hanns þeir er vakat

höfdo, mundo hafa giört til spotts, at vela frá hönom sverdit; þess syniodo þeir fyrir sik. Slíkir atburdir urdo iij nætur. Þá undradiz hann miök siálfr, oc sva adrir þeir er þetta sá edr heyrdo, oc spurdo menn hann eptir, hverio þat mundi gegna? Þá sagdi hann at sverd þat var kallat Hneitir, oc Olafr hinn helgi hafdi átt, oc borit siálfr í orrosto á Stiklastödom, hann sagdi oc hvornug sídan hafdi farit sverdit. Sídan var þetta sagt Stól-konongi; þá let konongr kalla til sín þann mann, er med sverd þat fór, feck hönom gull, þrenn íafnmikil virdi sverdsins, enn konongr let sverdit bera í Olafs-kirkio, þá er Væríngiar hallda; var þat þar sídan yfir alltari. Eindridi Ungi het lendr-madr í Noregi, á dögom þeirra sona Haralldz Gilla, Eysteins, Inga oc Sigurdar. Eindridi var þá í Miklagardi, er þessir atburdir gerduz, sagdi hann þessa sögo í Noreg, sva sem Einar Skúla-son segir í Vattar-drápo, þeirri er hann orti um Olaf hinn helga; oc er þar kvedit um þenna atburd.

---

XVI.

# SAGA MAGNÚSAR KONONGS ERLINGS-SONAR.

## CAP. I.

### UPPHAF MAGNÚSAR KONONGS ERLINGS-SONAR.

Sídan er Erlíngr vard þessa vís, hver rádagiörd þeirra Hákonar var, þá sendi hann bod öllom Höfdíngiom þeim, er hann vissi at trúnadar-vinir höfdo verit Inga konongs, oc sva hird-sveitinni, oc handgengnom mönnom konongs, þeim er undan höfdo komiz, oc öllom hús-körlom Gregoriuss, oc giördi þeim stefno-lag. Enn er þeir fundoz oc átto tal sitt, þá redz þat þegar, at þeir skylldo hallda saman flockinom, oc bundo þeir þat fastmælom milli sín. Sídan töludo þeir þat, hvern þeir skylldo til konongs taka. Þá taladi Erlíngr Skacki, oc leitadi ef þat væri rád höfdíngia eda annara ríkis-manna, at tekinn væri til konongs, sun Simunar Scálps, dóttur-sun Haralldz konongs Gilla, enn Jón Hallkelsson bindiz fyrir flockinom; enn Jón mælltiz undan. Var þá leitat vid Nicolás Skialldvararsun, systor-son Magnúss konongs Berfættz, ef hann villdi giöraz höfdíngi fyrir flockinom. Enn hann svarar

á þá leid, at þat var sitt rád, at taka þann til konongs, er af kononga ætt var kominn, enn þann til ráda fyrir flockinn, er vænn væri til lids oc vits; let þeim þá betra mundo verda til lids. Nú var leitat vit Arna Konongs-mág, ef hann villdi láta taka til konongs nockorn sona sinna, brædra Inga konongs. Arni svarar því, at son Kristínar, dóttur Sigurdar konongs Jórsalafara, væri bezt ættborinn til konongdóms í Noregi, er þar þó oc, sagdi hann, sá madr til forráda med hönom, er skyllda ber til at vera forsiá-madr fyrir hönom oc ríkino, er Erlíngr er fadir hanns, madr vitr oc hardrádr, oc reyndr miök í orrosto, oc landrádamadr gódr, mun hann eigi scorta til þessa ráds framkvæmd, ef hamíngia fylgir. Margir tóko vel undir þetta rád. Erlíngr svarar: sva lítz mer oc heyriz til, sem þeir se flestir, er þessa máls er leitat vid, er helldr færiz undan, at taka upp vandann. Nú syniz mer iafnvíst, þótt ver hefim þetta mál, hvart helldr er, at tignin fæz þeim er fyrir bindz flockinom, eda verdr hinn veg, sem ádr hefir nú miök mörgom farit, þeim er slíkt stórrædi hafa upptekit, at fyrir þat hafa tynt allri eigninni, oc sumir þar med lífino. Enn ef framgángrinn verdr at þesso rádi, þá má vera at þeir se nockorir, er villdi þenna kost hafa upptekit; mun sá því þurfa, er nù gengr undir þenna vanda, at setia ramligar

skordur vid, at eigi sæti hann þá mótgángi eda fiandscap, af þeim er nú ero í þesso rádi. Allir iákvæddo þat, at giöra þetta samband med fullom trúnadi. Erlíngr mællti þá: þat er frá mer at segia, at þat þicki mer næst bana mínom, at þióna Hákoni konongi; oc þótt at mer þicki þetta it háscasamligasta, þá vil ec helldr til þess hætta, at láta ydr fyrirsiá; oc mun ec taka vid forrádom flocksins, ef þat er allra ydar vili, rád oc fysi, oc vili þer þetta allir binda svardögom. Allir iátudo þvi, oc var á þeirri stefno þat rádit, at þeir skylldo Magnús til konongs taka, son Erlíngs. Sídan átto þeír þíng í bænom, ok á því þíngi var Magnús Erlíngsson tekinn til konongs, yfir land allt. Þá var hann v vetra gamall. Sídan gengo til handa hönom allir þeir menn er þar voro, oc handgengnir höfdo verit Inga konongi, oc hafdi hverr þeirra slíka nafn-bót, sem ádr hafdi haft med Inga konongi.

## CAP. II.

## FERD MAGNÚSAR KONONGS TIL DANMERKUR.

Erlíngr Skacki byriadi ferd sína, oc red ser til skipa, oc hafdi med ser Magnús konong, oc alla handgengna menn, þá er þar voro. Þar var í ferd Arni Konongs-mágr, oc Ingirídr módir Inga kon-

ongs, oc synir hennar ij, oc Jón Kurteisa, son Sigurdar Storks, oc húskarlar Erlíngs, oc sva þeir er verit höfdo húskarlar Gregoriuss, oc höfdo þeir allz x skip. Þeir fóro sudr til Danmarkar á fund Valldimars konongs oc þeirra Buris Henriks-sonar, bródor Inga konongs. Valldimar konongr var frændi scylldr Magnúss konongs. Þær voro systur, dætur Haralldz konongs or Gördom austan, Ingibiörg módir Valldimars konongs, oc Málfrídr módir Kristínar, módur Magnúss konongs. Haralldr var son Valldimars Jarisleifs-sonar. Dana-konongr tók vel vid þeim, oc voro þeir Erlíngr laungom á málstefnom oc ráda-giördom, oc kom þat upp af tali þeirra, at Valldimar konongr skylldi veita styrk Magnúsi konongi af síno ríki allan, þann er hann þyrfti til þess at eignaz Noreg, oc hallda sídan; enn Valldimar konongr skylldi þá þat ríki hafa í Noregi, sem haft höfdo hinir forno frændor hanns, Haralldr Gormsson oc Sveinn Tiúguskegg, Víkina alla nordr til Rygiarbitz. Var þessi ráda-giörd bundin eidom oc einka-málom. Sídan búa þeir Erlíngr oc Magnús konongr ferd sína af Danmörko, oc sigldo út af Vendilskaga.

## CAP. III.

## ORROSTA Í TÚNSBERGI.

Hákon konongr fór þegar um varit eptir Páska-

viko nordr til Þrándheims, hann hafdi þá Skipastól allan þann er átt hafdi Ingi konongr. Hákon konongr átti þíng í bænom í kaupángi, oc var hann þar til konongs tekinn yfir land allt. Þá gaf hann Sigurdi af Reyri Jarlsdóm, oc var hann þar til Jarls tekinn. Sídan fóro þeir Hákon konongr sudr aptr, oc allt í Vík austr, fór konongr til Túnsbergs, enn sendi Sigurd Jarl austr í Konongahello, at veria þar land med sumo lidino, ef Erlíngr kæmi sunnan. Þeir Erlíngr komo at Ögdom, oc helldo þegar nordr til Biörgyniar; þar drápo þeir Arna Brígidar-skalla, syslomann Hákonar konongs, oc fóro austr aptr þegar til móts vid Hákon konong. Enn Sigurdr Jarl hafdi eigi ordit varr vid sunnanferdina þeirrá Erlíngs, oc var hann þá enn austr vit elfi, enn Hákon konongr var í Túnsbergi. Erlíngr lagdi at vid Hrossanes, oc lá þar nockorar nætur. Hákon konongr bióz vid í bænom. Þeir Erlíngr lögdo þá at bænom, þeir tóko byrdíng einn, oc hlódo med vidi oc hálmi, oc lögdo í elld, enn vedrit stód upp á bæinn, oc rak byrdínginn at bryggiom. Erlíngr let bera á byrdínginn kadla ij, oc tengia vit skútur ij, oc let sva róa eptir, sem byrdínginn rak fyrir. Enn er elldrinn var miök kominn at bænom, þá helldo þeir ködlunom er á skútunom voro, sva at eigi mætti bærinn brenna, enn reyk lagdi sva þyckt í bæinn, at eigi sá af

bryggionom, þar sem konongs fylkíng stód. Sídan lagdi Erlíngr at öllo lidino utan eptir, á vedr elldinom, oc skuto upp á þá. Enn er bæar-menninnir sá, at elldrinn nálgadiz hús þeirra oc margir urdo sárir af scotom, þá giördo þeir rád sitt, oc sendo Hróalld prest Lángtölo út á fund Erlíngs, at taka ser grid oc bænom af Erlíngi, oc rufo fylkíng konongs, þegar er Hróalldr sagdi þeim at gridin voro tekin. Enn er bæiar-manna lid var í brott farit, þá þyntiz lidit á bryggionom, eggiudo þá sumir Hákonar-menn, at vid skylldi taka, enn Aunundr Simunarsun sagdi sva, er þá hafdi í mesta lagi rád yfir lidino: eigi mun ec beriaz til ríkis Sigurdi Jarli, enn hann se hvergi nærr. Sídan flydi Aunundr, oc þar næst allt lidit med konongi, oc snerí á land upp; fell þar miök mart af Hákoni konongi. Sva var þá kvedit:

Aunundr qvadz eigi mundo
vid orrosto kosta
fyrr enn sunnan sigldi
Sigurdr Jarl mod hús-karla.
Miök fara Magnúss reckar
mætir upp á stræti,
enn Hákonar haukar
hart scundudo undan.

Þorbiörn Skacka-skálld sagdi sva:

Greitt

Greitt frá ec gumna drottinn
grídar fáks í vído
traudr erat tenn at rióda
Túnsbergi þer snúna.
Hræddoz biartra brodda
bæar-menn vit renno
ugdo elld oc sveigdan
álm dyn-vidir málma.

Hákon konongr fór et efra nordr til Þrándheims. Enn er Sigurdr Jarl spyr þetta, fór hann med skipom öllom, þeim er hann feck, it ytra nordr til móts vid Hákon konong.

## CAP. IV.

## FRÁ ERLÍNGI OC HÁKONI.

Erlíngr Skacki tók skip þau öll í Túnsbergi, er Hákon konongr átti. Þar feck hann Bækisúdina, er Ingi konongr hafdi átt. Erlíngr fór sídan oc lagdi undir Magnús konong alla Víkina, oc sva nordr allt sem hann fór, oc sat um vetrinn í Biörgyn. Þá let Erlíngr drepa Ingibiörn Sipil, lendanmann Hákonar konongs, nordr í Fiördom. Sat Hákon konongr í Þrándheimi um vetrinn, enn eptir um varit baud hann út leidángri, oc bióz at fara sudr til móts vid Erlíng. Þar var þá med hönom Sigurdr Jarl, Jón Sveinsson, Eindridi Ungi, Aun-

undr Simunarsun, Philippus Petrsson, Philippus Gyrdarson, Raungvalldr Kunta, Sigurdr Kápa, Sigurdr Hiùpa, Fridrekr Kæna, Asbiörn af Örlandi, Þorbiörn son Gunnars Giallkera, Strad-Biarni.

## CAP. V.

## FRÁ LIDI ERLÍNGS.

Erlíngr var í Biörgyn oc hafdi lid mikit, oc tók þat til ráds, at hann lagdi far-bann fyrir kaupskip öll, þau er fara villdo nordr til kaupángs, fyrir því at hann hugdi, at ofskiótt mundi koma Hákoni konongi niósn, ef skipin færi milli; enn fann þat þó til, at Biörgynar-menn væri makligri at hafa gæzko þá er á var skipunom, þótt ódyrra væri keypt at byrdings-mönnom, enn þeim þætti fallit, helldr enn flutt væri í hendor fiandmönnom þeirra oc óvinom, þeim til styrks. Nú söfnuduz skip til Biörgynar, þvíat mörg komo hvern dag, enn eingi fóro í brott. Þá let Erlíngr setia upp skip sín þau er lettust voro, oc þann róm á vera, at hann mundi þar bída Hákonar, oc veita þar vidtöko óvinom sínom, med fulltíngi vina sinna oc frænda. Enn einnhvern dag let Erlíngr blása til styrimannastefno, oc gaf þá lof kaupskipom öllom, oc styrimönnom, at fara hvert er þeir vildo. Enn er menn höfdo þegit leyfi af Erlíngi Skacka til brotlögo,

þeir er fyrir byrdíngom redo, oc ádr lágo fiölldi þeirra albúnir at fara med varnadi sínom, sumir med kaupom, enn sumir átto önnor eyrindi, var þá oc vedr lett oc segltækt nordr med landi. Enn fyrr enn nón kæmi þess dags, höfdo allir siglt þeir er búnir voro, sótti sá sínna ferd ákafligast, er skip hafdi skiótast, kepdiz hverr vit annan. Enn er þetta samflot kom nordr á Mæri, var þar fyrir lid Hákonar konongs, oc siálfr hann í lidsafnadi, oc stefndi til sín lendom-mönnom oc leidángrs-fólki, oc hafdi hann þá ádr lánga ríd eigi til tídenda spurt sunnan af Biörgyn. Enn nú fengo þeir þá eina nyia niósn af öllom skipom þeim er sunnan fóro, at Erlíngr Skacki hafdi uppsett skip sín í Biörgyn, oc mundo þeir þannug eiga hanns at vitia, oc sögdo at hann hafdi mikit lid. Þadan sigldi Hákon konongr út til Ve-eyar, oc gördi frá ser menn í Raumsdal, Sigurd Jarl oc Aunund Símunarsun, at fá ser lid oc skip; hann sendi oc frá ser menn á Mæri hvaratveggio. Enn er Hákon kon-ongr hafdi dvaliz fár nætur i kaupbænom, þá lagdi hann brott, oc hellt siálfr þá enn sudr nockoro lengra, oc þótti sem þá mundi enn skiótara byriod ferd þeirra, oc lidit mundi fliótara til hanns koma. Erlíngr Skacki hafdi leyft brottferd öllom kaup-mönnom or Biörgyn sunno-daginn, enn tys-daginn er lokit var formessom, var blásit konongs lúdri,

oc stefnir hann þá til sín lids-mönnom oc bæiarmönnom, oc let setia fram skip sín þau er ádr voro uppsett. Erlíngr átti þá húsþíng vid lid sitt oc leidángrs-menn, sagdi þá mönnom ætlan sína, oc nefndi menn til skipa-stiórnar, let lesa upp hverir skrádir voro á konongs skipino. Lauk sva þesso þíngi, at Erlíngr bad hvern mann búaz um í síno rúmi, hvar sem skipat var; let þann missa skylldo lífs eda lima, er þá dvalldiz eptir í bænom, er hann legdi brott Bækisúdinni. Ormr Konongsbródir lagdi á brott síno skipi þegar um kvelldit, oc margir adrir, oc flest skip höfdo ádr verit á floti.

## CAP. VI.

### FRÁ ERLÍNGI SKACKA.

Ódinsdaginn ádr messor voro súngnar í bænom, lagdi Erlíngr á brott öllo lidino or Biörgyn: þeir höfdo XXI skip; þá var blásandi byrr sunnan med landi. Erlíngr hafdi med ser Magnús konong son sinn; margir voro þar lendir-menn, oc höfdo þeir med ser it frídasta lid. Þá er Erlíngr sigldi nordr fyrir Fiördo, sendi hann skúto inn af leid til húss Jóns Hallkelssonar, oc let taka Nicolás, son Símunar Scálps oc Mario dóttur Haralldz Gilla, oc höfdo þeir hann med ser út til lids síns, fór hann á konongs skipit. Friádaginn þegar í ótto sigldo þeir á

Steinavog. Hákon konongr lá þar í höfninni scamt brott, oc hafdi xiij skip; var hann siálfr oc menn hanns uppi á eyiunni á leiki, enn lendir-menn hanns sáto á haugi nockorom. Þeir sá at bátr nockr reyri sunnan at eyiunni; ij menn voro þar á, oc leto þeir fallaz stundom í kiölinn ofan, oc eigi tóko þeir fram árunom úákafligarr. Enn er þeir komo at landi, þá festo þeir eigi bátinn, oc runno bádir. Enn er þetta sá ríkis-menn, ræddo þeir um sín í milli, at þessir menn mundo segia tídindi nockor; stódo upp, oc gengo í mót þeim, oc þegar er þeir funduz, spurdi Aunundr Simunarson: kunno þit nockot at segia til Erlíngs Skacka, er þit farit sva ákafliga? Sá svaradi er fyrr mátti ordom uppkoma fyri mædisakir: her siglir Erlíngr sunnan at ydr vid xxi skip, eda því nærr, oc mörg ærit stór, oc megit þer nú skiótt siá segl þeirra. Þá svaradi Eindridi Ungi: ofnærr nefi, kvad karl, var skotinn í auga. Gengo þeir þegar skyndiliga þar til sem leikrinn var, oc því næst gall konongs lúdr vid, oc var þá blásit herblástr öllo lidino til skipa sem ákafligast, oc var þat í þann tíma dags, er miök var matbuit. Stefndi allt fólk til skipanna, hlióp hverr þar uppá þat skip sem hönom var næst, oc urdo skipin óiafnt skiput; taka þá sumir til ára, sumir reisa viduna, oc snúa nordr skipunom, oc stefna til Veeyiar, fyrir því at þeir væntu ser þar mikils lids af bæiar-mönnom.

## CAP. VII.

## FALL HÁKONAR KONONGS.

Því næst siá þeir segl þeirra Erlíngs, oc sva hvarir adra. Eindridi Ungi hafdi þat skip er kallat var Draglaun, lángskips-búza mikil, oc hafdi þar ordit lidfátt á, þvíat þeir höfdo laupit á önnor skipinn, er þar höfdo ádr verit; þat var seinst skipa Hákonar konongs. Enn þá er Eindridi kom gegnt eyionni Sek, kom Beikisúdin eptir þeim, er Erlíngr Skacki styrdi, oc festo þeir saman þau skip. Enn Hákon konongr var kominn náliga inn til Veeyiar, er þeir heyrdo lúdra-gánginn; viko þeir þá aptr, oc villdo veita lid Eindrida, oc leggia þá hvarirtveggio til orrosto, sva sem vid komaz; fóro mörg seglin ofan þverskipa, enn eingi voro skipin tengd, oc lögdo bord vid bord. Þessi orrosta vard eigi laung, ádr skipun raufz á skipi Hákonar konongs; fello sumir, enn sumir gengo fyrir bord. Hákon steypti á sik grárri kápo, oc lióp á annat skip; enn er hann hafdi þar dvaliz litla hríd, þá þóttiz hann vita, at hann var þar med óvinom sínom kominn. Oc er hann hugsadi fyrir ser, þá sá hann einga sína menn eda sín skip allnær ser; geck hann þá á Beikisúdina, oc fram í stafnsveit, oc bad ser grida, enn stafnbúar tóko hann á sitt valld, oc gáfo hönom grid. I þessi hríd hafdi ordit mikit mann-

fall, oc þó miklo meira af Hákonar mönnom. Fallinn var þá á Beikisúdinni Nicolás son Simunar Scálps, oc var hanns dráp kent þeim siálfom Erlíngs mönnom. Eptir þetta var hvílld á orrosto, oc greindoz ser hvar skipin. Þá var sagt Erlíngi, at Hákon konongr var þar á skipi hanns, oc stafnbúar höfdo tekit hann til sín, oc heituduz at veria hann. Erlíngr sendi mann fram á skipit, oc bad þat segia stafnbúom, at þeir vardveitti sva Hákon konong, at hann kæmiz eigi ábrott; enn letz eigi mundo á móti mæla, at konongr hefdi grid, ef þat væri rád annara ríkis-manna, oc væri þadan leitat um sættir. Stafnbúar mællto allir, at hann skylldi mæla allra höfdíngia heilastr. Þá let Erlíngr blása ákafliga, oc bad menn þess, at þeir skylldo leggia at skipom þeim er óhrodin voro, sagdi at þeir mundo eigi komaz í betra færi at hefna Inga konongs. Þá æpdo allir heróp, oc eggiadi hverr annan, oc greiddo til atlögunnar. I þessom þys var konongr særdr bana-sári. Enn eptir fall hanns, oc þá er hanns menn urdo þess varir, þá röro þeir at fast, oc köstudo hlífunom, oc hiuggo ij höndom, oc hirto þá eigi um líf sitt. Þessi ofrausn geyrdiz þeim brátt at skada miklom, þvíat menn Erlíngs sá þá bera högg-stadi á þeim; fell þá þorrinn Hákonar konongs manna, þar þat mest til, at lidsmunr var mikill, oc menn Hákonar hlífdo ser lítt,

enn eingi þurfti gridin at nefna Hákonar-manna, uema þeir einir, er ríkis-menn tóko á sitt valld, oc festo fe fyrir. Þessir menn fello af Hákonar lidi: Sigurdr Kápa, Sigurdr Hiúpa, Rögnvalldr Kunta; enn nockor skip komoz undan, oc röro inn í Fiördo, oc hulpo sva lífi síno. Lík Hákonar konongs var flutt inní Raumsdal, oc var þar iardat. Enn sídar let Sverrir konongr bródir hanns flytia lík Hákonar konongs nordr til kaupángs, oc leggia í steinvegginn í Kristz-kirkio fyrir sunnan í kórnom.

## CAP. VIII.

### FLÓTTI LIDS-HÖFDÍNGIA HÁKONAR KONONGS.

Sigurdr Jarl, Eindridi Ungi, Aunundr Simunarson, Fridrekr Kæna, oc enn fleiri höfdingiar helldo enn saman flockinom, leifdo skipin í Raumsdal, oc fóro sídan til Upplanda. Magnús konongr oc Erlíngr fadir hanns fóro vid lidi síno nordr í Þrándheim til Nidaróss, oc lögdo land allt undir sik, hvar sem þeir fóro. Sídan let Erlíngr stefna Eyraþíng, var þar Magnús til konongs tekinn yfir allan Noreg; dvaldiz Erlíngr þar litla ríd, þvíat hönom þótto Þrændor vera helldr ótrúligir þeim fedgom, var Magnús þá kalladr konongr yfir landi öllo. Hákon konongr hafdi verit madr frídr synom, vax-

inn vel, hár oc miór, oc helldr herda-breidr, oc því kölludo lids-menn hann Hákon Herda-breidan. Enn fyrir því at hann var úngr alldri, höfdo lendir-menn ráda-giördir fyrir hönom; hann var kátr oc lítilátr í máli, leikinn oc hafdi úngmennis ædi á ser, vinsæll var hann vit alþydo.

## CAP. IX.

### UPPHAF SIGURDAR KONONGS.

Markús á Skógi het madr Upplendzkr, frændi Sigurdar Jarls; Markús fóstradi son Sigurdar konongs Haralldzsonar, sá het oc Sigurdr. Sídan tóko Upplendíngar Sigurd til konongs, med rádi Sigurdar Jarls, oc annara höfdíngia, þeirra er fylgt höfdo Hákoni konongi, oc höfdo þeir þá enn styrk mikinn lids, oc fór flockrinn iafnan í tvenningo, var konongr oc Markús minnr á vidborda, enn Sigurdr Jarl med sína sveit oc lendir-menn váro meir vid háskann; fóro þeir med flockinn mest um Upplönd, enn stundom ofan í Víkina. Erlíngr Skacki hafdi iafnan med ser Magnús konong son sinn, hafdi hann oc skipa-stól allan oc land-varnir. Hann var í Biörgyn um haustit ríd nockora, oc fór þadan austr í Vík, oc settiz í Túnsbergi, oc efnadi þar til vetrseto, oc safnadi at ser um Víkina sköttom oc skylldom þeim er konongr átti, hann hafdi oc frítt lid

oc mikit. Enn med því at þeir Sigurdr Jarl höfdo lítit af landi, enn mikit fiölmenni var med þeim, þá vard þeim brátt fefátt, oc þar er eigi voro höfdíngiar nærr, þá vard eptir feno leitat miök aflaga, sumt med frekligom saka-giptom, enn sumt berliga med ránom.

## CAP. X.

## FYRIRDÆMDR SIGURDR JARL.

I þann tíma stód Noregs velldi med miklom blóma, var bónda-fólkit audigt oc ríkt, oc úvant ófridi edr ófrelsi, oc ofríki flockanna; geyrdiz brátt á þesso mikit ordlag oc stórar frásagnir, þá er rænt var. Víkveriar voro fullkomnir vinir Magnúss konongs oc Erlíngs, oc ollí því mest vinsælld Inga konongs Haralldzsonar, þvíat Víkveríar höfdo med sínom styrk iafnan þiónat undir þann skiölld. Erlíngr let hafa vardhölld í bænom, oc vökdo xij menn hveria nótt. Erlíngr átti iafnan þíng vit bændor, oc var þar talat opt of óspekdir Sigurdarmanna; oc med fortölom Erlíngs oc annara lidsmanna, þá fekz til þess mikill rómr af bændom, at þat væri happa-mikit verk, at menn leti þann flock aldregi þrífaz. Arni konongs-mágr taladi lángt oc sniallt um þetta mál, oc hart at lykdom; beiddi hann þess alla menn er á voro þíngino, bædi lidsmenn oc bændor oc bæiar-menn oc kaupmenn, at

menn skylldo göra at því vapna-tak, at dæma med lögom Sigurd Jarl oc allan þann flock þeirra til fiandans bædi lífs oc dauda. Enn med ákafa oc óstilling lydsins, þá iátudo allir því; var þetta ódæma-verk giört oc fest, sva sem lög voro til at dæma á þíngom. Hróalldr prestr Lángtala taladi um þetta mál, hann var manna sniallastr, oc kom sú tala miök í einn stad, sem ádr hafdi talat verit. Erlíngr veitti um Jólin í Túnsbergi, enn hann gaf mála þar um Kyndel-messo.

## CAP. XI.

## FRÁ ERLINGI.

Sigurdr Jarl fór med it frídasta lid sitt ofan í Víkina, oc geck þar undir hann mart fólk fyrir ófríkis sakir, enn margir gulldo fe; fór hann sva vída uppí á land, oc kom fram í ymsom stödom; voro þeir sumir í flockinom, er ser leitudo grida á laun til Erlíngs, enn þar komo þau andsvör móti, at allir menn þeir er þess leitudu, skylldo fá lífs-grid, enn þeir einir landz-vist, er eigi væri í stórsökom vid Erlíng. Oc er þat fretto flocks-menn, at þeir skylldo eigi landz-vistina hafa, þá hellt þat miök saman flockinom; þvíat þeir voro margir, er at því visso sik sanna, at Erlíngi mundi þickia miök vera sak-bitnir. Philippus Gyrdarson

geck til sættar vid Erlíng, oc feck aptr eignir sínar, oc fór aptr til búa sinna. Litlo sídarr komo þeir þar menn Sigurdar, oc drápo hann. Mörg slög veitto oc hvarir ödrom í elltom, eda í manna aftökom; oc er þat eigi her ritat, er eigi áttuz höfdíngiar vid.

## CAP. XII.

## ERLÍNGR FÆR NIÓSN UM SIGURD JARL.

Þat var á öndverdri fösto er niósn kom Erlíngi, at Sigurdr Jarl mundi ætla á fund hanns, oc var til hanns spurt her oc hvar, stundom nærr, enn stundom firr meirr. Erlíngr giördi þá niósnir alla vega frá ser, at hann skylldi varr vid verda, hvar sem þeir kæmi fram. Hann let oc hvert kvelld blása öllo lidino upp or bænom, oc lágo þeir um vetrinn um nætor lengi í safnadi, oc var ádr allt skipat lidino til fylkingar. Þá kom Erlíngi niósn, at þeir Sigurdr Jarl voro skamt þadan á brott, uppí á Re. Erlíngr byriadi þá ferd sína or bænom, oc hafdi þá vid ser allt bæiar-fólk, þat er vígt var oc vapnat, oc sva kaupmenn, nema xii menn, er eptir voro at gæta bæiar. Erlíngr fór or bænom tys-daginn í annari viko lánga-fösto eptir nón, oc hafdi hverr madr med ser ij daga vist; fóro þeir um nóttina, oc vard þeim seint at koma lidino or bænom. Um einn hest oc einn skiölld voro

menn ij. Þá er skorat var lidit, þá var nær XIII hundrut manna. Enn er niósn kom móti þeim, var þeim sagt, at Sigurdr Jarl var á Re, á þeim bæ er Ramnes heitir, med V hundrut manna; let þá Erlíngr kalla saman lidit, oc sagdi þau tídindi er hann hafdi spurt; enn allir eggiudo, at þeir skylldo skunda, oc taka hús á þeim, eda beriaz þegar um nóttina. Erlíngr mællti sva: þat mun líkligazt þikia, at fundr varr Sigurdar Jarls muni brátt atberaz; eru í þeirra flocki þeir menn margir, at oss mætti minnisamt vera þeirra handaverk, er þeir hiöggo nidr Inga konong, oc sva marga adra vini vara, sem seint er tölo á at koma; geyrdo þeir þau verk med fianda-krapti oc fiölkyngi oc nídingsskap: þvíat þat stendr her í lögom vorom oc landzretti, at eingi madr hefir sva fyrirgört ser, at eigi heiti þat nídings-víg eda mord-víg, er menn drepaz of nætor. Hefir þessi flockr sva leitat ser heilla, at tilvísan fiölkunnigra manna, at þeir skylldo of nætor beriaz, enn eigi undir sólo; hafa þeir oc med þvílíkri framkvæmd þann sigr unnit, at stíga yfir höfod þvílíkom höfdíngiom, sem þeir hafa at iördo lagt. Nú höfom ver þat optliga sagt oc synt, hvernog afleitt oss virdiz um þetrra hátto, er þeir hafa of nætor til bardaga rádit; skolo ver fyrir því helldr hafa hinna höfdíngia dæmi, er oss ero kunnari, oc betra er eptir at

líkia, at beriaz of liósa daga, oc med fylkdo lidi, enn stelaz eigi á sofandi menn of nætor; höfo ver nógt lid i móti þeim, eigi meiri her enn þeir hafa; skulo ver bída dags oc lysingar, oc helldaz saman í fylkíngom, ef þeir vilia nockor álaup oss veita. Eptir þat settiz nidr lidit allt; tóko sumir sundr hey-hiálma nockora, oc geyrdo ser af ból, sumir sáto á skiölldom sínom, oc bido sva lysingar. Svallt var vedr oc vata-drífa.

## CAP. XIII.

### FRÁ FYLKING SIGURDAR JARLS.

Sigurdr Jarl hafdi sva fremi fengit niósnina, er lidit nærr var komit at bænom. Stódo menn hanns upp oc vapnudoz, oc visso ógiörla hverso mikit lid Erlingr hafdi, villdo sumir flyia, enn flestir villdo bída. Sigurdr Jarl var vitr madr oc sniallr í máli, enn kalladr eigi mikill árædis-madr, var Jarl þá oc fúsari at flyia, oc feck hann af því hallmæli mikit af lids-mönnom. Enn er lysti, tóko hvarirtveggio at fylkia lidi síno, fylkdi Sigurdr Jarl á brecko nockorri fyrir ofan brúna, milli árinnar oc bæiarins; þar fell litil á. Enn þeir Erlíngr fylkdo ödromegin árinnar; á bak fylking þeirra vóro menn á hestom vel vapnadir, þeir höfdo konunginn med ser. Menn Sigurdar Jarls sá þá, at lids-munr

mundi vera mikill, oc töldo þat rád at leita á skóginn. Þá svarar Sigurdr Jarl: þat segi þer at mer fylgi eingi hugr, enn nú skal þat reyna: gæti hverr sín, at eigi flyi eda fálmi fyrr enn ec. Ver höfom vígi gott, látom þá gánga yfir brúna, enn er merkit kemr yfir brúna, þá steypumz ver á þá ofan fyrir breckuna, oc flyi nú eingi frá ödrom. Sigurdr Jarl hafdi raudbrúnadan kyrtil, oc rauda skickio, oc drepit upp fyrir skautunom, fitskúa á fótom, hann hafdi skiölld, oc sverd er Bastardr het. Jarl mællti: þat veit Gud med mer, at helldr enn þiggia mikit gull, þá villda ec ná med Bastardi, at koma eino höggvi vid Erlíng Skacka.

## CAP. XIV.

### FALL SIGURDAR JARLS.

Lid Erlíngs Skacka villdi gánga fram at brúnni; Erlíngr bad þá venda upp med ánni: er á þessi lítil, oc eingi torfæra, þvíat slett er at; oc var sva giört. Fylkíng Sigurdar Jarls fór upp eptir breckunni gegnt þeim; enn þá er þraut breckuna, oc slett var yfir ána oc gott, þá mællti Erlíngr, at hanns menn skylldo syngia Pater Noster, oc bidia Gud, at þeir hefdi gagn er betr gegndi. Þá súngo þeir allir hátt Kyrieeleison, oc bördo vapnom á skiölldo sína. Enn vid þann gny skutuz ábrott oc

flydo ccc manna af Erlíngs lidi. Geck þá Erlíngr oc hanns lid yfir ána, enn Jarls-menn æpdo heróp; enn þeim brásk framhlaupit fyrir breckuna á fylkíng Erlíngs, oc tókz orrosta upp á framanverdri breckunni; voro fyrst spióta-lög, oc þvínæst högg-orrosta, oc fór þegar á hæl merki Jarls, sva at Erlíngr oc hanns menn komuz uppá breckuna. Vard þá skömm orrosta, ádr enn Jarls-menn flydo á skóginn, er at baki þeim var ádr. Þá var þat sagt Sigurdi Jarli, oc bádo menn hann flyia; hann svarar: fram ver nú, medan megom. Gengo þeir þá fram allhraustliga, oc hiuggo til beggia handa. I þeirri hríd fell Sigurdr Jarl, oc Jóan Sveinsson, oc nær LX manna. Þeir Erlíngr leto fátt manna, oc ráko flóttann at skóginom. Þá stödvadi Erlíngr lidit, oc hvarf þá aptr. Hann kom þar at, er þrælar konongs villdo fletta klædom af Sigurdi Jarli, oc var hann eigi med öllo eyrendr, enn vissi þó ecki. Hann hafdi fólgit sverd sitt Bastard í umgiörd, oc lá þat þar hiá hönom. Erlíngr tók þat upp, oc laust med þrælana, oc bad þá brott skrída. Eptir þat hvarf Erlíngr aptr med lidi síno, oc settiz í Túnsbergi. Siö nóttom sídar enn Sigurdr Jarl fell, tóko þeir Erlíngs-menn Eindrida Unga, oc var hann drepinn, oc öll skipsaugn hanns med hönom.

Cap.

## CAP. XV.

## FRÁ MARKÚSI Á SKÓGI, OC SIGURDI KONONGI SIGURDAR SYNI.

Markús af Skógi oc þeir Sigurdr konongr fóstrar redo ofan í Víkina er varadi, oc fengo ser þar skip. Enn er þat spurdi Erlíngr, þá fór hann austr at þeim, oc hittuz þeir í Konongahello. Flydo þeir Markús uppí eyna Hísing; dreif þar ofan landz-fólk Hísings-búar, oc gengo í fylkíng med Markúsi oc Sigurdi. Þeir Erlíngr röro at landi, enn Markúss-menn skuto á þá. Þá mællti Erlíngr vid sína menn: tökom skip þeirra, oc göngom eigi upp at beriaz vid landz-her: Hísings-búar ero illir heimsóknar, hardir menn oc óvitrir; muno þeir litla stund hafa flock þenna med ser, þvíat Hísing er lítit land. Var sva giört, at þeir tóko skipin, oc flutto yfir til Konongohello. Markús oc hanns lid fóro upp á markir, oc ætludo þadan til álaupa; höfdo þá hvarir niósnir af ödrom. Erlingr hafdi fiölmenni mikit, oc nefndi þat lid or herodom; veitto þá hvarir ödrom árásir.

## CAP. XVI.

## UPPHAF EYSTEINS ERKIBISKUPS.

Eysteinn son Erlendz Hímallda var kosinn til Erkibiskops, eptir andlát Jóans Erkibiskups. Eysteinn

var vígdr á sama ári er Ingi konongr fell. Enn er Eysteinn Erkibiskop kom til Stóls, var hann vel þockadr öllo landz-fólki, hann var skörúngr mikill, oc madr ættstór; tóko Þrændir feginsamliga vid hönom, þvíat flest stórmenni í Þrændalögom var bundit í frændsemi eda í nockorom tengdom vid Erkibiskop, enn allir fullkomnir vinir hanns. Erkibiskup hóf þá mála-leitan vid bændor: taladi fyrst um fiár-þurft Stadarins, oc þat med, hverso mikla uppreist Stadrinn þurfti at hafa, ef hann skylldi þá vera þeim mun sæmiligar halldinn enn ádr, sem hann var þá tignari enn ádr, er þar var Erkibiskops-stóll settr. Hann beiddi þess bændor, at þeir skylldo veita hönom silfr-metinn eyri í sinn sakeyri, enn ádr hafdi hann sakmetinn eyri, sem geck í konongs sakeyri; enn þessa aura-lags er helmíngs munr, at meiri er sá, er hann villdi hafa, silfr-metinn eyrir. Enn vid styrk frænda Eysteins Erkibiskops oc vina, enn framkvæmd siálfs hanns, þá geckz þetta vid, oc var þat dæmt at lögom um öll Þrændalög, oc öll fylki þau er í hanns Erkibiskops-ríki voro.

## CAP. XVII.

## FRÁ MARKUSI OC SIGURDI KONONGI.

Sigurdr oc Markús þá er þeir höfdo látit skip sín í Elfinni, oc sá þeir þat, at þeir fengo eigi fáng

á Erlíngi, þá sneroz þeir til Upplanda, oc fóro sva it efra nordr til Þrándheims; var þeim Sigurdi þar vel fagnat, oc var Sigurdr þar til konongs tekinn á Eyra-þíngi. Redoz þar til flocksins margir göfugir menn oc synir þeirra; redo þeir ser þá til skipa, oc biögguz skyndiliga, oc fóro er sumradi sudr á Mæri, oc tóko þar allar konongs-tekior hvar sem þeir fóro. Þeir voro þá lendir-menn í Biörgyn til landvarnar: Nicolás Sigurdarson, Nöckvi Pálsson, oc enn fleiri sveitar-höfdíngiar, Þórólfr Dryllr oc Þórbiörn Gialldkere, oc margir adrir. Þeir Markús sigldo nordan, oo spurdo at Erlíngs-menn höfdo fiölment í Biörgyn, sigldo þar útleid sudr um. Þat höfdo menn at máli, at sumar þat höfdo Markúss-menn byr, hvert er þeir villdo sigla.

## CAP. XVIII.

### DRÁP SIGURDAR KONONGS OC MARKÚSAR.

Erlíngr Skacki, þegar er hann spurdi at þeir Markús höfdo nordan farit, hellt hann þá nordr í Víkina, oc dró hann at ser lid oc vard brátt fiölmennr, oc hafdi mörg skip oc stór. Enn er hann sótti útí Víkina, tók hann andvidrí stór, oc lá lengi í höfnom her oc hvar allt þat sumar. Enn er þeir Markús komo austr á Lista, þá spurdo þeir at Erlíngr hafdi her óvígan í Víkinni, vendo þeir aptr nordr.

Enn er þeir komo á Hördaland, þá ætla þeir til Biörgyniar, oc er þeir komo fyrir bæinn, róa þeir Nicolás innan í móti þeim, oc höfdo lid miklo meira oc skip stærri; siá þeir Markús þá eingan annan sinn kost, enn róa sudr undan, stefna sumir til hafs út, enn sumir sudr í sund, enn sumir í Fiördo inn. Markús oc sumt lid med hönom hlióp upp í ey þeirri, er Skarpa heitir. Þeir Nicolás tóko skip þeirra, oc gáfo grid Jóni Hallkelssyni, oc nockorom mönnom ödrom, enn drápo flesta þá er þeir nádo. Nockorom dögom sídarr fann Eindridi Heidafyla þá Sigurd oc Markús, oc voro þeir fluttir til Biörgynar. Var Sigurdr höggvinn út fyrir Grafdali, enn Markús var hengdr vit annan mann á Hvarfsnesi; enn þat var Michaels-messo. Þá dreifdiz flockr sá, er þeim hafdi fylgt.

## CAP. XIX.

## FRÁ ERLÍNGI OC HÍSÍNGS-BÚOM.

Frírekr Kæna oc Biarni hinn illi, Annundr Simunarson, Aurnolfr Skorpa, þeir höfdo róit á haf út med nockorom skipóm, oc helldo it ytra med hafi austr fyrir land. Enn hvar sem þeir komo vit land, rænto þeir oc drápo vini Erlíngs. Enn er Erlíngr spurdi dráp þeirra Sigurdar oc Markúsar, þá gaf hann heimleyfi lendom-mönnom oc

leidángrs-mönnom, enn hann siálfr hellt þá síno lidi austr yfir Folldina, þvíat hann spurdi þar til Markús-manna. Erlíngr hellt til Konongahello, oc dvaldiz þar um haustit. A fyrsto viko vetrar fór Erlíngr út í eyna Hísing med lid mikit, oc krafdi þar þíngs. Hísings-búar komo ofan, oc helldo upp þíngi. Erlíngr bar sakir á hendor þeim um þat, er þeir höfdo hlaupit í flock med Markúsi oc Sigurdi, oc fylkt lidi í móti hönom. Auzurr het bóndi sá er ríkastr var í eynni fyrir, oc taladi í móti hönom af þeirra hendi; var þíngit lángt, enn þat vard at lykdom, at bændor festo dóm Erlíngi á síno máli, enn hann giördi þeim stefno-lag á viko fresti í bænom, oc nefndi til xv bændor at koma þá þar. Enn er þeir komo, dæmdí Erlíngr á hendor þeim at giallda ccc nauta. Fóro bændor heim, oc undo illa sínom hluta. Litlo sídar lagdi ís á ána, oc fraus inni skip Erlíngs; helldo bændor þá gialldino, oc lágo í safnadi um hríd. Erlíngr bió þar til Jóla-veizlo, enn Hísings-búar höfdo samburdar-öl, oc helldo sveit um Jólin. Um nóttina eptir hinn fimta dag Jóla, fór Erlíngr uppí eyna Hísing, oc tók hùs á Auzuri, oc brendi hann inni, oc allz drap hann tíu-tigi manna, oc brendi iij bæi, oc fór sídan aptr til Konongahello. Sídan komo bændor sem ákvedit var, oc gulldo gialldit Erlíngi.

## CAP. XX.

## DRÁP FRIREKS KÆNO OC BIARNAR ILLA.

Erlíngr Skacki bióz þegar um varit, er hann mátti fleyta skipom sínom fyrir ísom, oc fór or Konongahello; hann spurdi at þeir heriodo nordr í Víkinni, er fyrr höfdo verit Markúss menn. Erlíngr hellt þá til niósnom um farir þeirra, oc fór at leita þeirra, oc hitti þá er þeir lágo í höfn nockorri. Aunundr Simunarson oc Aurnolfr Skorpa komuz undan, enn Fríreckr Kæna oc Biarni inn Illi urdo handteknir, oc drepit mart af sveitúngom þeirra. Erlíngr lèt binda Frírek vid ackeri, oc kasta fyrir bord; oc var Erlíngr af því verki it mesta óþockadr í Þrændalögom, þvíat Frírekr átti þar hina stærsto ætt. Biarna hinn Illa lèt Erlíngr hengia, oc mællti Biarni enn illa, sem hann var vanr, med eno mesta ordskræpi, ádr hann var hengdr. Sva segir Þórbiörn Scacka-skálld:

Urd dró austan fiardar
Erlíngr at víkíngom
mein feck margr af Kæno
madr er hann fór þadra.
Færdr var fleinn medal herda
Fríreks ofarr nockvi
skolldi óþarfr älldom
illgiarn vid tre Biarni.

Aunundr oc Aurnolfr, oc þær sveitir er undan höfdo komiz, flydo til Danmerkor, enn váro stundom á Gautlandi eda í Víkinni.

## CAP. XXI.

## SAMTAL ERLÍNGS SKACKA OC EYSTEINS ERKIBISKOPS.

Erlíngr Skacki hellt sídan til Túnsbergs, oc dvaldiz þar miög lengi um varit; enn er sumradi, hellt hann nordr til Biörgyniar, var þar þá allmikit fiölmenni. Þá var þar Stephanus Legati af Rómaborg oc Eysteinn erkibiskop, oc adrir biskopar innlendzkir. Þar var oc Brandr biskop, er þá var vígdr til Islandz, oc Jón Loptzson, dótturson Magnúss konongs Berfættz; hafdi þá Magnús konongr oc adrir frændor Jóans tekit vid frændsemi hanns. Eysteinn erkibiskop oc Erlíngr Skacki voro opt á tali oc á einmælom; oc eitt sinn vard þat í rædom þeirra, at Erlíngr spurdi: er þat med sannindom, herra, er menn segia, at þer hafit aukit aura-lag um sakeyri ydvarn vid bændor nordr í landit? Erkibiskop svarar: þat er víst satt, at bændor hafa mer þat veitt, at auka aura-lag um sakeyri minn; hafa þeir af siálfrædi síno, enn med eingom pindingom, aukit í því Guds dyrd oc audæfi stadar vars. Erlíngr svarar: hvert ero þat lög, herra, hinns helga

Olafs konongs, eda hafi þer tekit nockoro frekara þetta mál, enn sva sem ritat er á lögbókinni? Erkibiskop svarar: sva mun hinn helgi Olafr konongr lögin hafa sett, sem hann feck þá til iáord oc samþycki alþydunnar; enn eigi finnz þat í hanns lögom, at bannat se at auka Guds rett. Erlíngr svarar: vili þer auka ydarn rett, þá muno þer oc vilia styrkia oss til þess, at ver aukim iammmiklo konongs rettinn. Erkibiskop svarar: aukit hefr þú nú ádr med nógo nafn oc ríki sonar þíns; enn ef ec hefi afllaga tekit aura-lögin af Þrændom, þá ætla ec stærra afbera hin laga-brotin, er sá er konongr yfir landi, er eigi er konongs sonr, ero hvarki til þess lög ne dæmi her í landi. Erlíngr svarar: þá er Magnús var til konongs tekinn yfir Noregs ríki, var þat giört med ydarri vitund oc rádi, oc allra annara biskopa her í landi. Erkibiskop svarar: því hetz þú þá, Erlíngr, ef ver samþycktom þat med þer, at Magnús væri til konongs tekinn, at þú skylldir styrkia Guds rett í öllom stödom med öllom krapti. Erlíngr svarar: iáta ec því, at ec hefi heitit at hallda oc styrkia Guds bodord oc landz-lög med öllom krapti mínom oc styrk konongs. Nú se ec her betri rád til, helldr enn hvarr ockarr kenni ödrom brigdmæli, hölldom helldr einkamál var öll; styrki þer Magnús til ríkis, sva sem þer hafit heitit, enn ec skal styrkia ydart ríki til allra farsælligra luta.

Fór þá öll rædan miúkliga med þeim. Þá mællti Erlíngr: ef Magnús er ecki sva til konongs tekinn, sem forn sidvandi hefr verit her í landi, þá megit þer af ydro valldi gefa hönom konongs vígslo, sva sem Guds lög ero til, at smyria konong till velldis. Enn þótt ec se eigi kongr eda af kononga ætt kominn, þá hafa þeir konongar verit nú flestir í varo minni, er eigi visso iafnvel sem ec til laga eda landz-rettar; enn módir Magnúsar konongs er konongs dóttir oc drottningar skilfengin. Magnús er oc drottningar son oc eiginkono son. Enn ef þer vilit gefa hönom konongs vígslo, þá má eingin hann sídan at retto taka af konongdóminom. Eigi var Vilhiálmr Bastardr konongs son, oc var hann vígdr oc kórónadr til konongs yfir Englandi, oc hefir sídan halldiz konongdómr í hanns ætt á Englandi, oc allir verit kórónadir. Eigi var Sveinn Ulfsson í Danmörk konongs son, oc var hann þó þar kórónadr konongr, oc sídan synir hanns, oc hver eptir annan þeirra frænda kórónadir konongar. Nú er her í landi Erkistóll, er þat mikill vegr oc tign landi voro; aukom ver nú enn þá med gódom lutom: höfom konong kórónadan, eigi sídr enn Danir oc Enskir menn. Sídan töludo þeir Erlíngr oc erkibiskop um þetta mál optliga, oc fór allt sáttgiarnliga. Sídan bar erkibiskop þetta mál fyrir Legatan, oc feck hann audvelldliga snùit hanum til

samþyckis vid sik. Atti erkibiskop þá stefno vid lyd-biskopa, oc adra kennimenn, oc bar þetta mál fyrir þá; enn allir svörudo á eina lund, sögdo þat sitt rád sem erkibiskop villdi vera láta, oc fysto allir at vígsla færi fram, þegar er þeir fundo, at erkibiskop villdi sva.

## CAP. XXII.

## VÍGSLA MAGNÚSAR KONONGS.

Erlíngr Skacki let búa í konongs-gardi til veizlo mikillar, oc var in mikla höll tiölldod pellom oc bakklædom, oc búin vid hinom mesta kostnadi. Var þar veitt hirdmönnom oc öllom handgengnom mönnom; þar var fiölldi bods-manna oc margir höfdíngiar. Magnús tók þá konongs-vígslo af Eysteini erkibiskupi, oc þár voro at vígslonni adrir v biskupar oc Legátinn, oc fiölldi annara kennimanna. Erlíngr Skacki oc med hönom xij lendirmenn svördo laga-eydinn med konongi. Oc þann dag er vígslan var, hafdi konongr oc Erlíngr í bodi síno Legátann oc erkibiskup, oc alla adra biskupa, oc var sú veizla hin vegsamligasta; gáfo þeir fedgar þar margar stórgiafir. Þá var Magnús konongr viij vetra, oc þriá vetur hafdi hann þá konongr verit.

## CAP. XXIII.

### FRÁ SENDIMÖNNOM VALLDIMARS KONONGS.

Valldamar Dana-konongr hafdi þá spurt þau tídindi af Noregi, at þar var þá Magnús einn ordinn konongr yfir landi öllo, oc þá var eytt flockom öllom ödrom þar í landi. Þá sendi Valldamar Dana-konongr menn sína vid brefom til Magnúss konongs oc þeirra Erlíngs, oc minti þá á einkamál þau, er Erlíngr hafdi bundit vit Valldamar konong, sva sem fyrr var her ritat: at Valldamarr konongr skylldi eignaz Víkina austan til Rygiarbitz, ef Magnús yrdi einvalldz-konongr yfir Noregi. Enn er sendimenn komo fram, oc syndo bref Dana-konongs Erlíngi, oc hann skilr tilkall Dana-konongs, þat er hann hefir í Noregi, þá ber Erlíngr þetta fyrir adra þá menn, er hann skaut rádom undir. Enn þeir sögdo allir eitt, at alldri skylldi Dönom midla neitt af Noregi, þvíat menn sögdo, at sú ölld hafdi verst verit þar í landi, er Danir höfdo valld í Noregi. Sendimenn Dana-konongs flutto sitt mál fyrir Erlíngi, oc beiddo hann orskurdar; enn Erlíngr bad þá fara med ser í Vík austr um haustit, sagdi at hann mundi þá veita orskurd of þetta mál, er hann hafdi hitta þá menn í Víkinni, er þar voro vitrastir.

## CAP. XXIV.

## FRÁ ERLÍNGI OC VÍKVERIOM.

Erlíngr Skacki fór um haustit austr í Víkina, oc dvaldiz í Túnsbergi: hann giördi menn yfir til Borgar, oc let stefna iiij fylkna þíng í Borg; sídan fór Erlíngr þannug vid lidi síno. Enn er þíng var sett, þá taladi Erlíngr, oc sagdi fra því, hver rádagiörd hafdi verit stadfest med þeim Dana-konongi, þá er þeir Erlíngr höfdo hafit flock þann it fyrsta sinn; vil ec, sagdi Erlíngr, hallda öll einka-mál vid konong, þau er ver giördom þá, ef þat er vili oc samþycki ydart bóndanna, at þióna helldr Dana-konongi, enn þessom konongi, er nú er vígdr oc kórónadr til landz þessa. Bændor svörudo máli Erlíngs, oc sögdo sva: fyrir eingan mun viliom ver göraz menn Dana-konongs, medan einhverr varr er á lífi Víkverianna. Geystiz þá at múgrinn allr med ópi oc kalli, oc bádo Erlíng hallda eida sína, er hann hafdi þá svarit öllo landz-fólki, at veria land sonar síns; enn ver skulom allir fylgia þer. Sleit sva því þíngi. Sídan fóro sendimenn Dana-konongs heim sudr til Danmerkr, oc sögdo sín erindis-lok. Veitto Danir Erlíngi mikit ámæli, oc öllom Nordmönnom, at þeir væri alldregi reyndir nema at illo; fóro þau ord um, at Dana-konongr mundi eptir um varit hafa úti her sinn, oc heria

í Noreg. Erlíngr fór um haustit nordr til Biörgyniar, oc sat þar um vetrinn, oc gaf þar mála.

## CAP. XXV.

## FRÁ BREFOM ÞRÆNDA.

Vetr þann fóro menn nockorir Danskir it efra um Upplönd, oc sögdo þat, sem marg-títt er, at þeir skylldo fara til hinns helga Olafs konongs til vöko. Enn er þeir komo í Þrándheim, þá hitto þeir þar marga ríkis-menn, oc sögdo þeir þá erindi sín: at Dana-kongr hefdi sent þá at leita ser vinátto þeirra, oc vidtöko ef hann kæmi í land; enn hann het bædi at gefa þeim ríki oc fe. Þessi ordsendíng fylgdi bædi bref oc innsigli Dana-konongs, oc þat med, at þeir Þrændor skylldo senda ámót bref sín oc innsigli. Þeir giördí sva, oc urpuz flestir vel vid ordsending Dana-konongs. Fóro sendimenn austr aptr, er áleid lánga-fösto. Erlíngr sat í Biörgyn, enn er varadi sögdo vinir Erlíngs hönom pata þann, er þeir höfdo heyrt af byrdings-mönnom, er komnir voro nordan or Þrándheimi: at Þrændir væri berir í fiandskap til hanns, oc þeir lysti því á þíngom sínom, ef Erlíngr kæmi í Þrándheim, at hann skylldi alldri komaz med fiörvi út um Agdanes. Erlíngr qvad slíkt vera upplost oc hegóma. Erlíngr lysti því, at hann mundi fara sudr á Unarheim til Gagndaga-þíngs, oc let búa sneckio

tvítug-sesso, oc med skúto fimtán-sesso, oc einn vista-byrding. Enn er skipin voro búin, þá lögdoz á sunnan-vedur hvöss. Tyss-daginn í gagndögom let Erlíngr blása til brottlögo lidi síno til skipa, enn menn voro traudir or bænom, oc þótti íllt at róa andródrinn. Erlíngr lagdi í Biskups-höfn. Þá mællti Erlíngr: illa kunni þer at róa andródran; takit nú þá oc reisit vidona, dragit sídan seglin, oc látit gánga nordr skipin. Þeir giördo sva, oc sigldo nordr um daginn oc um nóttina. Oþinsdaginn at qvelldi sigldo þeir inn um Agdanes; var þá fyrir þeim samflot mikit af byrdingom, oc ródrar-ferior oc skútur, var þat vöko-lid, oc fóro inn til bæiar, sumt fyrir þeim enn sumt eptir; gáfo bæiar-menn fyrir þessa sök eingan gaum at um lángskipa siglínguna.

## CAP. XXVI.

### FRÁ ERLÍNGI OC ÞRÆNDOM.

Erlíngr kom til bæiarins þann tíma er sínginn var ótto-saungr uppi á Kristz-kirkio; liópo þeir Erlíngr í bæinn, oc var þeim sagt at Alfr Raudi, son Ottars Birtíngs, lendr madr, sat þá enn oc drack med sveit sína. Erlingr veitti þeim atgöngo, oc var Alfr drepinn oc nær öll sveit hanns. Fátt fell annara manna í bænom, þvíat flest hafdi gengit í kirkio, því þetta var um nóttina fyrir uppstigningar

dag. Þegar um morguninn let Erlíngr blása öllo lidino til þíngs út á eyrar. Enn á þíngino bar Erlíngr sakir á þrændi, oc kendi þeim landrád vid konونginn, oc nefndi til Bárd Stendala oc Pál Andresson, oc Raza-Bárd, hann hafdi þá bæiar starf, oc enn miök marga adra. Þeir svörudo, oc færdo sik undan sökom. Þá stód upp kapalín Erlíngs, oc hellt upp brefom mörgom oc innsiglom, oc spurdi ef þeir kendi þar innsigli sín, þau er þeir höfdo send Dana-konongi; váro þá oc lesin upp brefin. Þar voro oc þá inir Dönsko menn med Erlíngi, er med brefin höfdo farit um vetrinn, hafdi Erlíngr þá fengit til þess; sögdo þeir þá fyrir allri alþydo hvers þeirra ord, þau er mællt höfdo verit. Sva mælltir þú Raza-Bárdr, sögdo þeir, oc bardir á bríóstit: or þesso brióst komo at upphafi öll þessi rád. Bárdr svaradi: ærr var ec þá, herra minn, er ec mællta slíkt. Urdo þá eingi faung önnur, enn festa allt óskorat á dóm Erlíngs á öllo þesso máli. Tók hann þar ógrynni fiár af mörgom mönnom, enn lagdi alla ógillda þá er drepnir voro. Fór Erlíngr sídan aptr sudr til Biörgyniar.

## CAP. XXVII.

### FERD VALLDIMARS KONONGS Í NOREG.

Valldimar Dana-konongr hafdi þat var úti her mikinn í Danmörko, oc hellt lidi því nordr í Víkina.

þegar er hann kom í velldi Noregs konongs, þá höfdo bændor fyrir safnad oc múg manns. Kon-ongr fór fridsamliga oc spakliga; enn hvar sem þeir komo vid meginland, þá skuto menn á þá, oc þótt einn eda tveir væri; oc þótti Dönom þat fullr ill-vili vid sik landz-manna. Enn er þeir komo til Túnsbergs, þá stefndi Valldimar konongr þar þíng á Haugom, enn eingi sótti til or herödóm. Þá tal-adi Valldimar konongr fyrir lidino, oc mællti sva: audsætt er of landz-fólk þetta, at allir standa oss at móti; eigu ver nú ij kosti fyrir höndom, þann annan, at fara herskilldi yfir landit, oc eyra eingo, hverki fe ne mönnöm; hinn er annar kostr, at fara sudr aptr vid sva búit, oc er þat nærr míno skapi, oc fara helldr med herinn í austrveg til heidinna landa, er gnóg liggia fyrir, enn drepa her nidr kristit fólk, þótt þeir hefdi ærna makligleika til þess. Allir adrir voro fúsari til at heria, enn þó red kon-ongr, at þeir fóro aptr til Danmerkr vid sva búit; var þó allvída rænt of úteyar, oc hvarvetna þar er konongr var eigi allnærr. Fóro þeir sudr til Dan-markar oc vard eigi til tídinda.

## CAP. XXVIII.

### FERD ERLÍNGS TIL JÓTLANDZ.

Erlíngr Skacki spyr þetta brátt, at kominn var

Dana-

Dana-her í Víkina, baud hann þá her út, almenníng um allt land at lidi oc skipom, oc vard þat it mesta herlaup, oc hellt hann her þeim austr med landi. Enn er hann kom til Lídandisness, spurdi hann at Dana-her var farinn sudr aptr til Danmarkar, oc þeir höfdo vída rænt í Víkinni. Þá gaf Erlíngr heimleyfi öllo leidángurs lidi, enn hann siálfr oc nockorir lendir-menn med hönom sigldo med mörg skip sudr eptir Dönom til Jótlandz. Enn er þeir komo þar sem heitir Dyrs-á, þá lágo þar fyrir Danir komnir or leidángri med skip mörg. Erlíngr lagdi at þeim, oc bardiz vid þá; Danir flydo brátt, oc leto mart manna, enn þeir Erlíngr rænto skipin oc sva kaupstadinn, oc fengo þar allmikit fe, oc fóro sídan aptr til Noregs. Var þá um hríd ófridr á milli Noregs oc Danmarkar.

## CAP. XXIX.

### FERD ERLÍNGS TIL DANMERKUR.

Kristín Konongs-dóttir fór um haustit sudr til Danmarkar á fund Valldimars konongs frænda síns, þau voro systra-börn; fagnadi konongr henni forkunnar vel, oc feck henni veizlor þar med ser, sva at hon feck vel halldit þar sína menn. Var hon opt á tali vid konong, oc var hann allblídr vid

hana. Enn eptir um varit sendi Kristín menn til Erlíngs, oc bad hann fara á fund Dana-konongs, oc sættaz vid hann. Um sumarit eptir var Erlíngr í Víkinni; hann bió þá eitt lángskip, oc skipadi enom besto drengiom, oc sigldi sídan eino skipi yfir til Jótlandz. Hann spurdi at Valldimar Dana-konongr var í Randarósi; sigldi Erlíngr þannug, oc kom til bæiarins, þann tíma er konongr sat yfir matbordom, oc flest fólk matadiz. Enn er þeir höfdo umbúiz eptir því sem Erlíngr villdi, tialldat oc fest skip sitt, geck Erlíngr upp vid xij menn, oc allir bryniadir, höfdo hötto yfir hiálmom, oc sverd undir mötlom. Þeir gengo til konongs-herbergis, opin var hurd, oc fóro þar sendíngar inn; gengo þeir Erlíngr þegar innar fyrir hásætit, mællti þá Erlíngr: grid viliom ver hafa, konongr, bædi her oc til hemferdar. Konongr leit vid hönom oc mællti: ertu þar, Erlíngr? Hann svarar: Erlíngr er her, oc seg oss skiótt, hvart ver skulom grid hafa. Þar váro inni LXXX konongs-manna, oc allir vapnlausir. Konongr mællti: grid skolo þer hafa, Erlíngr, sem þù beidir; á eingom manni nídumz ec, ef á minn fund kemr. Þá kysti Erlíngr á hönd konongi, oc geck út sídan oc til skips síns. Dvaldiz Erlíngr þar um hríd med konongi, töludo þeir um sáttar-giörd milli sín oc landanna; oc kom þat ásamt, at Erlíngr settiz þar í gislíng med Dana-

konongi, enn Asbiörn Snara, bródir Absalons Erkibiskops, fór til Noregs í giflíng í móti.

## CAP. XXX.

## TAL VALDIMARS KONONGS OC ERLÍNGS.

Þat var eitt sinn, er þeir töludo Valldimar konongr oc Erlíngr, þá mællti Erlíngr: Herra, þat þicki mer líkligazt til sættar milli landanna, at þer fáit allt þat af Noregi, er ydr var heitit í einkamálom varom; enn ef sva er, hvern höfdíngia vili þer þá yfirsetia þar, hvart nockorn Danskan? Nei, segir konongr, eingi Dana-höfdíngia mun fara vilia í Noreg, oc fásk þar vid hart fólk oc óhlydit, enn hafa her ádr ærit gott. Erlíngr mællti: ec fór fyrir þá sök híngat á ydarn fund, at ec villda fyrir eingan mun missa ydarrar vináttu; farit hafa oc fyrrum híngat menn til Danmerkur af Noregi, Hákon Ivarsson oc Finnr Arnason, oc geyrdi Sveinn konongr frændi ydar hvarntveggia þeirra Jarl sinn. Eigi em ec nú minni valldz-madr í Noregi, enn þeir voro þá, oc eigi ræd ec minna, oc gaf konongr þeim yfirsókn á Hallandi, því ríki er hann hafdi oc átti ádr. Nú þicki mer þer herra vel mega unna mer þess lens, ef ec giörumz ydar madr handgenginn, at ec hállda af ydór þesso ríki, sva oc Magnús konongr son minn má eigi synia mer

þessa; enn ec vil ydor vera skeytr oc skylldr til þeirrar þiónosto allrar, er því nafni byriar. Slíkt taladi Erlíngr, oc mart annat þesso líkt, oc kom sva at lykdom, at Erlíngr giördiz handgenginn Valldimar konongi, enn Valldimar konongr leiddi Erlíng einn dag til sætis, oc gaf hönom Jarlsnafn, oc Víkina til lens oc yfirsóknar. Eptir þat fór Erlíngr Jarl til Noregs, oc var sídan Jarl medan hann lifdi, oc hellz þá vel sætt vid Dana-konong iafnan sidan. Erlíngr Jarl átti med frillom sínom IV sono, einn het Hreidarr, annar Augmundr; þeir voro ser of módr; iij Finnr, iiij Sigurdr, þeirra módir var Asa en Liósa; þeir voro yngri. Þau Kristín Konongs-dóttir oc Erlíngr Jarl átto dóttur er Ragnhilldr het, hon var gipt Jóani Þórbergssyni af Randabergi. Kristín fór af landi brott med þeim manni er Grímr Rusli het, þau fóro úti Miklagard oc voro þar um hríd, oc átto þau saman börn nockor.

## CAP. XXXI.

## UPPHAF ÓLAFS.

Ólafr son Gudbrandz Skafhaugssonar, oc sonr Mariu, dóttur Eysteins konongs Magnússonar, var at fóstri med Sigurdi Agnhött á Upplöndom. Enn er Erlíngr Jarl var í Danmörko, þá hófo þeir fóstrar flock Olafr oc Sigurdr, oc reduz til med þeim margir

Upplendíngar. Var þar Olafr til konongs tekinn. Þeir fóro med flockinn of Upplönd oc stundum í Víkina, stundum á markir austr; eigi voro þeir á skipom. Enn er Erlíngr Jarl spurdi til flocks þessa, þá fór hann vid lidi síno í Víkina, oc var á skípom um sumarit, oc um haustit í Oslo, oc veitti þar um Jólin. Hann let hallda niósnom uppi á landit til flocksins, oc fór siálfr upp á land at leita þeirra, oc med hönom Ormr Konongs-bródir. Enn er þeir komo til vatz þess er heitir Vænir í Svíaríki, þá tóko þeir skip öll þau er voro vid vatnit.

## CAP. XXXII.

## FRÁ ERLÍNGI.

Prestr sá er saung þar sem heitir á Rydiökli, þat er vid vatnit, hann baud þeim Jarli til veizlo, oc at koma þar at Kyndilmesso. Jarlinn het ferdinni, þótti þat gott at hafa þar tídir, röro þeir þángat yfir vatnit um kvelldit fyrir Kyndilmesso dag. Enn prestr sá hafdi annat rád med höndom; hann sendi menn at bera niósn þeim Olafi um farar Erlíngs Jarls. Prestr gaf þeim Erlíngi sterkann dryck um kvelldit, oc let þá allmiök drecka. Enn er Jarl fór at sofa, þá voro reckior þeirra búnar í dryckiostofunni. Enn er þeir höfdo litla ríd sofit, vaknadi Jarl, oc spurdi ef þá mundi vera óttosaungs-mál;

prestrinn sagdi at lítit var af nótt, oc bad þá sofa í ró. Jarl svarar: mart dreymir mik í nótt, oc illa sef ec. Hann sofnadi sídan annat sinn, oc vaknadi litlo sídar, oc bad prest uppstanda, oc syngia tídir. Prestr bad Jarl sofa, sagdi at þá var mid nótt; lagdiz Jarl þá nidr, oc svaf litla ríd, hlióp upp sídan, oc bad menn sína klædaz. Þeir giördo sva, oc tóko vapn sín, oc gengo til kirkio, oc lögdo úti vapnin, medan prestr saung ótto-saunginn.

## CAP. XXXIII.

### BARDAGI Á RYDIÖKLI.

Ólafi kom niósnin um kvelldit; þeir gengo um nóttina VI rastir göto, oc þótti mönnom þat furdomikit farit. Þeir komo á Rydiökol þá er prestr saung ótto-saung; níða-myrkr var sem mest. Þeir Olafr gengo at stofunni oc æpdo þar heróp, oc drápo þar inni nockora Jarls-menn, er eigi höfdo gengit til ótto-saungs. Enn er þeir Erlíngr Jarl heyrdo ópit, hliópo þeir til vapna sinna, oc stefndo sídan til skipanna ofan. Þeir Olafr mætto þeim vid gard nockorn, vard þar bardagi; óko þeir Erlíngr undan ofan med gardinom, oc hlífdi gardrinn þeim. Þeir Erlíngr höfdo lid miklo minna, fell mart af þeim, oc fiölldi vard sárt. Þat halp þeim Erlíngi Jarli mest, at Olafs menn kendo þá eigi,

sva var myrkt; enn Jarls-menn leitudo einart til skipanna. Þar fell Ari Þórgeirsson, fadir Gudmundar biskups, oc mart annara hirdmanna Erlíngs. Erlíngr vard sár á vinstri sídunni, oc segia sumir menn, at hann siálfr drægi sverdit á sic, þá er hann brá. Ormr Konongs-bródir vard oc miök sár, oc naudliga komoz þeir á skipin, oc leto þegar frá landi. Þat var kallat, at þeir hefdi ena mesto óhamíngio tilborit fundarins, sva sem þeir Erlíngr Jarl þótto þó framselldir vera, ef þeir Olafr hefdo meirom rádom framfarit. Sídan kölludo menn hann Olaf Ogæfo; enn sumir kölludo þá Hettosveina. Fóro þeir med flock þann enn sem ádr uppi um Upplönd. Enn Erlíngr Jarl fór útí Víkina til skipa sinna, oc voro eptir um sumarit í Víkinni, enn þeir Olafr voro á Upplöndom, enn stundom austr á mörkom; höfdo þeir flock þann sva annan vetr.

## CAP. XXXIV.

### BARDAGI Á STÖNGOM.

Enn annat vor eptir fóro Hettosveinar ofan í Víkina, oc tóko þar þá vída konongs-skylldir, dvölldoz þar lánga ríd um sumarit. Enn er Erlíngr Jarl spurdi þat, hellt hann lidi síno austr til mótz vid þá i Víkina, oc vard fundr þeirra austan-fiardar, þar sem heitir á Stöngom, oc vard þar orrosta

mikil, oc hafdi Erlíngr Jarl sigr. Þar fell Sigurdr Agnhöttr, oc mart annat af Olafs mönnom, enn Olafr kom á flótta, oc fór sídan sudr til Danmerkr, oc var um vetrinn á Jotlandi í Alaborg. Enn eptir um varit feck Olafr sótt þá, er hann leiddi til bana, oc er hann þar iardadr í Mario-kirkio, oc kalla Danir hann helgan.

## CAP. XXXV.

### DRÁP HARALLDZ.

Nicolás Kufùngr, son Páls Skoptasonar, het lendr madr Magnúss konongs; hann tók höndom Haralld, er sagdr var son Sigurdar konongs Haralldzsonar oc Kristínar konongs-dottur, bródir Magnúss konongs sammæddr. Nicolás flutti Haralld til Biörgynar, oc feck hann í hendor Erlíngi Jarli. Þat var háttr Erlíngs, ef óvinir hanns komo fyrir hann, at hann mællti eigi eda fátt vid þá, oc stilliliga þat er var, ef hann var rádinn til at láta drepa þá, enn hina hrakdi hann sem mest í ordom, er hann villdi at lífit hefdi. Erlíngr mællti fátt vid Haralld, oc var mönnom grunr á, hvat Jarl mundi fyrirætla. Þá beiddo menn Magnús konong, at hann skylldi frida fyrir Haralldí vid Jarl; konongr giördi sva. Jarl svarar: slíkt ráda þer vinir þínir; enn þú munt litla ríd ráda ríkino í frelsi, ef þú skallt

heilhuga rádom einom framfara. Eptir þat let Erlíngr Jarl flytia Haralld yfir í Nordnes, oc var hann þar höggvinn.

## CAP. XXXVI.

### UPPHAF EYSTEINS, SONAR EYSTEINS KONONGS, OC BIRKIBEINA.

Eysteinn er nefndr sá madr, er kalladr er son Eysteins konongs Haralldzsonar; hann var þá úngr madr, eigi med fullo alroscinn. Frá því er sagt, at hann kom fram á eino sumri austr í Svía-velldi, oc fór á fund Birgis Jarls Broso, hann átti þá Brigido, dóttur Haralldz konongs Gilla, födor-systur Eysteins; bar Eysteinn upp fyrir þau sitt erindi, oc bad þau ser fulltíngis. Birgir Jarl oc bædi þau tóko vel hanns máli, oc heto hönom síno trausti; dvaldiz hann þar um ríd. Birgir Jarl feck Eysteini nockorn lids-kost, oc góda penínga til skotsilfurs ser, oc leysti hann vel af hendi, oc heto þau bædi hönom sinni vinátto. Eysteinn fór þá nordr í Noreg, oc kom ofan í Víkina; dreif þá þegar lid til hanns, oc efldiz þar flockr sá, oc tóko þeir Eystein til konongs, oc voro þeir med flock þann í Víkinni um vetrinn. Enn fyrir því at þeim var fefátt, þá rænto þeir vída, enn lendir-menn oc bændor giördo lid at þeim, oc er þeir voro ofrlidi bornir, þá flydo þeir brott á skóga, oc lágo löngom

á eydimörkom; gengo þá klædi af þeim, sva at þeir spento næfrom um fótleggi ser, þvi kölludo bændor þá Birkibeina. Þeir liópo opt í bygdina, oc komo fram her oc hvar, oc redo þegar til álaupa, er eigi var fiölment fyrir. Þeir átto nockorar orrostor vid bændor, oc veitti ymsom betr. Þriár orrostor átto Birkibeinar, sva at fylkt var til, oc höfdo sigr í öllom. A Króka-skógi lagdi þeim nær óförom, kom at þeim bónda-safnadr mikill, oc fiölldi lids. Birkibeinar felldo brota fyrir þá, oc helldo sídan á mörkina. Birkibeinar voro ij vetur í Víkinni, sva at þeir komo eigi nordr í land.

## CAP. XXXVII.

## FRÁ BIRKIBEINOM, MAGNÚSI KONONGI, OC ERLÍNGI SKACKA.

Magnús hafdi þá verit XIII vetur konongr, er Birkibeinar hófuz. It þrídia sumar redo Birkibeinar ser til skipa, oc fóro þá fyrir land fram, oc fengo ser fiár oc lids. Þeir voro fyrst í Víkinni, enn er áleid sumarit, stefndo þeir nordr í land, oc fóro sva skyndiliga, at eingi fór niósn fyri þeim, ádr þeir komo til Þrándheims. Birkibeinar höfdo mest í flocki sínom marka-menn oc elfar-gríma, oc miök mart höfdo þeir af Þelamörk, oc vel voro þeir þá vapnadir. Eysteinn konongr þeirra var madr frídr

oc fagrleitr oc lítileitr, eigi mikill madr vexti; hann var kalladr af mörgom Eysteinn Meyla. Magnús konongr oc Erlíngr Jarl sáto í Biörgyn, þá er Birkibeinar sigldo nordr um, oc urdo þeir eigi vid þat varir. Erlíngr Jarl var madr ríkr oc spakr at viti, hermadr hinn mesti, ef ófridr var, landrádamadr gódr oc stiórnsamr, oc kalladr helldr grimmr oc hardrádr; enn hitt var þó mest, at hann let óvini sína fá eina landz-vistina, þó at grida beidduz, oc urdo fyrir þá sök margir til álaupa í flockana, þegar þeir hófoz í móti hönom. Erlíngr var hár madr oc hardvaxinu, nockvat barraxladr, lángleitr oc skarpleitr, lióslitadr, oc giördiz hárr miök, bar hallt höfudit nockut, hugadlátr oc veglátr, hafdi forneskio klæda-búnad, lánga uppluti oc lángar ermar á kyrtlom, oc á kyrtlom valskickior, upphàa skúa. Slíkan búnad let hann konongr hafa, medan hann var úngr, enn þá er hann red ser siálfr, bió hann sik miök í skart. Magnús konongr var lettlátr oc leikinn, gledi-madr mikill, oc kvenna-madr mikill.

## CAP. XXXVIII.

## FRÁ NICOLÁSI.

Nicolás son Sigurdar Hranasonar, hann var son Skialldvarar, dóttur Bryniólfs Ulfallda, systur Halldórs Bryniólfssonar, enn sammædra vid Magnús

konong Berfætta. Nicolás var hinn mesti höfdíngi; hann átti bú á Háloga-landi í Aungli, þar sem heitir á Steig. Nicolás átti oc gard í Nidarósi ofan frá Jóans-kirkio, þar sem skömmo átti Þórgeir kapalín. Nicolás var opt í kaupángi, oc hafdi hann þá rád öll fyrir bæiar-mönnom. Skialldvöro dóttur Nicoláss átti Eiríkr Arnason; hann var oc lendrmadr.

## CAP. XXXIX.

## FRÁ EIRÍKI OC NICOLÁSI.

Þat var Mario-messo ina sídari, er menn gengo frá ótto-saung í bynom, at Eiríkr geck til Nicolásar, oc mællti: mágr, þat segia fiskimenn nockorir, er utan ero komnir, at lángskip sigli utan eptir firdinom, oc geta menn at vera muni Birkibeinar; oc er sá til, mágr, at blása bæiar-lidi öllo út á Eyrar med vapnom. Nicolás svarar: eigi fer ec, mágr, at fiskimanna kvittom, mun ec giöra niósn út á fiördinn, enn höfom þíng í dag. Geck Eiríkr heim; enn er hríngdi til hámesso, geck Nicolás til kirkio. Eiríkr kom þá til hanns oc mællti: þat hygg ec, mágr, at sönn se niósnin, ero þeir menn nú her, er kvedaz sed hafa siglíng þeirra: þicki mer þat rád, at ver rídim or bænom, oc söfnom ockor lidi; þvíat mer þickir mannfátt vera í bænom. Nicolás svarar; kvaksamr ertu nú, mágr; hlydom fyrst messo,

enn görom þá rád vart sídan; geck þá Nicolás í kirkio. Enn er messa var súngin, geck Eiríkr til Nicolásar, oc mællti: mágr, nú ero hestar mínir búnir, vil ec brott rída. Nicolás svarar: far þú vel þá, mágr; ver munom í dag hafa þíng á Eyrom, oc kanna hvat lids er í bænom. Reid þá Eiríkr á brott, enn Nicolás geck í gard sinn, oc sídan til borda.

## CAP. XL.

### FALL NICOLÁSAR.

Enn í þann tíma er vist var sett, kom madr inn í gardinn, oc sagdi Nicolási, at þá röro Birkibeinar í ána. Þá kalladi Nicolás at hanns menn skylldo taka vapnin. Enn er þeir voro vapnadir, bad Nicolás þá gánga uppí loptit, oc var þat it ósniallasta rád; fyrir því, ef þeir hefdi varit gardinn, þá mundi bæiar-fólkit hafa komit til at hiálpa þeim: enn Birkibeinar fyllto allan gardinn med síno lidi, oc gengo sídan at loptino umhverfis. Þeir köllludo á Nicolás, oc budo hönom grid, enn hann neitadi. Sídan sótto þeir at loptino. Þeir Nicolás höfdo til varnar boga-skot oc hand-skot, oc ofn-griót; enn Birkibeinar hiuggo húsin, oc bruto upp loptit, oc skuto sem tídast. Nicolás hafdi raudan skiölld, oc gylltir naglar í, oc stirnd hiálms-giörd á. Birkibeinar skuto sva at uppi stód á reyr-böndunom.

þá mællti Nicolás: lygr skiölldrinn nú at mer. Þar fell Nicolás, oc mikill fiölldi sveitar hanns; oc var Nicolás it mesta harmadr. Birkibeinar gáfo grid öllom bæiar-mönnom.

## CAP. XLI.

### EYSTEINN TIL KONONGS TEKINN Í NIDARÓSI.

Sidan var Eysteinn þar til konongs tekinn, oc geck allt fólk undir hann. Hann dvaldiz um hríd í bænom, fór sídan ínn í Þrándheim, kom þar mart lid til hanns. Þá kom til hanns Þórfinnr Svarti af Snaus, oc hafdi sveit manna. Aundverdan vetr fóro þeir út til bæiar; þá komo til Birkibeina synir Gudrúnar af Salltnesi, Jón Kettlíngr, Sigurdr oc Vilhiálmr. Þá fóro þeir upp or Nidarósi til Orkadals; þá váro skorot þar nær xx hundrut manna. Fóro þá til Upplanda, oc sva út um Þotn oc Hadaland, þá á Ríngaríki; lögdo þeir undir sik, hvar sem þeir komo.

## CAP. XLII.

### FALL EYSTEINS KONONGS.

Magnús konongr fór í Vík austr um haustit med sumo lidi síno, oc med hönom Ormr Konongsbrodir, enn Erlíngr Jarl var eptir í Biörgyn, oc hafdi þar mikit lid, oc skylldi þar gegna Birki-

beinom, ef þeir færi it ytra. Magnús konongr fór til Túnsbergs, oc settiz þar, oc þeir Ormr bádir, oc veitti konongr þar um Jólin. Magnús konongr spurdi til Birkibeina, at þeir væri uppi á Re. Sídan fór konongr upp or bænom oc Ormr med lidi síno, komo á Re. Sniorr var á mikill, oc vedr furdo kallt. Enn er þeir komo á bæinn, þá gengo þeir or túnino á veginn, oc fóro utan vid gardinn, fylkdo þar oc trádo ser gadd; þeir höfdo eigi öll xv hundrut manna. Birkibeinar voro á ödrom bænom, enn sumt lid þeirra var her oc hvar í húsom. Enn er þeir urdo varir vit her Magnúss konongs, heimtuz þeir saman, oc skuto á fylking. Enn er þeir sá lid Magnúss konongs, þá þótti þeim sem var, at þeirra lid var meira, oc redo til bardaga þegar. Enn er þeir sótto fram veginn, þá mátto fáir senn framfara, enn þeir er úthliópo af veginom, fengo snió sva mikinn, at þeir mátto valla framkomaz, oc brast þá fylkíng þeirra, enn þeir fello er fyrstir gengo fram brautina; var þá nidrhöggvit merkit Birkibeina, enn þeir er þar voro næst opudo, enn sumir slógoz á flótta. Magnús konongs menn fylgdo þeim, oc drápo hvern at ödrom, er þeir nádo; komo Birkibeinar þá eigi fylkíngo á, oc urdo þeir þá berir fyrir vapnom, oc fell þá fiölldi af þeim, oc mart flydi. Var þá sem opt kann verda, þótt menn se fræknir oc vapndiarfir,

ef slög stór fá, oc koma á flótta, at flestir verda illir aptrhvarfs. Tók þá at flyia megin-lidit Birkibeina, fiölldi fell, þvíat menn Magnúss konongs drápo allt þat er þeir nádo oc mátto, oc var eingom manni grid gefin þeim er þeir nádo, enn flockrinn dreifdiz víds vegar. Eysteinn konongr kom á flótta oc lióp í hús nockot, oc bad ser grida, oc þess at bóndinn skylldi fela hann; enn bóndinn drap hann, oc fór sídan á fund Magnúsar konongs, oc fann hann á Ramnesi, var konongr inní stofo oc bakadiz vid elld, oc var þar mart manna. Sídan fóro menn til, oc flutto þannug líkit, báro inn í stofuna, oc bad konongr þá menn tilgánga, oc kenna líkit. Madr einn sat í krókpallinom, oc var þat Birkibeinn, oc hafdi eingi madr gaum gefit at hönom; enn er hann sá lík höfdíngia síns oc kendi, þá lióp hann upp skiótt oc hart: hann hafdi öxi í hendi, hlióp hann innar á gólfit, oc hió til Magnúsar konongs, oc kom höggit á hálsinn vid herdarnar. Madr nockr sá at öxin reid, oc skaut hönom frá, oc vid þat snaradiz öxin ofan í herdarnar, oc vard þat mikit sár. Sídan reiddi hann upp öxina annat sinni, oc hió til Orms Konongs-bródur, hann lá í pallinom, höggit stefndi á báda fót-leggi hanns. Enn er Ormr sá at madr villdi drepa hann, bráz hann vid skiótt,

ka-

kastadi fótunom fram yfir höfut ser, oc kom höggit í pall-stockinn, oc stód öxin föst; enn vapn stódo á Birkibein sva þyckt, at valla mátti hann falla fyrir. Þeir sá þá at hann hafdi dregit um gólfit eptir ser idrin, oc er þess manns hreysti allmiök lofut. Magnúss konongs menn ráko flóttann lengi, oc drápo allt þat er þeir mátto. Þar fell Þórfinnr af Snaus, oc fiölldi annara Þrænda.

## CAP. XLIII.

### FRÁ BIRKIBEINOM.

Flockr þessi, er Birkibeinar voro kalladir, hafdi samansafnaz med fiölmenni miklo, oc var þat fólk hart, oc menn hinir vapn-diörfusto, oc lid helldr óspakt, fóro geystir oc rasandi miök, þegar er þeir þóttuz hafa styrk fiölmennis. Þeir höfdo í flockinom fátt þeirra manna, er rádagiördar-menn væri, eda vanir landz stiórn eda laga, eda her at styra, enn þótt sumir kynni betr, þá villdi þó fiölldinn allr hafa þat eina er siálfom syndiz: þóttuz þeir oc öruggir af lids-fiöllda sínom oc hreysti. Enn þat lid er undan komz var mart sárt, oc hafdi látit bædi vapn sín oc klædi, enn allt felaust; sótti sumt austr á markir, enn mart á Þelamörk, þat flest er þar átti kyn, enn sumt fór allt austr í Svía-velldi.

Allir fordudo ser, þvíat lítil ván þótti grida af Magnúsi konongi eda Erlíngi Jarli.

## CAP. XLIV.

## FRÁ MAGNÚSI KONONGI ERLÍNGSSYNI.

Magnús konongr fór sídan aptr út til Túnsbergs, oc vard hann allfrægr af sigri þessom; þvíat þat var allra manna mál ádr, at Erlíngr Jarl væri brióst oc forysta fyrir þeim fedgom. Enn eptir þat er Magnús konongr hafdi fengit sigr af sva styrkom flocki oc fiölmennom, oc hafdi haft minna lid, þá þótti sva öllom mönnom, sem hann mundi yfir alla gánga, oc hann mundi verda því meiri hermadr enn Erlíngr Jarl fadir hanns, sem hann var yngri.

---

